# Christens Mans
rettur og ootáldrægur
# Himins Vegur,

Hvar med vysad verdur
hvernig eirn og serhver fái komist
hiá eilifre Fordæmingu, og orded
obrigdannlega sáluhoolpenn.
Og hvernig hann sáe þeckt,
hvørt hann lifer i sønnum og alvarlegum,
eda volgum og hræsnisfullum Christeñdoome,
hvørt hañ er á Veigenum til Himin's eda Hel-
viitis, og hvert hañ kuñe i sinu nærver-
ande Astande og Lifernis Háttalage
hoolpeñ ad verda, eda ecke.

Christnum Mønnum til ferdeilislegrar
Gudræknis Ydkunar á þessum siidustu
háskasamlegu Tiidum, ad þeir drage sig ecke
siálfer á Tálar, i sinum Sáluhiálpar
Efnum, helldur gete vered um̃ þana visser
epter Guds Orde; af Kiærleika
liooslega fyrer Siooner settur,

af

Mag. FRIDERICH WERNER,
S. Theol. Licentiat og Presti i Borgiñi Lipsia
i Þiiskalande.

A Þioodversku i 16da siñe utgeingeñ, á Dønsku ut-
lagdur, og siidañ á Islensku,

af

Sr. Gudmunde Høgnasyne,
Presti á Westmañaeyum.

Selst innbundinn 1 Rikisdal Courant.

Kaupmañahaufn, 1777.
Prickt hiá Marteine Hallager.

Þeim Eina, Saña, Almattuga, Ei-
lifa, Miskunsama, Odaudlega
og Hattlofada,

# Gudi,

# Fødur, Syne

og

# Heiløgum Anda,

Minum Skapara og Vidhalldara,
Minum Frelsara og Sæluhialpara,
Minum Helgara og Huggara,

## Kongi allra Konga,

og

## Drottni allra Drottna,

Minum

# Gudi og Fødur,

Se Lof, og Dyrd, og Speki, og
Þackir, og Heidur, og Krapt-
ur og Styrkleike, fra Ei-
lifd til Eilifdar, Amen.



# Allraheilagasti
# Gud og Fader!

Enn þott Abraham være Fader allra Truadra, samt heldt hann sig overdugann til ad tala vid þig, er hann minntest a sinn litilmootlegann Uppruna, ad hann var af Jordu, og þar fyrer sagde: Sia! Eg hefe umm sinn uppbiriad ad tala vid Drottenn, þar sem eg er þo Dupt og Aska; Gen. 18, v. 27. 30. Med þvi Forfaderenn Abraham fann sig ecke verdugann til ad eiga Tal vid þig, þa kann eg ecke helldur ad hallda mig verdugann til ad tala vid þina hæfu Guddoomlegu Hatign, eg sem

 er



er liika Molld og Aska, og hefe obreinar Varer, og er ad viisu i Tillite til minnar spilltu Natturu, Vidbioodur og Andstigd fyrer þinne allrahærstu Augsyn. Hvi hvernig kann Madurenn rettlatur ad vera fyrer Gude? Og hvernig kann Kvinnunnar Barn hreint ad vera? Sia þu, Tungled skiin enn ecke, og Stiornurnar eru ecke klarar fyrer hans Augum; Hversu miklu midur mun þa Madurenn, sa Madkur og Mannsens Barn sa Ormur? Job. 25, v. 56. Samt biria eg ad tala vid þig, minn Gud og Drottenn, af þvi eg er viss umm, ad Ordræda mins Muns, og Mæled mins Hiarta mun þer þocknast, so sem þad heiter: Hann snir ser til Bæna hinna Fyrerlitnu og forsmaer ecke þeirra Bæn. Ps. 102, v. 18. Þvi mun mia Bæn duga fyrer þer sem Reikelsis Offur, minna Handa Uppphafning, liika sem annad Kvølldtiima Offur, Ps. 141, v. 2. Eg upplipte þa minn Hiarta og minum Hondum til þinnar Guddoomlegu Hatignar, og ber first og fremst framm fyrer þig mitt Packoffur, þvi eg veit ad Matoffur Juda og Jerusalems mun vera Drottne þacknæmt, so sem ædur og fyrer morgum Arum, Mal. 3, v. 4. Eg þacka þer, minn Gud, fyrer þad ad þu gierder mig ecke skinlausa Skepnu, sem þo stood i þinn frialsu Vallde, helld-

ur



ur ſkiniande Manneſkiu ſem heidrar þig ſinn Skapara; Þu hefur eirnig audſynt mer þann mikla Velgiørning, ad þu hefur mindad mig i minnar Moodur Life, med heilbrigdum Liikama og hrauſtum Limum, og læted mig fædaſt til ad ſiaa þeſſa Heims Lioos. Eg þacka þer þar fyrer ad eg em dædſamlega ſkapadur; Merkeleg þau eru þin Verk, og þad ſama þecker min Sæla vel: Min Bein voru þer ecke okunnug, þa eg var i Leinum giørdur, þa eg mindadur vard under nidre i Jørdunne; Þin Augu ſaau mig þa eg enn ecke fullſkapadur var, og aller Dagar voru i þina Book ſkrifader, þeir ed enn vera ſkylldu, og þeirra hinna ſømu var þar þa eingenn, Pſ. 139, v. 14. 15. 16. Hvad ſkal eg ſeigia umm þann Velgiørning, ad þu hefur læted mig fædaſt midt i chriſtelegre Kyrkiu. Maa vera margar þuſunder Manna þeinke aldrei þar umm alla þeirra Lifstiid, ad þad er ſtoor og oforþent Naad þeim veitt af þeirra Gude. Eg efa ecke, O Gud! ad aa þeim ſama Deige og ſømu Stundu ſem eg ſaa firſt Dags-Lioosed, hafe margar þuſunder Barna fædſt i Heimenn, aa medal hinna forblindudu Heidingia, Tyrkia og Gydinga; Hvad mun þa minn Gud hafa hrært þig til þeſs ad laata mig fædaſt af chriſtnum Forelldrum midt i Chriſtnennar Skaute? Hefde þer

 ecke



ecke vered alhægt ad lata eitt heided Barn, sem á sønnu Stundu og eg barst i Heimenn, fædast i Christnenne i minn stad, og mig þar i moot a medal þeirra blindu Heidingia? Vissulega var þad i þinn Vallde, enn mer er oforskulldud Naad veitt. Eg hafde ecke beded þig, minn Gud, ad audsyna mer sliika Giæsku, hvernig mætte eg þess af þer æskia? Þegar þu tookst ad minda mig i Moodur Life vissa eg eckert af þer ad seigia, þar fyrer er allt þetta þinne Giæsku og Miskun ad þacka, og i þessare Grein kallar þu so til min. Eg hefe alla Tiima elskad þig, þar fyrer hef eg ladad þig ad mer af skiærre Miskunseme, Jer. 31, v. 3. Þad er þin einskiær Naad, ad eg life i þeirre sonnu og hreinu Evangelisku Kyrkiu, hvar þitt Ord er hreint og omeingad kent, og þau H. Sacramente eru epter Christi Innsetningu handterud; Þad er þin oforskulldud Miskunseme, ad eg ma ganga med þeim Flocknum, og med þeim fara til Guds Huss med Gledskap og Packaraiord, med þeim Hoopnum sem helldur heilagt, Ps. 42, v. 5. Fyrer þetta þacka eg þinne hæstu Hætign ad sonnu i Ofullkomlegleika, enn þo i Krapte Jesu Christi, og offra þer fyrer hann Lofgiordar Offre, þad er Avoxt Varanna, sem vidurkenner hans Nafn, Ebr. 13, v. 15. Þar næst

þacka



þacka eg þer fyrer allt annad Gott sem þu
hefur audsynt mer i fra Barnæsku, þu hef-
ur hallded mer til Lærdooms Ydkana, bless-
ad þær, synt mer þeirra æskelegann Utgang,
og reglulega kallad mig i þinn Viingard,
og þad, dædsamlege Gud, til þess Guds
Huss, vid hvert mer hafde aldrei ædur i
Hug komed þer ad þioona; Þad hefur, O
Fader! Reinslann til Kinna gefed, hvad
þu hefur i Sinne haft ad giora vid mig, þinn
overduggann Þioon, þvi eg hef komest ad
Raun þar umm, ad þad er satt sem David
seiger: Byfala þu Drottne þina Vegu, og
vona æ hann, hann mun þvi vel til Vegar
koma, Ps. 37, v. 5. Og nu Drottenn,
minne er eg allre þinne Miskun, og ollum
þinum Sannleika, sem þu hefur veitt þin-
um Þenara, Gen. 32, v. 10. Eg mæ
seigia med David; Drottenn minn Gud!
Miklar eru þinar Dædsemder og þinar Hug-
aner, þær þu audsyner oss, eckert er þer
liikt, eg vil kunngiora þær, og þar af seigia,
þo þær seu oteliannlegar, Ps. 40, v. 6.
Og med þvi þu villt ecke ad ver skulum
gleima vorum Heitordum og þvi Þacklæte
umm hvert ver erum þer skylduger, og i þvi
Tillite kallar þu so til vor: Offra þu Gude
Þackargiord, og gialld hinum Hæsta þin
Heit, Ps. 50, v. 14. Þæ vil eg þad mig
snerter bliidnast þer i þessu, og trulega



giallda þer min Heit, og til Packlætis fyrer so miked Gott sem þu hefur mer veitt, bæde til Lifs og Saalar, offra eg þer nu miskunsame Fader nockru litlu. Eg offra og tileinka þinne hæsu Hætign þessa litlu Book, og i diupustu Hiartans Audmykt legg hana nidur fyrer þinar Fætur, allra audmiuklegast og i stærstu Undergefne bidiande, ad þu latar þer hana i Naad þocknast. Þad er þer, O Gud! kunnugt, ad eg fyrer nockrum Arum ædur enn eg kom til Embættis, hafde i Asetninge, nær sem eg feinge Kall af þer, ad læta nockud umm sannann Christenndoom þer til Dyrdar, og minum Naunga til Nota, koma fyrer Lioosed, og æ medal Foolks, til ad syna þar med i stuttu Maale, hver ad være rettur og otvildrægur Vegur til Himins, enn hingadtil hefur þar eckert af orded, þar til mer fyrer nockrum Tiimum, rett þa eg hafde þa Grein Luc. 13, v. 24. i Hondum, kom ofyrersynin iniitt Loford i Hug, þad eg hafde ædur giort, og strax æ sömu Stundu, sem þu veitst, O Gud! Sialfur took eg fyrer mig ad afkoma minu Heite, og ut af nefndre Grein, vid hveria eg vard myntur æ mina Lofan, ad skrifa Bookselle, er hondla skyllde umm rettann Veg til Himins, og leggia þessa Grein fyrer Grundvoll. Nu se þetta þer offrad! Læt þad verda til Aukningar þinne heilogu

Dyrd,



Dyrd, og þinum Søfnude til Uppbyggingar. Send þina Speki hingad ofann af þinum heilaga Himne, af þinu Dyrdar Veldis Sæte, send hana so ad hun se hiaa mer, og erfide medur mer, og ad eg kunne ad skilia hvad þer vel þocknast, Sap. 9, v. 10. Lat Uppbyrianena framm halldast og Endalokenn vel blessast. Gef, O Gud! þina Naad til þess ad þeir Andvaralausu, sem lesa þessa Book, skelfest þar vid, og fæe betre Þanka, so ad þeir fæe viked af þeim breida Helviitis Veige, og aa rettañ Veg til Himins, og orded hoolpner! Gef eirnig ad þeir Sannchristnu upporvest þar vid til Stoduglindis i þeirra Gudrækne, og þeir ottaslegnu huggest og vidhressest til ad bera Krossenn med Polennmæde; so ad þeir fæe ser stadfastlega vid þig hallded allt til Enda! Gef þad, O Fader! saker Dyrdar þins H. Nafns, og þinna Barna Velferdar, Amen! J Jesu Nafne. Amen.

þinnar Guddoomlegu Hatignar

i Tiima og Eilifd
trur og stadfastur Þenare.
FRIDERICH WERNER.

# Liitill Formaale
## til
# christelegs Lesara.

## Min i Christo elskulege Lesare!

Med þvi eg hefe merkt af Ummgeingne med marghaattudu Foolke, þad marger fara villt i þvi ad þeir meina Ydkun hins sanna Christenndooms se aldeilis audvelld, og einasta i utvortis Verkum innefalenn, so Madurenn gete fyrer utann stoora Mædu hoolpenn orded, þaa hef eg med Guds Hiaalp aasett ad laata nockud þar umm i stuttu Maale þrickt, opennberlega ut



utgænga, og þar med ad syna hversu hættuleg su Uppæteckt er, og hversu lettelega sæ er þad meinar kann ad fara æ mis vid sina Sæluhiælp. Ad sonnu veit eg ad þesshættar nytsamlegar Bækur, hafa gooder Menn lærder, þriktar utgænga læted, enn þad hef eg ecke viliad læta mer aptur hallda fræ minum Asetninge, af þvi eg hafde þessu lofad Gude minum. Kiærleikeñ til mins Guds og mins Næunga helldur mer til þess; Hvad kiærara og þocknannlegra kynne eg augsyna minum gooda Gude, enn þad, ef eg feinge þar med æunned honum nockra og leidt þæ til Himnariikis? Og þo ecke nema eirn Madur einasta ummvendtest vid þessa Book, og yrde leiddur æ rettann Veg til Himens, þæ munde eg mig þar af sælann meta, þvi eg veit fyrer viist, ad soddann Sæl er hiæ Gude minum længtum meira metenn enn Himin og Jord, af þvi Christus hefur sinu Guds Bloode uppæ hana kostad, þvi ver erum ecke med forgeingelegu Gulle edur Sylfre endurleyster i fræ voru Hegooma Athæfe, helldur med diirmætu Bloode Christi, so sem hins ofleckada og saklausa Lambs

1 Pet.



1 Pet. 1, v. 18. 19. Hvad kynne eg ad giora minum Naunga betur til, enn ad fa han frammfært til Saluhiálpareñar? Yfervega, kiære Lesare! med heilagre Eptertekt Christi Ord, og muntu seigia eg hafe rett ad mæla, þau er hann seiger: Hvad stodar þad Mannenn þo hañ vinne allann Heimenn, enn feinge Tioon á siñe Salu? Eda, hvad mun Madurenn fá gefed þar hann Salu sina med endurleyse? Matth. 16, v. 26. Misse Madurenn sina tiimañlega Formegan, þá er miklu tapad; Misse hañ þad tiimannlega Lifed, þá er enn meiru tapad; Eñ misse hann Saluhiálpena, þá er ollu tapad. Þar fyrer fæ eg þer, vingiarnlege Lesare, þessa Book i Hendur, sem kallast, christens Mans rettur og ootáldrægur Himins Vegur. Gánger þu so framm i þinum Christenndoome, sem þesse Book syner þer af Guds Orde, þá vil eg vera i Vede fyrer, ad þu munt ecke táldragast á þessum Veige til Himins, helldur obrigdannlega verda hoolpenn. Sá sem er á rettum Veige, nær lokſens til þess Stadar er hann hefur ser ætlad, bliifer þu liika á þeim

Veige



Veige, sem Þer her verdur syndur, lender Þin Sæl epter Daudann hverge annarsstadar enn i Þvi Himneska Fødurlande, i Þeirre Borgenne sem Grunnvøllun hefur, hverrar Byggingar-Meistare og Skapare er Gud, Ebr. 11, v. 10. hvar uppæ Abraham og adrer helger Meñ vonudu. Grunnvollur Þessa otældræga Himins Vegar, skal vera su epterteektaverda Mæls-grein Christi hiæ Luc. 13, v. 24. hvar med eg vil first stuttlega syna hvernig Þau Ord eige rettelega ad skiliast, og hver Christi Tilgængur hafe vered Þau ad tala, og af Þeirra Utleggingu lioos-lega utmæla Veigenn til Himins; Enn so eing-um leidest ad lesa Þessa Book, vil eg skipta heñe i Capitula, og Capitulunum i vissar Greiner, so hver eirn gete hætt vid ad lesa Þar honum liik-ar, enn villest Þo eckert i Lestrenum; Þar med skal, liika, sem i hennar firra Parte sæ hræsnis-fulle Christenndoomur epter hans Uppruna, Hættalage og Afdrifum fyrer Siooner verda settur, enn i Þeim siidare sæ sanne og fyrer Gude dugannlege Christenndoomur, med sinum Kringumstædum. Bruka so Þessa Book vird-

uglege



uglege Lesare! til þinna Gudræknis Ydkana i Einrume, og lát þad vera þina helstu Ummsorgun hvernig þu fáer hoolpenn orded. Verked ydar Sáluhiálp med Ugg og Otta, Phil. 2, v. 12. Eg bid þess Gud Fodur i Nafne Jesu Christi, ad aller sem lesa þessa Book finne rettann Veg til Himins, og at efsta Deige med mer inngánge i vors Herra Fegnud, Amen! Gud gefe þad af sinne Náád, fyrer Jesu Christi Saker! Amen.

Leipzig þann 18da Maji
Ao. 1704.

M. FRIDERICH WERNER.



Inni=

# Innihalld Capitulanna
i
þessare Book.


Sa I. Capitule.
Hvad Drottni Jesu hafe Tilefne gefed ad tala þesse eptertakanlegu Ord.

Sa II. Capitule.
Hvada Foolk þad er, vid hvort Christus hafe helst talad þesse Ord.

Sa III. Capitule.
Fyrer hveriu Christi Tilheyrendur eige helst ad bera Umhyggiu,

Sa IV. Captule.
Hvernig Christi Tilheyrendur eige ad keppast epter Saaluhiaalpene, og hafa þar Umhyggiu fyrer.

Sa V. Capitule.
Hvad naudsynlegt þad se ad Christi Tilheyrendur hafe Ahyggiu fyrer sine Saaluhiaalp.


Sa



## Sa VI. Capitule.

Um̃ þad, hvad mioglíitill Hlute Mañaña verde hoolpeñ.

## Sa VII. Capitule.

Hvad Lærdoomureñ um̃ Fæd Utvalldra eige ad verka, bæde hia Froomum og Ranglaatum.

## Sa VIII. Capitule.

Gud er ecke Skulld i þvi ad faaer Meñ verda hoolpner.

## Sa IX. Capitule.

Meñerner eru sialfer Orsøk til þess ad fleſter fortapaſt.

## Sa X. Capitule.

Vantrueñ er Høfudorsøk til þess ad fleſter fram̃halld a i Syndunum, og fortapaſt, eñ fæſter verda hoolpner.

## Sa XI. Capitule.

Svar uppa nockrar Afsataner, sem Meñ bera fyrer sig, liika sem þeir hafe Truna, og verde hoolpner, jafnvel þo þeir life i eirnre edur añare vitañlegre Synd.

## Sa XII. Capitule.

Guds Ords og þeirra H. Sacramenta Fyrerlitning er eigeñlega Orsøk til þess, ad fleſter faa ecke Truna, og verda hoolpner, þvi þeir añadhvert ecke lesa edur heyra þad, ellegar lesa edur heyra þad ecke sem biriar.

Sa



## Sꜳ XIII. Capitule.

Uñ þær helstu Hindraner fyrer hveriar flester eru umhyggiulitler uñ Guds Ords sꜳluhiꜳlplega Yfervegañ, og uñ þeirra Tru og Sꜳluhiꜳlplega Yfervegan og uñ þeirra Tru og Sꜳluhiꜳlp, hvers vegna þeir fortapast, sem eru, elska þess Tiimañlega, Hræsne, og andvaraleyse.

## Sꜳ XIV. Capitule.

Uñ hörmuleg Afdrif allra vantruadra Maña, og Hræsnara, sem ecke gꜳnga þañ retta Veg til Himens, ei helldur giora saña Yferboot ꜳ þeirra siidasta Tiima, hvad añad plagar torveldt ad gꜳnga, sem eru vesæll Daude, skelfeleg Uppriisa til Doomsins, og ognarlegar Kvaler i Helviite.

## Sꜳ XV. Capitule.

Hversu þad se hin mesta Naudsyn fyrer vantruada og andvaralausa Meñ, ad snua brꜳdlega af Veige Fordæmingareñar, og ꜳ Veg Sꜳluhiꜳlpareñar.

## Sꜳ XVI. Capitule.

Uñ þad eina dugañlega Medal til ad komast hiꜳ eilifre Fordæmingu, og ꜳ þañ retta Veg til Himens, og hvernig þad ꜳ ad brukast.

## Sꜳ XVII. Capitule.

Hvernig christeñ Madur, sem fyrer saña Uñvendan er komeñ ꜳ rettañ Veg til Himens, ꜳ siidañ ad hegda ser alla sina Lifdaga i soñum Christ-



Christeñdoome, og a allañ Hætt kostgiæfa ad bliifa i Guds Naad.

## Sa XVIII. Capitule.

Uñ gledeleg Afdrif allra truadra og sañchristeña Maña, er stadfaster bliifa a rettum Veige til Himins, sem eru, roosamlegur og sæll Daude, gledeleg Upprisa til eilifs Lifs, og Himnariikis Vegsemd.

## Sa XIX. Capitule.

Hvernig sañchristeñ Madur a syfeldlega ad proofa sialfañ sig, hvert hañ er a rettum Veige til Himens, og hvernig hañ skal haga soddañ Proofan, so hañ sviikest ecke nidur i siñe Tru, helldur gete alltiid vered viss uñ sina epterkomande Saluhialp.

## Sa XX. Capitule.

Hvernig sañchristeñ Madur, sem viss er uñ sina Tru og Saluhialp, og þad hañ se a rettum Veige til Himens, a ad sla fra ser allre mædufullre Hiartasorg, og vera jafnañ gladur i Gude, med hressum Huga.





# I JEsu Navne. Amen!

Grundvøllur þess rietta Himins-Vegar eru Christi eptertektaverdu Ord, sem Gudspiallamaduren Lucas hefur skrifad, i sinna Gudspialla Cap. XIII. v. 24.

Keppist epter inn ad ganga um hid þraungva Hlided, þvi ad marger, þad seige eg ydur, munu sækia til þar in ad ganga, og fai ei gietad.

## I. Capitule.

### Hvad Drottni Jesu hafe Tilefne gefed, ad tala þesse eptertakannlegu Ord.

§. 1.

Eingen sa er grant yfervegar þesse Christi Ord, mun gieta þvi neitad, ad þaug seu rett eptertakanleg og igegnumgangande, þvi ef sa nockur ihugar þaug, sem allt hingadtil hefur J og med Heimenum i Andvaraleise lifad,

munu þaug verda Broddur i hañs Samvitsku, af þvi hañ uñbirlar sier iasnañ, þad sie alhægt ad verda holpeñ, eñ heyrer her nu af Christi eigeñ Muñe, ad þvi sie længtum odruvis hættad: Sa sem er Heimsens Barn og lifer andvaralaus, kañ audvelldlega so ad ælykta af þessum Christi Ordum; first þeir verda ecke aller holpner sem sækia epter ad komast i Himnaryke, eñ eg sorga eckert fyrer þvi, hvernig kañ eg þa ad iñgænga uñ hid þraungva Hlided? Eñ ihuge ottablendenn og veiktruadur Madur þesse Ord, einkuñ sa sem vill vanda siñ Christeñdom, þa kañ hañ audvelldlega ad koma i Stans og Efaseme, so hañ veit ecke hvernig hann skal adþvi fara, ad verda holpeñ. Þad sem Salomon seiger: Pred. 12, v. 13: ad Ord hins Vysa sieu Spiot og Naglar, þad ma med øllum Rette seigia uñ þesse Christi Ord. O Madur! þu sem i Uggleise lifer, lat þesse Christi Ord uppvekia þig af Svefne Syndaña, og uñþeink þad, þu gietur ecke holpeñ orded, nema þu alvarlega kieppest epter ad komast i Himnaryke, og þu sem truer, lat þesse Christi Ord ecke giora þig efablandeñ, helldur upporfa og æfysa þig ad frañhallda med þvi meira Kappe i þinuñ Christeñdome.

§. 2.

Eñ hvad Drottni Jesu hafe Tilefne giefed, ad tala þesse eptertakañlegu Amiñingar Ord, þad syner Gudspiallamadureñ Lucas i nærstfyrerfarande Ordum er hañ seiger: Þar sagde nockur til hanns; Herra! meinar þu eige ad þeir sieu fáer sem hialpast? Enn hann sagde til þeirra, kieppist epter inn ad gannga umm hid þraungva Hlided ꝛc. An Efa hefur þesse vered einn af

Christ

Christi Tilheyrurum̃, eñ hver hañ hafe serdeiles vered, og hvert hañs Nafn, þar um̃ er hverge fraasagt, þad maa sia nær Textans Kringum̃stædur eru athugadar, ad hañ hefur ecke vered eirn af Christi Læresveinum̃, ei helldur af þeim Sañtrunudu, sem hefur laated sier liggia i miklu Rume um̃ sina Saaluhiaalp, helldur forvitiñ Madur, og giarn aa ad heira nockud nytt.

§. 2.

Þesse Spurning maa hardtnærre synast nytsamleg, af þvi hun aahrærer eilifa Saaluhiaalp; eñ se hun rett yferlogd, siest hun helldur ad vera af Forvitne, eñ naudsynleg edur gagnleg til Saaluhiaalpar. Þesse Madur hefde helldur aatt ad spyria, hvernig edur med hveriu Hætte hañ feinge Saaluhiaalpena odlast; eñ hañ gyrntest eigeñlega ad vita Tolu þeirra Utvolldu, þar firer spurde hañ Christum̃ þañig, ecke so af Gudrækne, sem framar af Forvitne, og synest af nockrum̃ Textans Kringum̃stædum̃, einkum̃ þeim eptersylgia, sem sia er spurde hafe vered af Phariseis, hverra Asetningur jafnañ var ad koma Christo i Ohrodur firer Folkenu, med allskyns Hieaoma-Spurningum̃. Samt gaf þesse Spurning; Meinar þu eige ad þeir seu faaer sem hiaalpast? Drottne Jesu, Hentugleika til ad tala þesse eptertakañlegu Ord. Med þeim villde Drotteñ Jesus draga þeñañ Mañ fra siñe Forvitne og upphvetia hañ og adra sina Tilheyrendur til ad grenslast ei so mieg epter Tolu Utvalldra, sem helldur keppast epter med allre Kostgiæfne ad iñgaanga um̃ hid þraungva Hlided, til eylifs Lifs, þvi vissulega yrdu faaer af Fiollda Mañaña holpner.



# II. Capitule.

## Hvada Folk þad er, vid hvort Christus hafe helst talad þesse Ord.

§. 1.

Jundanfarande Capitula hofum vier heyrt, ad sa var ecke utan eirn a medal Christi Tilheyrenda, sem framfærde þetta Spursmaal; meinar þu eige ad þeir sieu faer sem hiaalpast? Samt sniir Drotten Jesus sine Aminningu til allra sina Tilheyrenda, og svarar ecke þeim Spyrianda beint uppa hans Spurningu, nie seiger honum hvad marger skrifader sieu a Lifsbokene, þvi Spurningen var af Forvitne og onaudsynleg, og slikum Spurningum plagade Drotten Christus ei alltid ad svara, helldur ad þeigia vid þeim. So giorde han þa Herodes spurde han ad mørgu sem var onytsamlegt ad hann svarade hønum eingu. Luc. 23, v. 9. Lika þegar hans Læresveinar spurdu han so; Herra! villtu nu a þessum Timum uppriETTA Israels Rike? þa sagde hann: Ydur ber ei ad vita Tima edur Stunder, hveriar Faderenn sette i sialfs sins Vallde, Act. 1, v. 6. 7. Þannig svarade han hier ei helldur Spurninguñe um Tolu Utvalldra, helldur snere han sinn Svare til allra sina Tilheyrenda, þvi so stendur skrifad, hann sagde til þeirra; Rieppest efter inn ad gaunga umm hid þraungva Hlided.

§. 2.

Hier med vill Jesus leida sina Tilheyrendur fra þessare onytiu Spurningu til þess Lærdoms sem nytsamlegre og naudsynlegre er, ad þeir bere Umsorgun

sórgun fyrer hvernig þeir skulu kappkosta ad nᴂ Sᴂluhiᴂlpeñe, so er audsied, ad þad Folk vid hvert Christus talade, og hvoriu hañ giorde þessa Aminingu hefur vered Fiollde Maña, sem hönum hafa epterfylgt, so sem þad optlega skiede, ad margar þusunder fylgdu hönum epter, til ad heira Guds Ord, og siᴂ þaug Kraptaverk er hañ giorde. Af ollum sinum Tilheyrendum, og af hveriu einum þeirra fyrer sig, utheimte hañ ad þeir skylldu hafa Umhyggiu fyrer siñe Sᴂluhiᴂlp, hverier hellst þeir være, og i hvada Stiett edur Stande; þvi aller eiga ad kieppast epter iñ ad gaanga um hid þraungva Hlided til eilifs Lifs.

# III. Capitule.

## Fyrer hveriu Christi Tilheyrendur eige hellst ad bera Umhyggiu.

§. 1.

Þad syner Jesus i ᴂmmstum Ordum, fyrer hveriu aller hañs Tilheyrendur eiga helst Umhyggiu ad bera, sem er, ad þeir vite riettañ Veg til Himensins, og hvernig þeir kuñe sᴂluholpner ad verda, hvad hañ firersetur a þañ Hᴂtt, ad þeir skule kieppast epter ad iñgaanga um hid þraungva Hlided. Hlid edur Port skilst lika firer Dyr, hvar iñ er geindod i eina Borg, edur eitt Hus; So verdur skiled um Dyrnar a Porte Borgareñar Samariᴂ 1 Reg. 22. v. 10. Eñ her er brukad Orded Hlid, i stadeñ fyrer Veigeñ til Himensens, edur Mᴂtañ til ad verda holpeñ. J somu Meiningu seiger David,

kunnann giorder þu mier Veigenn til Liſſens, Pſ. 16, v. 11. ſem gioreſt epter Maalſnilldarhætte; þvi lika ſem ſa er vill inngaanga i Borg edur Hus, maa gaanga viſſann Veg, og umm viſſár Dyr, ſo hlitur ſa ſem vill komaſt inn i Himnarike ad gaanga viſſann Veg, og med viſſumm Hætte.

§. 2.

Leitumm vier vel i H. Ritningu, hvad ſkiliaſt eige firer þad Hlid, edur þann Veg, hvarumm inngeinged verdur i Himenenn, er audveldt ad finna þeſs riettann Skilning, ſem er, ad firer þad þraungva Hlided vill Drottenn Jeſus ſig ſialfann ſkiliaſt laata, þvi hann er þad Liſſens Port, firer hvern inngeinged verdur i eiliſt Lif. Þad ſyner Petur lioslega er hann ſeiger: Eige er i nockrum ødrum Saluhiaalp, og eckert annad Nafn er giefed Mønnunum i hverin oſs byriar ſaaluholpnum ad verda, þaa hann talar um Nafn Jeſu Chriſti, Act. 4, v. 10. 11. 12. Hver Vitnisburdur gietur hier umm ſkirare orded, enn þad Chriſtur ſialfur ſeiger: Joh. 14, v. 6. Eg er Vegurenn, Sannleikurenn og Lifed, eingenn kiemur til Fødurſens, nema firer mig. Hann ſeiger einnig berlega Cap. 10, v. 9. Eg em Dyrnar, ef nockur geingur inn firer mig, hann mun frelſaſt, hann mun og gaanga ut og inn, og finna ſitt Fodur. Þannig ſier hvereirn ad Chriſtus meinar hier ſialfann ſig fyrer þad þraungva Hlided, inn umm hvert geinged verdur til eilifs Lifs, þvi eingenn gietur orded riettlaatur og ſaaluholpenn nema fyrer hann alleina.

§. 3.

Þad kinne viſt ad afla Monnumm Ahyggiu, ad Chriſtus kallar Veigenn til Himenſens, þraungt Hlid; Orded ſem þar til er brukad merker miog

þraung=

þraungvañ Veg og miott Gꝏngrum, hvar uñ ordugt er ad komast; Num. 22, v. 26; er gieted uñ miog þraungvañ Stig, sem hverge mꝏtte afvikia, hverke til hægre nie vinstre Hlidar, hvar Eingell Drottens gieck Veigeñ fyrer Bileam, til ad standa honuñ i mote, þar hefur ecke uñkomest nema eirn Madur i señ; Eñ eingeñ skyllde fæza sier i Pañka, ad Himensens Port sie hier þraungt kallad fyrer þá Skulld ad Gud vilie ecke aller skule iñ uñ þad gꝏnga til eilífs Lífs, edur Christur hafe ecke giort Fullnad fyrer alla, og alla endurleist, þvi lꝏngtuñ ödruvis seiger H. Ritning þar uñ. Hvad er skirara, eñ þad Paulus seiger; Gud vill ad aller Menn verde sꝏluholpner og komest til Sannleikstias Vidurkienningar. 1 Tim. 2, v. 4; og aptur, Cap. 4, v. 10, Christus er allra Manna Frelsare. Hvad er liosara eñ þad Johañes seiger, Jesus Christus er Forlikun fyrer vorar Synder, og eige einasta fyrer vorar, helldur eirnig fyrer allrar Veralldarennar, 1 Joh. 2, v. 2. Hier standa Dyrnar opnar fyrer eiñuñ og sierhveriuñ sem Yferbot giorer til ad iñgꝏnga i þad eilifa Líf, þvi seiger Christus; Hvern þann sem til min kiemur, hann mun eg eige utreka, Joh. 6, v. 37. Þarfyrer gietur hver eirn sied ad Skullden er ecke hiá Gude, þo Vegureñ til Himens sie þraungur, helldur hlitur þar til ad vera oñur Orsök.

§. 2.

First þad er ecke Gudi ad keña, ad Vegureñ til Himens er þraungur, og þeir fꝏer sem hañ gꝏnga, þá skylldum vier rañsaka hvaraf þad kiemur; giætuñ vier vel ad i H. Ritningu, þá meiguñ vier seigia þær Orsaker sieu þriar, fyrer hveriar Hlided til Himens er þraungt kallad; Su firsta,

af þvi ecke er nema eirn Vegur til ad verda sꜳluholpeñ, ut af hveriuñ Madureñ mꜳ ecke vikia, helldur ꜳ honuñ gꜳnga, vilie hañ komast i Himineñ, epter þvi sem skrifad stendur; Es. 30, v. 21. Þetta er Vegureñ, þañ sama gꜳnged, añars hverke til hægre nie vinstre Handar, þꜳ kiemst Madureñ fyrer sañá Tru ꜳ Christuñ til Sꜳluhiꜳlpareñar, þvi ecke er i nockrum ødrum Sꜳluhiꜳlp, og eckert annad Nafn er gefed Mønnunum i hveriu oss byriar sꜳluholpnum ad verda, Act. 4, utañ Nafn Jesu Christi, sem firr er sagt. Þad er þad sem Christus seiger: Hver sem truer og verdur skirdur, sꜳ skal holpenn verda, enn hver hañ eige truer, hañ skal fordæmast, Marc. 16, v. 16. Þarfyrer mꜳ sꜳ sem holpeñ vill verda, ecke lifa epter siñe eigeñ Villd og Þocknan, ei helldur giøra þad hañs illa Holld og Blod rædur honuñ, helldur lifa og framgꜳnga, eins og Gud honuñ fyrerseiger i sinu Orde; David spyr, Hvernig fær Æskumadurenn siñ Veg geinged ostraffanlega? Ps. 119, v. 9; og svarar sier siꜳlfur; Nær hann helldur sig epter þinum Ordum, Pꜳll seiger: So marger sem epter þessare Reglu gꜳnga, yfer þeim sie Fridur og Miskun, Gal. 6, v. 19. Fyrer þvi, hver sꜳ sem gyrnest holpeñ ad verda, mꜳ hallda sig efter Guds Orde, eñ fæster giora þad, þvi kallast Hlided til Himensens þraungt, eñ þar ꜳ mote er Vegureñ til Helvitis breidur, þvi Madureñ gietur ꜳ marga Vegu komest i Fordæmingu og orded glatadur. Aunnur Orsøken, hvarfyrer Hlided til Himensens er þraungt kallad, eru þær morgu Hneixlaner og Tælingar, er liggia sem storer Steinar ꜳ þessuñ Veige og giora hañ þraungvañ og mioañ, so margar þusund-

er steita sig þar a, yfergiefa Christum̃, lida Skipbrot a Truñe, og vikia burt af Veigenum̃ til Himensens; Hversu miog kieppest ecke Sathan epter ad forblinda Meñena, so þeir skule ecke fiña þañ rietta Veg til eilifs Lifs? Forblindar ecke Gud þessarar Veralldar (þad er Sathan) Hugskot Vantruadra, so ad þeir ecke sia þad klara Evangelii Lios Christi, hvert ed er Guds rietta Jmind, lioma fyrer þeim, 2 Cor. 4, v. 4. Seiger ecke Petur um̃ hañ, Diøfulleñ geingur um kring, sem greniande Leon, epterleitande þeim sem hann svelge, 1 Pet. 5, v. 8. O, allra kiæraste Gud! hversu lockar ecke hiñ ogudlege Heimur til allskonar Vondsku? Hañ lætur eckert tilvanta ad draga þa Fromu af Himensens Veige, a Veg Fordæmingareñar, hvar af margur snyr tilbaka, og hlyder hañs Toalfuglum̃, nær þeir kalla; Far þu med oss, vier vilium um̃sitia Blod, og stunda epter þeim Saklausa fyrer utan Orsøk, hættu til þess med oss, aller vier skulum̃ eirn Siod hafa. Prov. 1, v. 11. 14. Jaa fyrer Hneixlana Saker, kyñu i Villu ad leidast, ef skie mætte eirnig Utvallder, Matth. 24, v. 24. Hvad skal eg seigia um̃ vort eiged ostyrelata Hold og Blod sem ei helldur kirru fyrer motspirnande þvi goda, og vill altid ganga a Villuveige, so þeir truudu hafa tidum̃ Orsok til þar yfer ad andvarpa og seigia: Eg er vesæll Madur, hver mun frelsa mig af Likama þessa Dauda? Rom. 7, 24. Þridia Orsøken, vegna hverrar Veguriñ til Himens, kallast þraungur, er margskonar Motlæte, og Krossþianingar, sem christnum̃ Moñum̃ tilhanda bera, þeim er hallda sier vid Christum̃, og vilia fyrer hañ holpner verda, hvar vid margar þusunder Maña frafælast ad

standa stodugar i þvi goda, suna helldur vid Bladenu, og hætta þvi upp er teked, þeirra Christendome, so um þá heiter þad Christus seiger: Um Stundar saker trua þeir, og á Freistingartima falla þeir frá, Luc. 8, v. 13. Á medan þeim geingur vel utvortes, eru þeir vel christner, en strax sem þeir heira omeñ af Pauli Ordum: Aller þeir sem gudlega vilia lifa i Christo Jesu, hliota Ofsokn ad lida, 2 Tim. 3, v. 12: og merkia Krapt þessara Orda i Rauneñe, þá snua þeir aptur, og seigia sig ur Guds Þionkan, þañig giorer Kross og Motlæte, lika sem Storgrite, þraungvañ Veigeñ til Himens, þvi þeir eru marger, sem ecke vilia taka Christi Kross uppá sig, og fylgia honum epter; þar fyrer liet eirn Madur sem adgiætte þad ad marger lietu Krosseñ fæla sig frá Veigenum til Himens, uppmála fyrer sier miog hátt Fiall, og ofañá þvi þau ágiætustu og fáasienustu Blomstur, eñ Veigeñ uppá þad grittañ og Þirnum vaxeñ, og nedañ under þvi standande Folks Fiollda mikeñ, sem horfde uppá Blomstreñ, eñ villde ecke klifrast uppepter um þañ klungrotta Veg, og þar hiá liet hañ setia þessa Yfirskrift: Sá gritte Vegur fæler oss. Fyrer þessara þriggia Orsaka Skulld kallar Christus þraunrar Hlided til Himens.

§. 5.

Her má siá ad christins Mañs Umhyggia á þar til ad horfa, ad hañ fáe iñgeinged um hid þraungva Hlided. O, Hvad. ometañleg Giæde eru þad ad odlast Sáluhiálpena epter þetta Lif? Ad verda holpeñ, þad er ad sá alla Osk sina, ad vera holpeñ; þad er ad skoda Guds Auglit, og af þvi eiliflega ad glediast; Ad iñgáanga um hid þraungva Hlided, þad er ad fara eitt siñ frá allre

Eimd og Neid, og flitiast iñ i eilifa Fagnadargledc, þad er ad komast til stærstu Farsælldar, og Vegsemdar. Hver uñ þad þraungva Hlided iñgeingur, hañ kemur sem Sigurherra fram fyrer Guds Hasæte, og fær hia honum Korońu Dyrdareñar, ad vera holpeñ, þad er ad horfa a Guds hæsu Hatign, og haňs dyrdlega Hoffolk. Ad vera holpeñ, þad er ad sveima medal H. Eingla og utvalldra Flocka, og niota þeirra yndisfullu Nalægdar. Hver sem iñgeingeñ er uñ hid þraungva Hlided, hañ hefur ad eilifu fyrer einguñ Ovin ad ottast, honum kemur aldrei framar nockur Sorgarþanke i Hug, og oll haňs Neid og Mæda er aldeiles horfeñ. Hver holpeñ er ordeñ, hañ lifer i konglegre Dyrd og Vegsemd, hañ bidur ei framar, nie singur Sorgarkvæde, helldur Glede- og Sigursaungva, og þackar Drottne. Hver iñgeingeñ er uñ hid þraungva Hlided, hañ lifer i himneskre Rosemd, i himnesku Liose, i himneskre Dyrd, i himneskre Uppheſd, i himneskum Lioma og i himneskre Fullnægiu. J stuttu Maale ad seigia; hver holpeñ er, hañ hefur alla Hlute, Lifed og allt yferfliotañlegt. Þarfyrer let eirn gudrækeñ Madur uppmaa'a fyrer sier j a jardnesku Paradiis, hvar allt stód i Bloma: og alla þaa Lysteseme var ad sia, sem nockur kuñe ad æskia sier, til ad setia sier fyrer Sioner epterkomande Dyrd og Sælu, med þessare Yferskript! Hier er sa ædste Gode. Paulus sa ecke nema ypsiñes iñ i Himnarikis Sælu, þo medkiende hañ, ad hañ giæte ecke neitt sagt af þvi sem hañ sa og heyrde i Himneñum, helldur seigest hañ hafa heyrt þar outrædañleg Ord, þaug sem eingeñ Madur fær uttalad, 2 Cor. 12, v. 4. Þvi maa su Tunga first endurskapast, sem þaa Sælu skal utskira, er kiemur epter

Jñ-

Iñgaunguna um̃ hid þraungva Hlided; Vid þad maa blifa; Þad hefur ei Auga sied, og eige Eira heirt, og ecke i nockurs Mans Hiarta komed, hvad Gud hefur fyrerbued þeim er hann elska, 1 Cor. 2, v. 9. Ad naa þessare Sælu, ætti aller Christi Tilheyrendur epter hañs Amiñingu ad laata sier vera um̃hugad, og sia sig vel fyrer ad þeir fare ecke a mis vid hana, helldur leggia allt Kapp a ad faa iñgeinged um̃ hid þraungva Hlided.

# IV. Capitule.

## Hvernig Christi Tilheyrendur eige ad kieppast epter Saaluhiaalpeñe og hafa þar Umhyggiu fyrer.

§. 1.

Ad þad sie ecke aldeilis audvelldt ad eignast Saaluhiaalpena, þad syner Drotteñ Christus med þvi hañ vill siner Tilheyrendur koste Kapps um̃ ad iñganga um̃ hid þraungva Hlided til eilifs Lifs. Orded sem hier til brukast i Hofud-Textanum̃ er miog epterteektaverdt, þvi þad merker ad strida eda beriast af Kappe, lika sem þaa Meñ hallda Bardaga vid Ovine sina til ad yfervinna þaa, sosem þad er brukad um̃ þaa Glimu er Jacob hafde vid Guds Son, Gap. 10, v. 12. Þvi heiter þad her ad kieppast epter, so miked sem ad leggia fram̃ alla Krapta i Stride, til ad faa sigrad. J þeirre Meining brukar Christus þad, er hañ seiger vid Paulum̃: Mitt

Rike er eige af þessum Heime, efad mitt Rike være af þessum Heime, þa mundu miner Þienarar strida þar fyrer, so ad eg selldest ei Gidingum, Joh. 18, v. 36. So er þad og sagt um þa sem beriast, og giora sier miked Omak uppa þad, þeir ødlest forgeingelega Koronu 1 Cor. 9, v. 25. Þad er ad giora sier mikla Erfidsmune og hafa miked fyrer ad na einhveriu Hlut. Þad er sagt tvisvar um Darium Kong, þa hañ hafde miked Omak fyrer ad fa friad Daniel fra Leona Grofeñe, Dan. 6, v. 15. So miked hefur þetta Ord ad seigia, sem Christus brukar i þessare H. Grein Ritningareñar.

§. 2.

Hier af fær hver eirn nogsamlega sied, hversu mikel Ahyggia og Mæda til þess utheimtest ad gieta iñgeinged um hid þraungva Hlided til eilifs Lifs. Med þessu vill Drottenn Jesus giefa sinum Tilheyrendum til Ihugunar, ad þad er ecke nog til Saluhialpar ad vera volgur i sinum Christeñdome, helldur meiga þeir lata sier vera alvarlega umhugad ad verda holpner, og einga Mædu nie Kostgiæfne spara til ad fa iñgeinged i Himeneñ, þeir eiga helst ad stunda a Himneska Hlute, beriast og strida, so þeir fae Diofuleñ, Heimeñ og þeirra eiged Holld og Blod yferuñed, og so hindrunarlaust iñgeinged um hid þraungva Hlided til eilifs Lifs, lika sem Israels Born bordust vid Amalek, þartil þaug lægdu hañ, Ex. 17, v. 13. Lika sem David bardest vid Philistæa og veitte þeim miked Slag, 1 Sam. 25, v. 5. So eiga Christi Tilheyrendur ad beriast i andlegañ Mata, og kieppast epter ad iñþreingia sier i eilift Lif. Þeir skulu first leita Guds Rikis og hans Riettlætis, Matth. 6, v. 33. Þeir skulu

skulu leggia þess meire Kappsmune a sina Kallan og Utvalningu ad stadfesta. 2 Pet. 1, v. 10.

§. 3.

Pad hlitur ad kosta Strid ad komast i Himnarike. Nær eirn Hershofdinge skal iñtaka eina Borg, þa hlitur hañ ad sækia ad heñe af ollu Megne, og maa ecke aflæta firr eñ hañ hefur hana under sig lagt. Vilier þu, mitt kiæra Barn, iñtaka Himensens Borg, þa duger þier ecke ad vera latur, og seirn a þier i þinum Christeñdome, helldur hlitur þu ad strida, beriast og hlaupa. Guds stora Hæstign giorer ecke so lited ur eilifu Life, sem hañ hefur firerbued þeim er hañ elska, ad hañ vilie gefa ochristnum Moñum, sem ecke þiker þad omaksverdt, ad vera ahyggiufullum þessvegna, edur hafa miked fyrer þvi. Lika sem litlum Bate, verdur ecke komed a mote Straume fyrer utañ arar, so verdur ecke helldur komest iñ um Himensens Port fyrer utañ Kapp og Erfide. Sa Charthaginiske Hershofdinge Hañibal, giorde ser mikla Umhyggiu fyrer ad fa giort Veg yfer þaug Fioll Alpes, fyrer sig og sitt Herlid, er hañ villde sigra Romveria. Vilier þu komast yfer þañ Fiallveg sem ligaur til Himens, mattu hafa Umhyggiu fyrer med Stride og Kapphlaupe, ad giera broteft fram um þañ þraungva Vegeñ; Þu matt lika sem eirn Madur giorde, utvelia þier fyrer Miñisteikn, edur Hugskots Mind, þaug hæfu Himens Fioll, sosem þier fyrer Sionum malud, med þessare Yferskrift. Eg sæke adeins epter þvi Himneska. Slepp ollu odru, og epter þins Frelsara Radleggingu berst og sæk epter ad komast iñ i Himensens Borg. Være alhægt ad verda holpeñ, hvar fyrer munde þa Guds Sonur utheimta ad keppast, strida, beriast, sækia og

Ahyggiu

Ahyggiu hafa epter þvi? Være þad hægt, hvar fyrer seiger þa Christus, Himnarike poler Ofrike, og þeir sem Ofurefled giøra, hrẽma þad til sin. Matth. 11, v. 12. Her heyrum ver, ad sa sem vill komast iñ i Himnarike, hañ ma bruka þar til Ofrike, og med øllum Kroptum þreingia sier iñ um hid þraungva Hlided, og med Wallde hrẽma Himnarike til sin. Være hægt ad verda holpeñ; hvar fyrer aminer þa Paulus hañig: Verked ydar Saluhialp med Ugg og Otta, Phil. 2, v. 12. Her ma heyra ad sa holpeñ vill verda, ma ecke i Uegleise lifa, og hyxa, hañ med volgre Gudræknis Ydkan komest i Himnarike, helldur verdur hañ med H. Otta og Bligdan ad taka Vara a siñe Saluhialp, og þvi a alla Vega framfylgia. Yrde Madureñ holpeñ med þvi ad heppa og stockva i Uggleise, og vera afskiptingarlaus um siñ Cristeñdom, hvar fyrer seiger þa Ritningeñ; Latum oss nu hrædast, so vier forsomum ecke þad Fyrerheit iñ ad koma til hañs Hvilldar, og eingeñ vorra epter verde, latum oss Kapp a leggia iñ ad koma til þessarar Hvilldar. Ebr. 4, v. 1. 11. Sia nu Heimsens Barn, þu sem i Uggleise lifer, hversu þu svikur sialfañ þig, þvi þu meinar þig holpeñ verda, þo þu kieppest ecke epter iñ ad ganga um hid þraungva Hlided til eilifs Lifs. Þu meinar, ad fyrer þiñ utvortis Christeñdom, þitt galauslega Bæna og Saungvahalld, þina gudræknislausa Guds Orda Aheyrn, muner þu vera i Tolu Utvalldra, þo þu hverke strídet nie kieppest epter ad fa Himnarike. O þu svikna Manneskia! Wilier þu verda holpeñ, þa vit þad, ad Saluhialpeñ hanger ecke af þiñe Muñchristne, eda utvortis Guds Þionustu, helldur seiger þier H. Ritning

Ritning allt añad. Þu verdur ad kieppast epter ad iñgæanga um̃ hid þraungva Hlided, ad giøra Himnarike-Ofuresle og hreḿa þad til þin, ad verka þina Sæluhiælp med Otta og Titran, forsoma ecke þær eilifu Hvilld, og leggia Kapp æ ad komast til þessarar Hvilldar. J einu Orde ad seigia, þu verdur ad leitast vid ad hondla Guds Næd i Christo fyrer Truna, og geima hana sem kostulegañ Dyrgrip, so þu misser hana ecke aptur, ad slita þig lausañ fra Heimenum̃ og hañs hiegomlegu Athæfe, ætid meir og meir, og þiona Gude med rædvondu Hiarta i Heilagleika og Riettlæte, so sem honum̃ er þocknañlegt, þæ kieppist þu riettelega epter ad iñgæanga um̃ hid þraungva Hlided, Lat þarfyrer þitt Uggleise fara, og þina svikula Jmiyndun um̃ þad, ad hægt sie ad verda holpeñ, þvi þu heyrer Christum seigia laungtum̃ odruvis, og biria añañ Lifnad, vilier þu iñgæanga um̃ hid þraungva Hlided til eilifs Lifs.



# V. Capitule.

## Hvad naudsynlegt þad sie ad Christi Tilheyrendur hafe Um̃hyggiu fyrer siñe Sæluhiælp.

§. 1.

Epter þad Drotteñ Jesus hefur æmint sina Tilheyrendur ad kieppast epter ad iñgæanga i eilift Lif, færer hañ þartil miog vigtuga Orsok, hvarfyrer þeir eige ad hlyda hañs Amiñingu, setiande þeim fyrer Sioner, þæ Naudsyniu sem skule æsysla

þa ad hafa Umsorgun fyrer þeirra Saluhiálp, og seiger fremur meiges: Þvi ad Marger, þad seige eg ydur, munu sækia til þar inn ad ganga, og fa ei getad. Utaf þessu kyñe veiktruadur Madur ad stansa i sinum Christeñdome, og falla i Efasemd um sina Saluhiálp. Allrakiæraste Jesu, skulu þeir þa ecke geta orded vísser um sina Saluhiálp, sem alvarlega bera Umsorgun þar fyrer, og láta siñ Christeñdom liggia ser i miklu Rume. Skulu þeir ecke verda iñtekner i Himeniñ, sem á Tima Nodarenar hafa iñelega Laungun þar til? Skulu þeir ecke iñganga i eilíft Lif sem giora ser Omak og Ahyggiu fyrer þvi? Er þad þa ecke af Alvoru þiñ Vilie, ad aller Meñ skule verda Saluholpner? Vist er þad Guds Alvoru Vilie, þvi hañ hefur þad sialfur med þessum Eide svared. So sañarlega sem eg life, seiger Drotteñ Drotteñ, þa hefe eg einga Þocknan á Dauda hins Ogudlega, helldur þad ad hiñ Ogudlege snue ser fra sinne Breitne, og life, Ezech. 33, v. 11. Med þvi Gud vill ad aller Meñ verde holpner, þa kañ ecke Drotteñ Christus ad meina þa her med, er sækia til ad iñganga um hid þraungva Hlided, og fa ei getad, sem hafa alvarlega Umhyggiu fyrer siñe Saluhiálp, og keppast epter heñe ad ná, á rettum Tima og i rettañ Mata, so sem Gud hefur þeim i sinu Orde fyrersett.

§. 2.

Vilium ver fa rettañ Skilning þessara Christi Orda, þa gefum giætur ad Christi Tilgange er hañ þaug talade, og sia er af Kringumstædunum, so sem adur er sagt, og þa siñum ver Likileñ til þeirra, þvi hañ talade þa helst til Gydinga-Folks og Phariseaña, af hverium likast er, eirn hafe vered

sa. er hañ spurde hvert saer munde hialpast. Eñ þetta Folk vilde ecke þeckia Christum ne medtaka hañ, fyrer Messiam er Gud hafde þeim heited i Gamla Testamentenu, helldur forsmaadu þeir hañ og villdu ecke þeckia Naadareñar og Guds Vitiunartima, dou so burt og urdu eiliflega utskufader, hvar uñ Christus braa þeim Luc. 19, v. 44. Þarfyrer frañsetur Christus, fyrer þaa, hversu þeir mune aa sinum Tima eiliflega burtkallader verda fraa Guds Auglite, af þvi þeir lika sem med Hondum og Footum hriude fraa ser hans Naad, sem þeim se frañbodeñ. Ad soñu munu þeir aa sidasta Deige sækia til ad gaanga iñ i eilift Lif, og med þeim saavisu Meyum kalla og seigia: Herra, Herra! liuk þu upp fyrer oss. Matth. 25, v. 11, Eñ af þvi Naadartideñ er ute munu þeir eckert aviña, helldur saa af Gude ad heyra þetta, so sem Sonur Guds seiger: Sannlega seige eg ydur, ad eg þecke ydur ecke, v. 12. Og ad Drotteñ Christus meine her med þetta Folk allrahellst, maa lioslega siaa af þvi sem strax aepter fylger i vorum Upphafs Texta er hañ seiger: Fraa þvi Husbondeñ er uppstadeñ, og hefur Dyrnar aptur lukt, þaa munud þer taka til þar fyrer utañ ad standa, og aa Dyrnar ad knya so seigiande: Herra, Herra! Luk þu upp fyrer oss, hañ mun þaa svara og seigia til ydar; Eige þecke eg ydur, hvadañ erud þer? þaa munud þer hefia upp ad seygia: Ver høfum eted hiaa þer og drucked, og aa Strætum vorum kender þu, eñ hañ mun seigia: Eg seige ydur, þad eie þecke eg ydur, hvadan þer erud, fared fraa mer aller þer Illgiørda-Meñ.

§. 3.

§. 3.

Þannig getur hver eirn sed; ad fyrer þa sem sækia epter eilifu Life, og geta þo ei i þad inkomest, eiga ecke ad skiliast rettskickader christner Menn, sem hafa Umhyggiu fyrer sinne Saaluhiaalp, og alvarlega þartil sækia, ad faa hana ödlast a Tima Naadarennar, helldur þeir sem ecki leita hennar med þeim Hætte, sem Guds H. Ord utkrefur, og a þeirre Tid sem þeim byriar, helldur laata af Motvilia Naadartimann hiaahlaupa, og hafa einga Þanka ad giora sanna Ydran og Yferbot, helldur draga hana undann Dag fraa Deige, og gefa sig aldeiles i Heimsens Haattalag, enn vilia þaa first fara ad sækia epter Saaluhiaalpenne, þegar Naadartimenn er ute, og ecke gefid framar Rum til Yferbotar. Þetta giora þeir þo forgefens se, annadhvert i Daudans Tid, þegar þeir eru komner adfram, og eru vegna sins forherdta Hugskots, ecke framar henntuger til ad umvendast, og þad ecke af Kiærleika til Guds, ecke helldur af rettelega angurfullu og truudn Hiarta, helldur einasta af O.ta fyrer Straffenu, og af hræsnisfullu Hiarta. Viled þer hafa Dæme þar uppa, þaa liited a þann ogudlega Antiochum; hann tok first til ad bidia Gud a sinne Sottarsæng, þaa hann laa fyrer Daudanum, enn Gud, epter sinum rettvijsum Dome villde þaa ecke vera þessum illa Skalke lyknsamur, ne heyra hann, hvarfyrer hann hlaut ad deya med storum Harmkvælum, af þvi hann einasta af Otta fyrer Straffenu giorde Hræsnis Yòran, enn einga sanna Yferbot, 2 Macc. 9, v. 1. 28. Um þvilika Menn, sem af Þvermodsku hafa slept Naadartimanum, og meina, nær þeir a sinne Sottar Sæng og Dauds Tid giora eitt kalldt Andvarp, mune þeir verda holpner, talar Christus so, ad

þeir sæke til iñ ad gaanga i eilift Lif, eñ faae þad ei getad, af þvi þeir hofdu ei retta Adferd til þess. Þetta er þad sem vier singium i vorum Kyrkiusaung;

Holldeđ kvider vid Kvol og Neid
Þaa komeñ er Mañ i sidustu Neid,
Þaa first biria fromer verda;
Eirn stundar hitt, eñ añar þad,
Alla Lifdaga þaangad ad,
Uñ sina Saal ei hyrda.

Þaa Lifed ecke leingur fæst,
Leiner ser ei Asøkun stærst,
Þaa vill sig Gudi gefa;
Hvert þaa gudlega hitter Naad,
Sem hefur ovirdt og jafnañ smaad,
Þad horfer helst til Efa.

Ellegar þeir giora þad aa sidasta Deige, sækiande þaa einkañlega epter þvi ad verda holpner, lika forgefens, uñ hvad her er einkañlega talad, þaa vilia margar þusunder Maña, iñgaanga i Himeneñ, sem þo ecke muun verda imote teked, þvi Naadartimeñ er ute, og Dyrnar eru apturluktar, þaa munu þeir, hverſu miøg sem þeir hropa og kalla, heyra þesse Jesu hordu Ord: Alldrei þeckta eg ydur, fared fraa mer aller Illgiørda-Meñ. Matth. 7, v. 23. Þeir sækia lika epter ad verda holpner; og þad forgefens, sem hyggiast ad verda þad ecke, fyrer saña Tru aa Christum, helldur fyrer sin eigeñ Verk, og med Phariſæanum spyria; Hvad skal eg giøra, so ad eg erfe eilift Lif. Luc. 10, v. 25. Þvi eingeñ Madur verdur rettlaatur fyrer Logmaalsens Verk. Gal. 2, v. 16. Þeir sækia eirnig epter ad iñgaanga i eilift Lif, og komast þangad þo ecke, sem þiona Gude einasta

utvortis, og lꜳta þarvid lenda, eñ þeirra Hiarta er fult af Hræsne, þeir vilia ad soñu þiona Gude, eñ hallda þo hiꜳ ser eirnre edur añare Synd, hveria þeir hafa kiæra. Þeir seigia med Muñenum, Herra, Herra! eñ giøra þo ecke Guds Vilia, þarfyrer far þeir ecke iñgeinged i Guds Rike, Matth. 7, v. 21. Þesser hafa Yferlit Gudlegs Athæfis, eñ þess Krapte afneita þeir. 2 Tim. 3, v. 5. og þeirra Christeñdomur er eckert añad eñ Lꜳta Læte, þvi þeir lꜳta sem være þeir fromer, eñ i Hiartanu hafa þeir noga Vondsku til ad bera. Aller þesshꜳttar Meñ sækia epter ad iñgꜳnga i Guds Rike, edur rettara ad seigia, Iñbirla ser ad þeir sæke epter þvi, eñ fꜳ þad þo ei getad, og ad þad bregdest ecke ad so mune fara fyrer morgum Mañe, þad stadfester Christus, er hañ leggur til þesse Ord: Þad seige Eg Ydur; Sem villde hañ seigia: Þer þurfed ecke ad iñbirla ydur añad, eñ þad se vist og satt, sem eg hefe ydur nu opeñberad, eg sem er sialfur Sañleikureñ, og kañ ecke ad liuga, seige ydur þad, eg sem er alvis Drotteñ og fyrer vist veit, ad so er þad komed fyrer morgum þusundum Maña, sem eg hefe sagt ydur, ad nær þeirra Sꜳler hafa epter Daudañ komed fram fyrer Guds Dom, og hafa viliad iñgꜳnga i eilift Lif, þꜳ hefur þeim vered, mot allre þeirra Von frꜳvisad, og ad eilifu utskufad.

§. 4.

Þetta framfærer Drotteñ Christus, sem hardlega tilknyande Orsøk og Upporvan, er hans Tilheyrendur og alla Christna alvarlega upphvete til ad bera Umsorgun fyrer þeirra Sꜳluhiꜳlp, þeir skulu ihuga hversu hꜳ Naudsyn þad er, ad keppast, strida og beriast epter ad nꜳ Sꜳluhiꜳlpeñe ꜳ Nꜳdareñar Tid, og hversu, þad marger sem þar

epterſækia, hiœlpaſt þo ecke fyrer þad, þeir giora þad ecke œ rettre Tid, ne œ þañ Hætt ſem Gud vill þad ſe giort epter hans Orde. Ef hundrad Mañа ætludu ad gœnga yfer Vatnsfall œ miorre Bru, og eirn være þar hiœ, ſem ſegde frœ þvi, ad Marger hefdu œdur dotted af þeſſare Bru ofañ i Vatned og drucknad, af þvi þeir hefdu ecke fared varlega; munde þœ ecke hver eirn þeirra vera var um ſig, og taka vara œ hveriu ſinu Spore, ſo hañ felle ecke lika ſem hiner i Vatned? Firſt Meñerner eru vaner ad vara ſig ſo vid timañlegum Hæſka, hverſu mikluframar ætti þœ allir chriſtner Meñ ad leggia alla Alud œ, ad þeir œ Veigenum til Himens ſete ecke ſiña Sœl i Hæſka, helldur fœe iñgeinged uñ hid þraungva Hlided, allrahellſt er þeir heyra ad Marger ſækia til ad komaſt þar iñ, og geta þo ecke, fyrer þad þeir ei œ rettre Tid, ne med rettum Hætte leitaſt þar vid? O, ætte þad ecke ad vera ſtingande Broddur i þeirra Samvitſku ſem lifa i Andvaraleyſe, og hafa litla Vidleitne ad komaſt iñ i Gudsrike, er þeir heyra, eingeñ ſe Von til þeir holpner verde, utañ þeir keppeſt, ſtride og hlaupe þar epter? Hver ſem ecke framyfer allt añad ber Umhyggiu fyrer ad iñgœnga uñ hid þraungva Hlided til eiliſs Lifs, hañ kañ ecke holpeñ ad verda. Vakna þar fyrer upp, þu ugglauſe Madur, og haf þu þina Sœluhiœlp kiæra, þœ tilreid þig, og ryck Himnarike til þin med miklu Ofrike, þvi þad mœ ſœ giora ſem hiœlpaſt vill. Lit upp og ſlepp þeim Paunkum, ad audvelldt ſe holpeñ ad verda, þvi være þad, hvar fyrer munde þœ þiñ Jeſus ſkipa þer ad ſtrida og keppaſt þar epter? Viler þu þœ verda holpeñ, verdur þu ad keppaſt epter ad gœnga iñ uñ hid þraungva Hlided til eiliſs Lifs.

Keppeſt

Keppest þu ecke epter þvi, þa getur þu ecke helldur orded holpeñ.



# VI. Capitule.

## Uñ þad ad miøg litill Hlute Maññaña verde holpiñ.

§. 1.

Hver ser nu ecke af þessum Christi Ordum, nema hañ vilie af Morþroa birgia fyrer Augu ser og ecke sia, ad hiñ minste Hlute Mañaña verde Saaluholpeñ, eñ hiñ meste Hlute þeirra fortapest? Kuñe Madureñ ecke ad faa Himnarike, nema med þvi hañ stride beriest og hlaupe epter þvi Hnosse, og leggie allt Kapp a ad faa iñgeinged uñ hidiþraungva Hlided, epter vors Frelsara Ordum, og þu miñ kiære christeñ Madur, ser sialfur, hversu miøg faaer þeir eru sem þad giøra, og sem laata ser þikia þeim ligge miked a siñe Saaluhialp. Hvernig kantu þaa ad efast uñ þañ himneska Sañleika, ad hiñ minste Hlute Mañaña verde holpeñ. Eru ecke marger þeir sem sækia til Himens, og komast þangad, þo ecke, epter Christi Ordum, af þvi þeir hverke a rettre Tid, ne med rettum Hætte sem Guds Ord utheimter, giora ser Omak fyrer þvi? Og þu ser hversu marger fiñast sem aldeiles eckert sækia epter þvi, helldur lifa i sifelldu Uggleyse. Af þessu kantu ad þeckia, ei einasta, helldur vera viss

um̃, ad hiñ meste Fiollde Mañaña fyrerferst, eñ miøg fáer af þeim verda holpuer.

§. 2.

Til þessa er framar audvelldt Rokſemder ad fœra af liosum Greinum H. Ritningar. Hvad er liosara, eñ þesse vors Frelsara Ord; Marger eru kallader, eñ Fáer utvallder. Matth. 20, v. 16. Hvør skyllde ecke verda þarum sañfœrdur i sinu Hiarta, ad miøg fáer verde holpuer, nær hañ yfervegar þesse Christi Ord; Gáanged iñ um̃ hid þraungva Port, þvi ad þad Port er vitt og sa Vegur er breidur sem leider nidur til Tøpunar, og þeir eru Marger sem á hønum reyka. Og þad Port er þraungt, og sa Vegur er mioor sem til Lifsens leider, og þeir eru Fáer sem han rata Matth. 7, v. 13. 14. Med þvi þeir einasta, sem keppast epter og bruka Ofrike til ad náa Himnarike, iñgáanga i þad epter Christi Ordum. Himnarike þoler Ofureſle, og þeir sem Ofurefled giøra, hreña þad til sin, Matth. 11, v. 12. Og þu sem þetta les, ser sialfur, ad allfáer eru þeir sem bruka Ofrike til ad iñtaka Himeneñ, þá fær þu heraf vel skiled ad Tala Utvalldra mune litel vera. First þeir einasta, sem Guds Ande leider eru Guds Børn. Rom. 8, v. 14. Eñ fæster láta þo H. Anda stiorna ser, helldur má Gud klaga yfer-Flestum: Mañeskian vill ecke láta sig straffa af minum Anda, Gen. 6, v. 3. þá er liost, ad Fæster verde holpner. Heyre þeir einasta Christo til sem krossfesta sitt Holld med Gyrndum og Tilhneigingum; Gal. 5, v. 24. Eñ Flester fylgia sinum vondu Gyrndum og Lystingum, þá þarf nærre þvi ecke fleire Rokþartil ad fœra, ad Allfáer iñgáange i Himeniñ.

Jnn=

Jñgaange ei aller i Guds Rike sem seigia til Christum, Herra, Herra! helldur þeir einasta sem giøra Vilia hans Fødurs i Himnenum. Matth. 7, v. 21. Hvarfyrer getur þa christeñ Madur efast uñ ad aulitil se Tala hiña Saaluholpnu? hellst af þvi hañ ser, ad Fæster giora Vilia þess himneska Fodursens, eñ flester eru Muñchristner og ydel Hræsnarar. Seu þeir einasta Guds Børn sem varast ad syndga, og elska siñ Naaunga med Hreinlinde, sem Johañes seiger: Þaraf eru auglios Guds Børn og Diøfulsens Børn; Hver hañ eie giører Rettvisena, hañ er ei af Gude, og hver ei elskar siñ Brodur. 1 Joh. 3, v. 10. Og samt eru þeir faaer sem leitast vid ad giora rett fyrer Gude, og elska siñ Naaunga af Hiarta, ofta og uña honum alls Gods, og giora honum allt vel til af Kiærleika, hverhellst sem hañ kañ ad vera; Hver er sa ecke maa þaraf dæma ad Utvallder seu faaer? Hvad visar Paulus añad, eñ ad faaer hiαlpest, med þvi hañ seiger: Eige eru marger Spekingiar epter Holldenu, ei marger volldugar, ei marger edalborner kallader. 1 Cor. 1, v. 26. Þecke Christur þa einasta fyrer sina Saude sem heyra hans Rodd, og fylgia hans Ordum, sosem hañ seiger: Miner Sauder heyra mina Rødd, eg þecke þa, og þeir fylgia mer epter, Joh. 10, v. 27. Þa er þeirra Tala litil sem heyra Christi Rodd i hans Orde, og fylgia þvi sem hañ bydur þeim, þaraf hlytur þa ad fylgia, ad litil se Tala Utvalldra. Epter þvi eingeñ kañ holpeñ ad verda, og sia Guds Auglit, aañ sañrar Helgunar, sem Paulus seiger: Epterfylged Helguneñe, aañ hverrar eingeñ kañ Drotteñ ad sia. Ebr. 12, v. 14. og þo siñast, þvi midur, faaer

sem leita epter Helguneñe, þa verda lika faer holpner, og fa ad sia Guds Auglite. Medþvi þeir einer eru utvallder, og af Gude fædder, sem yferviña Heimeñ, so sem Johañes seiger: Allt þad af Gude er fædt, þad yferviñur Heimen 1 Joh. 5, v. 4. og fæster yferviña Heimeñ, og motstrida þvi Illa, eñ flester hallda med Heimenum og hegda sier lika sem Heimsens Born. Hver vill þa ei trua þvi ad hiñ minste Hlute verde holpeñ; nær þeir verda ecke aller holpner sem biria vel siñ Christeñdom, helldur þeir alleina sem blifa stoduger i hañs Framhallde sem Paulus seiger: Vite þer ecke, ad þeir sem Skeided hlaupa, þad þeir aller hlaupa, eñ eirn er sa sem Snoffed tekur. 1 Cor. 9, v. 24; eñ fæster giora sier miked Omak fyrer ad na Hnoffe þess eilifa Lifs, edur keppast epter ad iñgaunga um hid þraungva Hlided til Saluhiaalpareñar, helldur eru flester gaalauser, aahyggiulauser, leidendafuller, ugglauser, later og seinfærer i þvi sama; þa kañ ad visu eingeñ þarum ad efast ad fæster verde holpner, eñ flester fordæmder. First marger leita til Hunins, og ætla ei añad, eñ þeir fyrer vist verde holpner, eñ tortinast þo samt, so sem Christus utþryckelega seiger: Marger munu, þad seige eg ydur, sækia til þar iñ ad gaunga, og fa ei gietad, sosem vor Texti hliodar, Luc. 13. v. 24. eñ fæster sækia þangad med þvi ad aastunda gott ad giora; eñ flester þar a mote, laata sier gleimast ad huxa fyrer þvi Eilifa, helldur elska Heimeñ, Fysn Holldsens, Fysn Augnaña og dramblsamt Liferne, 1 Joh. 2, v. 36. sem ecke er af þeim Himneska Fodur, helldur af Heimenum, eru hverke kallder ne heiter, helldur volger i þeirra Christeñdome, og hafa einga Alvorugefne ad giora

þad

þad Gott er, eda auka ser Omak til ad naa Saaluhiaalpeñe, Apoc. 3, v. 16. helldur leggiast i verralldlegar Lystingar, lifa i Uggleyse, og meina Heimureñ stande samt opeñ fyrer þeim. Hver maa utaf þessu Astande efast um̃, ad saa minste Hlute Maña hiaalpest, eñ þeirra stærste Hopur glatest; Þetta er þad sem giorer Fortapadra Tolu stora, eñ Utvalldra litla. Til ad utmaala þetta fyrer ser, let eirn Madur uppmaala dyrdlegañ og agiætañ Kastala standande aa haasu Biarge, um̃ hvern laa mikill Stridsher, af hveriumm faeiner Meñ hofdu Striga i Hondum, buner til Atlogu, eñ flester leitudu ser epterlætis, i kringumliggiande fogru Skogar og Graslende, edur laau og svaasu medal Blomstraña, med þessare Yferskrift. Fæster gefa um̃ Kastalann.

§. 3.

Þike þer gode Lesare þessar auglioſar Greiner H. Ritningar, ecke nægia til Vitnis þar um̃, ad miog litell Hlute Maña verde holpeñ, þaa vil eg leida þer fyrer Sioner, einar og adrar Fyrermyndaner, sem viisa ad Tala þeirra Fromu og Utvolldu se litel. Þegar Gud straffade þaa firstu Verolld, og i þeñe morg hundrad þusund Maña med Sindaflodenu, fundust ecke fleyre eñ aatta Saaler rettlaatar, sem frelsudust, Gen. 7, v. 13. Þetta fyrermindar þad, ad marger eru kallader, eñ faaer utvallder. Þegar Drotteñ let rigna yfer Borgernar Sodoma og Gommora Ellde og Breñesteine af Himne, og um̃hverfde þeim Stodum, med ollu þvi Herade og ollum Iñbiggurum Stadaña, og ollu þvi sem i Landenu vaxed var, þaa komust ecke af fleire eñ fiorar Mañeskiur, og eirn þeirra misste þo Lifed, sem var Kona Loths, er leit aptur aabak,

og

og vard ad Salltstolpa, Gen. 19, v. 24. 25. 26. Þarfyrer skylldum ver þo ei aldeiles kalla hana fordæmda, samt syneft þo ei Christur hafe minst a hana til hins besta, er hañ seiger: Mineft þer a Konu Loths, hver helst sem sæker epter sina Ønd ad forvara, Sa misser hana, og hver helst misser hana, sa hiealpar heñe til Lifsens. Luc. 17, v. 32. 33. Her skilst fyrer Ønd, þad likamlega Lifed. Alt þetta, sem Fyrermind þar uppa, ad marger eru kallader, eñ faaer utvallder. Hugleid þad ad af sex hundrud þusundum vopnfærra Maña, sem Moses leidde ut af Egypta Lande, fyrer utañ otal fiollda Kveña, Barna og Þionustufolks, sem þeim medfylgde, komust ecke nema tveir Meñ, Josua og Caleb, iñ i þid fyrerheitna Landed, Num. 14, v. 30. Ad þetta se Fyrermind þess, ad marger eru kallader, eñ faaer utvallder, þeir sem iñ sa ad gaanga i þad Himneska Canaan, er ecke ad efa; þvi so fœrer Paulus þad frañ, amiñande þa Ebresku med þessum Ordum. Laatum oss nu hrædast, ad ver forsomum ecke þad Fyrerheyt, iñ ad koma til hans Hvilldar og eingeñ vorra epterverde. Ebr. 4, v. 1. Þegar Israels Born, iñtoku Borgena Jericho, epter þad heñar Murvegger hofdu nidurhruned vid þeirra Herop, og ollu þvi i Borgeñe var, hafde vered med Sverds Eggium foreidt, komst eingeñ af med Life, utañ Lausakonañ Rahab, og þeir sem voru i Huse med heñe, Jos. 6, v. 23. Mun þetta ecke vera Fyrermindan til þess ad flester tortinast, eñ fæster hiealpast? Þegar Drottiñ Christus framsette Epterlikinguna uñ Saadmañeñ, sem saade godu Sæde i Akur siñ, hvorsu sumt fell utañ hia Veigenum, sumt i grytta Jord, sumt a medal

Þyrna

Þyrna sem fordiarfadest, eñ sumt i goda Jord sem bar Avoxt, utlagde hañ þad framar fyrer sinum Læresveinum, og synde, ad fæster af þeim sem Guds Ord være predikad, letu sia Avexte þaraf Luc. 8, v. seq. Er þad eckr eñ Fyrermindan uppa þad ad fæster verde saluholpner?

§. 4.

Viler þu hafa fleire lios Rok til þessa ad otal Fiollde Mañaña fortapest, eñ fæer hialpest, þa ihuga hversu morg þusundsiñum þusunder þusunda, vantruader Gydingar, Tyrkiar og Heidingiar eru i Europa, og þo helst i Asia, Africa og America, sem aller i Guds eilifu Rade eru burtskufader fyrer þeirra sifelldrar Vantruar Saker, og fordæmder til eilifs Dauda, epter Guds oapturkallañlegre Alyktan. Hver eige truer hañ skal fordæmast, Marc. 16, v. 16. Og aptur; Hver eige truer hañ er nu þegar dæmdur, þvi hañ trude eige a Nafn eingetens Guds Sonar. Joh 3, v. 18. Yferlegg so hversu oteliañleg Suña þetta verdur, og dæm þaraf hversu fæer mune hialpleger verda! Þeir Lærdu nockrer hafa skipt Heimenum i þria ojafna Hlute, og sagt, ad hañs 18da Hluta bygdu Heidingiar, 7 Tyrkiar, eñ ecke nema 5 Christner, ad tolldum ei einasta Lutheraniskum, helldur asamt med Calviniskum, Papiskum, og odrum fleirum Flockum þeirra er christner kallast, medal hverra allra Þioda, Gydingar eru utdreifder; Hver ser ecki heraf Fæd hiña Utvelldu? Um Einsetumañ nockurn er skrifad, hañ hafe i Sion sed 30000 Saler utfarnar af þeirra Likomum a eirnre Stund koma fram fyrer Guds Dom, af hverium Fiollda ecke hafe nema Tvær iñgeinged i Himeneñ, eñ hinar allar hafe hloted ad heyra Dom Fordæmingareñar;

Þesse

Þesse Fraasaga lytur helst til þess ad syna, hiñ minste Hlute Maña fare til Himens. Være þad nockrum leist, hvad ecke mun ske, ad hañ eina Stund stæde vid Iñgangeñ i Helvite, og sæe hversu mikil Mergd Saalna fære a medañ iñ i Glotunena, þa munde hañ utaf Ognan verda þarvid fraa ser numeñ.

§. 5.

Se su Tid adgiætt a hverre Drotteñ Christus uñgekst i Holldenu, þa var i þær Munder faa adfiña þa, sem medtoku Guds Ord, giordu Ydran, og urdu holpner. Hveria fiñum ver af morgum hundrudum Tollheimtumaña i H. Ritningu, sem sneruft til Christum, og helldu ser stodüglega vid hañ, utañ Matthæum og Zachæum. Matth. 9, v. 9. Luc. 19, v. 9. Hversu marger voru riker a þeirre Tid? Þo lesum ver ecke utañ uñ eirn þeirra, Joseph af Arimathia sem rettelega uñwendte ser til Christum. Matth. 27, v. 57. J þvi stora Raade i Jerusalem voru Raadherrarner 71, hver fanst þo af þeim sem stodugt hellde med Christo, utañ Nicodemus? Hvad morg hundrud, og jafnvel þusund Kaupmaña, voru til a Postulaña Dogum, þo lesum ver ecke ad nockur þeirra hafe medteked Christi Lærdom, utañ Lydia er Purpura sellde. Act. 16, v. 14. Her sest eñþa af, ad hiñ minste Hlute Maña uñwendest rettelega og hiaalpest. J eirnre Kornstodu er alltid fleire Agner, og Hyde ad fiña, eñ hrein Korn. Hvad vel sem i Sionum er leitad fiñast þar fleire Sandmolar eñ Perlur, se ein Eyk skodud, siaast a heñe fleyre Laufblod eñ Avexter, so eru allsstadar fleire Iller, sem tapast, eñ Fromer sem hiaalpast. Sa H. Kyrkiu Lærefader Chrysostomus predikade leinge i Antiochia, sem var ein af þeim stærstu Borgum i Austurhaalfs-

uñe,

uñe, hvar iñe voru margar Þusunder Maña sem hañ kende og aminte. Eittsiñ talade hañ i siñe Predikun a Þeñañ Hatt: Hvad marger Borgarar munu her vera, sem Gud hefur iñskrifad i Lifsens Bok? Hvad marger Utvallder meined Þer mune vera i vorum Stad? Hvad marger munu Þar a Nafn nefnder? Hrædelegt er Þad fyrer mig ad Þeinkia til Þess sem eg vil tala? Hrædelegt er fyrer ydur, ad heyra hvad eg ætla ad tala, samt vil eg tala Þad eg Þeinke, samt skulud Þer heyra hvad eg tala. A medal so margra Þusunda kuña varla hundrad ad verda holpner, eg efast uñ ad so marger verde holpner; Þvi hvada Lete sest hia Þeim Gomlu, hvada Illska hia Þeim Ungu? Hvada Varuskapur hia Moñunum; Hvada Ofstækia hia Kviñunum? Hvada Miskunarleise hia Þeim Riku? Hvada Underferle hia Þeim Fatæku? Hvada Hræsne hia Þeim Lærdu? Hvada Smiadur hia Vinufolkenu? Hvada Ofbellde hia Þeim Valldsugu? Hvada Uppsatur hia Þeim Undergefnu ꝛc. Ef sa H. Chrysostomus lite nu aptur iñ i Heimeñ, og horsde a Þad ofstækisfulla og hræsnissulla Liferne hiña Christnu, munde hañ Þa giora miked ur Tolu Þeirra, sem i soddañ Asigkomulagi giætu hialpast? Þañig ser Þu elskulege Lesare, ad ur so morgu Lande, so morgum Borgum og Bænum, og af so otolulega morgum Þusundum Maña sem i Heimenum eru, verdur miog litill Hlute holpeñ: Þarfyrer er Þad storlega naudsynlegt, ad hver eirn keppest epter ad iñgaanga uñ hid Þraungva Hlided, og verda i Þeim litla Hop Utvalldra, epter vors Frelsara Amiñingu.

VII. Capi-



# VII. Capitule.

## Hvad gott Lærdomureñ um̃ Fæd Utvalldra eige ad verka, bæde hia Fromum og Ranglatum.

§. 1.

Marga mœ þa Meñ optlega fiña sem leitast vid ad utdraga af Truareñar Lærdomum sem til Sælubiœlpar eru, bæde naudsynlegar og nytsamlegar, nockud illt, edur vara adra vid ad medtaka þœ, þessvegna; lika fiñast þaug andvaralaus Heimsens Born, sem framrœda odrum ad lesa godar saluhiœlplegar Bækur, og so þaug hafe nockurt Yferskin fyrer ser, seigia þaug, su edur su Bok, su edur su Prediku̅n kañ ad færa Meñ i Orvænting og Orvilnan; eñ þetta er Hreckur hins arga Sathans, hvar med hañ vidleitast ad hallda Moñum i Andvaraleise, þvi hañ veit ad margur sem slikar Bækur hefur lesed, hefur fyrer Guds Nœd slited sig lausañ ur Diofulsins Snorum, i hverium hañ leinge hefur bundeñ leiged, og biriad añad Liferne, og þarfyrer odlast eilifa Sæluhiœlp þarfyrer sæker hañ epter ad vela Medol Sæluhiœlpareñar ur Hondum Maña, af þvi hañ veit, ad ef þeir forsmæe þaug, þœ fara þeir œ mis vid hana.

§. 2.

A vidlikañ Hœtt geingur til med Lærdomiñ um̃ Fæd Utvalldra, ad Heimsens Born misbruka hañ, og meina þaraf leidest Meñ i Vonarleyse, eñ hvar sem slikt reñur i Þanka, hañ þenke helldur med ser ad Sathan er þœ komeñ til ad motstanda honum,

honum, og leida Afvega fra Veigenum til Himens. Þegar Visſugurnar a Summum setiaſt a Jurternar, utdraga þær af þeim hid ſætaſta Hunang, en ſkride Gaunguvoſan edur oñur Eytur-kvikende uppa þær, eikſt þeirra Eytur þvi meir. So fer lika um Lærdomen um Fæd þeirra ſem hiaalpaſt. Jhuge þeir Fromu hañ, nyta þeir ſer hañ til Varudar i ſinu chriſtelegu Framferde; eñ leſe hañ Heimſens Born, ſem hyrdulaus eru um ſina Saaluhiaalp, hæda þaug ad honum, og kaſta honum fra ſer, ſem þvi, er ſturle Meñ, og giore þa vyſſama. Her eiga heima Pauli Ord; Ver erum fyrer Gude en god Ilman i Chriſto, bæde medal þeirra ſem hiaalpaſt, og medal þeirra ſem fortapader verda; Þeſſum Ilmur Daudans til Dauda, enn hinum Ilmur Liffſens til Lifs. 2 Cor. 2, v. 17. 18.

§. 3.

Eñ hvad a Lærdomureñ um Fæd Utvalldra ad virka hia þeim er hañ yfervega? Adureñ hertil er ſvarad, ſkulum ver þad adgiæta, ad þeir ſem bera Tolu þeirra ſaau Utvolldu ſamañ vid Fiolldæ þeirra er fortapaſt, eru añadhvert truader og fromer ſem alvarlega bera Umhyggiu fyrer ſiñe Saaluhiaalp, ellegar Vantruader og Hyrdulauſer, ſem geſa lited um Himeneñ og þad eiliſa; þvi ſo ſem þañ Akur er ecki ad fiña, ſem ecke ver Illgreſe i, medal Hveiteſins, ſo ſinſt ecke helldur ſaa nockur Stadur hvar ecke eru ogudleiger Meñ og Hræsnarar, medal hiña Fromu; Hvert ſem þaa þeſſe Lærdomur verdur leſeñ af Truudum eda Vantruudum, a hañ ſamt ad verka nockud gott.

§. 4.

Sertu, sem þetta les, vandlætur nu̅ þina Sæluhiælp, og keppest epter ad iñgænga u̅m hid þraungva Hlided, þæ æ þesse Lærdomur u̅m Fæd þeirra sem holpner verda, ecke ad fæla þig fra Himensens Veige, miklu helldur æsyssa þig ad fara varlega, og med Kappseme læta þer framfara i þvi Goda, vid þad ættu ecke ad falla i Efaseme, ad fæer verde holpner, helldur upporvast til ad sækia epter Sæluhiælpeñe, med þvi meire Kostgiæfne. Nær eirn Madur kemst ecke hiæ ad ferdast i gegnum þickvañ eyde Skog, og heyrer, ad marger sem u̅m hañ ferdast eru drepner af Næningium, ef þeir hafa ecke godar Giætur æ ser, og fara þæ rettu Leid; þæ ætte þad ecke ad færa hañ i Vantraust, eins og hañ munde ei komast u̅m þañ Veg med Life, helldur giora hañ forsiælañ, giæteñ og athugasamañ ad fara þañ retta Veg, helst af þvi hañ veit fyrerfram̃ ad honum er Hæske bueñ So æ þesse Lærdomur ad giora þig athugasamañ og kostgiæfeñ til ad hafa þvi helldur U̅mhyggiu fyrer, hvernig þu getur klacklaust komest i gegnum þessa Heims Eydemork. Þegar Paulus sette þeim Christnu fyrer Sioner Israelitaña Epterdæme, hverju þeir voru fyrer Saker þeirra motþroañlegra Synda i Eydemorkeñe nidursleianer, so ei komust fleire eñ tveir af sex hundrud þusundum Maña iñ i þad fyrerheytna Landed, og til Hvilldar; þæ lætur hañ ei þarmed fylgia, ad þeir skule verda efasamer u̅m sina Sæluhiælp, helldur seiger hañ: Lætum oss nu hrædast ad ver forsomum ecke þad Fyrerheyt in ad koma til hans Hvilldar, og eingeñ vor epterverde. Ebr. 4, v. 1.

§. 5.

§. 5.

Eñ sertu, sem þetta les, umhyggiulitill um þína Saaluhiaalp, og hafer þu lifad i Uggleyse og margskins syndsamlegu Athæfe, og geinger so a þeim breida Veige til Helvitis, og Fortepunar-eiñar, þa a þesse Lærdomur ecke ad vera þer til Orvæntingar, helldur ad leida þig af Veiginum til Helvitis, og iñkoma hia þer Otta fyrer ad hallda aafram i Syndaña Vegin; þad aattu med rettu Gude ad þacka, ad hañ fyrer þeñañ Lærdom, helldur þer fra þeim Syndum, i hverium þu hefur hingadtil lifad; Þu hefur Orsøk til þvi kostgiæfelegar ad yfervega, hverstu faaer rata til Himens, so þu leidest af þeim breida Veigenum a þañ mioa Veigeñ. Þad ma biita og naga þina Samvitsku, er þu heyrer hversu marger sækia epter Saaluhiaalpeñe, og fa hana þo ecke, eñ þo þu þeinker lited þar um, og lifer so aafram i Hyrduleyse; þad a ad skelfa þig ad flester fortapast, eñ þu lifer Ugglaus, eins og þeir, og huxer ecke til þess, ad med soddañ Hætte verda þiñ Afelok: su eilifa Fyrerdæming, lika sem þeirra, utañ þu med Flyter leitest ved ad umflya Helvite. Þegar Christus sagde sinum Tilheyrendum fra, hvernig Turneñ i Silo hrapade a 18 Meñ og drap þa fyrer þeirra Synda Saker, bæter hañ þvi ecke vid, ad þeir þaraf falle i Orvænting, helldur ad þeir betre sig, og life ecke i Andvaraleyse, er hañ seiger: Ef þer giøred eige Ydran, munu þer eirnig aller so fyrerfarast. Luc. 18, v. 5.

§. 6.

Þañig ser þu, elskulega Barn! hvartil þesse Lærdomur a ad gagna þer; J Sañleika, marger hafa med Ugg og Otta suued af þeim breida Veige

á hverium þeir hafa merkt sig gánga, strax sem þeir rett hafa yfervegad þañ Lærdom med siálfum sier, ad marger eru kallader, eñ fáer utvallder, lika sem þeir heyrde Hloomeñ af Domsens Básunu. Hvad mun þvi vallda ad margur Ogudleguꝛ skipter bráðlega uñ sitt illa Athæfe, og biriar H. Frañferde, añad eñ þad, hañ yfervegar þad fáer verde holpner? Hvad mun koma til þess, ad marger Vollduger hafa aflagt sitt Grimdaræde, marger Riiker snued sinu Hiarta frá jardneskum Hlutum, og marger Sællifer slept sinum Vellystingum? Þad þeir hafa ihugad ad fáer yrde holpner. Hvad hefur bored til þess ad marger hafa uppvaknad af sinum Hræsnis Svefne, og orded vandláter uñ Christelegt Frañferde? Lærdomureñ uñ Fæd Utvalldra hefur þá þartil knued. Hvad er Orsok til þess ad margar þusunder hafa viliuglega gefed sig under allskins Kross og Motgáng i Heimenum, og þolad stærstu Forsmán og Offokner? So ad þeir hafa giarnañ viliad vera i Tolu þeirra fáu Utvölldu og Holpnu. So kroptuga Verkan kañ þesse Lærdomur ad hafa medal Mañaña; so hefur ein einsomul Grein H. Ritningar þañ Krapt, ad vid hana uñvendast Meñ strax og taka Siñaskipte. Ruffinus i Lifsogu Fedraña seiger frá einum ogudlegum Sællifis Mañe, ad þá heñ eitt siñ var komeñ i Kyrkiuna, og jafnsnart heyrde þesse Ord leseñ; Þvoed ydur, hreinsed ydur, taked ydar Illsku breitne i burt frá minum Augum, láted af Illu, og læred Gott ad giøra, leited epter Rettenum, hiálped hinum Nidurþryckta, láted hinn Fødurlausa rett ske, og styrked Ekkiunnar Málesne, komed þá og eigunstLøg vid seiger Drotteñ; Þoad ydar Synder seu raudar sem

Blod, þa skulu þær snioohvitar verda, og þo þær seu raudar sem Roos, þa skulu þær verda hvitar sem Ull. Es. 1, v. 16. 17. 18. Hafe hañ strax orded olikur sialfum ser, breitt sinu ogudlega Frañferde, og teked ad lifa gudléga. Uñ hiñ H. Augustinum er kuñugt, ad hañ snerest vid þaug Ord, sem hañ hitte af Hendingu, er hañ flette Bibliuñe, og so hlioda: Nottenn er umlidenn, enn Dagurenn tekur ad nálgast, leggium þvi af Verk Myrkranna, og iskrydunst Herskruda Liossens, látum oss gánga sidsamlega so sem a Deige, eige i Ofáte ne Ofdryckiu, eige i Legu-Kofum og Munadarlife, eige i Þráttan og Ofundsyke, helldur iklædest þer Drottne Jesu Christo, og ræked Hollded so þad freme ecke sinar Girnder. Rom. 13, v. 12. 13. 14. Þesse Ord hafa orded sem Reidarslag i hans Hiarta, og þreyngt so ad hans Gedsmunum, og hañ tok til ad gráta beisklega og umvendast. Láter þu þad lika gánga þer til Hiarta, ad marger eru kallader, eñ fáer utvallder, þa muntu fiña Snille og Þrek þessa Lærdoms i þinu Hugskote, og þess framar keppast epter ad iñgánga uñ hid þraungva Hlided epter vors Frelsara Amiñingu.





# VIII. Capitule.

## Gud er ecke Skulld i þvi ad fær Meñ verde hoolpner.

§. 1.

Uppä þad eingeñ hindrest, edur stande vid og bilest i siñe Christeñdoms Þdkun vid þad hañ heyrer, ad miög fær verde hoolpner, er naudsinlegt ad syna hvernig Gud hafe einga Skulld i þvi, hvad añars kyñe ad giora freistadañ Mañ rädvilltañ og urrædaleusañ, og færa ugglausañ Mañ i meira Andvaraleise. Seig mer, kiære Vin! Hvernig getur Gud med nockru Moote vered Orsök til þess ad Fäer hiälpest? Jhuga first, hversu þad er Gude ysredmiog motstædelegt ad nockur tapest, helst af þvi þad er Guds H. og orasskañlegur Vili, ad aller take i mote hañs frambodeñe Näad og hiälpest. So sannarlega, sem eg life, seiger hann, sä Drottenn Drottenn, þä hefe eg einga Þocknan ä Dauda hins Ogudlega, helldur þad ad hinn Ogudlege siñe ser fra siñe Breitne, og life: So sñued ydur nu i frä ydvarre Vondskubreitne, hvar fyrer viled þer deya, þer af Huse Jsraels. Ezech. 33, v. 11. Her sver ei einunges sä hæfe Gud, ad so sañarlega sem hañ er almättugur og sañur Gud yfer Himne og Jordu, so se þad vissulega hans Vile ad aller Meñ verde holpner, og eingeñ af þeim glatest; helldur klagar hañ eirnig yfer þvi ad Meñerner vile ecke medtaka hans Näad, og þad meyra er, hañ ängrast yfer þeim sem i þeirra Syndum fyrerfarast, og kallar medaumkunarsamlega til þeirra.

þeirra. Hvar fyrer viled þer deya; sem villde hañ seigia: Þer hafed aungva Orsok til ad hlaupa ofañi Glotunena. O Langlundarged yfer allt Langlundarged! O Blidlynde yfer allt Blidlynde! Þad er sem hañ beide Syndarana, ad þeir snue sier og take i mote hans Nad. Snu þer þu hin framfallna Israel, seiger Drotteñ, þa vil eg ecke læta mina Reide koma yfer ydur, þvi ad eg er miskunsamur, seiger Drotteñ, og vil ecke reidast æfennlega; Vidurkenn þu ad eins þiñ Misgiörning, ad þu hafer syndgast a mote Drottne Gude þinum. Jer. 3, v. 7. 8. Hverninig kañ Gud ad vera Orsok til margra Mañа Foreidingar, er Christus eirnig i Nya Testamentenu geingur berlega fram og seiger: Komed til min aller þer sem erfided, og Þunga eru hladner, eg vil endurnæra ydur. Matth. 11, v. 28. Yfer þvi, hvad hañ eñ framar giorer, meiga Meñ undrast. Hañ lætur biooda og naudga Moñunum til ad taka a mote siñe Nad. Fared, heiter þad uñ hvern eirn Huds Þioon, ut a Þioodbrauter og Tungarda, og naudged þeim her inn ad koma. Luc. 14, v, 23. Hver Kongur eda valldstoor Herra munde so giora vid sina uppþlaupsfama Undersata? Paulus giorde slikt epter Guds Bode, og saade uñ sig, og alla Christi Þioona. Ver erum Sendebodar i Christi Stad, þviad Gud aminner fyrer oss, þarfyrer bidium ver ydur i Christi Stad, lated forlyka ydur vid Gud: Cor. 5, v. 20, Hver skyllde, sem þetta yfervegar, geta giort sier Þanka uñ ad Gud være Orsok til þess ad saner hialpast.

§. 2.

Ihuga framar hvörsu Gud Fader af hiartanlegum og ogripanlegum Kiærleika gaf sin kiærasta, og af sine Guddomlegu Veru fra eilifd eingetna Son, ut fyrer allan Heimen, uppa þad han skyllde verda rettlætur og hölpen. O Kiærleika yfer allan Kiærleika! Jacob hafde fordum 12 Syne, þo villde han ecke huggast læta, er honum var sagt ad Joseph, eirn þeirra, være daudur, Gen. 17, v. 15. En Gud lagde þad a sitt Hiarta ad utgefa sin Son, af sine Guddoms Veru, sæddan, til Krossens Dauda. Nær eg þetta yfervega, bilast min Skilningur og Þeinkakraptur, og min Tunga loder vid min Gom, þa eg vil utmæla soddan Guds Kiærleika. Þad er nærre þvi sem Christus sialfur undrest þar yfer, þar han seiger: So elskade Gud Heimenn, ad hann utgaf sin eingetenn Son. Joh. 3, v. 16. Ecki einunges het Gud ad utgefa sin Son ollum til endurlausnar, helldur kom lika Christus, sa hættlofade Guds Son i þenan Heim, sosem þad var i Rade þeirrar H. Guddomsens Þrenningar fra Eilifd alyktad, og endurleyste alla Men, ei einasta þa sem þa voru fædder, helldur eirnig alla þa sem fædast skylldu, allt til Heimsins Enda, eirn og serhvern, ad eingum undanteknum; Þvi Drottenn lagde allar vorar Synder uppa han, Es. 51, v. 9. Johannes Skirare geck fram og sagde openberlega: Siaed þad er þad Lambed Guds, hverted ber Heimsens Synder. Joh. 1, v. 29. Paulus vitnar lika a þenan Hatt, seigiande um Christum: Hann er Frelsare allra Manna 1 Tim. 4, v. 10. Þarfyrer er eingen Heidinge, eingen Tyrke, eingen Gydingur, og eingen Christen til, ne hefur vered

eige helldur mun verda, i hvers Stad Christus hefur ecke geinged, og Straffed utstaded, bæde a sinum H. Likama, og sine H. Saalu, og han endurleyst fra Synd, Dauda og Helvite, hverke med Gulle ne Silfre, helldur med sinu H. og dyrmæta Blode, og med sinum saklausa Dauda og Pijnu, ecke helldur fyrer Hafra Blod ne Kalfa, helldur er han fyrer sitt eiged Blod eitt sin inngeingen i hid Heilaga, og fan eilifa Endurlausn. Ebr. 9, v. 12. hveriu han einig hafde heited i Gamla Testamentenu med þessum Ordum: Eg vil leysa þa af Helvite, og frelsa þa fra Daudanum, Daude eg vil vera þin Olifjan, Helvite eg vil vera þin Drepsott. Hos. 13, v. 14. Eingen Synd kan ad uppþeinkiast hveria Christus hefur ecke bored; Eingan Syndara er ad finna i þeirre vijdu Verolldu, hversu stor og vidurstiggelegur han kan ad vera, og hvorsu margar og vidbiodslegar Synder han kan ad hafa giort, ad Christus hafe ecke utlagt fulla Borgun fyrer han, endurleyst han med sinum harda Dauda, og utvegad honum Himnarike, og eilifa Saaluhialp; Han er Forlikun fyrer vorar Synder, eige einasta fyrer vorar, helldur eirnig fyrer allrar Verolldarennar. 1 Joh. 2, v. 2. Þad er sem Paulus seiger, Han hefur Daudan mattlausan giort, en Lifed og Odaudlegleikan i Lios leidt fyrer Evangilium. 2 Tim. 1, v. 10. Christus kallade og mædur en han uppgaf sin Anda, og sagde: Þad er fullkomnad, og ad hneigdu Hofde, uppgaf han sin Anda. Joh. 19, v. 30. sem villde han seigia; Nu er allt Mankined fullkomlega endurleyst, Guds Reide i Forlikun snuen, Himnarike opnad, og einum og serhverium Saaluhialpen

 afrekud;

afrekud; So ser þu ad Christus er ecke helldur Skulld i þvi ad sæer Meñ hiælpest first hañ hefur alla endurleyst, og med siñe Piuu Sæluhiælpena þeim forþenad. Þad medkeñer þu eirnig i añare Grein Truarjætningareñar seigiande, Eg true ad Jesus Christus se miñ Drotteñ, sem mig fordæmdañ og glatadañ Mañ hefur endurleyst og frelsad fra øllum Syndum, Daudanum og Diøfulsens Vallde, eige med Gulle ne Silfre, helldur med sinu H. dyrmæta Blode, og med sinum saklausa Dauda og Pynu.

§. 3.

Ihuga tokſens, hverſu Gud hiñ Almaattuge, lætur þetta kuñgiora ollum Heime, ad Christus hefur ollum Rad utvegad, og gefur þeim Fullvissu uñ Himnarike, og Sæluhiælpena, vile þeir tileigna ser hana med sañre Tru; og þessa Rad framm bydur Gud þeim so leinge, sem þar kallast i Dag, þad er so leinge sem þerr lifa, og draga Andañ, kallande þa med siñu Orde, og vill þeir skule þad medtaka og hiælpast. Strax sem Christus var i Heimeñ boreñ, kom Drottens Eingill fram til Fiarhyrdaraña a Morkeñr, under beruu Himne, og sagde: Siaed, eg boda ydur mikeñ Føgnud pañ er sker øllu Folke Luc. 2, v. 10. Strax sem Christus var fra Daudanum uppriseñ, ad fullkomnudu þvi stora Endurlausnar Verke, baud hañ sinum Postulum ad fara i kring og kuñgiora þetta uñ allañ Heimeñ, seigiande: Fared ut uñ allañ Heimeñ, og prediked Evangelium allre Skepnu; Hver sem truer og verdur skyrdur, sa skal holpeñ verda, Marc. 16, v. 15. 16. Þvi til þess pyndest og do Christus, ad þad skyllde ollum kuñgiorast, so aller feinge Nadena odlast;

So

So byriade Christo ad lyda, og upp ad rysa a pridia Deige af Dauda, og predika lata i sinu Nafne, Jdran og Syndaúa Fyrergefning a medal allra Pioda, Luc. 24, v. 46. 47. Sosem þetta Hiálpradis Ord er eirnig utgeinged umm allann Heim, þvi Postularner epter Christi Bode hafa þad allstadar kunngiort; Sannarlega er þeirra Hliomur utgeingenn umm øll Lønd, og þeirra Ord umm alla Verølld, Rom. 10, v. 18. Og Gud vill ad aller medtake þetta Lyfsens Ord og hiálpest; þvi þad er þad Medal sem Gud hefur sett til þess, ad hver sem brukar þad a rettann Hatt sem fyrer er settur, verde holpenn, so sem skrifad er; Evangelium er Kraptur Guds sem hiálplega giører alla þa sem trua. Rom. 1, v. 16. Og Christus seiger; Sæler eru þeir sem heyra Guds Ord, og vardveita þad; Luc. 11. v. 28. Fyrer þetta sáluhiálplega Ord vill H. Ande verka, ummvenda Monnunum, og þa hiálplega giora, lika sem hann alla christna Menn a Jordu kallar, samannsafnar, upplyser, helgar og i rettre Tru a Christum vardveiter; Med þvi Sáluhiálpareññar Medal er eirnig almennt gefed, hvernig kann þa Gud ad vera Orsok þartil, ad hinn minste Hlute Mannanna hiálpest? Ef eirn Læknir hefde 10 daudsiuka Menn under Hende alla liggiande i einu Huse, og formerkte, þa hann vitiade þeirra ad þeir hefdu aller einslags Siukdom, og sette þeim ollum fyrer einslags Læknis Medal, fyrerseigiande þeim hvernig þeir skylldu þad bruka, hvad þad verkade, og a hvern Hatt, og ser eda sio af þeim a medann mistu Lyfed, enn hiner yrdu heiler; Hver kynne þa med Rette ad seigia, Læknerenn være sekur i þeirra Dauda, eda hefde ecke viliad ad þeim ollum batnade?

nade? Vist kynne einginn skinsamur Madur ad gefa Læknaranum Sök a þvi, og giorde þad nockur, þa giorde hann honum mikenn Orett. Ef eirn Jurtagards Madur plantade till eda fleire Tre, i sinum Alldenngarde, ræktade og verkade þaug öll vel, med godre Hyrtne, enn þo uppvisnudu flest af þeim; Hvor kynne ad gefa honum þad ad Sok ad þaug være uppþornud, og seigia þad hefde ecke vered hans Vilie ad þaug oll uppvyxe, helldur mætte hver eirn dæma af Jurtagardsmannsens Kostgiæfne, hann hefde giarnann viliad ad oll Tre þesse hefde orded honum til Nota, og fært Avoxt. So kann Gud ecke helldur vera Skulld i þvi ad flester Menn tapest, enn fæster hiealpest, þvi hann hefur alla elskad, og sett hverium sem einum Medal til ad fa Sæluhiealpena; Gud Fader hefur elskad allann Heimenn, og gefed honum sinn Son til þess, hann være allra Manna Frelsare; Guds Sonur hefur alla Menn endurleyst og offrad sinu Life og Blode fyrer þa; Gud H. Ande kallar alla Menn, frammbiodande þeim Himnarike og Sæluhiealpena i sinu Orde, og vill giarnann ummvenda þeim og giora þa holpna. J stuttu Male: **Gud vill ad aller Menn verde sæluholpner, og til Sannleiksins Vidurkenningar komest.** 1 Tim. 2, v. 4. Hver vill þa lata ser i Hug koma ad Gud se Orsok til þess ad flester fortapest? Þad gior einginn, helldur hitt, ad Mennerner eru siallfer Orsok til þess, er ver sem faum ad heyra, fyrer þad þeir fylgia ecke Christi Radum, og keppast epter ad inngannga umm hid þraungva Hlided til eilifs Lifs; Lika sem Solenn lyser einum og serhverium, so upprennur eirnig ollum Mannesk'um Guds Nad i Christo. **Heilsusamleg Nad Guds er auglióst øllum Mønnum.** Tit. 2, v. 11. Eirn

guds-

gudlegur Madur, sem villde asmæla Guds almeñe-legu Nad sem øllum Meñum er frambodeñ i Christo, mælade hia Almeñings Veige eina Upp-sprettu, er eins og Buna stod upp i Lopted ur harfu Biarge, med þessare Yfferskript: Eg stend øllum opiñ. Þetta er þad sem Christus kallar seigiande: Ef nockurn þyrster, kome hañ til min og drecke, Joh. 7, v. 37. Komed til miñ aller þer sem erfided, og Þunga erud hladner, eg vil endur-næra ydur, Matth. 11, v. 18. Og Esajas: Nu vel, aller þer sem þyrster erud, komed til Vatn-sens, Es. 55, v. 1. Þañig ser hver eirn, ad Skullden er eige hia Gude til þess ad fæer hiæl-pest, þvi hañ lætur eckert vanta af siñe Hende, sem naudsynlegt er til Mañaña Sæluhiælpar. Lat-um oss þarfyrer framar rañsaka hvad flestra Sæluhiælp mun vera til Hindrunar.

# IX. Capitule.

## Meñerner eru siælfer Orsøk til þess ad flester fortapast.

§. 1.

Med þvi ecke er ad fiña Orsøkena hiá Gude Fodur til þess ad marger fortapest, þvi hañ hefur elskad allañ Heimeñ, og tilsett Medaled, vid hvert aller geta hiælpast, ecke helldur hiá Guds Syne, sem fullkomlega hefur alla endurleyst, og af-rekad þeim Hımeniñ, hvar fyrer eingeñ er uteluk-tur; Ecke helldur hiá H. Anda, sem giarnañ vill upplysa alla Meñ, og umvenda þeim, ef þeir villdu

þad

þad þiggia, ei helldur i þeim tilſettu Medolum, med hverium Saalahialpeñe verdur nææd, þvi bæde eru Jaug almeñeleg fyrer hvern eirn, og lika nog kroptug til Saaluhiaalpar, þar fyrer meigum ver ſkignaſt um̃ kring, hvar Skullden̄ nuune vera. Þegar Solen̄ er uppe aa vorum Siondeilldarhring, og ver ſiaaum þo ecke heñar geiſla, þar til hlitur ein-hver Orſok ad vera, þvi añars er þad omotmælanlegt, ad ver ſæum heñar Lioma; Þarfyrer eru añadhvert Skyeñ edᴀ Þokañ Orſok þar til, ſem byrgia heñar Skin fyrer oſs, ellegar Tungled hefur geinged fyrer hana, ſem ſkedur i heñar Formyrkvan; Se Hveitekorne ſaad i Akur, og þad ver þaa ecke upp, og vitañlegt er, ad þad var gott, þaa hlytur Orſoken̄ til þeſs ad koma añarsſtadar fraa, añad-hvert af Jardarlægenu, edur Vedurlægenu, edur odru, ſo ſem Vanrækt. Firſt Skullden̄ er ecke hiaa Gude, ne tilſettum Medolum, hvarfyrer faaer hiaalpaſt, og þo fortapaſt fleſter; þaa verdur þartil ad vera oñur Orſok. Eirn Madur er villde ſyna ad ſkullden̄ til Mañaña Topunar være ecke hiaa Gude, let maala ſtyrndañ Himen, i hverium var ad ſiaa ſumar Siornurnar lyſande, eñ ſumar myrkvar, med þeſſare Yfirſkript: **Ecke er Mismunuren̄ af Soluñe.** Hvar med hañ villde merkiaſt laata, þad være ecke Soleñe ad keña, ad ſumar Stiornurnar være myrkvar, helldur klæme þad af þeim ſialfum, ſo være Gud ecke helldur Sok i Mañaña Topun, helldur kiæme þeir þvi ſiaalfer til vegar ad þeir fyrerfæruſt.

§. 2.

Þar fyrer er þad Mañaña eigeñ Skulld ad þeir hiaalpaſt ecke, fyrer þad þeir þeckia ecke Guds ſtooru fram̃bodnu Nææd, og medtaka hana ecke med

Þack-

Þacklæte. Vist maa þad heita Guds stora Naad, sem Mönnunum er bodenn. Þenke Madur, hafe hann med einhverium Glæp, broted af sier Lifed, og være sa Domur fyrer Rette yfer hann geingenn, ad hans Likame skillde allur klypast med gloande Taungum, og sidann lifande a Baale brennast, enn Kongurenn aumkadest yfer honum, soddann ódaudamanne, og af Konunglegre Naad giæfe honum Lifed, seig mer, hver giæte neitad þvi, ad þad være stor Naad? Hvad skulum ver þa seigia umm Mennena? Aller Menn hafa sem Odaudamenn syndgad a mote Guds hæsu Hatign, og broted af sier Lifed, og leidt yfer sig Guds rettvisann Dom, ad þeir skule fra Gude eilijlega utsnarader, kveliast i þvi Dyke sem vellur af Ellde oa Brennesteine, og þad ecke umm eina Stund, eirn Dag, eina Viku, eirn Maanud, eitt Ar, ecke umm hundrad Ar, þusund Ar, helldur umm alla Eilifd, þvi Reykur þeirra Pijsla mun uppstiga fra Eilifd til Eilifdar, og þeir hafa eige neina Hvilld Dag og Nott. Apoc. 14, v. 11. Gyrnest nockur ad heyra Guds Dom, sem assagdur var i þvi Guddomlega Raade og Adam auglistur, þa hliodar hann so: A hverium Deige sem þu etur af þvi forbodna Tre, þa skalltu Dauda deya. Gen. 2, v. 17. Fyrer þvi Adam, og i honum aller Menn hafa forgriped sig a mote Guds Hatign; þa eiga þeir aller, ad einaum undanteknum, epter þessum Guds rettvisa Dome ad deya þeim eilifa Dauda og fordæmast. Enn heyr þo, O! Naad yfer alla Naad! Gud miskunar sig yfer allra Manna Eimdarhag, og af hærre konglegre Naad gefur þeim Lifed; Hver fær utgrundad þennann hans grunnlausa Kiærleika? Enn hygg ad hvad flester Menn giora! O Blindne yfer alla Blindne! Himeneñ

eneñ mæ næsta skielfast þar vid; Þeir vilia ecke vidurkeña þessa Guds oforþentu Naad, helldur forsmaa þeir hana, hrinda heñe og spirna fra ser med Hondum og Fotum, og eru so siaalfer Orsok til þess ad þeir ad Eilifu, jaa, ad Eilifu, fortapast. Viled þer hafa Vitnesburd H. Ritningar um þetta, þaa heyred hvad Gud seiger til sins Folks Israel; Þu kemur þer i Olucku. Hos. 13, v. 9. Þer komed ydur siaalfer i Olucku, Es. 3, v. 9. Heyred hvad Christus seiger til Jerusalem; Hversu opt hef eg viliad samañsafna Børnum þinum, lika sem Hænañ safnar Ungum sinum under Vængi sér, og þer hafed eige viliad, Matth. 23, v. 37. Heyred hvad Paulus og Barnabas sogdu til Safnadarens i Antiochia; Þad byriade ad ydur skillde Guds Ord first seigiast, eñ af þvi þer reked þad fraa ydur, og hallded ydur siaalfa Eilifs Lifs Omaklega, siaaed; þaa snuum ver oss til Heidheña Þioda, Act. 13, v. 46. Siaaed þer nu ecke, ad Meñerner eru siaalfer Orsok i þeirra Fordæming, af þvi þeir hverke vilia vidurkeña, ne medtaka Guds Naad sem þeim er framboden.

§. 3.

Eg efast um ad sæ se nockur til i Heimenum, sem ecke vile giarnañ heyra talad um Guds Naad, sem ollum er framboden, nær þeim sama er hotad ad hañ skule tapast; Eñ þad er añad ad heyra talad um Guds Naad, ad hun veitest, og vilia giarnañ hafa hana, eñ añad ad medtaka hana rettelega, sosem Gud utheimter; og vidurkeña hana med Þacklæte. Ad visu er þar eingeñ Efe a, ad aller vilia Guds Naad odlast, eñ ecke vilia aller medtaka hana rettelega, so sem Gud hefur fyrer-skiled.

skiled. Ef eitt Land edur Borg tæke til Vopna, og verdest i mote sinum Konge edur hæfu Yfervallde, eñ Kongureñ, þo hañ hefde Walld i Hende ser, og miked Herlid bued til Bardaga, so hønum være hægt ad leggia þessa sina fræfollnu Undersæta vid Velle, lete samt utgæanga almeñelegt Fridarbod, og here ad gefa þeim øllum Lif, ef þeir villdu leggia nidur Vopneñ, og hætta ad beriast, og villdu þæ Undersæatarner ad soñu hafa Kongsens Raad, eñ þo ecke hætta Stirislldeñe, þo Kongureñ hefde þeim med soddañ Skilmæala Raad heited. Seig mer, munu þeir med soddañ Hætte niota Kongsens Rædar, eda mun ecke rettara, þo þeim være Rææd heited, ad med þæ se fared sem Upphlaupsmeñ, og þeir seu af Dogum rædner? Hver sem heille Skinsemd er giæddur, kañ heraf audvelldlega ad sia, hvarfyrer aller verda ecke nædader, þo Gud hafe þeim Rædena frambodeds. Ad soñu hefur Gud ollum Rædeñe heited, þo ecke se hañ þeim um þad skylldugur, samt hefur hañ so tilskickad, ad þeir sem Rædena vilia fæ, skulu afleggia Vopneñ, og strida ecke leingur i mote hønum. Eñ hvad giøra þeir sem motþrooañlega syndga, añad eñ setia sig upp æ mote Guds Hætign, og beriast i mote hønum. Gud hefur læted opeñberlegt Bod utgæanga uñ allañ Heimeñ, þæ hañ utgaf þaug H. Tiu Bodord, epter hveriun aller skulu lifa, og varast þar æ mote ad syndga, vile þeir þæ komast hiæ eilifre Fyrerdæmingu, eñ fyri þvi flester skeita ecke þessu Guds Bode, helldur hallda æfram i þvi af Þverśiñe ad strida, og syndga i mote Gude, er ecke ad undra, þo flester fortapest, og hafe ecke Not af Guds frambodeñe Ræd.

§. 4.

So eg fæe þetta nockud skilmerkelegar utmæls ad fyrer þer minn kiære Vin! þa giæt ad, ef þu fester þitt Hiarta viliande og visvitande, vid hid timanlega, sem Gud hefur þo fyrerboded þer, ellegar ef þu mogiar a mote Gude þinum, þegar ecke geingur allt epter Villd þinne, edur þu vanhelgar Sunnudagenn, og villt ecke heyra a Straffpredikaner, eda þu ert þinum Foreldrum eda Husbændum ohlydenn, eda þu ert reidegiarn, heiptrækenn og hefndargiarn vid þinn Ovin, eda þu lifer i Hoor og Saurlifnadi, eda þu ert stærelatur i Klædburde, eda hefur Ohoof i Mat og Dryck, eda þu lifer i Ofate og ofdrickiu, eda þu svikur þinn Naunga leinelega og med Underhyggiu, nær sem þu fær vidkomed, eda þu baktalar honum og lygur a hann, eda þu umgeingst falsklega med honum, þo hann truie þer vel, og vænte alls Goods af þer, edur fremur þvilikar Synder. Seg mer, hvad giorer þu þa annad enn ad strida igegn Gude þinum, sem allt soddan hefur þer bannad og sem þu træder hans Guddomlegu Bod under Fætur þer? Hvers være þa Skulldenn ef þu yrder eiliflega fordæmdur? Være þad ecke þin Skulld, af þvi þu so motþroannlega forsmaaer Guds Raad, og villt ecke laata af ad setia þig upp a mote þinum Gude; Meg soddann Hætte giorder þu ecke odruvis, enn lika sem þu færer til Fiallsens Sinai, hvar Gud hefur openberlega uppfest þau 10 Bodord, og fyrer Guds allra heilogustu Augsyn rifur þaug ofann og træder þaug under þina Fætur. Hugleid hvernig tilganga munde, fyrer einum Upphlaupsmanne, sem sette sig upp a mote sinum Landsherra, og dyrfdest ad ryfa i sundur hans Skickaner, sem openberlega være uppfestar,

festar, ollum til Eptersionar, seig mer epter þiñe Samvitsku; Hver er þa Skulld i þvi ad flester tapast, eñ fæster hialpast? Serdu þa ecke, viler þu ecke af Motþroa blindur vera, ad ecke Gud, helldur Meñerner eru Orsøk þartil; afþvi þeir vilia ecke keppast epter ad iñganga uñ hid þraungva Hlided.



# X. Capitule.

## Vantrueñ er Hofudorsok til þess ad flester framhallda i Syndunum og fortapast, eñ fæster verda holpner.

§. 1.

Ad señu hefur Guds Sonur med siñe Pinu, og sinum Dauda fullkomlega endurleyst alla Meñ, fra Synd, Dauda, Diofle og Helvite, og med Logmalsins Uppfyllingu afrekad þeim Rettlæted, Himnarike og Saluhialpena, eñ þesse afrekudu Giæde kuña þeir ecke med odru Mote ad eignast, eñ þvi, ad þeir tilegne ser þaug med Truñe. Pad er mer ecke nog, ad eirn gefur mer nockud, nema eg take lika vid þvi, añars stodar þad mig lited. So stodar þad ecke helldur Meñena, ad þad eilifa Lif, sem Christus hefur þeim utveggad, se þeim frambodeñ, nema þeir med Truareñar Hende take vid þvi, og take þad til sin; þarfyrer hefur Gud so tilskickad ad hver sem holpeñ vill verda, skal i sañre Tru tileigna ser, af honum afrekad Rettlæte, og þarmed Saluhialpena; Hver þad ecke giører, og

afrañhelldur i Vantruñe, hañ tekur fra ser med heñe Saluhialpena, og maa i sinum Syndum eiliflega tortynast. Heyr vinsamlege Lesare! þaa Guddomlegu Skickan af H. Ritningu, hvernig Christus vor Frelsare frañfærer hana med þessum Ordum: So elskade Gud Heimeñ, ad hañ gaf ut siñ Eingeteñ Son, til þess ad aller þeir sem a hañ trua fyrerfarest eige, helldur ad þeir hafe eilift Lif; þvi eige sende Gud siñ Son i Heimeñ, ad hañ dæmde Heimeñ, helldur ad Heimureñ frelsest fyrer hañ; Hver a hañ truer dæmest eige, eñ hver hañ eige truer, hañ er nu þegar dæmdur, þvi hañ trude ecke a Nafn eingetins Guds Sonar. Joh. 3, v. 16. 17. 18. Þetta aamaalgade hañ epter sina Uppriſu, þa hañ uñbaud sinum Postulum, og sagde: Fared ut uñ allañ Heimeñ, prediked Evangelium allre Skepnu, Hver sem truer og verdur skirdur, sa skal holpeñ verda, eñ hver eige truer, sa skal fordæmast. Marc. 16, v. 15. 16. Hafa ecke aller Postularner epter Christi Himnafør, visad sinum Tilheyrendum, ad þeir skylldu trua, ef þeir villde verda holpner? Eitt Dæme vil eg leida hertil: Þegar Mirkvastofu-Vordureñ fell til Fota Pauls og Silas og spurde so: Herrar miner! hvad byriar mer ad giøra so eg verde Saluholpeñ? Eñ þeir sogdu: Tru þu a Drotteñ Jesum Christum, so verdur þu hoolpeñ og þitt Hus, Act. 16, v. 30. 31. Þañig er Vantrueñ Hofudorsokeñ til þess ad flester Meñ tapast, og velldur þvi, ad Guds utvegada og frañbodna Naad verdur þeim ecke til Nota. Þetta medkeñum ver i vorum Kirkiusaung.

Hver sem ei truer soddañ Naad,
Sa deyr i Syndum sinum, 2c.

§. 2.

§. 2.

Ad Þu Þess betur skiler ad Vantruen̄ se Hofudorsok til Fordæmingaren̄ar, vil eg framar utskira Þetta fyrer Þer med nockrum Epterlikingum. Lit a eirn siukan̄ Man̄ Sængliggiande, sem eingan̄ sin̄ Lim getur hrært, Þvi allt Blooded er i honum saman̄hlauped, so han̄ liggur fyrer Daudanum, fær han̄ ecke flioota Hiaalp, og Læknaren̄ kemur til hans, færande honum bestu Medol, vid hver morgum hefur vel batnad, en̄ han̄ helldur saman̄ Mun̄enum, og vill Þaug ecke in̄taka, seig mer, Hvers Skulld er Þad Þo han̄ deie? Er han̄ ecke sialfur Orsok i Þvi, first han̄ villde ecke Medolen̄ bruka? Lit a eirn sem fallen̄ er i diupa Gryfiu, fulla af Bleitu, i hveria han̄ er socken̄, so ei tekur upp ur nema Hofuded, og han̄ fær ei an an̄ars Hiaalpar upp ur komest, og einhver verdur var vid han̄ af hans Kalle, aumkast yfer han̄, og kastar nidur til hans Bande, seigiande honum, ad hallda ser fast vid, Þa vile han̄ draga han̄ upp, en̄ han̄ vill ecke taka i Þad, og deyr so, Þar ecke er on̄ur Hiaalpar Von; Hver ma an̄ad seigia med godre Samvitsku, en̄ han̄ være sialfur sekur i Dauda sinum, first han̄ villde ecke hallda i Banded. Hefde Jeremias Spamadur ecke teked i Streingen̄ sem Blamaduren̄ Ebedmelech kastade ofan̄ til hans i Gryfiuna, Þa han̄ var Þar ofan̄i Leirbleituna socken̄, og lagt han̄ under sina Armlegge, so han̄ yrde uppdreigen̄, Þa hefde han̄ Þar af Hungre dæed, Jer. 38, v. 13. Horf a eirn sem til Fanga er teken̄ og i Þrældom keirdur, hafande aungva Utlausnar Von fra Þvi eimdar Life, med Þvi han̄ getur ecke feinged til so stora Peninga Sum̄u sem heimtad er han̄ skule utleggia ser til Lausnar, og eirn Herra-

 Madur

Madur aumkost yfer-hans Eimdarhag, og bydur honum noga Peninga til hans Lausnargialldz, eñ sa Herteknе vill ecke taka i mote þessu Tilbode, og verdur þvi ecke laus gefiñ ur siñe Anaud; Er þad þaa ecke hans Skulld, ad hañ hlitur sidañ i Prældóme vera alla sina Lifstid.

§. 3.

Hver sem ecke vill vera blindur, fær af þessu sed, ad Mañaña Vantru er Orsok til þess ad saaer hiaalpest; A oss ollum liggur sa andlege Siukdomur Syndeñ, ad anngvum fraaskilldum, þvi so heiter þad um alla Meñ: Allersamañ eru þeir sindugег, og hafa Skort aa þeirre Hrosan, sem þeir ætte aa Gude ad hafa, Rom. 3, v. 23. Aller eru þeir fraavikner, og allersamañ hver med odrum onyter ordner, þar er eingeñ sa ed gott giore, og ecke eirn, Ps. 14, v. 3. Ver hofum aller fraa Modurlife, iñflutt med oss Uppruna Syndena i Heimeñ, af hverre oll Mañsens Nattura er iñtekeñ, og gagnspillt, lika sem af Eytre, og geingur oss ei olikt i þessu sem morgu Barne þvi iafnañ er siukt, og hefur haft siukañ Likama fraa Modurlife. Saa er eñ ecke fæddur ad Christo undañteknum, sem ecke þurfe ad klaga med David. Sia du, af syndsamlegu Sæde er eg getеñ, og i Sind gat mig miñ Moder. Ps. 51, v. 7. Med þvi ver aller hofum þeñañ andlega Siukdom, eñ fæster af oss leita Jesu heilogu Forþenustu, sem er þad eina duglega Medal, mote Synd og Fordæmingu, og bruka þad Saaluñe til Lækningar, þaa orsaka þeir ser þad med þeirra Vantru, ad þeir fyrerfarast og deia i þeirra Syndum, þvi Verdlaun Syndareñar er Daudeñ, Rom. 6, v. 23. So sagde eirnig Drotteñ Jesus til þeirra vantrudu

truudu Gidinga, sem ecke villdu hañ medtaka; Ef þer trued eige ad eg se hañ, þá munu þer deia i ydrum Syndum, Joh. 8, v. 24. So erum ver lika aller samañsallner diupt nidur i Syndena, og soddañ Eimdarstand, ad ver hofum siálfer eingeñ Urræde oss til Lausnar, helldur má hver eirn klaga med christelegre Kyrkiu.

I Diefuls Flotrum eg fángeñ lá,
Fár Daudans vist eg skyllde, ꝛc.

Upp ur þeirre Eimdar Dyblissu, gátum ver med eingu Mote biargad oss, eñ Gud sende siñ Son i Heimeñ sem ædsta vora Naud, þvi uñ hañ er so sagt; Pu lætur fyrer Blod þins Sáttmála þina Fánga ut af Grisiuñe, hvar eckert Vatn er iñe; Zach. 9, v. 12. Eñ vegna þeis flester vidurkeña ecke þetta sitt andlega Eimdarstand, og leitast ecke vid ad komast ur þvi fyrer þad Medal, sem Gud hefur þartil sett, helldur framhallda i þeirra Vantru og Syndum, þá hliota þeir i þvi sama eilisflega fordiarfader ad liggia, under Guds Reide; þvi hver ecke truer á Soneñ, hañ mun eige siá Lifed, helldur blifur Guds Reide yfer honum. Joh. 3, v. 36. So erum ver eirnig aller fyrer Syndena, under Prældoms Anaud, færder, og ordner Diofulsens hertekner Prælar, Pvi hver Syndena giører, sá er Syndareñar Præll, Joh. 8, v. 34. Og hver Syndena giører, sá er af Dioflenum, 1 Joh. 3, v. 8. Eñ Christus æleit oss i siñe mikille Miskunseme, sem vorum i soddañ Fángelse og andlegum Prældome, og utkeipte og endurleiste oss, ecke med Gulle, helldur med sinu dirmæta Blode, sosem uñ hañ er skrifad, Hañ hefur utvegad Guds Søfnud, med sinu eigeñ Blode. Act. 20, v. 28. Og aptur: Vited

 ad

ad þer eruð ecke með forgeingelegu Gulle edur Silfre endurleyster fra ydar Hegoma Athæfe, epter Fedraña Uppsetninge, helldur með dirmætu Blode Christi sosem hins oflecfada og saklausa Lambs, 1 Pet. 1, v. 18, 19. Eñ þar er, þvi midur. yferklagande, ad fæster vidurkeña þeirra Prældoms Ok, og leita með saññe Tru Lausnargialldsens sem Christus hefur fyrer þa utlagt, berande það fraſi fyrer Gud, eñ flester hrinda þvi fra ser með siñe Vantru; þarfyrer hlioota þeir að blifa i eilifum Prældome i Helvite, þvi epter það þeir hafa her i Heime þetta Lausnargiald fyrerlited, tekur eingeñ þeirra Naud ser til Hiarta að eilifu, og uñ þa vantruudu heiter það so: Þeir hafa einga adra Offrañ framar meir fyrer Syndernar, helldur hrædelega Epterbid Domsens, og þess Vandlætingar sama Ellds, sem Motstandarana svelgia mun. Ebr. 10, v. 26. 27.

§. 4.

Nogu skirlega mattu heraf sia, að Vantrueñ er Orsok til þess að faaer hialpast; þarfyrer, ef þu, sem i Andvaraleyse lifer, fortapast, þa ertu sialfur og þin sifelld Vantru Skulld i þvi; Þu ert hallden af Saalareñar Siukdome, sem er Syndeñ, samt villtu ecke trua, að þu muner þar fyrer eiliflega deya, þvi tryder þu rett, muñder þu leita epter Lækninguñe þer til Heilsubotar. Þu ert i Grifiu Syndaña dotteñ, og i heñe fastur ordeñ, hvar þu munt sockva nidur til Gruña, hallder þu þer ecke fast við Christum, samt villtu ecke trua þin Saal se i Hæiska stodd; þvi tryder þu rett, værer þu ecke i Rooñe firr eñ þu værer komeñ ur þessare Kreppu. Fyrer Syndareñar Saker, ertu Diofulsens Faange, og verdur hans eilifur Præll

i Hel-

fyrer hver hañ vill veita hana, þaug Medol eru Guds H. Ord, og þaug H. Sacramenta. Hvad Bornunum er vidvikiande, þaa faa þaug Trua a Christum a reglulegañ Hatt, i þeire H. Skirn, i hverre Gud hreinsar þaug af ollum Syndum, medtekur þaug fyrer sin Born, og uppreiser vid þaug eirn Nadar-Sattmaala, gefande þeim Fullvissu þar uñ, ad so framt þaug blifa stodug i Truñe, skule þaug erfa eilifa Saluhialp af Nad fyrer Christi Skulld; Uñ þad seiger Paulus: Epter siñe Miskunseme hefur Gud oss hoolpna giort fyrer Endurgetningar Laugena og Endurnyiung H. Anda, hverium hañ hefur uthellt yfer oss, rikuglega fyrer Jesum Christum vorn Lausnara, so ver rettlater yrdum fyrer hans Nad, og Ervingiar eilifs Lifs epter Voneñe, þetta er vissulega Satt. Tit. 3, v. 5. 6. 8. 8. Petrus kallar Skyrnena Sattmaala godrar Samvitsku vid Gud, 1 Petr. 3, v. 21. Christus seiger utþryckelega uñ Borneñ ad þaug true a hañ, Matth. 18, v. 6. og tileignar þeim Himnaryke, er hañ seiger: Leifed Bornunum til min ad koma og bañed þeim þad eige, þvi ad þvilikra er Guds Ryke, Marc. 10, v. 14. Eñ hvad sem Uppvoxnu vidkemur, sem geta neytt siñar Skinseme, þaa faa þeir þaa saluhialplegu Tru af Guds Orde, fyrerhvert H. Ande kroptuglega verkar i þeim, sem þvi ecke af Þverud motstanda, helldur med Gudrækne, heyra, lesa og yfervega þad, og festa þad ser i Hiarta; þad verkar i þeirra Skilninge saluhialplega Þeckingu, i þeirra Vilia Hungur og Þorsta epter Rettlætenu, og orugt Traust til Guds Nadar i Christo, þvi Evangelium er Kraptur Guds sem hialplega giorer alla þaa sem trua. Rom. 1

 v. 16.

v. 16. Og Trueñ kemur af Heyrneñe, eñ Heyrneñ fyrer Guds Ord, Rom. 10, v. 17. So tileignar Christus Ordenu þañ Krapt ad þad uppkveike Truna, og vidhallde heñe, þa hañ i siñe Bæn til sins Himneska Fødurs seiger: Eg beide ei einasta fyrer þeim, þad er hans Postulum, helldur og eirnig fyrer þeim sem trua munu a mig fyrer þeirra Ord. Joh. 17, v. 20. Þad vitna eirnig auglios Dæme H. Ritningar, ad fyrer Guds Ord veitest Trueñ. Fyrerhvad sneruft a einum Deige i Jerusalem 3000 Sæler, og urdu truadar? Fyrer Guds Ord og Petri Predikun, þvi so stendur þar: Eñ er þeir høfdu þetta heyrt, geck þad i gegnum þeirra Hiarta, og þeir sem fuser medtoku hans Ord, letu sig skyra, og þar urdu a þeim Deige vidauknar nær 3000 Sælna Act. 2, v. 37. 41. Fyrer hvad trudu Borgar-Meñerner i Samaria a Gud? Fyrer þad ad þeir gaafu giætur ad þvi sem af Philippo sagdest Act. 8, v. 6. Fyrer hvad feck Lydia Truna, su ed Purpurañ sellde? Fyrer Guds Ord, þvi ad Drotteñ opnade heñar Hiarta, so hun giætte ad þvi sem af Paulo sagdest, Act. 16, v. 14. Þad vitnar eirnig su Ausborgiska Truarjatning, ad Trueñ veitest fyrer Guds Ord, þvi so hlioода heñar Ord; Ad ver kuñum þessa Tru ad ødlast, hefur Gud þartil iñsett þad H. Predikunar Embætte, og gefed Evangelium og Sacramenteñ; þvi fyrer Orded og Sacramenteñ, sem fyrer Medal og Verkfære, veitest og gefst H. Ande, sem tilreider og verkar Truna i Hiørtunum, hvar og a hverium Tima sem Gud vill, i þeim sem heyra Evangelium, Act. 5. Eñ vid þad H. Kvolldmaaltidar Sacramentum stirkest og stadfestes

festest Truen̄, sem fyrer Guds Ord er uppkveikt, þvi gefur Christus Samnautnar Mon̄um til Fullvissu um̄ þeirra Synda Fyrergefning, sin̄ Likama under þvi blessada Braude, sem pijndur var fyrer þa, og sitt sana Blood, under þvi blessada Viine, sem a Krossenum var fyrer þa uthellt, sosem hans Jn̄setningar Ord hlioda: Taked og eted, þad er min̄ Likame, sem fyrer Ydur verdur gesin̄, giöred þad i mina Minning. Drecked aller her af, þad er Kaleikur hins Nya Testamentis i minu Bloode, sem fyrer Ydur uthellest, til Fyrergefningar Syndan̄a, Matth. 26. Marc. 14. Luc. 22. 1 Cor. 11.

§. 3.

Þan̄ig er auglioft, ad þad er eigen̄lega Hindranen̄, fyrer hveria marger odlast ecke sana Tru og hialpast, ad þeir medtaka ecke Guds Ord sem þad Medal, med hveriu Truen̄ veitest; helldur fyrerliita þad og burtkasta þvi. Hver er Orsok til þess ad eingen̄ Heidinge, Tyrke ne Gydingur, sær þa son̄u saluhialplegu Tru? Su ad þeir medtaka ecke Orded um̄ Christum, hans Forþenustu Piinu og Dauda, mundu þad ecke helldur, þvi midur, giora, þo þeir feinge ad heyra edur lesa þad, helldur af eigen̄ Vondsku kasta þvi fra ser og ræna sig so sialfa Trun̄e, og eilifu Life. Um̄ þa mꜳ seigia þad Paulus i sin̄e Tid sagde: Ver predikum Christum þan̄ krossfesta, sem er Gydingum Hneixlan, en̄ Grickium Heimska 1 Cor. 1, v. 23. Þeir giora sem Phariſæarner a Christi Tidum, um̄ hveria stendur; Þeir forsmꜳdu Guds Rꜳd i mote sialfum ser. Þetta er lika til Hindrunar hia þeim Christnu, ad margar þusunder fa ecke þa son̄u

Tru.

Tru. Se nu adgiætt, þaa maa siaa, hvad lited þeir giora ur Guds Orde, og hversu miog þeir forsmaa þad. Hverneñ kañ Trueñ hiaa þeim uppkveikiast, sem siallbañ, eda einasta þess i millum heyra aa Ordsens Predikaner? Hvernig kañ hun hiaa þeim ad eflast og vidhalldast, sem hverke lesa, heyra, ne ihuga þad? Hversu marger læta heilar Vikur, og jafnvel Maanude, hiaalida, adur þeir lesa Guds Ord, og þo eg segde Ar, giorde eg ecke ollum Orett. Hvar af skal þaa Trueñ koma? Þeir forsmaa vissulega Guds Ord, sem so litels meta þeirra Saaluhiaalpar Medal, og reka fra ser eilift Lif sem þeim er i Ordinu frambodeð; þeim heyrer þad til er Paulus og Barnabas sogdu til Gydingaña i Antiochia; Þad biriade ad ydur skyllde first Guds Ord seigia, eñ af þvi þer reked þad fra ydur, og hallded ydur siaalfa eilifs Lifs omaklega, siaed, þaa snuum ver oss til heidñna Þioda. Act. 13. v. 46. Þeir siña þad eilifa Lif i Ritningunum, þo vilia þeir ecke lesa þær ne rañsaka, epter þvi sem Christus hefur einum og serhverium boded, Joh. 5, v. 36. Hvern Dag eta þeir og drecka Likamanum til Vidurværis, þo vilia þeir ecke fostra sina aumu Saal aa Guds Orde, helldur læta hana hungra, so hun um sider epter Daudañ bliitur eiliflega ad vanmeagnast, eñ þo Christus hafe boded og sagt: Verked ecke þeirrar Fædu sem forgeingur, helldur þeirrar sem stødug blifur til eilifs Lifs, hveria Mañsens Sonur mun gefa ydur. Joh. 6, v. 27. Hvernig kuña þvilíker Meñ sem lited eda eckert hirda um Guds Ord, og siallbañ lesa, heyra, edur ihuga þad, af Alvoru, eda med godre Samvitsku ad singia.

O Gud veit mer ad Orded þitt,
Alvarlegana Lifed mitt
Af Hiarta halldeð giætc, 2c.

Hvernig kuña þeir ad seigia med David; Løgmaaled þins Muns er mer liufara eñ mørg þusund Sticke Gulls og silfurs. Ps. 119, v. 72, Seige þeir slikt, er þad vissulega Hræsne þvi, þeirra Ord og Verk verda þaa ecke samstemma, þeir meta stundum eirn Dal, jafnvel faa Skilldinga meira eñ eina Predikun eda Lestur Guds Orda, og seigia þo Gull og Silfur se ser okiærra. O Hræsne yfer allq Hræsne! O þær forfæagudu Grafer! þetta maa ecke heita ad keppast epter ad iñgaanga uñ hid þraungva Hlided til eilifs Lifs.

§. 4.

Uppa þad hvereirn sæe betur skiled ad Mañsins Saal getur hverke truad ne hoolpeñ orded nema Guds Ord predikest, heyrest og ihugest, vil eg sina nockrar Samlikingar þar uppa. Skignest þu, kiære Vin, sialfur uñkring i Heimenum, og liitur a alla uppvaxande Hlute, muntu sia ad þeir þurfa jafnañ eitthvad til Vidurværis. Giæt ad sialfum þer, viler þu þroast, hvert þu þarft ecke þeirra Medala vid so þu vaxer og lifer, sem Gud hefur þer tilsett, sem eru Matur og Dryckur. Ef þu hætter ad eta og drecka, hvad munde añad eptersylgia eñ Dauden? Adgiættu eitt Tre hversu þad verdur ad yferdoggvast og vokvast med Regne og Vatne, skule þad grænka, bloomgast og bera Avoxt, añars munde þad uppvisna; Af fleiru maa þetta sia. Eige eirn Sveirn lærdur ad verda, hliitur hañ ad raka epter þvi sem hans Læremeistare keñer honum, og lesa med Kostgiæfne ser hentugar Bækur, añars

verdur

verdur hañ alldrei lærdur. Skule Mañsens Saal verda truud, og eflast i Truñe, bliitur hun ad hafa nockud ser til andlegs Foosturs, eñ þad er Guds Ord; viler þu ecke bruka þetta Medal, lesa, heyra, ihuga og rootfesta þad i Hiarta þinu: Fyrer hvert Medal villtu þa verda uppliistur, endurfæddur og truadur? þu veitst ad ver verdum endurborner, ecke af forgeingelegu, helldur af oforgeingelegu Sæde, sem er af Guds lifanda Orde, þad æfeñlega blifur, 1 Petr. 1, v. 33. Forsmaaer þu þetta lifande Ord, verdur þu alldrei uppliistur ne endurfæddur. Þu veitst hvad Paulus seiger: Hvernig skulu þeir trua a þañ, af hveriumm þeir hafa ei heyrt, eñ hvernig skulu þeir heyra, nema nockur predike fyrer þeim. Rom. 10, v. 14. Kostgiæser þu ecke ad vera vid Guds Orda Predikaner, sær þu ecke helldur Truna, lika sem sa Læresveirn verdur ecke froodur, sem ei tekur epter þvi, er hans Lærefader keñer, eñ giorer þu þad, þa keppestu epter ad iñgaanga uñ hid þraungva Hlided til eilifs Lifs.

§. 5.

Seigest þu giarnañ vilia heyra, lesa, og ihuga Guds Ord, og ydduglega rañsaka H. Ritningu, hefder þu Tiid til þess, eñ þitt Embætte og Stand leife þad ecke, og viler færa þetta þer til Afsbotunar; þa maa eg med rettu seigia; laater þu þad af Alvoru fara ut af Muñe þer, ad þad er ecke christelega talad. Hvert helldur þu þer riidi a meiru, ad verka þina Saaluhiaalp, eda taka vara a þinu Stande? Umþeink, hvar fyrer Gud mun hafa sett þig i Heimeñ, og hvad bonum hafe helst til þess geinged! Mun þad ecke vera þad, ad þu leitadest

vid ad verda hjolpeñ? Hefur þu gleimt þvi sem þiñ Frelsare sagde: Reppist epter iñ ad ganga uñ hid þraungva Hlided? Hefurdu ecke heyrt hvad Drotteñ Christus sagde, þegar Martha meinte hun kiæmest ecke til, vegna Hussens Umsvifa, ad vera vid hans Predikun, Martha, Martha, þu ert Ahyggiufull og mædest i mørgu, eitt er naudsynlegt, Maria hefur kiøred ser þad goda Hlutskipted, hvad eige skal fra heñe takast. Luc. 20, v. 41. 42. Meinar þu ecke ad marger mune vilia a þeim siidasta Deige afsaka sig med þeirra Embætte og Standi, nær Drotteñ mun eiliflega utskufa þeim, og bera þad fyrer sig, ad þeir hafe ecke vegna siña Embættis Sysslana, komest til ad stunda andlegar Yðkaner, framar eñ þeir hefde giort, og hafe i þeirra Embættis Utrettingum, mørgu Goodu til vegar komed, samt mune alls Hollds Doomare viisa þeim fra ser, og augliisa þeim Doom Fordæmingareñar? Hlusta til þeirra Orda med þinum Eyrum, er þiñ Frelsare sagde: Marger munu til min seigia a þeim Deige; Herra, Herra, høfum ver ecke i þinu Nafne Diøfla utreked, høfum ver ecke i þinu Nafne giørt mørg Kraptaverk? Og eg mun þa jata fyrer þeim; Alldrei þeckta eg ydur, fared fra mer aller illgiørda Meñ! Matth. 7, v. 22. 23. Her heyrer þu ad marger hafa sitt Stand ser til Afbotunar, og upptelia þad Gooda sem þeir hafa i þvi giort, og samt verdur þeim fraviisad. Heradauk veitstu ad firre Løgmaals Tablañ, sem hondlar uñ þad, ad elska, ottast, heydra og akalla Gud, og yfervega hans Ord, er stærre eñ hin siidare, sem hondlar uñ Elskuna til Naungans, Matth. 22, v. 28. Eñ þad sem Madur giører i sinu Stande,

Stande, hliider hiñe siidare til. Framnyker allt þetta kañ þad ecke ad vera, ad þitt Stand leife þer ecke ad lesa og heyra Guds Ord, og verka þarmed þina Sæluhialp; þvi Gud hefur eckert þad Stand tilsett, i hvert þar geset ei Tiid til: Og eg seige þerlega, værer þu i soddañ Stande, kyñer þu ecke i þvi ad lifa med godre Samvitsku, helldur mætter þu yferg:fa þad nema þad være Naudungar Stand, i hvert þitt Hiarta hefde þo Frelse Gude ad þioona, og þuætter sem hans Kross med Þolenmæde ad liida, og hañ i þeim sama vrisa; þarfyrer er þesse Afsakatun oniit, og kañ eckert ad stoda þig a esfsta Deige. Eingeñ stoor Velldis Herra, eda Underscaate, Andlegrar eda Veralldlegrar Stettar, Lærdur eda Leikur, Kaupmadur eda Handverks Madur ellegar nockur añar, kañ med rettu ad seigia, hañ komest ecke til ad lesa, heyra, edur ihuga Guds Ord. Eñ þo a Kongum og Stiornendum ligge Stioornar Þungeñ, og þeir eige ad sia fyrer Velgeingne Landa og Riikia, samt bydur Gud þeim utþrickelega ad lesa sitt Ord med Kostgiæfne; þvi so seiger hañ vid Mosen: *Þaær Kongureñ kemur til ad sitia i Hasæte, sins Kongs Riikes, þa skal hañ taka þetta Løgmaal hia Prestunum og Levitunum, og laata skrifa þad i eina Bok, hun skal vera hia hønum, og hañ skal laata lesa þaruñ alla sina Liifdaga, so hañ meige læra ad ottast Drotteñ Gud siñ, ad hañ kuñe ad hallda øll Ordeñ af þessu Løgmaale og Rettenum, so hañ giøre þarepter*, 5 Mos. 17, v. 18. 19. First Kongar og volldugar Stioornendur, meiga ecke bera þad fyrer sig, ad þeir saker þeirra Stioornar, gete ecke igrundad Guds Ord, hversu miklu siidur muntu þa komast af med þina oniitu Afsokun? Veistu ecke hvad

Jesus

Jesus sagde vid mikeñ Muuga Folks; Rañsaked Ritninguna, þvi þer meined ydur i heñe ad hafa eilift Lif, og hun er su sem af mer ber Vitne, Joh. 5, v. 39. Þu kemst vel til ad eta og drecka, sofa og gꝏnga þer til Skemtunar, leika þer og standa fyrer Speiglenum, gooda Stund till ad bua og prüda þig, þu hefur vel Tiima til ad vera heilum Stundum og jafnvel heilum Dogum samañ i Glede Selskab, ad spila, dansa, og giora eitthvad þer til Forlistingar. Hvar fyrer kemstu þa ecke til ad ihuga Guds Ord, sem er Medal þiñar Sꝏluhiꝏlpar? Lifer þu a þeñañ Hꝏtt, þa þeink alltiid um ad hafa Svar tilbued, ad gefa þeim, sem a effsta Deige mun dꝏma allt Holld, þegar hañ bregdur þer um þina Breitne. Eg vil keña þer Raad, er þu seigest so miked hafa ad giora i þinu Kalle, ad þu komest ecke til ad igrunda Guds Ord. Far alltiid a fꝏtur a Morgnana hꝏlfre Stund firr eñ þu ert añars vanur, og tak Bibliuna, edur adra gooda Guds Orda Book þer i Hond, þa fær þu Tiid til ad lesa. Eñ fyrerliiter þu Guds Ord, fyrer hvert þu fær Truna og Sꝏluhiꝏlpena oðlast, hvers Skulld er þad þa, ef þu bliifur i Vantruñe og fortapast?

§. 6.

Þad er eirnig morgum til storrar Hindrunar fra þvi ad trua ad hiꝏlpast, þo þeir heyre Guds Ord, ad þeir vilia ecke þola ad vera aviitader fyrer þeira Synder. Stroffunar-Embætted er þo eirn Hlute af Embætte H. Anda, og serdeilis Velgiorningur Guds, ad hañ lætur ecke Syndarana siꝏlfkrafa framana a þeirra Villu-Veige, helldur aminñer hañ, vidvarar, apturkallar og straffar þa, og

lætur syna þeim, hvörsu þeir um soddañ Veige fyrerfarast, og gaunga til Gruña. So tileignar Christus H. Anda Stroffunar-Embætted, er hañ seiger til siña Læresveina: Þad batar ydur ad eg fare hedañ, þvi ef eg fer eige hedañ, þaa kemur ei Huggareñ til ydar, eñ ef eg fer hedañ, þaa mun eg senda hañ til ydar, og þaa hañ kemur, straffar hañ Heimeñ fyrer Synd, fyrer Rettlæte og fyrer Doom. Joh. 16, v. 7. 8. Marger eru so siñader, ad um medañ þeirra Kaun eru ecke snert, heyra þeir giarnañ og tiidum um þeirra Keñefedra Predikaner, eñ strax sem þeirra Synder eru þeim fyrer Sjooner settar, og straffadar, taka þeir til ad hafa Ogeð um þeim, hata þaa sem Guds vegna, og i hans Umbode straffa Syndena, og þarmed giøra þeir Hindrun i ad þad Guds Ord sem þeir hafa heyrt, fære Avoxt i þeirra Hiortum, þeir reidast Guds Þioonum, og vita ecke ad þeir þarmed motstanda H. Anda Embætte, og reka Guds Anda fraa ser: þarfyrer klagade Gud under þad Syndaflooded kom yfer Jordena, og sagde: Mañeskiañ vill ecke laata sig straffa framar meir af minum Anda, þvi ad hun er Holld. Gen. 6, v. 3. Stephanus fullur af H. Anda sette þetta fram fyrer Gydinga; Þer hardsviirader og oumskorner i Hiørtum og Eyrum, þer standed jafnañ moote H. Anda so sem Fedur ydar, liika so eirnig þer. Act. 7. v. 51. So heyrde Herodes giarnañ Johañem Skyrara, eñ sem hañ straffade hañ vegna hans Syndar, og sagde: Þad er ei rett, ad þu hafer Broodur-Konu þina, Marc. 6, v. 18. þaa let hañ handtaka hañ og setia i Fangelse; Eñ þvilijker Meñ eru af Sathan forblindader, og giæta þess ecke ad þeir med þessu Moote, giora sig vid-

stiila

skila vid Truna og Saaluhiaalpena, þvi þeir fyrerliita Guds Ord og Saaluhiaalpena, þvi þeir fyrerliita Guds Ord, er Guds Þioonar frambera fyrer þaa, og þetta snerter sialfan Gud aa Himnum, epter þvi sem skrifad er: Hver ydur forsmaaer, hañ forsmaaar mig, og hver mig forsmaaer, hañ forsmaaer þan sem mig seude. Luc. 10, v. 16. Hver hañ fyrerliitur mig, og medtekur eige min Ord, hañ hefur nu þegar þan hañ dæmer, þad Orded sem eg talade mun dæma hañ aa efsta Deige. Joh. 12, v. 48. Þvi þegar þeir forsmaa, og vilia ecke medtaka þeirra Keñemaña Advaraner, þaa kasta þeir fraa ser þeirra Saaluhiaalpar Medale, og hindra sig sialfa fraa ad naa þeirre sößu Tru, þaa kemur Dioflullen og tekur burt Orded ur þeirra Hiortum, so þeir true eige, og verde hoolpner, so sem Frelsareñ seiger Luc. 8, v. 12. Þarfyrer er þad stoor Faafiænska margra Tilheyrenda, er þeir stundum seigia, þeir skule ecke fara til Kyrkiuñar first, fyrer þvi Prestureñ hafe vandad uñ þeirra Synder. Hverium giorer þu, kiære Vin, illt med þessu, hvert Prestenum eda sialfum þer? Være þu siukur, og Læknareñ giæfe þer iñ beiskañ Dryck sem være þer til Heilsubootar, og þu segder: Eg vil ecke laata hañ koma til min aptur, ne bruka hans Dryck; Hvert giörder þu þaa hermed Læknaranum stærre Skada, eñ þer sialfum? Hvad mun Lækncreñ gefa uñ þad, þo þu viler ecke bruka hans Medal? Hefder þu haalf kaled ute uñ Vetur, og færer iñ ad One til ad orna þer, og segder þaa þer være vel heitt orded; Eg skal ecke fara ad þessum One first, hvert giorder þu þer eda Onenum Skada med þvi? Viler þu ecke vera vid Varmañ, maattu kala ute, hvad mun Oneñ skeita uñ þad, þvi þu

giorer honum einga Ritsemd, helldur hañ þer? So giorer sa hverke Prestenum ne þeim mikla Gudi Skada, sem ecke vill heyra hans Ord, helldur sialfum ser, giörande sig vidskila vid Saluhialpena, liika sem þeir Paulus og Barnabas sögdu opeñbert til Gydingaña i Antiochia, ad þeir hellde sig sialfa eilifs Lifs omaklega, af þvi þeir ræku fra ser Guds Ord. Act. 13, v. 46. Þad hefur optlega sked, ad eirn Madur hefur vid einungis eina Predikun, um̃vendast, og leidst a rettañ Veg. D. Simon Pauli, Superintendent i Borgeñe Rostock seiger fra, ad hañ hafe þeckt eirn ogudlegañ Mañ, sem forsmade Guds Ord, og hafde Hatur a þri H. Predikunar Embætte, eñ eitt siñ, þa eirn okendur atte ad predika i sama Stad, hafe hañ sagt; eg vil heyra þeñañ nya Prest; þegar hañ var so i Kyrkiuna komeñ, took Prestureñ ad kēña um̃ Pauli Um̃vendan, aminñande Tilheyrendana, ad þo þeir hefde i Synder falled skilldu þeir standa upp aptur med Paulo, og ecke draga undañ ad ydrast, allt fram̃ i Daudañ, Gud være ad soñu nadugur, eñ þo ecke þeim Yferbootarlausu, helldur þeim sem giordu Yferboot og snerust, þvi so sagde Gud sialfur: So sañarlega sem eg life, seiger Drotteñ, Drotteñ, þa hefe eg einga Þocknan a Dauda hins Ogudlega, helldur þad ad hiñ Ogudleige snue ser fra siñe Breitne og life. Ezech. 33, v. 11. Þa hañ hafde med Gaumgiæfne hlíidt Predikuneñe, hrærde Guds Ande so hans Hiarta, ad þa Predikuneñ var ute, sagde hañ til eins Vinar sins, sem stood hia honum; Sude se Lof ad eg foor til Kyrkiuñar, og heyrde þessa Predikun, eg vil muna hana a medañ eg life; og so hafe hañ aldeilis um̃vendst, og er hañ kom heim, uppskrifad þad helsta

af þeirre Predikun, hvad hañ hafe, þa hañ skomm siidar vard siukur, lesed og huggad sig vid, og þar uppa feinged saluhialplegañ Afgang. So veitstu ecke helldur nema þu fyrer Guds Raad kuñer ad uñvendast vid eina edur adra Predikun, þu sem heyrer, hura þu betur uñ þig; vile nockur leggia þad Prestenum til Liita, ad þeir laata ecke af ad straffa þeckiañlegar Synder opeñberlega, þa vil eg spyria þig: Villtu fiña ad vid Doomarañ, fyrer þad hañ lætur ecke af til ad dæma Mordingiana til ad halshoggvast, Þioofana til Galgans, Hoorurnar til Þrælkunar-Hussens, edur ad rekast ur Borgeñe, ellegar adra til ad straffast fyrer þeirra Illverk, epter Logum og Rette? Þegar ei er fleire Odaadameñ ad fiña, þa lætur hañ af ad dæma Meñ under Straffed; eñ firr maa hañ ei hætta þvi vegna sins Embættis. Eg vil aptur spyria; a Huusboondeñ ad aavitast eda lastast fyrer þad hañ straffar sitt obliiduga Þioonustufolk, þegar þad vill ecke gegna hans Tillogum? Munde hañ ecke svara; eg skyllde ecke giora þad, ef min Hiuu hegdudu ser odruviis; a sama Hatt munu Prestarner svara og seigia: Ef vorer Tilheyrendur giørdu Boot og Betran, þa skylldum ver giarnañ hætta ad uñvanda þa, eñ first þeir laata ecke af siñe Illsku, þa munum ver ecke þeigia, saker Skylldu vors Embættis, þvi ver hofum þar uñ utþrickelega Skipan af Gude; **Þu skalt vara þa vid miña Vegna;** Ezech. 3, v. 8. Og aptur; **Predika þu Orded, halt ad, hvert þad skedur i hagleganñ Tima edur ohaglegañ, straffa ogna og aamiñ med allre Þoleñmæde og Keñingu.** 2 Tim. 4, v. 2. Noe hefur med vissum Hætte straffad Meñena fyrer Flooded i hundrad Ar, þvi þeir villdu ecke betra sig.

Spæmeñerner hafa leinge og i morg Ar straffad, og æmint Jerusalem, þvi hun bætte sig ecke, liika sem Faderen straffar Borneñ þæingadtil þaug hliidnast honum, so giorer eirnig Gud vid Meñena. Ef þu seiger: soddañ Straffaner eru leideñlegar, þær eru oflæingsamar; þæ seigia Prestarner: Þad er leideñlegt, ad vorer Tilheyrendur hallda ofleinge fram i þeirra Hvermoodsku Syndum. Ef þu spyr, eiga þessar Jogunar Aviitur leinge ad gæinga? Þæ spyria lika Keñendurner aptur; Ætlar þu leinge ad gæinga fram i þinum Hverudar Syndum. J þessu breita þeir epter þvi sem þu hagar þer. Ecke mæ hiñ siuke setia Lækninga-Medaled til Siidu firr eñ Siukdoomureñ linar, og jafnvel lætur af, so honum se batnad. Eige Jordeñ ad bera Avoxt, þæ er Þorf hun hræreft ædur fyrer Þrumur og Elldingar. Skule liika Mañsens Hiarta Avexte færa, hliitur þad first ad vikna vid Logmæls og Umvondanar Predikaner; Prestarner eru liika sem Nættvaktarar, er vaka vid Svefnherberge Maña, og giora Hævada nær vidliggur til ad læta þæ vakna er sofa. Eingeñ stiggest vid þad, þo Nættvaktareñ veke hañ upp af Svefne, nær Elldsvode er nælægur, so hañ fæe fordast Hæskañ, eñ þu reidest þinum Preste, nær hañ sem Nættvaktare uppvekur þig af Svefne Andvaraleisesins, so þu fæer umflued eilifa Hæskasemd. Seu storer Pletter komner æ Liined, þarf sterka Sæpulut til ad fæ þæ afþvegna, so meiga Prestarner bruka þar til hardar Keñingar, ad fæ umvendt hardhnockudum og forstockudum Tilheyrendum, so sem Spæmadureñ brukar þviiika Epterliking um Christum, ad hañ se sem Sæpa Þvotta-Kveña, Mal. 3, v. 2. Med sæm Ordum ad seigia; Tilheyrendurner geta med

med eingu betur stoppad Prestaña Muña, og komed þeim til ad þeigia, og leggia af þeirra Straff-Predikaner, eñ þvi, ad betra sig, og leggia af sitt syndsamlega Athæfe.

§. 7.

Yferlegg framar, gode Vin, þu lifer i Agyrne, Okre, Hatre, edur ødrum þvilijkum Syndum, og þesser Lester verda straffader, og þer verdur synt ad slijker Syndarar komast ecke iñ i Guds Rijke, eñ þer þiker sem Guds Ord, sem fyrer þer er predikad, gange þer ofnærre, so þu fyrerlijtur þad, hvad giorer þu añad þar med eñ þad, ad þu villt ecke medtaka Truna helldur blifa i Vantru? Segdu þiner Prestar, ad Agyrnd, Okur, Hatur og þess hattar, være ecke fordæmañlegar Synder, þa giordu þeir moot siñe Samvitsku, eñ þu blijfer vid þad i Vantruñe, og tapadest eilijflega. Þu vesæla forblindada Mañeskia! reidest þu slijku, þa motstendur þu Gude sem vill uppliisa þig, umvenda þer, og gefa þer Truna. Munder þu taka þad illa upp, ef þu værer a Villu-Veige, og eirn Madur varade þig vid ad fara hañ ecke, þvi þu kyñer ad falla i Ræningia Hendur, og ef þu hellder þañig afram, þa kostade þad þitt Lijf? Þvi villtu þa taka þad illa upp ad þu ert varadur vid þiñe eilijfre Ogiæfu? Hefder þu Skin a þvi ad H. Ande er ad verka þad ad giora þig truadañ, munder þu ad viisu ecke mootstriida honum, veitstu hvad þad hefur ad merkia, þegar þu fyrer eina Predikun sær oroolega Gedsmune, og tekur til ad skelfast, þa uppvekur H. Ande þig af Svefne Syndaña, og vill leida þig a rettañ Veg, og gefa þer Truna, og þarmed sañfærer hañ þig fyrer Ordeð, um þad, ad þu getur ecke i þinu

Synda-Stande hoolpeñ orded; fyrer sina Pioona og Sendeboda, sem syna þer þinar Synder, hroopar Christus ecke til þin ad þu skuler gegna honum, og uppliuka þinu Hiarta, so hañ meige til þin i þad iñgaanga? Sia, eg stend fyrer Dyrunum, seiger hañ, og klapp uppa, þad er fyrer Orded, ef nockur heyrer mina Rodd, og uppliikur Dyrunum, þad er Hiartanu, til hans mun eg iñgaanga, og Kvolldverd med honum snæda, og hañ med mer. Apoc. 3, v. 20. Ef þu, þegar þitt Hiarta viknar vid Predikunena, viðurkeñer ad Gud frambiode þer þa sina Naad, þackar honum þarfyrer, og andvarpar til hans, med gudrækelegre Bæn, ad hañ virdest ad leida þig a rettañ Veg, þa mun H. Ande uppliisa þig, umvenda þer og giora þig truadañ; Eñ fyreriytur þu Prestsins Ord, hvar vid þitt Hiarta hrærest, so þu medtekur þad ecke sem Guds Ord, helldur einasta sem Mans Ord, þa hindrar þu þad fra ad verka Truna i þer. Hefde Landstiornareñ Felix kostgiæfelega grundad Pauli Ord, og optar heyrt hans Predikun, þa hefde hañ umvendst, og hans vesæla Saal yrde nu ecke ad æpa og veina i Helvite; Eñ fyrer þad hañ hagade ser ecke rettelega, þegar H: Ande klappade uppa Dyr hans Hiarta, helldur forsmaade Pauli Ord og Predikun, hvar vid hans Hiarta og Samvitska komst þo vid, og sloo þeim i Vind, maatte hañ blysa i Vantruñe, og fortapast; So er um hañ skrifad, Act. 24, v. 24. 25. Nockrum Dogum þar epter kom Felix med Huusfru siñe Drusilla, hver ed var Gydinga-Kyns; þaug kolludu a Paulum, og heyrdu af honum um Truna a Christum; Eñ þaa Paulus talade um Rettlæte og Hreinlife, og af epterkomande Doome skielfdest Felix, og ansade;

Gack hedañ ad siñe, nær eg hefe Toomstund til, þa vil eg þig kalla læta. O þu ofarsæle Felix hefder þu þegar þin Samvitska took til ad vakna vid, gefed þer Toom til ad heyra framar af Paulo uñ Truna a Christum, hversu mikel Giæfu-Stund hefde þer þad vered? Hversu vel hefder þu þeirre Tiid vared? eñ þu forsmæder eitsiñ Tima Nadareñar, honum nær þu alldrei aptur ad eilifu. Hefde Judas Iskarioth ecke forsmad Christi Størffunar Predikun er hañ talade uñ þaug Svik hañ hafde i Siñe, hversu vel munde honum þa nu lida? So sagde hañ opeñberlega yfer Bordum; Sañlega seige eg ydur, ad eirn ydar mun svikia mig. Hond þess er mig svikur er a Borde med mer; Mañsens Sonur mun ad soñu fara sosem skrifad er, eñ vei þeim Mañe fyrer hvern Mañsins Sonur verdur svikeñ, betra være þeim sama Mañe hañ hefde alldrei fæddur vered, Matth. 26, v. 21. 24. Luc. 22. v. 21. 22. Eñ af þvi Judas forsmade, þessa Christi Predikun og skeitte heñe ecke, helldur geck ut fra Christo, ad heñe heyrdre, þa hindrade hañ þar med H. Anda Verk vid hvert hañ hefde orded upplystur, uñvendtur og truadur; o þu aume og vesæle Judas; Hvernig mun nu þesse Christi Predikun liggia þer i Gede, og vera þer Eilldsloge og pina þig, fyrer þad þu forsmæder hana, og villder ecke neirn Gaum ad heñe gefa?

§. 8.

Liooslega ser þu her af, ad þad er sialfum þer ad keña, ad þu odlast ecke saña Tru, þo þu heyrer Guds Ord, af þvi þu villt ei þola ad heyra Sañleikañ, forsmær Guds Ord, og hindrar þina Umvendan. Þad skalltu vita, ad hvenær sem þu les

i Bibliuñe, edur añare godre Bock, i hverre Guds Ord er utlagt, edur heyrer Predikun, og þim Samvitska vaknar þar vid, og slær þig, so þu hrædest þitt undankared Liferne, þa er H. Ande i Verke med ad umvenda þer fyrer Orded, upplysa þig, og verka Truna i þer. Eñ slær þu fra þer soddañ Þaunkum sem skelfa þig, og eru þo goder, so þeir skule ecke giora þig sturladañ, so sem Heimureñ plagar ad seigia, þa motstendur þu H. Anda, lika sem Landstiornareñ Felix, og Judas Iskarioth, þvi H. Ande vill þa verka hia þer saña Yferboot, og Gudlega Hrigd, sem verkar Ydran til Hialpræðis, hverrar eingañ ydrar. 2 Cor. 7, v. 10. Sertu Syndare, þa hlitur þu ad hriggiast fyrer þiña Synda Saker añadhvert her i Heime, ellegar i Eilifdeñe, hafer þu forsoomad þad hier ad vera sorgbiteñ vegna þiña Synda, muntu sidar til þess ſiña med Skelfing og Orvilnan, ut af þeirre Eimd sem þinar Synder hafa þig ifært; Þegar þu þarfyrer verdur umvandadur, þa gior ecke sem þeir forherdtu Gydingar, um hveria skrifad stendur, þa Stephanus talade fyrer þeim um þeirra Synder; Sem þeir heyrdu þetta, skarust þeir i sinum Hiortum, og nistu Toñum yfer honum, Act. 7, v. 54. helldur gior sem Petri Tilheyrendur, þa hañ predikade fyrer þeim og sagde; Þer Israels meñ hafed teked Jesum af Nazaret fyrer Hendur Ranglatra, og krossfest hañ og liflated, þeññ añ hefur Gud uppreist, ad uppleystum Daudans Kvolum, þa er so um þa skrifad, er þeir hofdu þad heyrt, geck þad i gegnum þeirra Hiortu, og sogdu til Petri, og añara Postulaña; Þer Meñ, goder Brædur, hvad skulum ver giora Act. 2, v. 22. 23. 24. 37. 41. Og a þim sama Deige med-

medtooku Orded, og urdu truader nær 3000 Maña. Þær Predikaner gagna best til Saaluhiaalpar, sem best uppaörva Tilheyrendaña Synder, setia þær hid liosasta þeim fyrer Siooner, og laata þeirra Hiortu vidkomast, eñ ecke þær sem sylla Eyrun med Snilldar Ordum; Lika sem þeir Speiglar eru bester, er skyrast syna Mind eins Hlutar, eñ ecke þeir sem mest eru gyllter eda med Snilldar-Verke utskorner. Hefder þu hættulegt Saar aa Likamanum, og eirn Bartskere kañade ecke Saared, og þad mætte verda þer ad Bana, eñ añar kañade þad i Botn, næde burt þar ur þvi dauda og spillta Hollde, og hreinsade þad, so þu hellder Lise; Hverium ætter þu meira ad þacka? Ad visu þeim sem stodade þig til Lissins, þo hañ hafe laated þig komast hardt af; þvi villtu þaa reidast Keñendunum, sem best rañsaka þin Saalar og Synda Saar, og styrkia þig þar med til ad hiaalpast, þo þer þike þad i firstu hardt ad lida? Dæm sialfur epter þiñe Samvitsku hvert þu giorer rett. Þegar rañsakad er, hvar fyrer marger þola illa Straffunar-Predikaner, þaa finst Orsokeñ þesse, ad þeir hafa leinge lika sem Sviintuña, leiged aa sinum Dreggium, hegdad ser epter Heimenum, og alltid ætlad, þeir mundu samt verda hoolpner, og smiadrad fyrer ser med þeirre sætu Von ad þeir mundu iñgaanga i Himeneñ. Nær þeim verdur þaa skoruglega synt af Guds Orde, ad þeir med sinu andvaralausa Framferde, med Hofmood, Okre, Agyrnd og þvilíku, kuñe ecke hoolpner ad verda, þaa tekur þeirra sæte Draumur og Ætlunar Von um Saaluhiaalpena, sem þeir mædur hast hafa, smaamsamañ ad hversa sem Naattfall, fyrer Soolu; Þeirra Samvitska, sem leiged hefur i Dvæe þaangadtil upp ad vakna, og þeirra Þaank-

ar

ar ad orovast og aklaga, og affaka sig iñbyrdis, eins og þegar Viintuñuñe er vellt, i hverre mikil Dregg er, og hun er skiekeñ, þa blandast alltsaman i heñe, hveria. Samliking Gud sialfur brukar, liikiande þeim Oguudlegu og Ugglausu vid Viintuñur, sem lyggia kyrrar i sinum Dregium, Zoph. 1, v. 12. Eñ fyrer þvi þeir setia sier ecke fast i Siñe ad yfergefa Heimsins Listingar, i hverium þeir hafa þangadtil lifad, og sem eru komner hia þeim i Vana, og falla vel Holldenu, eñ Samvitskañ ofyrrast lited vid Guds Ord, sem hefur þo nærre saññfært þa þar uñ, ad i soddañ Lifnade, er eingeñ Von til Saaluhialpareñar, þa fa slik verallolega siñud Hiortu Andstigd a Stroffunar-Keñingum, og Leida a Guds Ords Hotunum, taka lika til ad hata Guds Þioona sem þañig predika, og fordast a allañ Haatt, ad heyra þeirra Keñingar, so þeir faae ecke þaraf Hugarhrelling; þañig giora þeir sier sialfer af Motþroona Hindran i, ad leidast fra Vantruñe, og af H. Anda, fyrer Orded, sem þeir hafa heyrt, ad verda upplyster, og leidast til Truareñar. Hvern eirn sem hefur Oged a Guds Ords Hootunum, og Straff-Predikunum, adspyr eg fyrer Gude, og uppa hans Samvitsku, kemur þad ecke af þessu sem saat er, eda geingur þad ecke so til? Hver er þa Skulld i þvi ad þu blifur i Vantruñe og fortapast? Igrundadu vel þetta Maal; Eg hroopa med Frelsarans Ordum: Hver Eyru hefur ad heyra, hañ heyre; Luc. 8, v. 8.

§. 9.

Þad er eirnig storlega þvi til Hindrunar, ad marger trua ecke, og verda hialpleger, þo þeir lese og heyre Guds Ord og fare opt til Kyrkiu, ad þeir

lesa, heyra og ihuga þad ecke rettelega, epter þeim Hætte sem Gud þad utheimter. Hversu marger hlaupa til Kyrkiuñar ounderbuner til ad heyra Guds Ord? Þeir fara þaangad ecke i þeim Ásetninge ad aabata sinar Saaler, helldur af Vana, af þvi helgur Dagur er, og þa plaga Meñ ad gaanga til Kyrkiu, so sem þeir eru vander til fraa Ungdoome, ellegar þeir fara þaangad af Hræsne, so ad adrer hallda þaa vel christna, og hroosa þeim þarfyrer ad þeir sæki Kyrkiuna kostgiæfelega; edur jafnvel saker siña fogru Klæda ad adrer siaae þaa i þeim, ellegar þeir koma þaangad til ad heyra nockud nytt, og hvert Presturen̄ utleggur Orded sem þeim ecke likar, so þeir gete bored hañ ut fyrer þad, eins og þaa Pharisæarner voru opt vid Christi Predikaner til ad taka epter hvert þeir giære sunded nockud honum til Hneisu, og veidt hañ i Ordum, eñ med þessum og þvilikum Hætte er ecke rett ad fared. Sumer koma lika rett fraa Veitslum til Kyrkiuñar med sullañ Maga, og halfsofande Augu, ei firr eñ Presturen̄ stigur i Predikunarstoleñ, og hafa hverke med Bænum ne Saungum bued sig under ad heyra Guds Ord, sem þo einum og serhverium hæfer ad giora, ad þeir aakalle Gud og bidie ad hañ upplyse sig þaa vid Ordsens Yfervegan fyrer siñ H. Anda, og uppluke þeirra Hiortum sem Lydiæ er Purpurañ sellde, so þeim skiliest þad, og þeir so true, og verde hoolpner, þvi þad er Guds Almaattugur Vilie, ad Meñ gudrækelega underbuner med soddañ Hætta gaange til Kyrkiuñar, sem Salomon seiger; Vakta þiñ Foot, nær þu geingur i Guds Huus, og kom nærre so þu kuner ad heyra Eccl. 4, v. 17. Ver underbueñ og med godre Gudrækne aattu ad koma i Guds Huus, med H. Otta,

og Gyrnd til ad heyra þeis Konung Ord sem stiórnar Himne og Jordu; lika sem sa er ingaanga vill i volldugs Kongs Höll, tekur vel vara a sinum Footum, ad hañ ecke saurge Tiolldeñ, sem þar eru nidurbreidd, og byr sig vel til. So a hvereirn ad vera vel truadur ądur hañ kemur i Guds Huus og tænia sitt Hiarta og Hugskot, af jardneskum og veralldlegum Hlutum; skule Guds Ord kroptuglega i þvi verka, eñ fyrer þad ad fæster tilreida sig þañig ad gaanga til Kyrkiuñar, þa er ecke ad furda þo fæster umvendest og fáe Truna, fyrer þad Guds Ord er þeir heyra; Þeir eru lika marger, sem ecke hegda sier rettelega i Kyrkiuñe, under Guds Orda Heyrn, þvi sumer skrafa um eitt og añad hiegoomlegt, sumer sofa villande, og hafa nockrer af þeim vered ad erfida a Laugardags Kvollded fyrer, laangt fram a Noott, og hafa veralldleg Umsvif, ellegar sumer hafa a Suñudags Morguneñ uppfyllt sig af Mat og Dryck, og eru þvi sialfer Orsok til þess þeir eru sifiader, þa þeir eiga ad heyra Guds Ord; Marger heyra Orded med Likamans Eyrum, eñ þeirra Hiarta, og Þanckar eru añarsstadar; þeirra Hiortu eru full af idel Veralldar Ahyggiu, sem varnar þvi ad Guds Ord fáe Rum þar iñe. Marger heyra Orded aan Epterteektar, og hafa gleimt þvi sem þeir eru komner ut ur Kyrkiuñe, og miñast ecke a þad framar, helldur hlaupa strax epter Guds Þioonustugiord til eins eda añars Glede Selskapar, hvar eckert er añad adhafst, eñ þad veralldlegt, og iafnvel aldeilis syndsamlegt er, so missa þeir Orded fra sier, og þad verdur þeim avaxtarlaust. Er þetta ecke miog til Hindrunar ad þeir true og hiaalpest fyrer Orded, sem þeir heyrt hafa. Hvert er þad þa þeirra sialfra Skulld eda Guds Ords? Dæm

þad

þad sialfur epter þiñe Semvitsku; Ef þu hagar þer sem þesser, þa ætlast ecke til ad þu med soddañ Hattalægie verder truadur og hoolpeñ, þvi med þessum Hætte keppest þu ecke epter iñ ad ganga uñ hid þraungva Hlided.

§. 10.

Synest þer, miñ Vin, þetta undarlegt, sem nu er sagt, vil eg vísa þer til sialfs Drottens Christum, hañ mun utskyra þer þad betur, og honum vona eg þu truer. Þegar margt Foolk var eitsiñ samañkomed til hans ur Stodunum, til ad heyra hans Predikun, og Guds Ord, sagde hañ þeim i Epterlikingu, og synde ad þott Sadmadureñ sære godu Sæde i Akur siñ, bere þad ecke alltid Avøxt, af þvi Akureñ, eda Jordeñ, i hveria sad er se Skulld i þvi, Luc. 8, v. 4. 8. Hañ synde ad sumt felle utañ hia Veigenum, og med þvi Jordeñ være hørd, og þad kiæmest ecke noog diupt i hana, yrde þad Footum troded og af Fuglum uppeted, sumt felle i grytta Jord, og uppvisnade, nær þad tæke upp ad vaxa, af þvi þad hefde ecke Vokva, sumt fell a medal Þyrna, og Þyrneñ sprette upp med, og kiæfdu þad nidur; og sumt felle i goda Jord og yxe vel upp, og færde margfalldañ Avøxt. Med þessare Epterliking Syner Drotteñ Chr stus, ad hans Tilheyrendur i þad siñ være ecke aller eins, ad ser giorder, helldur bære Guds Ords Sæde hia fæstum af þeim Avøxt, so þeir yrde umvendter og truader, þo þeir heyrdu þad, so utleggur hañ þad sialfur: Þeir vid Veigeñ eru þeir sem heyra þad, eñ epteira kemur Diofulleñ og tekur burt Orded ur þeirra Hiortum, so þeir true eige, og verde hoolpner, Luc. 8, v. 12. Þesse Frelsarans Ord

eru vist hrædeleg, og ættu med rettu ad faa Tilheyrendunum Ahyggiu. Hermed skiliast ad nockruleite forherdter og hardsvirader Menn, a hverra Hiörtu hverke vinna Aminningar ne Straffaner, ei helldur bliid Ord, ne Guds Velgiorningar, og ecke Kross og Motlætingar, so þeir fara jafnann framm i sinne Hardud, og umm þaa heiter þad sem Christus sagde umm Jerusalem; Hversu opt hef eg viliad samannsafna Börnum þinum, lika sem Hænann safnar Ungum sinum undir Vængi ser, og þer hafed ecke viliad, Matth. 23, v. 37. Ad nockruleite skiliast hermed, þeir sem eru gleimskufuller, gaalauser og hyrdulauser, sem litid skeita umm Guds Ord er þeir heyrt hafa. Þeir ihuga ecke hversu hættulega er aastadt fyrer þeim, helldur lifa i Andvaraleyse, hafa einga Þanka umm yferhangande Ofarer, og laata allt fara sem faragiorer; Yfer þeim maa þad klaga, sem Christus klagade yfer Jerusalem; Af þvi þeir vilia ecke þeckia sinn Vitiunartiima. Ef ad þu visser, þaa munder þu a þessum Tiima hugleida, hvad til þins Fridar heyrde, enn nu er þad huled fyrer þinum Augum. Luc. 19, v. 42. Hiner a Hellunne seiger Christus, eru þeir, sem medtaka Ordet med Fagnade þaa þeir heyra þad, og hafa eige Root, umm stundarsaker trua þeir og a Freistingartiima falla þeir fraa, Luc. 8, v. 13. Her med skilur Christus ad nockruleite þaa breisku og ostödugu, sem þess a millum gledia sig vid Guds Ord, og þess Predikun, enn taka fliootlega Ummskipte eins og Vedred; ymest eru þeir froomer og hallda ser fraa Heimenum, enn ymest hlaupa þeir med honum, þegar þeim geingur vel, eru þeir vel christner, enn eige þeir ad þola Ofsokner og Þreingingar edur

missa

missa, sinar Eigner fyrer Guds Nafns Saker, þa falla þeir fra, og gefa upp Footeñ, A medañ þeir heyra Huggunar-Predikaner, eru þeir glader, eñ sem þeirra Synder eru utþrickelega ahrærdar, siña þeir ad soddañ Predikunum; þeir æsetia ser tidum ad þioona Gudi, gefa Olmusur, lesa gudrækelegar Bækur og þvíumlikt, eñ bere þa einhvern ad sem vill fa þad med ser til Gledskapar, hversu sliott sñua þeir þa um Bladenu, og hlaupa med honum? Þeir fara likt ad sem sa unge Madur, til hvers Drotteñ Christus sagde: Far burt og sel alt hvad þu hefur, og gef Fatækum, og muntu þa Siood hafa a Himne, og kom so og fylg mer epter! Þa stendur so um hañ. Er hiñ unge Madur heyrde þad Ord, geck hañ hryggur fra hønum, þvi hañ hafde miklar Eigur, Matt. 19, v. 22. 23. Ad nockruleite skilur Christus hermed Hræsnara og skinhelga Meñ, sem med Astundañ heyra Guds Ord, rækia vel Kyrkiuna, vakta sig fyrer utvortis Glæpum, og hroosa ser af þeirra Samvitsku, eñ hafa þo oumbreitt Hiarta, hvar iñe riker Agyrnd, Okur, Dramb, Wrugyrnd, Ovinskapur, og slikar adrar illar Gyrnder; þeir hallda ser til Guds, og fordast margar Synder, eñ taka þo undañ eina edur adra Synd, hverre þeir vilia ecke sleppa, sem maske er komeñ hia þeim i Vana; Þeir haga ser nærre þvilika sem Achab, Israels Kongur, sem hid ytra synde sig ydrande eñ hafde þo yferbootarlaust Hiarta, um hvern skrifad stendur: Sem Achab heyrde þesse Ord, sem var ad hañ og allt hans Huus, skillde upprætast, sundurreif hañ sin Klæde, og took eirn Seck a siñ Likama, og fastade og svaf i Seck, og geck hrygdarlega fram 1 Reg. 21, v. 27. Eñ þad var ei



añad

aũad eñ Hræsne, þvi hañ hafde sellt sig ad giora Illt fyrer Drottne, v. 25. og var samt ogudlegur, eins og hañ hafde leinge ꜳdur vered. Framveigis seiger Christus; Þad sem fell millum Þyrna, eru þeir sem þad heyra, nefnelega Guds Ord, og Velsystingum þessara Lifdaga, og kiæfast, og færa einga Avoxt, Luc. 8, v. 18. Hermed skilur Frelsareñ ad nockru leite þꜳ Agiornu, sem gefa sig uti mikla Veralldar Ahyggiu, þeir heyra Orded ad soñu, eñ færa þo eingañ Avort, þvi þeirra Hiarta er fullt af Bukſorg fyrer þessa Lifs Næringu, med sꜳrſeingelegre Elsku til þess tímañlega. Þeir þeinkia uṁ, hvernig þeir sꜳ komest til Metorda, og feinged stoort Nafn, edur hvernig þeir gete safnad Goodse og Peningum, og orded riker, þar uṁ hafa þeir Ahuga Dag og Noott, og hvernig þeir sꜳe siidañ best geimt hid feingna Fe; Under Predikuneñe hafa þeir Hiartad og Hugañ hiꜳ sinum Mammon, og eru ad sorga þar fyrer, sem sꜳ auduge Madur, ꜳ hvern Christus miñest, seygiande: Hañ hugsade med ser og sagde; Hvad skal eg tilgiora, eg hefe eige þad, hvar eg meige minum Averke i safna, og sagde: Þad vil eg giora; Eg vil nidurriifa mina Hlødu, og giora upp adra meire, og safna þꜳngad ollu þvi, mer hefur grooed, og minum Audæfum, og þꜳ mun eg seigia til Sꜳlu miñar, Sꜳla min! þu hefur mikeñ Forda i morg Ar, hvil þig nu, et og dreck og vert glod, Luc. 12, v. 17. 18. 19. Ad nockru Leite skiliast her med þaug sælliifu Heimsens Born, er heyra eirnig Orded, eñ kiæfa þad nidur, so þad ber eingañ Avoxt, þvi þeirra Hiortu eru full af Byliife og Lausung; þaug leita einungis epter ad ala Buukeñ, og giora hañ liifadañ med Krꜳsum og sætum Dryckium; þaug lifa sifelldt i

Ofꜳte

Ofaate og Ofdryckiu, eru jafnan i Glede-Selſkap, bua ſiñ Likama i Skraut og Skart, þeinkia tidum under Heyrn Guds Orda, hvernig þaug meige aa ny, komaſt i goda Veitſlu og kiæta ſitt ſynduga Holld, med ytre Liſteſeme. Allar þeirra Fyrertekter eru til þeſs ætladar ad plaga Hollded, rækia Likamañ, og bua ſig þañig, ad aller formerke og furde ſig yfer þeirra Gledſkap; Þaug fylgia epter þeim riika Mañe, uñ hvern Chriſtus ſeiger: Nockur Madur riikur var þar ſa ed klæddeſt med Purpura og koſtulegum Liinklædum, og lifde hvern Dag i Vellyſting koſtulega. Luc. 16, v. 19. Eñ þad ſem i goda Jod fell, ſeiger Chriſtus framar eru þeir ſem heyra Orded, og hallda þvi i goodu og ſidſömu Hiarta, og færa Avöxt i Þoleñmæde, Luc. 8, v. 15. Þar med vill Frelſareñ þaa ſkiliaſt laata, ſem vel bua ſig under til ad heyra Guds Ord, koma med Hiartans Epterlaangan til Kyrkiuñar, taka vel epter Ordenu, rootfeſta þad, og geima i Hiarta ſer, ihuga þad þraaſiñes, aaſtunda med Koſtgiæfne ad liſa epter þvi, bidia Gud af Hiarta, ad þad verke kroptuglega i þeim, og laata þad ſiaaſt i Verkunum, ad þad fæer Avöxt i þeirra Hiortum. Þeſſer eru þeir uñ hveria Chriſtus ſeiger: Sæler eru þeir ſem hungra og þyrſta epter Rettlætenu, þvi þeir ſkulu ſadder verda. Matth. 5, v. 6. Hver ſer nu ecke ad þad er Hindraneñ fyrer hveria fæſter faa Truna, og verda hoolpner, ad þeir fyreliita Guds Ord, og añad-hvert ecke leſa edur heyra þad, ellegar ecke aa þañ Haatt ſem Gud utkrefur, ellegar þeir liſa ecke epter þvi.

§. 11.

Nu þarftu ecke ad undrast, gode Lesare, hvar fyrer marger, jafnvel i sialfre Christnene, sa ecke truna og verda hoolpner. Þu hefur nu heyrt Orsokena þar til af sialfs Jesu eigen Mune; ydervega þarfyrer gudrækelega, þad nu er fyrer þig lagt, og muntu medkenna ad þad er Orsoken, hvar fyrer marger midt i Christnine fortapast. Ser þu ecke, edur ad minsta koste heyrer talad um marga Forsmaanara, sem ecke medtaka Guds Ord, helldur vanvirda þad, og hverke lesa þad ne heyra, ellegar sialldan, og ei med rettu Lage, sem þo er Medal til þess, ad su sanna Tru uppkveikest og vidhalldest? Hvernig kan þa Orded ad verda hia þeim til Nytsemdar? Sa ille Ovin er ecke ydiulaus, han getur ecke unt Monnum Saaluhialpareñar, nær eirn Hersshofdinge vill inntaka eina Borg, inntekur han first allar Brauter, so einger Tilfaanga Fluttningar verde þar innfærder, ad han þvi fliootlegar vinne hana; Eins liika giorer Dioful!en, þegar han vill inntaka Mannsens Hiarta, þa tilbyrger han fyrst hans Eyru, so eingen Aminning eda Vidvorun komest inn i Hiartad, og legst um allar Brauter, um hveriar Madurenn kynne ad komast, og sleppa laus ur hans Snorum. Hvernig maa Guds Ord uppkveikia Truna hia þeim Tilheyrendum, hverra Hiortu og Þankar eru annarsstadar a medan þad er predikad? Þo Læresveirnenn kome i Skolann, er honum þad gagnlaust, ef hann heyrer eckert af þvi sem Skolameistaren talar til hans; Hvad gagnar Tilheyrandanum ad vera i Kyrkiunne, þegar han hefur einga Gudrækne, og hans Hiarta og Þankar eru langt i burtu fra Ordsens Heyrn? Hver Not verda ad Ordenu þegar þad er jafnsnart gleimt og horfed?

Tæke

Tæke eirn Madur siñ Muñ fullañ af Mat, eñ svelgde honum ecke nidur, helldur spytte honum ut strax aptur, være þad honum liited til Fożsorgunar; Hvad munde þig stoda ad heyra miked, eñ muna eckert af þvi; helldur tiina þvi strax ollu samañ? Þu tælder sialfur þig og feinger ecke þaraf þa soñu Tru, þvi þu værer þa ecke Ordsens Giorare, helldur alleinasta Tilheyrare, Jac. 1, v. 22. Hver sem þarfyrer ecke vill blifa i Vantruñe, og þar utaf fortapast, hañ lese, heyre, yfervegie og ser i Hiarta feste Guds Ord med allre Kostgiæfne, fyrer hvert Trueñ kveikest, veitest og vardveitest, og læte þa sins Frelsara Amiñing sifelldlega ser i Eyrum hlioma; Hver Eyru hefur ad heyra, hañ heyre! Giæted ad hvernig þer heyred! Luc. 8, v. 8. 18.

§. 12.

Epter þvi marger fyrerliita Guds Ord, sem þad Medal, fyrer hvert Trueñ veitest, þa er ei furdañlegt, þo þeir mete ei helldur mikels þa H. Kvolldmaaltiid, sem er þad Medal fyrer hvert Trueñ styrkest og upporvast. Eñ hvernig kañ þad odruviis ad vera? Være godu Grase, sætum Jurtum, og fogrum Bloomstrum kastad fyrer Leoned, munde þad lited þaruñ hirda, þvi þad hefur ecke Náttuuru til ad eta Gras, helldur Kiot, eñ Saudur ede Lamb tæke vel vid sliku. So er lika hattad veralldlega siñudum Hiortum, þaug hafa einga Laungun epter Guds Orde, þeirre H. Kvolldmaaltiid, eda odrum andlegum Himneskum Hlutum, þvi þaug leggia sig einasta epter þvi Jardneska; þaraf kemur þad ad þar fiñast marger sem fyrerliita þa H. Kvolldmaaltiid, þo vid hana eflest og styrkest Trueñ, og añadhvert bruka hana alldrei, eda miog

siallðañ, og lꝏta Ar og Dag, eda meira hiꝏ liida, adureñ þeir nyta ser þetta andlega Medal, Hiñ sæle Lutherus getur uñ Mañ nockurn, sem i nockur Ar hafde hallded sig fra þeirre H. Kvølldmaaltiid, eñ eitt Siñ hañ lagdest i þunga Sott, hafe hañ beidst af sinum Preste ad meddeila ser hana, og sem hañ hafde medteked þad blessada Braud i siñ Muñ, hafe Sꝏleñ vered utfareñ af Liikamanum, eñ Brauded hafe leiged kirrt epter a Tunguñe, eñ Lutherus adspurdur hvernig med þetta Braud skillde hondla, baud ad þad skillde breñast. Marger gꝏnga ad señu optlega til Guds Bords, eñ einungis af toomum Vana, ecke af Samvitskuñar Angurseme, ne Heilagre Epterlaungun, helldur af þvi lꝏngt hefur umliided siidañ þeir giordu þad, og Tiimeñ, epter þeirra Riim-Reikninge er hiꝏfareñ. Marger gꝏnga til otilreidder, þegar leingst kemst, taka þeir eina Bænabok ser i Hond, og lesa þar i nockrar Bæner, fyrer utañ Gudrækne, eñ rañsaka ecke sina Samvitsku; Hiꝏ þeim er eingeñ Vidurkeñing Syndaña, eckert Angur, eingeñ Trege ne Hrigd vegna drygdra Synda, eingeñ Laungun epter þeirre andlegu Sꝏlareñar Fædu, og eingeñ H. Ásetningur til ad betra sitt Liiferne, helldur, er þeirra Hiarta fullt af jarneskum og veralldlegum Ahyggium, af Hatre, Ovinskap, Hefndargyrne, Svikum, Rꝏngleite, Underferle, Drambe, Agyrne, og ødrum vondum Gyrndum. J stuttu Mꝏle; Þeir bera ecke med ser ydrande truad og nyfædt Hiarta, an hvørs þeir fa ei verdulega medteked þa H. Kvølldmaaltiid. Marger hafa eingañ Underbuning til þess, þeir hura ecke til þess firr eñ a Laugardageñ fyrer, og hafa maaske, lifad i Drabbe, og Russe alla Vikuna, ei meira þeinkiande uñ þetta H.

Verk; þeir bua sig stundum leingur til Gestábods, eñ þessarar H. Maaltiidar; Eñ vei slikum Forsmaanurum, þeir medtaka Daudañ i stadeñ fyrer Lifed, Bølvanena fyrer Blessanena, Guds Reide fyrer Guds Naad, og hrædelega Epterbid Doomsens, fyrer Syndañá Fyrergefning, þvi hver hañ etur af þessu Braude, og dreckur af þessum Kaleik overdugur, sa er sekur vid Hollld og Blood Drottens; Hver hañ etur og dreckur overdugur, sa etur og dreckur sialfum ser Doom, med þvi hañ giørde ecke Greinarmun a Drottens Liikama, 1 Cor. 11, v. 27. 29. Hvar af skule þeir faa Truna, sem þañig fyrerliita Guds H. Ord og Sacrament? A Gud ad tilseria adra Skickan, edur añañ Meata fyrer þaa ad hiaalpast vid, eñ hañ hefur fraa eilifu giört? A Gud ad nøudga Saaluhiaalpeñe uppa þaa med Vallde? Nu᷍ þaa maa seiaia: Israel, þu kemur þer i Olucku, þvi þin Hialp er alleinasta hiaa mer. Os. 13, v. 9. Er nu ecke þetta Hindraneñ fyrer hveria ʃæster sa sañá Tru, ad þeir añadhvert kasta aldeilis fraa ser Medolum Saaluhiaalpareñar, ellegar bruka þaug ecke epter Guds Skickañ? Þeir keppast ecke epter ad gaanga iñ u᷍ hid þraungva Hlided til eilifs Lifs.





# XIII. Capitule.

## Um̃ þær hellstu Hindraner, fyrer hveriar flester eru um̃hyggiulitler, um̃ Guds Ords Sæluhiælplega Yfervegan, og um̃ þeirra Tru og Sæluhiælp, hversvegna þeir fortapast; sem eru Elska til þess tiimanlega, Hræsne og Andvaraleyse.

§. 1.

Med þvi þad er liooft og openbert, ad Orsoken̄ hvarfyrer flester odlast ecke Truna, er su, ad þeir an̄adhvert ecke lesa, heyra, edur ihuga Guds Ord, ellegar þeir giora þad ecke epter þeim Maata sem Gud utkrefur, þaa þarf ad spyria; Hvad stendur i Veige og hindrar þad ad fæster heyra og yfervega Gugs Ord sem byriar, og hafa Um̃sorgun fyrer ad naa sanre Tru og Sæluhiælpen̄e? þvi þad er ollum christnum Mon̄um kun̄ugt og vitan̄legt, ad þeir geta ecke fyrer utan̄ san̄a Tru, rettlæter og sæluhoopner ordeд, med þvi ad ean Truaren̄ar er omøgulegt Gudi ad þocknast, Ebr. 11, v. 6. sem aadur er allareidu nogsamlega bued ad syna. Hvad hindrar þaa Fiollda Man̄an̄a fraa þvi ad skipta ser miked um̃ ad faa san̄a Tru fyrer Guds sæluhiælplega Ords Yfervegan, og fyrer Truna, eilifa Sæluhiælp?

§. 2.

Jafnvel þo Sæluhiælpen̄ se einunges Naadargaafa hins giafkriuka Guds, er Christus hefur oss afrekad

afrekad med sinu dyrmæta Bloode, og sinum sak-lausa Dauda, og ver med vorum Verkum, hverke kuñum ne þurfum hana ad forþena, so sem skrifad er: Af Naadeñe erud þer hiálpleger ordner fyrer Truna, og þad ecke af ydur siálfum, Guds Gáfa er þad, eige af Verkunum, so ad eingeñ hroose ser. Eph. 2, v. 8. 9. Samt eigum ver med allre Kostgiæfne vid ad leitast ad ná heñe, epter þeim Máta sem Gud hefur oss i sinu Orde fyrerlagt; eñ ad vel flester giora þad ecke, þar frá hindrar þá miog su ofmikla Elska, sem þeir hafa á tïmanlegum Hlutum, i hveria þeir eru so diupt nidur socknir, ad þeir þarfyrer gleima þvi eilifa. Marger meina, þeir hafe ecke fyrer saker sins Embættis og Stands Tima til ad gefa miked um Guds Ord, Truna og Sáluhiálpena, eñ soddañ Afbotun er á eingum Rœte bygd. Ad soñu er eirn og serhver skylldugur til ad hafa Umhyggiu i sinu Kalle og Embætte, ad hañ stande i þvi trulega, þo ecke so, ad hañ gleime þar fyrer Sáluhiálpeñe. Paulus stod trulega i sinu Embætte, berande Umhyggiu fyrer Søfnudunum, 2 Cor. 11, v. 30. eñ ecke hindrade hañ þad frá ad bera eñ meire Umhyggiu fyrer siñe Sáluhiálp; þvi sagde hañ; Eg gleime þvi sem tilbaka er, og dreg mig ad þvi sem fyrer er, eg skunda ad þvi uppsetta Takmarke, epter þvi Hnosse sem tilheyrer himneskre Guds Kallan i Christo Jesu, Phil. 3, v. 13. 14. Hver vill seigia Kongureñ Joosias hafe ecke teked Vara á siñe Rïkis-Stiornan? Hañ hafde mikla Umsorgun fyrer, ad Huus Drottens yrde endurbætt, giorde margar nytsamlegar Skickaner, og sá vel fyrer Landsens Velgeingne, samt let hañ sier á ser mikla Alvorugefne i þvi sem hans Tru

og Saaluhialp var vidkomande, þvi hañ giorde þad sem Drottne vel likade, og geck a hans Fodurs Davids Vegum og veik hverke ut af til hægre ne vinstre Handar, 2 Paral. 34, v. 2. Josua styrde miklu Herlide, sem var mørg Hundrud þusund Mañs, samt hindrade þad hañ ecke fra ad þioona Drottne, og hafa Umhyggiu fyrer siñe Saaluhialp Jos. 24, v. 14. Lydia hafde Kaupþondlan med Purpura Solu, þo hindrade hana ei heñar Koupslagan þar fra. Act. 16, v. 14. 15. Abel var Fiarhyrder, samt þionade hañ Drottne, og var froomur, og hafde Umhyggiu fyrer Gude ad þocknast og verda hoolpeñ, Gen. 4, v. 4. 5. Þetta syner noogsamlega, ad Embætte og Stand Maña, hindrar þa ecke fra, ad bera Umhyggiu fyrer siñe Tru og Saaluhialp, edur ad fa hana, nær þeir kostgiæfelega igrunda Guds H. Ord.

§. 3.

Su fyrsta stora Hindran, fyrer hveria marger skipta ser lited um ad yfervega Guds Ord, og verka sina Saaluhialp er þar fyrer Elska, þess tiimañlega, þvi þeir elske so mioog jardnesk'a Hlute, ad oll þeirra Añundan er ad komast yfer þa. Hvad fyrer þad tiimañlega a ad skiliast, keñer hiñ H. Johañes er hañ seiger: Allt þad i Heimenum er, sem er Fysn Holldsens, Fysn Augnaña og drambsamt Lijerne, þad er ecke af Fodurnum, helldur af Heimenum. 1 Joh. 2, v. 16. Fyrer Fysn Holldsens skilur hañ serdeilis vondar Hollds Lystingar, þa Meñ leggiast i Hooraner og Saurlifnad til ad frañkoma sinum ohreinu Gyrndum, þvi þeir sem eru þess hattar Siñis, hafa ecke añad frekar i Hyggiu, eñ ad æfa soddañ Lauslætis Verk. J soddañ vondum

Gyrndum liide Folked fyrer Synda-Floodeð, þa Guds Born litu Mañaña Dætur, að þær voru friidar, og geingu að eiga hveriar sem þeir villdu, Gen. 6. v. 2. Þar með verdur asamt skiled, Ohoof i Mat og Dryck, þa Mañ sækia epter einasta, að plaga siñ Kropp, edur að lifa i idel jardneskre Glede, og Lifteseme, og gleima þar fyrer Himnariike, og þa hroopa þaug i Vellistingum druckun Hiortu þañig hvert til añars. Komed hingað og hofum goda Daga, a medañ það er, og neitum vors Lifs i Ungdoomenum; Ver vilium fylla oss af þvi besta Viine, og Vidsmiore, og latum oss ecke forsooma vor Tiimans Bloomstur, latum oss bera Kransa af ungum Roosum, aduren þær visna; eingeñ af oss late vanta a nema Ofneytslu, so Meñ meige alla Vega fretta hveriu ver hofum vered glader, þvi ver hofum þar ecke meira af eñ þetta. Sap. 2, v. 6. 7. 8. 9. Fyrer Augnaña Fysn verdur skiled, það sem Meñ plaga að hafa Augnagaman af, i hveriu þeir leita ser hellsta Eptirlætis, sem eru Peningar og Femuner, Audlegð og mikel Eigne, epter hveriu þeir sækia af ollu Kappe, að þeir sie yfer það komest, til að skemta þar með Augum sinum, so sem eingeñ Ende er a soddañ Mañs Erfide, og hans Augu verda ecke mett af Riikdoome Ecc. 4, v. 8. Hvilliker Meñ stunda ecke epter þvi Himneska, helldur þvi Tiimañlega, hvernig þeir kuñe her i Heime Fiarsioodum að safna fyrer sig og sin Born, eda reingda Foolk, og auduger að verda. Fyrer drambsamu Liferne skilst, Hofmoodur og Erugyrnd, sem marger sinna a ser i Heimenum, sækia epter storum Nafnbootum, hverra Siñe er alleinasta af synast odrum framare, og lata sig sia hefdarlega og stoorlata,

so

so adrer giøre Ord a þvi, og mete þa mikels; Um slika seiger Salomon: Þar er eitt Kyn, sem hætt ber sin Augu, og hætt upplipter sinum Augnabrænn, Pro. 30, v. 13. Þetta hallda nu marger i Heimenum mune þeirra ædsta Gooda, hafe þeir Vellystingar, Audæfe og Upphefd, þar epter sækia þeir, þar til snua þeir allre sine Umsorgun, þad er þeirra Glede og Epterlæte, þar epter keppast þeir, en ecke ad ingaanga um hid þraungva Hlided til eilifs Lifs.

§. 4.

Þetta er þarfyrer stor Hindrun, sem helldur morgum þusundum fra af hafa Huxan a ad naa inn i Himeneñ; þetta giorer christna Meñ svefnuga og seinlaata til ad vera Umsorgun fyrer þvi Erlisa, þvi þeirra Hiortu eru uppfyllt af þvi jardneska i Fysn Holldsens, Fysn Augnaña og drambsamt Liferne, sem eru þriu stor Port, i gegnum hver flester Meñ hlaupa i Glotunena, sagde eirn andriikur skriptlærdur Madur. Þad er i Fræsogu fært um eina Meyu, er het Atlanta, sem bæde var miog dægeleg, og lika so fliot a Fæte, ad eingum tiade ad hlaupa Vedhlaup vid hana; Yngismadur nockur feck Ast a heñe, hañ kom til heñar, og baudst til ad reina vid hana Kapphlaup, med þeim Skilmaala, ad ef hañ yrde heñe fliotare, og iñe hana i Hlaupenu, þa skillde hañ fa hana til Eignar; þessu tok hun vel, þvi hun meinte eingeñ munde sig i þvi viña, eñ hañ upphuxade eitt Bragd, took med ser þriu gullleg Eple, og felldе þaug nidur a Hlaupenu hvert epter añad, og a medañ hun laut nidur, til ad taka þaug, komst hañ framhia heñe, og vañ so Vedfed, sem var hana sialfa. Sia, kiære

Vin!

Vin! Soddañ brogdottur slægdaskálkur er Dioskulleñ, er hañ ser ad christnér Meñ hlaupa til ad ná þvi Himneska Hnoſse, beraude Umhyggiu fyrer siñe Tru og Sálubiálp, þá snarar hañ Vellystingaña gylltum Eplum i Veigeñ fyrer þá, ad þeir skule sá Gyrnd til þeirra, og sara so á mis vid Hnoss þess eilifa Lifsens. Fyrer marga kastar hañ Gull-Eplum hollдlegrar Fysnar, og flæker þá so i Snorum þusunдum samañ, ad þeir lifa i sifelldu Ohoofe, Ofáte og Ofdryckiu, þángad til þeir lenda i Helviite med þeim riika Mañe, Luc. 16, v. 19. 23. Hvernig kañ sá, sem alleina leitar Vellistinga og jardneskrar Glede, ad upplipta sinu Hugskote til Guds og himneskra Hluta? Gagn vóitur Fugl, getur ecke floged i Lopt upp, so getur ecke sá sem veltist i sifelldu Ohoofe, uppstiiged med Hiartanu i Hæдernar, eda skipt ser miked um þad Eilifa. Um sliika stendur Es. 5, v. 11. 12. 14. Vei þeim sem snemma uppstanda á Morgna til ad stunda uppá Dryckiuskap, og sitia allt til Nætur, so þeim hitne af Viinenu, og hafa Hørpur, Gygiur, Bumbur, Piipur og Viin i sinum Gestabodum, og giæta ecke ad þvi Verke Drottens, og hafa einga Giætslu á hans Handaverkum, þarfyrer hefur Helvite Ondeñe vidt i sundur sleiged, og Gynenu uppluked án alls Máta, so ad nidur fare bæde þeirra Villdarmeñ, og Alþiidu Mugur, bæde þeirra biña Riiku og Gladværu. Fyrer marga kastar Sathan Riikedæmis Eple i Veigeñ, og flitur þá liika sem Drotteñ Christum uppá ofurhátt Fiall, synande þeim øll Riike Veralldareñar og þeirra Dyrd. Matth. 4, v. 8. Margar þusunder glèdia sig i sliku, so øll þeirra Umsorgun, Uppáfinding,

og Eptersokn er þar til logud, hvernig þeir sæe safnad meire Peninanm og Audæfum, og vidauked fleire Husum, Økrum, Alldeñgørdum, og odru Tiimañlegu, hvad þvi velldur ad þeir eckert edur liited gaulauslega þeinkia uñ þad Eilifa: og hvernig mna þad oðruvis vera? Pad heiter so af Christi Muñe: Hvar ydar Fesioodur er, þar er ydvart Hiarta. Matth. 6, v. 21. Af þvi ad soddañ Meñ leita þeirra Fiarsiooda og Fullnægiu i Peninga Safne, Gulle og odrum jardneskum Hlutum, og seigia til Gull-Hnossens; Þu ert mitt Traust; Job. 31, v. 24. þa hanger þeirra Hiarta fast vid Mamon, og þeir treysta uppa sin Audæfe, og trodsa af siuu mikla Riikedæme, Ps. 49, v. 7. Uñ slika Siikesmeñ seiger Christus; Hversu torveldt er þeim iñ ad ganga i Guds Rike, sem Riikdoom hafa? Hægra er Ulfalldanum ad ganga i gegnum Naalaraugad, eñ riikum Mañe ad komast i Guds Riike. Luc. 18, v. 24. 25. Lika sem þad vard Samson til Olucku, ad hañ sofnade i Skaute Dalilæ; so verdur þad morgum til eilifra Ofara, ad þeir læta þad Tiimañlega svæfa sig so fast, ad þeir vakna opt ecke ne sia sina Fordiorfun, firr eñ þeir eru komner i Helviite, so sem hiñ riika Mañ skede, Luc. 16, v. 23. sem hoof upp sin Augu er hañ var i Helviite og Kvolunum, þa villde hañ first taka til ad verda forsiall, eñ þad var ofseint, hañ hefde firr att ad uppheſia sin Augu og sitt Hiarta, a medañ hañ var i Heimenum, og giæta ad i hveriu Astande hañ lifde; Þar vid lender sem Paulus seiger: Þeir sem riiker vilia verda falla i Freistne og Snerur, og margar saviislegar og skadsamar Gyrnder, þær ed Mañenum dreckia i Fordiarfan og Fordæming, þvi Agyrnd er Root alls

Ills,

Ills, þeirrar sumer gyrntust, og eru Truñe fraafallner, og giora ser sialfum margar Piinur 1 Tim. 6, v. 9. 10. Fyrer marga kastar Sathan Heims Æru og Vegsemdar Gull Eple i Veigeñ, epter hveriu þeir sæka so fast, ad þeir þarfyrer missa þad Eilifa. Hversu marger fiñast þeir sem Nott og Dag hafa i Hyggiu, hvernig þeir geta komest til hærra Metorda, so ad aller veite þeim Lotning? Marger vilia vera odrum fremre, giora miked ur sinum Ahofnum, og lata hvern eirn sia þeirra Vidhofn; Þeir þeinkia einasta a þad, hvornig þeir fae so bored sig fyrer Heimenum, ad þeir gete giort ser, og lated epter sig frægelegt Nafn. Þeir koma fram i fogrum Klædabuninge, lata bera fyrer sig marga agiæta Rette, utvega ser margslags ovaudsynlegañ Husbunad, og eida Tiideñe til soddañ Faanytiu, eñ gleima vid þetta og sleppa þvi Himneska. Uñ þa heiter so; Þetta er þeirra Hiarta, ad þeirra Huus mune vara eiliflega, og þeirra Bustadur bliifa uñ Alldur og Æfe, og þeir hafe mikla Virding a Jordu, þo kuña þeir i slikum Virdingum ei leinge ad bliifa, helldur hlioota þeir vid ad skilia sem añar Fenadur. Þesse þeirra Giorningur er ei utañ Heimska, þo lofa þeirra Epterkomendur þad med sinum Muñi Sela. So sem adrer Sauder munu þeir liggia i Helviite, Daudeñ hañ mun naga þa, eñ þeir Rettviisu munu snarlega yfer þeim drottna, og þeirra Ofstæke hliitur ad þverra, i Helviite munu þeir bliifa, Ps. 49, v. 12. 13. 14. 15.

§. 5.

So mikla Mædu giora Meñerner ser fyrer þvi Jardneska, Vellystingum, Audæfum og Virdingum

ingum til ad faa yfer þad komest, ad þeir vid þad sama gleima þvi Eilifa, og hafa einga rettelega Umsorgun fyrer ad færa ser Guds Ord i Nyt, edlast Truna, og naa Saaluhiaalpeñe; hvar sem þeir eru aa Ferd, eda sitia um kirrt, er þetta þeim i Huga, og þvi hafa þeir einga Þaanka um Gud, ne Himeneñ, þo þeir giore Bæner, eda heyre Guds Ord, fylger þar med eingeñ Gudrækne, þvi þeirra Hiarta er fullt af Heimenum, eins eru þeirra Hugsaner i þeirra Hvilurumum, so þeir geta ei þess vegna sofed, þvi ad vaka epter Audæfum, fortærer Holldenu, og Ahyggiu þar fyrer ad hafa, bañar ad sofa, Syr. 31, v. 1. Hver ser þaa ecke ad þad Tiimañlega hamlar morgum fraa ad hafa Umsorgun fyrer þeirra Saaluhiaalp, hvar fyrer þeir meiga fortapast? Hver ser ecke, hvad mikille Ahyggiu, Mædu, Erfidismunum og Kappe Heimureñ kostar til þess ad naa þvi Tiimañlega, og hversu Ahyggiulaus, Svefnugur, Seinfær og Leidlundadur hañ er til ad sækia epter þvi Eilifa? Hver ser ecke hvad viliugur hañ er til Veitsluhallda, og i Ohoofe ad eta drecka, skarta og brasta, og hvad þungt og ordugt honum fellur ad þioona Gude, heyra hans Ord, singia, bidia, og hugsa um Velferd Saalareñar, þad maa heita, sem ver syngium:

Þeir elskudu Aud oþarfañ, ofallvalltañ,
Vellyst og Virding bæde, rc.

Eñ hvad viñur hañ añad þar med, eñ ad tapa Saaluhiaalpeñe? þvi hver sem ei keppest epter iñ ad gaanga um hid þraungva Hlided til eilifs Lifs, hañ hitter aa retta Leid til Himens, eñ fare hañ villt, er honum viis eilif Glotun. Hvad er þad, þegar Madureñ sæker epter hegoomlegre Virding, og hefur helst i Þaanka ad naa heñe? Þad er eins og þegar hañ

hañ hleipur epter litille Duunfiodur, þvi aakaflegar hañ ellter hana, þvi ieingra fikur hun undañ, og þo hañ naae heñe umſiider med mikelle Fyrerhofn, er hun ſamt ei añad eñ Duunfiodur. Leinge meiga marger hlaupa epter Maña Virdingum og Hrooſe, og naa þvi þo ecke, eñ þo þeir naae þvi um ſider, hvad er þad þa añad eñ toomur Vindur, Varablaaſtur og Muñſlapur Maña, edur ſem liitel Duunfiodur? Giore eirn nockud i Heimenum, einaſta fyrer Alits Saker, ad honum verde hrooſad þar fyrer, kemſt þad þo alldrei ſo langt ad aller loſe þad, ſo ſem Maaltæked hlioodar: Hvad adrer loſa bliidt, þad laſta hiner tiidt. Hvar eru nu ſo marger Keyſarar, Kongar, Stoorhofdingiar, og adrer ypparleiger Meñ, ſem fagnad hafa yfer þeirra Haatign og Uppheſd? Hver miñeſt nu a þa? Hver talar um þeirra Afreksverk, ſtoormañlegu Byggingar, furdañlega tilbunu Lyſtegarda, edur hvad añad ſem þeir hafa ſkarpviturlega uppfunded, og underlagt? Er ecke þeirra Miñing aaſamt med þeirra Verkum, under Lok lideñ? Og þo einhver miñeſt þar a, og hrooſe þvi, hvad maa þad nu ſtoda þa? Troda Meñ nu ecke þeirra Leide med Footunum, uppa hveria þeir þordu varla ad liita i Liſenu; So ſtodar þig ecke helldur ad ſyna þig ypparlegañ og Alits mikeñ med allskonar diirum Klædum, ſem eru giord epter Heims Sida Tilbreitne, og aſla þer þar med Frægdar, helldur hindrar þad þina Saaluhiaalp; þvi ſa ſem vill hafa miked vid ad priida ſiñ Likama, forſoomar ſiñar Saalar Gagn, og leitaſt ecke alvarlega vid ad ſa heñe Klæde Hiaalpræðeſins og Jeſu Chriſti Rettlætis Kirtel; Og hvada Agiæte er þad ad koſta miog miklu uppa Klædnadeñ, og ſtæra ſig af

honum, ecke eru Klædeñ vaxeñ a Liikamanum, helldur hefurdu stÿkt þaug ut hingad og þangad, og feinged þaug til Laans hiá liflausum og skinlausum Skepnum; af Saudum Ullena, af Nautum Skiñed, af Silkeormum Silked, af Sioonum Perlurnar, af Jordune Liined, og ur heñe Gull, Silfur og Gimsteina; þa Gimsteinarner glansa a Fingrum þer, ætlar þu, ad þu muner eins glansa, þa Gulled og Silfred skiin, med hveriu þin Klæde eru logd; ætlar þu ad þiñ Liikame mune eins skiina; Ef Saudernet kiæme og segdu, Ulleñ er vor, láttu hana til; Nauteñ, Skiñed er vort; Ormarner, ver eigum Silked, Jordeñ, af mer hefur þu feinged Liined, Gulled og Silfred, og Gimsteinana; Hafed, Perlurnar á eg, seig mer, hveriu helldur þu þa epter sem þitt er? Mættu ecke standa ber og nakeñ? Heraf serdu, hver Hegoome þad er, ad eida Tiideñe, til ad vera ser ut um Skárt, og bruka þad, og gleima þar vid þvi Eilifa.

§. 6.

Hversu marger steppa lika þvi Eilifa, vid þa Þanka ad raka saman Peningum, og þessa Heims Goodse, til þess ad verda riiker, eñ hugsa ecke um hvernig þeir meige i Gude riiker verda? Þad eru Þirnar sem kiæfa hid gooda Sæded i Hiartanu, so þad fæter ecke Avoxt, og er þin Agyrne hefur hvad mest saman dreiged, hvad gagnar þad þer? Færdu med þvi keipt af Daudanum, ad hañ gefe þer eirnrar Stundar Frest til Umvendunar? Getur þu keipt þer med þvi Himnariki? Veistu ecke ad þin Mynt er þar i eingu Gylde? Er þer ecke kuñugt hversu hiñ auduge Madur hlaut ad fara i burt sirr eñ hañ ætlade, og hafde eingeñ Not af ollu sinu Fe?

Rausteñ sagde til hans; Þu Dáre, á þessare Nóttu munu þeir þina Sálu af þer krefia; Hvers verdur þad þá er þu hefur tilreidt. Luc. 17, v. 20 Uñ soddañ Folk má med rettu seigia; Þeirra Silfur og Gull skal ecke hiálpa þeim á þeim Reide-Deige Drottens, Zoph. 1, v. 18. Og hverium hafa þeir Riiku safnad, þegar þeirra Lif er utkliád? Miilnuhiooled reñur syfelldlega i kring, og stendur nærre þvi alldrei vid, eñ þegar Ared er á Enda, er þad þo kirrt i sama Stad, og þad var þegar Ared biriadest. Þegar Riikesmeñerner hafa alla sina Lifdaga mædst vid ad safna Fenu, og hast allañ Ahuga i þvi, eñ hurad liited úñ Tenna og Sáluhiálpena, hvad riiker eru þeir þá á þeirra Daudastundu? Eru þeir þá ecke eins snáriker og þeir voru á þeirra Fædingardeige? þvi þeir flytia eckert med ser burt ur Heimenum. Þu seiger: eg læt þo samt epter mig mikla Peninga, vænt Huus, fagrañ Alldeñgard, og fleire Femune. Rett seiger þu ad þu lætur þad epter þig, eñ epter Daudañ áttu þad ecke framar; Være þad mogulegt, ad þu epter lideñ hundrad Ar, giæter aptur iñkomed i Heimeñ, og villder þar taka aptur og eigna þer þitt epterlátna Huus, og añad Gods, og seader: Þetta Huus er min Eign, þá være þer fliott viisad á Dyr, og þu yrder utrekeñ. Þar á heima þad David seiger: Láttu þad ecke villa þig, þo eirn verde riikur, eda þo Soome hans Húss verde mikill, þvi ad i sinu Andláte mun hañ eingañ Hlut med ser taka, og hans Dyrd mun ei epter hønum fara, so fara þeir epter Fedrum sinum, og sia Lioosed aldrei aptur. Ps. 49, v. 17. 18. 20. Jacob kallar til soddañ Riikismañá sem fyrer þad Tiimañ-

lega, tapa þvi Eilifa, med þessum Ordum: Nu vel þer Audnger, yled og æped yfer ydar Vesæld sem yfer ydur skal koma, ydar Riikedæme er uldnad, og ydar Klæde eru møleteñ, ydar Gull og Silfur er ridgad, og þeirra Rid mun ydur til Vitnisburdar vera, og mun tæra ydar Hollde sem Elldur; Þer hafed ydur Sioodum safnad a siidustu Døgum, þer hafed kræselega lifad a Jørdu, og Vellystingar drygt, og kappaled ydar Hiørtu so sem til Slatrunar-Dags. Jac. 5, v. 1. 2. 3. 4. 5. Kom fram hiñ riike Sælgiætingur, og sia hvert allt þitt Riikedæme sem þu atter a Jordu, hefur nockud hialpad þer? Hvar eru þin diirn Klæde, þiñ Purpure, og þad Pell, hverin þu klæddest? Hvar er nu þiñ Salur, i hverium þu lifder hvern Dag i Vellysting og Glede? Hvar eru þiner Gullbikarar af hverium þu og þiner fiñ Brædur hafa drucked? Hafa þin Aaudæfe stodad þig til aňars, eñ ad kaupa þer þar med Helviite? Hefur þu ecke af þinu tiimañlegu Godse i Heimenum smiidad þer Fanga-Hlecke, i hverium þu liggur bundeñ ad eilifu? Hvad er orded af þinu Hefdarhallde, þinum Eignum, og þiñe Lifteseme, er þad ecke allt i burtu lided sem Þokañ? Hver ertu, og hver miñest a þig? Ad soñu miñest H. Ritning a þig, eñ ei til aňars, eñ ad syna Epterkomendunum þiñ Daraskap, og þina eilifa Olucku. Þu hefur ecke keppst epter iñ ad ganga um hid þraungva Hlided, til eilifs Lifs; þar fyrer hefur þu ecke helldur nad þvi. So aeingur til med þessa Heims Audlegd, hun helldur Moñum fra ad keppast epter ad na Iñgaungu i Guds Riike. Eirn vitur Madur sem villde afmala þetta, let mala upp eirn Strits-Fugl, sem lipte upp

Bængiunum, sem villde hañ uppfliuga, eñ gat þad ecke, vegna Bukſens Þyngſla, med þeſſare Yfer-ſkrift: Þingſleñ nidurþrickia hañ. gefande þar med ad merkia ad lika sem Sterits-Fuglſens Buk-þyngſle hallda honum nidur, so hañ getur ecke floged i Lopt upp, so hallde lika Auduren þeim Riiku nidur, sem vid þad Tiimañlega feſta Hiartad, ad þeir geta ecke læted þad fliuga upp i Hædernar. Hvernig kañ sa Madur vid hvers Fætur mikil Þyngſle eru feſt, ad geta klifraſt uppa hæfañ Klett, og hvernig kañ sa chriſteñ Madur, vid hvers Hiarta Gull-hnotturen er faſtur, ad hafa sina Þañka a Himn-um? Þeir roruſtu Fuglar verda fangader med Liime, Gulled er sem Fugla Liim, med hveriu Heim-ureñ fangar margañ Mañ, og deider þeirra Saler. Og hvad er allur Audur og allt þad Jardneſka, og hvad leinge varer þad? Er þad ecke lika sem sa Elldur, er Meñ læta fliuga upp i Lopted til Lijſt-ſemda, og verdur ſkiær til ad sia, eñ hverfur brad-lega, sem Gaungulooſu Vefur er hun med mikelle Ydne hefur samañ spuñed, eñ verdur haſtarlega sundur riſeñ; so verdur þad Tiimañlega med ſtorre Mædu samandreiged, eñ rapaſt tiidum audvelldlega, þad er sem vor Kyrkia singur:

Allt þad Verollden er af full,
Eigner, Goots, Silfur eda Gull, rc.

Þetta yfervegade eirn Gudhræddur Madur, sem let uppmæla Jardar-Hnotteñ, ſtandande i biortu Sæle, og ſkrifa þar hia þeſſe Ord: So fer øll Heimſins Dyrd. So fer øll Audlegd, Skraut-ſeme og Velliſting, aſamt øllu þvi Jardneſka, vid hvad Meñ feſtu Hiartad, þad hverfur alltsamañ: Hverſu margar þuſunder Mañna hefur þetta Tiim-añlega dreiged fra ad keppaſt epter iñ ad ganga

uñ hid þraungva Hlided til eilifs Lifs? Þeir hafa sokt sier so diupt nidur i Heimsens Sælgiæte, ad þeir hafa ei miked þeinkt uñ þad Himneska. Eirn Madur er villde fyrer Siooner leida sællifisfullañ Mañ, let uppmaala Ura i goodu Haglende, prÿdd-añ med Kronsum og Bordum, med þessare Hiaa-skrift. Loksins leidist hañ til Slaaturs. Synande þar med, ad liika sem Ure saa i besta Grashaga geingur, og lifer sem i Glede, er til Slaatrunar aleñ, so alest Heimsens Sælgiætingar, sem i þvi Tiimañlega hafa allt sitt Ynde, þaangad til þeir uñ siider leidast sem til Slaatrunar, og steip-est i eilifa Glotun; þad er samhliooda þvi Jere-mias seiger; uñ þaa Ogudlegu. Þu lætur þaa sialfraada gaanga sem Saude, ad þeir skule slaat-rast, og sparar þaa ad þeir skule deydast, Jer. 12, v. 3. Viler þu þvi ecke fara aa mis vid Saaluhiaalpena, þaa gef fraa þer ad elska Heimeñ, og keppest epter, epter þins Frelsara goodu Raad-legginau, ad þreingia þer iñ um Himensens Port till eilifs Lifs.

§. 7.

Viler þu bera þad fyrer þig, þu verder þo ad hafa Uñsorgun fyrer þiñe og þiña Lifsnæringu, þaa svarast þar til, þad er þer ecke bañad, eñ þu maatt ecke hafa Buksorg i Hiarta þinu, sem einasta sæker epter þvi Tiimañlega, eñ læter hiaaliida ad þeinkia uñ hid Eilifa. Veitstu ecke ad þiñ Frel-sare seiger; **Leitid first Guds Riikis, og hans Rettlætis, og mun ydur allt þetta, þad er þad Tiimañlega tilleggiast**, Matt. 6, v. 33. Þad helsta þu epter leitar, aa ad vera Saaluhiaalpeñ, og þad Eilifa, eñ þvi næst aa ad fylgia þin Lifs

Næring,

Næring, og þad Tiimañlega. Þegar eirn Kaupmadur sender siñ Þioonustumañ til ad fremia Kauphondlan i framande Land, byriar honum first og fremst ad utretta sins Husboonda Erende, og siidañ kañ hañ ad bruka þa Tiid hañ hefur þar yfer, hafe hañ hinu vel afkomed, ser til Hagnadar; Eñ ef hañ forsoomade siins Hussbonda Utretting, og være af honum adspurdur, hvar fyrer hañ hefde ei giætt hans Hondlunar, eñ hañ bære fyrer sig þad hañ hefde ei haft Tiid til þess, a medañ hañ hefde lært ad dansa, riida, spila, og fleire þess Slags. Hvernig meinar þu hans Husbooude munde þa svara honum? Þar af er þer hægt ad rada, hveriu þiñ Gud mune svara þer a þeim Reikningsskapar Deige Heimsens; Ef þu hefur forsoomad og mist þina Saluhialp, er þo varst til þess i Heimeñ settur, ad þu epter heñe leitader, og þu seigest ecke hafa komest til þess fyrer Umsorgun þessa Lifs Næringar; og hvar er skrifad i H. Ritningu, ad þu skuler kappkosta ad verda riikur og safna jardneskum Fesiood? Eñ þar þvert i moot er þer boded, ad þu skuler ei keppast epter Riikedæme, helldur epter þvi ad verda Saluhoolpeñ. *Eige skulu þer ydur Fiarsioodum safna a Jordu, hvar Mølur og Rid etur þa, og hvar Þioofar meiga epter grafa og stela, helldur safned ydar Fiarsioodum a Himne, hvar ed hverke ma Mølur ne Rid granda, og Þioofar fa ei stoled ne epter grafed, þvi hvar ydar Sioodur er, þar er ydart Hiarta.* Matth. 6, v. 19. 20. 21. Og þo þu hliper fra þvi arla Morguns, til þess siidla uñ Kvolld til ad na Riikedæme, feinger þu med allre þiñe Ahyggiu, og Mædu, eckert a uñed, være Gud i moote þer, þvi þa heiter þad so: Þad kemur til

einkis ad þer sueña uppstanded, og þar epter leinge sitied, og eted ydar Braud med Hrigd, Ps. 127, v. 2. Margur lætur sier miked um̃varda, og sliiter sier til Riikdooms, og hindrar þo ad eins þar med sialfañ sig. Syr. 11, v. 13. Og latum vera, ad eirn Madur hefde med siñe Ahyggiu, Arvekne, og Ydiuseme komest yfer mikil Audæfe, og epter lated sinum Bornum miked Fe, eñ tapad þar fyrer Sælvhialpeñe, hvad mætte þad verda honum til Huggunar i Helviite, er hañ hurade til, hversu mikla Peninga og Gnoott Fiar hañ hefde epterskiled, af hveriu hans Kona og Born nu lifdu, og gleddu sig i Heimenum? Þad være helldur nagande Ormur i hans Samvitsku, ad hañ hefde mist siina Hlutdeild i eilifu Life, vid þad ad afreka ødrum Audlegd med siñe Kostgiæfne. Sliiker Gull-Þrælar selia þeirra Erfdapart i Himnariike, fyrer eirn Knefa af raudre Molld. O sæ blinde Lyydur, sem ecke hyrar þar til, ad allt þad Gull, sem morg þusund riikra Mañā hafa att, hefur orded epter i Heimenum. Være Cræsus Kongur i Lydia, sem var eirn hiñ eignarriikaste i Heimenum, adspurdur, hvar allur hans Audur være, munde hañ svara, hañ hefde skiled hañ epter i Heimenum, og orded ad fara i burtu fra honum: Þvi, hvad stodar þad Mañeñ, þo hañ viñe allañ Heimeñ, eñ feinge Tioon a siñe Sælu. Matth. 16, v. 26.

§. 8.

Þad giorer þarfyrer stoora Hindrun a Sælvhialpeñe, ad Meñerner festa Hiartad vid þad Tiimañlega, og leita siñar Fullnægiu i Vellysting, Audæfum, og Upphefd, og gleima fyrer þad þvi Eilifa. Þad hefur dreiged margar þusunder Sæla nidur i For-

i Fordæminguna; Þad hefur hallded ofeigiañlegum Hoop Maña fra, ad hafa alvarlega Uñforgun fyrer siñ: Tru og Saaluhialp. Þad hefur miklum Fiollda ecke gefed Tiid til ad hafa Þanka uñ Himeneñ, og keppast epter iñ ad gaanga uñ hid þraungva Hliided. O þer vesælu Mañeskiur! O þu forblindada Foolk! Þer hafed nooga Tiid, til ad spila, leika, heimsækia, þañ og þañ, skrautbua ydur, hallda Gestabod, og safna Peningum, eñ þo einga til ad verka ydar Saaluhialp. O þu blinde Liidur! Þer þeinked flester giore so; Til eru marger forsiaaler, higaner og mikilshaattar Meñ, sem elska þad Jardneska, eins og þer, og vona þo hoolpner ad verda. Ad viisu helldur þad morgum fra ad soraa fyrer siñe Tru og Saaluhialp, ad þeir sia hiñ stærsta Hoop Maña þeinkia einasta uñ þad Tiimañlega, og sækia epter Vellist og Audæfum. Eñ veitstu þad Drotteñ vor Gud seiger: **Þu skallt ecke filgia þeim fiølmeña Hoop til Illgiørda.** Ex. 23, v. 2. Viler þu hegda þer epter þeim stærsta Hoop, þa ertu allareidu haalftapadur. Veitstu ecke ad faaer af Heimsspekingum, mikilshaattar og gøfugum Moñum, eru utvalder til eilifs Lifs? Heyr hvad Paalus seiger: **Ei eru marger Spekingar epter Holldenu, ei marger Volduger, ei marger Edalborner kallader, helldur hvad heimsklegt er fyrer Møñum, pad hefur Gud utvaled; uppa þad hañ giøre Vitringana ad Sneixlan, og þad sem veiklegt er fyrer Heimenum, þad utvallde Gud, so hañ giørde ad Sneixlan þad øflugt er, og þad sem oedla var fyrer Heimenum og forsmaad, þad hefur Gud utvaled, og þad sem eckert er, so hañ giørde þad ad eingu sem nockud er.** Cor. 1, v. 26.

27. 28. Keppest þarfyrer epter. iñ ad ganga uñ hid þraungva Hlided til eilifs Lifs.

§. 9.

Su oñur stoora Hindrun fyrer hveria Meñerner hafa litla Umhyggiu fyrer ad yfervega Guds Ord, og odlast Truna og Saaluhiaalpena, er Hræsne, þvi þeir laata ser nægia utvortis Guds Þioonustu, og iñbirla ser þad duge noog til ad faa Saaluhiaalpena. Þegar marger vakta sig fyrer utvortis stoor Syndum, meina þeir sig vel christna, og ad þeir stande i Truñe og Naad hia Gude, þo þeirra Hiarta se fullt af Syndum og drottnande Gyrndum; Þeir giora ser af þvi Samvitsku, ad seigia þeim þeirra Breste, under Augun er þeim hafa raungt tilgiort, og meina þeir vile ecke hesia Kyf og Þrætur, eñ þar af hafa þeir einga Samvitsku, ad hafa osorliikunarsamt Hiarta, og heimuglegt Hatur til sins Naunga. Þad hallda þeir Synd ad fara ecke opt til Kyrkiu og Guds Bords, eñ ecke þad ad sofa og skrafa under Heyrn Guds Orda, og betra sig ecke, edur giora epter Guds Orde, og aan Yferbootar, Truar og Tilreidslu ad gaanga til H. Alltaris. Optlega gaanga þeir ecke til Skripta af Gudhrædslu, helldur af þvi Tiimeñ er hiaaliðeñ, epter þeirra Riimtale; Þeir hallda Synd ad taka nockud opeñberlega fraa sinum Naunga, eñ eck giora honum Afdraatt aa Laun, þegar Tækefære gefst, og pretta hañ, og þad þoler þeirra Samvitska. Hræsnararner taarfella tiidum i Kyrkiu, vid Skriptamaal, edur añarsstadar, eñ ecke vegna þess þaa aanare stoorum þeirra Synder, helldur af Yferdrepskap, ellegar einhveriu sem ad þeim geingur, og Gud hefur aa þaa lagt, og þeir losast

ecke

ecke fra sem þeir vilia; Sumer koma nu og sialldan til Kyrkiu Ared um kring, en han Dag þeir ætla til skripta, edur sama Dogum adur, hafa þeir Samvitsku af ad koma ecke, og hallda þa ogudlega sem so giora. A Bænadagaum fasta sumer og eru vid alla Guds Þioonustu, en þegar þeir eru amminter ad lata af þeirra Agyrne, Okre, Dramsbe, Klæde-Prale, Bloote, Eydum, Ohlydne, Hatre, Ulfbud, ydugleg Ofcate, Ofdryckiu, Lauslæte, Prettviise, Liige og odrum Syndum, þvi vilia þeir ecke gegna, helldur eru eins og þeir hafa leinge vered, og være þeirra Samvitska adspurd, hvad þeir hafe batnad vid allar Predikaner, munde þeir eckert med Sañe geta framfært. Þegar Huggunar Rædur eru halldnar, vilia þeir giarnañ a heyra, og þad liikar þeim miøg vel, en þegar þeirra Synder eru þeim fyrer Siooner leiddar, þad fellur illa þeirra Eyrum. Hræsnarar hroosa añara Gudrækne, Bænum, Saungum, Olmussugiordum, Anægiu, Gude gesnu Hugskote, Froomleika og odrum Dygdum, en hafa sialfer eckert af þessu til ad bera. Þeir taseria ser jafnañ ad verda froomer, og giora Gott, en þar verdur þo eckert af, þangad til Daudeñ kemur, og endar Reikningeñ. Þeir hafa sin eigeñ Truarbrogd, og trua þvi sem þeim liist, en ecke meiru. Sumt hallda þeir Synd vera, en hitt i þveriu þeir lifa, vilia þeir ecke þeckia fyrer Synd. Þeir vilia þioona Gude, en hallda þo hia ser einne edur añare vitañlegre Synd, sem komeñ er hia þeim i Vana, og meina þeir hafe samt Truna og verde hoolpner. Marger hallda Dramb og Skartseme og Ohoof i Mat og Dryck ad vera Synd, sem Gudi misliikar, en Agyrne og Elsku til þess Tiimañlega sem þeir ydka, vilia þeir

ecke fyrer Synd reikna; þar fyrer helldur Trueñ þeim ecke fra Skartenu, helldur þeirra Augune og Nydska, sem ecke leifer það. Það er þeim þungt ad gefa ut Peninga, fyrer goodañ Mat og Dryck, eñ hafa ei adsiudur Hofmood i Hiartanu. Þeir þikiast alldrei vera noog virdter, og eta og drecka það listelegt er, þegar þeir sa það fyrer eckert; þarimot hallda marger Augune fyrer Synd, eñ ecke ad bera Skart-Klæde, edur hafa Ohoof i frame, og lifa i Sælgiæte, þvi þeir meina, þegar þeir vakta sig fyrer odrum stoor Syndum, þa giore ecke ein Synd sem þeir viisvitande og viliande hia ser hallda, og vilia ecke aflaata, þa vidskila vid Guds Naad. Hræsiurum, hverra Froomleike, ecke kemur af raadvondu Hiarta, mæ, sem Lutherus seiger, likia vid forgyllta Eyrfiste, edur Kransebuna Hooru, er hid ytra syner sig sem Meyu, þvi þeir hafa Gud a Vorunum, eñ Sathan i i Hiartanu; liika sem Svanureñ ber hid ytra hviitar Fiadrer, eñ þar under svart Kiot, so skiina Hræsnararner utvortis, eñ þeirra Hiarta er fullt af svortum Syndum, og Vidurstigd fyrer Gude. Lika sem Falspening-Smider gefa ut falsada Mynt fyrer gooda, so laatast Hræsnarar rettchristner vera, eñ eru ecke. Eirn sa er villde syna Hræsnarana Edle og utvortis Skin, maalade Tre med Eplum er vaxa i Sodomæ-Borgar Landeign, sem utañ eru fogur, eñ iñañ ecke nema Dupt, med þessare Yferskript. Þau synast, eñ eru ecke. Þvi so sem þaug eple er vaxa vid dauda Haved, eru miog fogur ad sia, eñ se a þeim teked, falla þaug af eins og svort Aska, so eru Hræsnararner; þeir sina sig utvortis sem væru þeir fuller af Gudrækne og Digdum, eñ þeirra Hiarta er fullt Hræsnis og

Odigda.

Odigda. Þad er sem Paulus se'ger: Þeir hafa Yferlit Gudlegs Athæfis, eñ þess Krapte afneita þeir, 1 Tim. 2, v. 5. Þeirra utvortis Froomleike er a eingu bigdur. Þvi varer hañ stundum ecke leinge; ymest hallda þeir med Gude, ymest med Heimenum, og ad viisu væru þeir afmaalader, være ei fiærre Lagie ad maala Huus med Vindhana, edur fluge uppa, med þessare Hiaaskript: Epter Vindenum. Þvi epter honum fer Fluged, i eina edur adra Att. So giora lika Hræsnararner; blaase Luckuñar Vindur a þaa, sina þeir sig Gudhrædda, eñ ande ad þeim Motlætis Vindur, laata þeir hvern þad vill, vera gudrækeñ, eñ hallda med Heimenum, og fylgia sinum Vanagyrndum. Hræsnarar eru sem Reirleggur, sem ad utañ er faaurlega grææn, eñ ad iñañ holur; I stuttu Maale; Hræsnarar laata lenda vid þad utvortis er, eñ hverninig þeir skule hreinsa Hiartad fraa Agyrne, Rangslæte, Okre, Hofmood, Flærd, Oforliikunarseme, og odrum illum Gyrndum; uñ þad skipta þeir ser ecke, þeir leitast einasta vid ad fordast utvortis Synder, eñ þad Gooda laata þeir jafnañ ogiort, og giore þeir nockud Illt leinelega, sem eingeñ kemst ad, giora þeir ser ecke stoora Samvitsku af þvi, þvi er þad ecke soñ Gudrækne, ad þeir fordest Syndena, so eingeñ skule tala illa uñ þaa, sem Ogudlega. Þeir giora þessimillum Gott, eñ ecke af Gudhræddu Hiarta, helldur til ad faa gott Rikte fyrer Heimenum, og afla ser faafeinaelegs Lofstyrs. Uñ þesshaattar Meñ heiter so, sem Christus sagde uñ Phariseana; Vei ydur Skriptlærdum og Phariseis, þer Hræsnarar, hverier uppetid Huus Eckna med Yferhilmingu laangra Bæna, fyrer þad munud þer þess meira Fordæming

ødlast:

ødlast; Þer blinder Leidtogarar, sem syed Myfluguna eñ svelged Ulfalldañ; Vei ydur Skriptlærdum og Phariseis; Þer Hræsnarar, sem liiker erud forfægudum Leidum Framlideña, hver ed utañ synast føgur, eñ ad iñañ eru þaug full af daudra Maña Beinum og alire Opeckt; So erud og þer: hid ytra syneft þer gooder vera fyrer Mønnum, eñ hid iñra erud þer fuller Hræsnis og Odigda, Matth. 23, v. 14. 24. 27. 28. Sliik Hræsne velldur þvi ad marger fiñast, sem ecke hafa Þeanka um sina Tru, ætlande þeir hafe hana, ei helldur um Sæluhiælpena, og meina hun se þeim viis, first þeir lifa utvortis skickanlega og ærusamlega, og hallda Guds Þioonustuna, epter Heutugleikum kostgiæfelega.

§. 10

Þad er miked Taal, sem margar þusunder hefur prettad, ad þeir hafa meint sig vera vel christna, hverra Christeñdoomur hefur þo vered Hræsne, hvar fyrer þeir hafa tapad Sæluhiælpeñe. Ad viisu er þad marga ad fiña sem þioona Gude utvortis med Køstgiæfne, syngia, bidia, heyra Guds Ord, og gaanga til Skipta og Altaris, eñ þetta einungis af Vana, eñ ef þeir rañsokudu sialfa sig, mundu þeir fiña, ad allt þeirra Athæfe hefur nærre þvi vered toom Hræsne, sem þeir jafnvel sialfer ecke hafa afvitad. Añad er ad syngia og bidia, eñ añad ad giora þad i Truñe; Añad er ad fara med odrum til Kyrkiu, og hallda Guds Þioonustu, eñ añad ad giora þad i Truñe, og til Uppbiggingar. Añad er ad ydrast og gaanga til Skripta, eñ añad ad giora saña Yferboot, og læta af Syndunum. Añad ad vikna vid Guds Ord, og kañast vid sitt Rangtlæte, eñ

añad

añad ad vikna so vid þad, ad Samvitskañ skelfest, og Ræunglæted se aflagt; Þetta maa utskyra framar og saña med Dæmum. Þad er kuñugt ad Cain og Abel foornfærdu bæder Drottne, og fromdu þeirra Guds Þioonustu, og Drotteñ leit nædarsamlega til Abels og hans Foornar, eñ ecke Cains: Hvad kom til þess? Þad ad Abel fornfærde i Tru og Gudrækne, eñ Cain af Sidvana og Hræsne. Gen. 4, v. 3. 4. 5. Phariseæreñ og Tollheimtumadureñ geingu bæder upp i Musstered ad bidiast fyrer. Phariseæreñ bad leinge, og epter utvortis Alite Gudrækelega, eñ Tollheimtareñ med sæm Ordum, þo samt ydrande, hañ foor rettlætur aptur i sitt Huus, eñ hiñ ecke; Hver var Orsokeñ? Þesse: ad Tollheimtareñ bad i Truñe, eñ hiñ af eintoomis Hræsne. Luc. 18, v. 13. David Kongur giorde Ydran, þa hans Synder voru honum fyrer Siooner settar; Achab Kongur giorde eirnig Ydran utvortis, þa hañ heyrde ad Gud villde straffa hañ. David feck Syndaña Fyrergefning, eñ Achab ecke þañig, þvi David giorde saña Yferboot, hellt sig til Guds i Truñe, og let af ad syndga; eñ Achabs Ydran var af Hræsne, og Kvida fyrer Straffenu, eñ ecke af Angre fyrer þad hañ hafde stiggt Gud, 2 Sam. 12. v. 13. 1 Reg. 21, v. 27. Petri Predikun a Hvijtasuñu, geck igegnum Hiortu hans Tilheyrenda, so þeir sneruft til Guds, og leitudu hans Rædar. Stephani Predikun geck lika i aegnum Hiortu hans Tilheyrenda, eñ þeir lagfærdust ecke, helldur reiddust þar vid, og gniistu Toñum yfer honum, þvi þeir medtooku ecke Sañleikans Ord, Act. 2, v. 37. og Cap. 7, v. 54. Af þessum Dæmum sær þu noogsamlega sed, ad utvortis Guds Þioonusta duger ecke noog til þess ad Meñ seu vel christner, og þeir sem

ætla

ætla þad næge, draga siaulfa sig miog a Taalar, þvi þeir eiga ad keppast epter iñ ad gaunga uñ hid þraungva Hlided, vile þeir hoelpner verda, eñ med utvortis Verkum, Athofuum og Þioonustu alleina, sa Meñ ei verkad þeirra Saaluhiaalp.

§. 11.

Uppa þad hver eirn sioe skked, ad utvortis Guds Þioonusta duger eckert fyrer Gude, se hun ecke af Hiarta, helldur er hun svivirdeleg fyrer hans Auglite, vil eg a nockurn Haatt syna, ad marger tala, syngia og bidia opt i mote siaalfum ser. Marger tala vel uñ, hvernig þeir eige ad meta litels tiimañlega Hlute, og setia sitt Traust a Gud alleina, og yfer þvi maa undrast, og Meñ meina þaa vel christna, sem þo er idel Hræsne; Þeir syngia i Kyrkiuñe:

A Gud alleina,
Eg hefe sett mitt Traust ꝛc.

Samt er þeirra Hiarta fast vid Heimeñ og þad Jardneska, hvar sem þeir eru staddder, eru þeir uñ þad hugsande, giorande hverke ser ne odrum gott af sinum Efnum, og er þeir hafa so sunged gudrækelega ad þeirra Þaanka, meina þeir ad þeir hafe Gude vel þioonad, og vita opt og tiidum eckert af, ad þeirra Gudrækne hefur vered toom Hræsne, sem ecke hefur komed af Hiartanu, helldur einasta lendt a Tunguñe, og vered foolgeñ i eintoomis Ordum. Viler þu ecke vera agiarn halldeñ, þaa lat sia Raun a þvi i Verke, ad þu liitils virder þad Tiimañlega. Laate Gud þig missa nockud af þinu tiimañlega Gotse, þaa maa sia hvilikt Hiartans Traust þu hefur a Gude, hveriu þu hefur adur hroosad. So geingur til uñ margar Saungviisur og Bæner, sem

sem sungnar og lesnar eru af iidel Hræsne; Eg vil koma med fleire Dæme her til. Hversu margur seiger i sinum Skriptargange, þad annarar mig, og er mer af Hiarta leidt ad eg hefe syndgad, og syngur lika:

Min Synd er þung og þo miog morg
Þreynger ad Hiarta minu, ꝛc.

Eñ sem hañ proofar sina Samvitsku, mun hañ fiña ad þad er ecke allt satt, þvi af siñe Pretvijse og Flærd angrast hañ ecke, ei helldur af sinu Bloote og sinum Eidum, ei helldur af siñe Drambseme, og Losaseme, edur ødrum Syndum i hveriu hañ lifer. Hversu margur syngur gudrækelega?

Fardu Fiarins Sioodur,
Fiñ eg Jesu goodur,
Erru øll min Lijst!
Fardu sanyt Æra,
Fiiser mig ad læra,
Eckert uñ þig viist. ꝛc.

Og vill þo ecke vidkañast siñ syndsamlega Hofmood, og hefur, mæske i Hug komed, er hañ sauna þesse Ord, ad laata siñ Hofmood, edur sina Hiegooma Dyrd fara. Hversu margur er sifelldlega ad igrunda, hvernig hañ gete orded Nafnfrægur a Jordu, og allt hvad hañ tekur ser fyrer, er giort fyrer Ærugyrndar Saker, og samt bligdast hañ ecke ad koma frañ fyrer Gud, og med Yferdrepskap ad syngia:

Stundlegañ Heidur eg hura ei a, ꝛc.

O hversu margur samañ rakar Gotse med Ranglæte, og sæker epter þvi, og talar vel uñ þaa sem eins hafa giort, og helldur þad fyrer stoora Lucku, og miñest ecke a þad, hvert hañ kañ þar epter med godre Samvitsku ad seigia: Þad litla sem biñ

Rettimæte hefur, er betra, eñ mikel Audæfe Ogudhrædra. Ps. 37, v. 16. Edur þo hañ synge:

Añ eg hálumi Heimsins Aud,
Jordu á, Jehova 2c.

Hversu margur siner sig mioa gudrækelegañ, og Gude aefeñ, og syngur med christelegre Kyrkiu:

Verde ætid hvad vill miñ Gud,
Vilie hans er jafnañ hid besta, 2c.

Sem þo ecke er til Frids med sitt Astand, helldur moglar i mote Gude, og þiker sem hañ fare ofhardt med sig, nær hañ leggur á hañ Krossen; Er þetta ecke Hræsne? Hversu margur syngur med David; **Løgmaled þins Muns er mer liufara, helldur eñ mørg þusund Sticke Gulls og Silfurs,** Ps. 119, v. 72. Og les þo varla eitt siñ i Bibliuñe, Aced uñ kring, og forsoomar marga Predikun, hellst ef hañ fær þarmed auñed nockra sma Peninga; O soddañ oheyrelega Flærd og Hnæsne! Meinar þu ad þu getur birgt fyrer Guds Augu? Margur sá, er hverke lætur sig ne siin Hiun Roo hafa uñ Suñudageñ, vogar ad koma fram fyrer Guds Augsyn sem Helgebrots-Madur, og med Yferdrepskap ad syngia:

Þridia hans Bod hugleida skallt 2c.

Kañ nockud slikur Saungur Gude ad þocknast? Hversu margur lifer i Hatre og Ovinskap, sem þorer ad syngia:

Forlaat oss vora Sok og Synd, 2c.

Og vill þo ecke fyrergefa sinum Naunga þad hañ hefur honum i moote broted, eda forliikast vid hañ; Má þetta ecke heita ad hæda Drotteñ? Margur syngur med Muñenum:

Þar fyrer auma Verolld vid
Vil eg nu fuslega skilia, rc.

Eñ Hiartad hefur, þvi midur, lited af þvi ad seigia: þvi hañ vill helldur i Rauneñe vera leinge i Heimenum og hafa i honum Ynde og Glede; Hañ þoler varla ad heyra eittsiñ Daudañ nefndañ, eñ siidur oskar hañ ser þá af Hiarta ad deya; Hversu margur seiger af Hræsne? Kom Drotteñ Jesu! Kom snarlega til ad dæma Heimeñ; eñ æsker þo eink og siidur i sinu Hiarta, þvi haus Samvitska vitnar fyrer honum, ad hañ muñe á þeim Deige fordæmast, fyrer siñar Hræsnis Saker; So geingur til i fleiru, ad marger syngia og bidia i mote sialfum ser, og ecke af Hiarta. Muñureñ syngur og bidur, eñ Hiartad veit þar ecke af. Þeir leitast vid med siñe Hræsnis-Christne, ad pretta bæde Gud og Meñ, hafande Hunang i Muñe, eñ Gall i Hiarta. Eirn Madur hefur med Snille siint fyrer þá Hugarmind, Hræsnarana, ad hañ let uppmála Sool-eigiu sem sníir ser epter Sooluñe, eñ stendur þo jafnañ fost á Jorduñe, med þessum Ordum hiá skrifudum: Liitande epter Sooluñe føst á Jordu; Avisandi þar med ad Hræsnareñ sniner sig Gudrækelegañ, horfande Augum til Himins, upplyptandi Hondum til Guds, og med Muñenum andvarpande og talande uñ þad Hiñneska, eñ hefur þo Hiartad fast vid Jordena, er veralldlega siñadur; og skeiter ei miked uñ Guds Otta ne Himneska Hlute. Sliker Hræsnarar lifa þo i þeirra Hegooma Von, ad þeirra Saungur og Bæner þocknast Gude ysred vel, eñ þo er oll þeirra Guds Dyrkan Andstygd fyrer hans allra Helgustu Augsyn, af þvi hun gioorest af Hræsne. Heyr nockra Vitnesburde H. Ritningar uñ þetta! so seiger Drotteñ: Þá þer

komed ad birtast fyrer mer, hver krefur slîks af ydar Hende, ad þer gaanged uppaa miñ Forgard? Færed ecke leingur Matoffur so til forgefins; þad Reikelse er mer Andstigd, þær Tunglkomu Hatiider og Þvottdaga, aa hveriuni þer komed tilsamans til mædu og Angistar fæ eg ecke lided, mina Saalu stuggar vid ydar Tunglkomu, Helgum og Hatiidum, þær eru mer leidar ordnar, og eg em þreittur þær ad liida, og þo ad þer utbreided ydar Hendur, þa birge eg þo min Augu fyrer ydur, og þo þer bidied margfaldlega, þa heyre eg ydur þo ecke, þviad ydar Hendur eru fullar af Bloode. Es. 1, v. 12. 13. 14. 15. Eg er reidur ydrum Helgedøgum, og forsmaae þa, og kañ ecke ad lukta i ydar Samkundu, tak ad eins fraa mer þitt Psalma Bulldur, eg get ecke heyrt þitt Psalltara Spil. Amos. 5, v. 21. 23. Med þvi þessu er so vared, þa aamiñer Syrach; Siaa þu til ad þiñ Guds Otte se eingeñ Hræsne, og þioona hønum ecke med følsku Hiarta, leita einkis Lofs hiaa Mønum fyrer Hræsne, og siaa til hvad þu talar, truer edur aaformar. Syr. 1, v. 34. 35.

§. 12.

Slik Hræsne er til storrar Hindrunar, ad margar þusunder Mañа seu Ahyggiufullar uñ þaa soñu Tru og þeirra Saaluhiaalp, og velldur þvi ad Guds Ord verkar ecke i þeim, þvi þeir meina sig vera so frooma og rettlaata, ad þeir þurfa ecke Yfirbootar vid, sem Frelsareñ seiger, Luc. 15, v. 7. Og storer Syndarar, sem utvortis falled hafa, eru nær þvi ad faa giort Yfirboot, eñ þeir sem ætla sig heilaga vera, og seigia i sinu Hiart, eins og Pharisæareñ;

særeñ; Gud eg packa þer, þad eg em ei so sem adrer Meñ, Ræningiar, Orettviiser, Hoordoms Meñ, eda sosem þesse Tollheimtumadur, eg fasta tvisvar i Viku, og gef Tiunder af ollu þvi eg a Luc. 18, v. 11. 12, Þvi sagde Christus til Phariseaña: Sañlega seige eg ydur, ad Tollheimtarar og Putur meiga firr komast i Guds Riike eñ þer. Matth. 21, v. 31. Mögulegra er þad, seiger Lutherus, ad Skiækiur og Hoorkarlar odlest Saluhialp, eñ Drambsamer Helgeverka Meñ, þvi þau kuña um sid erad fiña til siña Synda, eñ þeir deya i sinum Heilagleik, nema þeir furdañlega umvendest. Þviliiker Hræsnarar aliita so um sialfa sig: Eg er ecke opeñber Meinsvare, ne Helgebrots-Madur, ei helldur Hoordooms-Madur, Þiofur, Ræninge, ne Osdrickiu-Madur, edur sliikur Syndare, helldur geing eg tiidum til Kyrkiu, Skripta og Altaris, þar fyrer er eg vel christeñ, og geing rettañ Veg til Himens; eñ være soddan Aliktan gilld, þa hefde lika Pharisæareñ, sem strax var aminst, vered froomur og rettviis, hvern Vitnisburd hañ fær þo ecke hia Christo. Þad er ecke noog ad þu dyrkar Gud utvortis, giæt helldur vel ad, med hvada Gudrækne, Hiarta og Siñeslæge þu hefur giort þad, hvernig þu hefur sunged, beded og heyrt Guds Ord, hvern Krapt þu hefur funded af þvi, og hvad þu hefur þar vid betrast i þinu Frañferde. Maa vera um soddañ Folk meige heita sosem Drottiñ seiger, til Ezechielem um hans Tilheyrendur: Þeir munu koma til þin i Samkunduñe, og sitia frañe fyrer þer; so sem mitt Foolk, og munu heyra þin Ord, eñ ecke neitt giöra þar epter helldur munu þeir bliistra epter þer, og

lifa so afram epter sinne Agyrne, og sia þu, þu verdur ad vera þeirra Amørs-Kvæde, hvert þeir munu giarnann kveda og spila, so munu þeir heyra þin Ord, og ecke rett giøra þar epter. Ezech. 33, v. 31. 32. Hvar eingenn Lifnadar Betran fylger, þar er Christenndoomurenn toom Hræsne, og sedrann Menn giora ser forgefins Von um Saaluhjalpena, sem þa tæler og hindrar miøg þeirra Ummsorgun fyrer þeirra Tru og Himnavist, þa þeir meina sig vera a rettum Veige til Himins, og þursa ecke ad giora ser mikla Mædu fyrer sinne Saaluhjalp. Hræsnarar þioona Gudi þegar þeim geingur vel, og þeir hafa gooda Daga, enn þegar þeir eiga ad taka Krossenn uppa sig og fylgia Christo epter, þa uppsegia þeir Gudi Þioonustuna. Umm Stundarsaker trua þeir, og a Freistingar Tiima falla þeir fra, Luc 8, v. 13. Ef Christus kallar til þeirra og seiger: Yfergefed Heimenn, og kom med so og fylged mer epter, þa gaanga þeir hrygger i burt fraa hønum, lika sem sa unge Madur, er hafde mikar Eigur. Matth 19, v. 21. Þeir eru liker einslags sma Ormum, a hveria skin a Solinni, a medann Vooretenn er vorm, enn ecke nær hun folnar. I Velgeingnenne eru þeir skinheilager, og synest vera vel christner, enn sem Krossens damu Eld, og Dyrsoknanna myrkou Nætur, koma yfer þa, er oll þeirra Vandlæting og Alvorugefne burtu, so þeir verda umm sina Guds Þioonustu afskiptingalauser, lika sem þeir ed hafa sviked Gull, vilia ogiarnann þad se reint a Preofsteininum, so þad verkenn ecke, so vilia Hræsnarar ei helldur ad þeirra Dygd se reynd a Guds Orda Proofsteine, hvert hun er osickud, þvi þeirra Samvitska tiine ad broost verda, þar fyrer er þeim ogedfelldt, ad Predikar-

arner

arner utmœle þeirra Hræsne skiirlega; þvi það sellur Yferskinds-burt af þeirra Christendoome, hvad ed uppkveiker i þeirra Hiarta, heimuglegt Hatur til Keñendaña. Eñ so sem eingeñ kañ ad reidast Speigleñum fyrer þad, þo hañ syne honum ecke dægelege Mind, þvi være ju Persona-fríidare sem fyrer honum stæde, það munde hañ fegre Mind sina. So kuña ei helldur Hræsnararner ad reidast Prestunum fyrer þad þo þeir siine þeim skiirlega þeirra Hræsne, þvi væru þeir i Sañleika gudhrædder, þa væru þeir liika sem Gudhrædder utmœlader. Eingeñ reidest þeim er seiger honum fra hæskalegum Veige, eñ Hræsnararner reidast Prestunum, nær þeir seigia og siina þeim, ad þeir seu a hættusomum Veige; af þvi þeirra Gudrækne er idel Hræsne, vilia þeir giarnañ ecke deya, nær þarad kemur. Þeir eru liiker þeim sem bua i Leiguhusum, eñ eiga ei sialfer Huus, og vilia sig ogiarnañ i burt flitia, þvi þeir vita ser ei viist añad Husnæde; þvi so vilia ecke helldur Hræsnararner lidugleaa skilia vid siñ jardneska Bustad, þvi þeirra Samvitska aklagar þa fyrer þad, þegar Fardagatiideñ, edur Endereñ kemur, ad þeir hafe ecke vered rettskickader i sinum Christendoome, og kuñe þvi ecke ad iñflitiast i Himneñ, Heium seiger Bildad Vinur Jobs: Von eñ Hræsnarans mun fortÿnd verda, þvi hans Athvarf þad forgeingur, og hans Von er Gaungulvefsu Vefur, Job, 8, v. 13. 14. Sia þu, miñ kiære Vin! So stor Hindran i Sæluhiálpeñe er Hræsneñ, þvi biriar þer med rettu ad vakta þig fyrer heñe, viler þu ecke sialfur skilia þig vid þiñ Hluta i eilifu Life; þvi ef þitt Siñe umbreitest ecke Dag epter Dag, og þu bliifur i þinum gomlu Syndum, hveru Dag epter añañ, þa stodar þig

eckert þin utvortis Guds Þioonusta, þvi þu keppest ecke epter iñ ad gaanga uñ hid þraungva Hlided til eilifs Lifs. Hvad villtu tilgiora, nær þu verdur lagdur i þina Soottarsæng, og sær Daudañ fyrer Gest? Þu villt seigia: Eg vil laata kalla miñ Skripta-Fedur til min, ad hañ meddeile mer þaa H. Kvolldmaaltiid; Eñ ertu þaa sañydrande? Meinar þu þiñ Skripta-Fader gete lipt þer þaa strax upp i Himeneñ, hafer þu ecke sañydrande Hiarta? Sein Ydran er sialldañ hrein, þvi hun kemur optast af Kviida fyrer Straffenu. Su sidasta Andvarpan giorer Mañeñ ecke strax saaluhoolpeñ; Ad viisu heyrer Gud hveria eina Andvarpan þeirra sem standa stoduger i Truñe, eñ eg tala nu uñ Hræsnara, ad ein Andvarpan giore þaa ecke strax hoolpna; Mera þarf til ad deya saaluhiaalplega, eñ eina Andvarpan af Muñeñum. Hvar er Hugskotsins Umbreiting? Sa sem ecke endurnyast i sinu Hugskote, verdur ecke hoolpeñ. Eingeñ Þiofur sem hefur þiofgefed Hiarta, verdur hoolpeñ. Eingeñ Agiarn, sem bliifur i siñe Agyrne, eingeñ Svikare, i sinuñ Svikseindum, eingeñ Oforlikunarsamur i sinu Haturs-Gede fær ad sia Guds Auglite, ne helldur þeirra Liikar, helldur verda þeir adur ad helaast og endurnyast fyrer Christi Blood; þvi sama Gedslage sem þu hefur i Daudanum, helldur þu i Eilifdeñe, deyr þu ohelaadur, verdur þu lika i Eilifdeñe ohelaadur. Viler þu seigia; David var Hoorkarl og vard þo hoolpeñ, þaa svara eg: David vard ecke hoolpeñ sem Hoorkarl, helldur sem Sañydrande, sa ecke hafde i Daudanum Hoorunar Siñe, helldur Hreinlifis Hiarta: þvi hver sem deyr med þiofgesnu, oforliikunarsomu, hofmoodugu, Agiornu, lostagiornu, sælliifi, svikulu, og a ymsañ Haatt þañig syndugu Hiarta, i hveriu illar Gyrnder eru riikiande;

kamanum; Meine þer ydur mune ecke eins farnast, ef þer keppest ecke betur epter iñ ad gãnga uñ hid þraungva Hlided til eilifs Lifs. Kom her þu hiñ Agiärne, og sia, ad Rum er ad fã fyrer þig. Seig frañ, hvad miked Gull og Silfur, þu epterlætur i þiñe Kistu, sem þu hefur, mã ske, med Kiænsku og Prettum samañdreiged! Til hvers stodar þad þig añars, eñ ad kaupa þer med þvi Helviite? Fær þu ecke þitt Omak ad fullu launad, nær þu fyrer þad misser þina Sãl? Kom her, þu hiñ Dramblãte og Ærugiiruge, þu sem sæker epter Hegoma-Dyrd i Heimenum, og gleimer fyrer þad þvi Himneska, og skoda hvad sorgleg verda þvilikra Maña-Æfelok. Kom her Sælgiætingur og skoda, hvernig øll jardnesk Forlysting snyst i Daudanum, i Hrigd! Kom her þu Hræsnare, sem med Hræsneñe ætlar ad byrgia fyrer Guds Augu, og sia hvernig Hræsnis-Skiilañ verdur i Daudanum frãtekeñ! Kom her þu hiñ Andvaralause, sem ecke truer fyrr eñ þu tekur ã, og sia, hvernig uñ sliika Meñ fer i Daudanum! Ætled ecke ad þer muned betur afkomast, ef þer hafed ecke i Tiima alvarlega Uñsorgun fyrer ydar Tru og Sãluhiãlp. Christus sagde fordum til Pharisæaña Læresveina, er þeir sendu honum Skattpeningeñ: Hvers er þesse Mind og Yfirskript? Þeir søgdu hønum Keisarans; þã sagde hañ til þeirra: Gefed þã Keisaranum hvad Keisarans er, og það Gude hvad Guds er. Matth. 22, v. 20. 21. So verdur i Daudanum adspurt, þegar Sãleñ fer ut af Mañenum; Hvørs er þesse Mind og Yferskript? Verde þã svarad, Guds Mind er það sem iñþrykt er ã þessa Sãl; þã verdur tilsvarad; gefed þã Gude það sem Guds er! Eñ verde sagt;

Sathans Mind er innprikt a þessa Saal; þa verdur svarad; Gefed þa Dioflenum þad Diofulsens er; og þa maa su vesæla Saal, hafa sig burt i Diofulsins Myrkva-Stofu, hvar hun skal ad eilijfu bæta fyrer sig. So hormulegann Afgang faa aller þeir sem i Vantruñe deya; og ecke keppast epter inn ad ganga umm hid þraungva Hlided til eilijfs Lijfs. Eirn andlegur Keñemadur, sem þetta villde syna med Hugar-Mind, uppmaalade Svan, syndande a Fiskedamme, i fogrum Alldeñgarde, og fagurlega syngiande, med þessum Ordum hiaa skrifudum: Epter Saungenn, Liik. Gefande þar med til Kyña, ad liika sem Svanurenn syngur fagurt under þad hann deyr, so er Heimsins Barna ofarsæle Daude og hriggelege Afgaungur sem nærstur, þegar þeirra Viilife og Heimskiæte er sem mest; þad er þad sem Christus sagde: Vei ydur sem her hlæed; þviad þer munud æpa og yla. Luc. 6, v. 25. Og Job seiger: Ydar Hlaatur skal snuast i Graat, og ydar Glede i Hrigd. Jac. 4, v. 9. Her a þad eirnig heima sem Assaph syngur: Hverniig verda þeir so skindelega ad eingu? þeir forgaunga, og taka eirn Enda med Skelfingu. Psl. 73, v. 19.

§. 5.

A epter ogudlegra Maña og Hræsnara vesælann Dauda, fylger þeirra skelfeleg Upprisa til Doomsens, þvi jafnvel þo vantruud Saal verde strax epter Daudann af Gude fordæmd, og utrekenn, er ecke allt þar med utgiort, helldur verdur eirnig Liikamenn, sem med heñe hefur syndgad, med heñe fordæmdur, og fraa Guds Auglite eiliflega utskufadur; þar fyrer mun a sinum Tiima opnarleg

Uppriſa hiñ Ogudlegu til Doomſins epterkoma; þvi med ſinu Almætte mun Gud uppvekia þeirra baňſerta Liikame, og ſamteingia þeim þeirra fordæmdu Sæler, og læta þær ſo koma fyrer Doomeñ, þviad þo Sælernar ſeu ædur fordæmdar, ſamt er ecke ollum kuñugt hveriar þær Sæler eru, ne hvad þær haſa Illt giort; þar fyrer vill Gud æ þeim ſtora Uppriſu-Deige, hallda allsheriar Doom, hvar vid opeñberaſt ſkal, hverium Gud hefur utſkufad, og hvar fyrer. Epter Daudañ fær Sæleñ hiæ Gude, liika ſem inſiglada Skipan, hveria eingeñ veit, utañ hun ſiælf, er hun ſer þængad ſem heñe er ætlad; eñ æ næſta Deige verdur hun eirnig odrum augliiſt, ſem añars kallaſt ſæ mikle Dagur Guds Almættugs, Apoc. 16, v. 14. Ad viiſu er ſæ Dagur ſæ mikle Dagur hins Almættuga Guds, þvi Gud hefur ſiælfur utvaled þañ Dag til Heſnda, og vill æ honum hallda ſiñ hædſta Rett og Doom; Þvi hañ hefur Dag tilſett, æ hverium hañ vill dæma alla Jardarkringluna med Rettviiſe fyrer eirn Mañ, fyrer hvern hañ hefur þad ælyktad. Act. 17, v. 31. A ſama Deige mun Chriſtus koma til Doomſins, i mikille Dyrd, ſem Paulus ſeiger: Drotteñ ſiælfur mun med Kroope og Höfudeingilſins Rauſt, og Guds Ludre, ofañkoma af Himnum. 1 Theſſ. 4, v. 16. A þeſſum mikla Deige mun þad fram koma, ſem Paulus ſeiger um Chriſtum: J Nafne Jeſu ſkulu ſig beigia öll Kne, þeirra ſem æ Himnum, og æ Jördu, og under Jördune eru, og allar Tungur ſkulu vidurkeña þad, ad Jeſus Chriſtus er Drotteñ til Dyrdar Guds Födurs, Phil. 2, v. 10. 11. A þeim Deige mun allt þad ſem haſt hefur mañlega Sæl, vid

Chriſti

Christi Almættis: Raust fraa Daudum uppvakna, so sem Frelsareñ sialfur seiger: Su Stund mun koma, aa hverre aller þeir sem i Grøfunum eru skulu heyra hans Rødd, og þeir munu þaa framganga sem Gott giørdu, til Lifsens Upprisu, eñ þeir sem Illa giørdu, til Doomsins Upprisu. Joh. 5, v. 28. 29. A þessum Deige mun Himen og Jord, og allt það synelegt er uppbreña, þvi Dagur Drottens mun koma, sem Þioofur um Noott, aa hverium Himnarner munu forgaanga med stor Brestum, eñ Hofudskepnurnar brennda, og Jordeñ, og þaug Verk sem þar eru iñe, munu uppbreña 2 Pet. 3, v. 10. Um þetta syngur vor Christni;

Vak upp Syndare, gef ad Gaum!
Gior aan Dvalar Ydran besta!
Herrañ kemur ad hallda Doom, 2c.

§. 6.

Hvilijk Hrædsla og Skelfing, meinar þu, liufe Lesare, mune iñtaka alla Ogudlega, aa Upprisuñar Deige, er þeir heyra og siaa Christum, med miklu Vallde til Doomsens komande. Nær stor Kongur giorer sina Jñreisu i nockra Borg, þaa er ecke Kyrrd aa ollu, helldur er þaa i Ludra blaased, Fallstickium afhleipt, og mikil Hæreiste giord af Fiolda Maña, Hesta og Vagna. Þegar Keisare Carl hiñ fimte hellt sina Jñreisu i Borgena Bononia, til ad krunast, foru first undañ Fallbissna Hlioood, og sidañ 100 Murbyggiarar, berande Laarberiatres Greyner, ser i Hondum, þar næst fylgdu þysker Hermeñ under 13 Merkium, aa besta Hætt utbuner, þar epter foru þeir hellstu Herrar, og Riikesins Stoorhofdingiar i fogrum Brioost=

Briwostbryniun, under 2 Merkiunt, añad vat hvitt med raudum Krosse, hitt forgyllt med svartre Orn i, þeir voru her um 700 hid skrautlegasta búner, med Gersemum, Gulle og Silfre, iklæddir gulum Flugels Kyrtlum, er med Perlum voru setter; þar næst 600 Hoffveinar, i gulum Klæðum, med blaam Briddingum, en medal hverra Keisaren siálfur reid a hvitum Heste, med gullegum Reidtijum, i heille Briwostbryniu, hvar yfer hañ bar Gullstyckinu settañ Kyrtil, under gylltum Himne; til hans beggia Hlida geingu 25 Adalsmeñ, i gullsettum Klædnade; epter hans Hætign fylgdu 300 Briwostbryniader, i gulum og svortum Flugels Kyrtlum, og þar epter spansker Striids-Meñ under 16 Merkium, a mote honum kom ut af Borgeñe 25 Cardinalar i miklu Skraute og Bramle; og 400 Hestar vel tilreidder, til ad taka i mote honum; ollum Kluckum i Borgeñe var hringt, ollum Fallbissum afhleipt, og Lystelldar laatner i Lopted stiuga, og soddañ Hlioomur vard, af Ludra, Piipna og Horna Hlioodum, ad þad var liikt sem Borgeñ være oll a Reideskialfe. Eñ i hvad storre Hætignar Dyrd mun Christus, sem er Kongur allra Konga, koma til Doomsens? Med hvad miklu Vegsemdar Skraute mun hañ þa giora sina Reisu af Himne? Þegar Gud steig nidur yfer Fialled Sinai, til ad anglysa Heimenum sitt Logmaal, skede þad i mikille Diird, þvi þegar sa þridie Dagur kom, og lioost var orded, komu Reidarþrumur og Elldingar, og þikt Sky a Fialled, og Ludursens Hliood var akaflega sterkt, so allt Folked var hrædt, sem var i Herbudunum, og allt Sinai Fiall rauk, þvi Drotteñ foor ofañ yfer Fialled i Ellde, og Reikur geck upp af þvi, sem

sem Reikur af Ofne, og allt Fialled skal ogurlega, og Ludursins Hliood var stærra og stærra. Ex. 19. v. 16. 18. 19. Hafe Gud so Hatignarlegg utgefed sitt Logmaal, þa er þar af audraaded, ad hañ i eñ stærre Dyrd mune koma til ad rañsaka hvernig Meñerner hafa þad hällded og epter þvi lifad. Ognarlegt Vedur kom yfer Sodoma og Gomora, þa Drotteñ let rigna af Himinum Ellde og Breñesteine, og uñturnade þeim Stodum, med ollu þvi Herade, og ollum Iñbyggiurum Stadaña, Gen. 19, v. 24. 25. J Egiptaland kom eirnig ognarlegt Vedur, þa Drotteñ let Reidarþrumur koma, og Hagle rigna, so ad Ellde lyste nidur a Jordena, so Hagl og Elldur foru so grimelega til samans, ad soddañ hafde alldrei skr sked i ollu Egiptalande, sidañ þad var first bigt. Ex. 9. v. 23. 24. Eñ soddañ er eckert ad reikna hia þvi siidasta Vedre, sem koma mun yfer allañ Heimeñ, þegar Christus kemur til ad dæma, uppvekia þa Daudu, og giora Enda a þessum Heime, þa mun hañ koma med Hroope og med Hofudeingilsins Raust, og Guds Ludre, storu og hrædelegu Skrugguvedre, med ognarlegum Reidarþrumum og Elldingum, so slikt hefur aldrei firr sked, og slikt fær helldur eingeñ uppþeinkt, hvar vid aller hiner Daudu munu uppvakna a einu Augnabliki liika sem aller Iñbuendur eirnrar Borgar koma a fætur, nær Stoorvedur uppaafellur uñ Næturtiima; So munu vid þad siidasta Vedur uppstanda aller hiner Daudu. J þessu Vedre munu heilager Einglar giora ottalegt Hroop, sem hlioomar uñ allañ Heimeñ, ad kuñgiora þad hiñ mikle Doomsdaggur byriast; A Himnenum munu uppkoma Elldingar, med mikille Uñturnan i Loptenu, sterk Ludra-

Hliood

Hliood i Fiollum og Dolum, hrædeleger Stormahvimer, og i Sioonum ognarleg Brusan Bylgnanna. Allur Jardarhnotturenn mun hristast af Jardskialftum, og i sundur springa, uppkastande Eldsfiollum, hvar med asamt Biorgenn klofna, og Grafernar opnast. J þessu mun heyrast Jesu Christi sterka og vollduga Raust, umm allar Atter Heimsins, hvar med þeir lifande ummskiptast, og þeir Daudu vakna; þa taka Himnarner ad forganga med stor Brestum, oll Fioll og allar Byggingar ad nidurhrinia, og aller Grundveller ad hræast. Hvernig meinar þu, hinn Andvaralause, þer mune þa vid verda, er þu heyrer og ser allt þetta? Þegar Skruggu-Vedur uppkemur snogglega umm Midnætte, yfer eina Borg, slær Husenn, og kveiker Elld i þeim, og Menn heyra i Sænginne ad Kluckum er hringt, og allt umm kring hroopad, Elldur er uppkomenn: hversu bilt verdur þeim þa vid? Nær þu uppvaknar a efsta Deige, og fær liika sem ad heyra til Guds storu Elld-Klucku, og Elldur fellur af Himne alla Vegu, og kveiker Elld i ollum Heime; Hversu muntu þa skelfast? Þar umm seiger Esaias: Drottenn mun koma med Ellde, og hans Vagn sem annad Stormvidre, ad hann endurgiallde i sinne Reide, og hans Straff i Elldsins Loga, þvi Drottenn mun fyrer Elldenn, og fyrer sitt Sverd dæma allt Holld. Es. 66, v. 15. Og David seiger: Hann mun rigna lata yfer hina Ogudlegu, Leiptran, Ellde, og Brennesteine, og Stormvidred mun hann þeim ad Verdlaunum gefa. Ps. 11, v. 6. Og Paulus seiger! Drottenn Jesus mun opennberast af Himne, med Einglum hans Kraptar, og med Elldsins Loga, Hefnd ad gefa yfer þa sem ecke þeckia Gud,

og ecke eru hlidugir Evangelio vors Drottens Jesu Christi. 2 Theß. 1, v. 7. 8. Eg spur ydur, eñ eitt Siñ, þer Andvaralausu, sem her i Heimi lifed; allt slikt ydur ur Huga hversa, hvernig mun ydur i Huga verda ad þeim siidasta Deige, eda munud þer þa ecke loksens hrædder verda?

§. 7.

Eñ med þessu er ecke allt bued, þvi þeir Ogudlegu munu med þeirra Augum sia Doomara alls þess er lifer, komanda i Skyum Himens, til ad dæma allañ Heim, og gefa þeim þeirra forþent Laun. Sicaed! Hañ kemur med Skyunum, og øll Augu munu sia hañ, og þeir er hañ i gegnum stunged hafa, og allar Kinkvisler Jardar munu kveina, Ja, Amen. Apoc. 1, v. 7. Hvilikur Angistar og Hrædslu Dagur mun þa verda fyrer þeim, er þeir skulu framkoma, til ad taka i mote þeirra eilifu Straffe? Hver mun sa Glæpamadur fiñast, sem ecke hardlega kviide fyrer þeim Deige, a hverium hans Dauda-Doomur skal honum fyrer Rette upplesast, og hans Liikame skule med gloandi Taungum kliipast? Hafe þeir kvided fyrer þvi fordum, sem ecke hofdu goda Samvitsku, ad mæta fyrer þeim Rette i Athenu Borg, sem kalladest Areopagos, af þvi Doomararner þar vid, voru miog sviþharder, og alvarleger i Urlite, þa mun þad auka þeim Ogudlegu laungtum meire Ogn og Kviida, ad þeir a efsta Deige uppriisner, sia ad horfa a þañ fyrer Augum ser, um hvern David seiger: Reikur gaus af hans Nøsum, og for-

fortærande Elldnr af hans Munne, so ad þar leiptrade af; Ps. 18, v. 9. Hvert sem þeir snúa ser, þa er Otte og Skelfing fyrer Hende; Liite þeir upp fyrer sig, sia þeir fyrer ser reidann Domara, sem hefur sitt Hefndar-Sverd utdreiged, til ad straffa þa med, sem David seiger: Hann hefur hvatt sitt Sverd, og sinn Boga hefur hann uppspannad, og midar til, og hann hefur þar a lagt daudleg Skeite, sinar Orvar hefur hann tilreidt til ad fordiarfa. Ps. 7, v. 13, 14. Nidre under ser sia þeir Helvitis Baal, uppblossande ur Brennesteins Diikenu, i hvert þeim verdur innanskams hrunded, þa heiter þad so: Helviite hefur vidt Ondunne i sundursleiged, og Ginenu upploked an alls Mæta, so ad nidurfare bæde þeirra Villdar-Menn, og Alpiidu Mugur, bæde þeirra hiner Riiku og Gladværu. Es. 5, v. 14. Fyrer framann sig sia þeir þa storu Heimsins Bigging, standande i ljoosum Loga, og heyra Himnana med stor Brestum samann brotna, þvi Himmen og Jord forganga, Luc. 21, v. 33. A Baktil vid sig heyra þeir Fiollda þusunda Fordæmdra Op og Vein, sem af Otta og Skelvingu seigia Fiollunum: Hrinied yfer oss, og Hæalsunum, hilied oss! Luc. 23, v. 30. Innvortisnagar þa Samvitskann, hver ed aklagar og fordæmer þa, þvi þeir sia ad Siilsdenn tekur til, þeirra Audlit blikna af Angist, og þeirra Kne og aller þeirra Liikame skelfur, og þeir beria Hondum samann, af stærsta Ofbode og Orvilnan. Sa Dagur ma fyrer þeim heita rettelega, Dagur stærstu Angistar, þvi allt hvad ogna kann, kemur þa til samans i eitt. J Heimenum hafa Menn

ad

ad sõnu haft stora Angistar Daga her og hvar, þess i millum, a hverium Gud hefur læted ske mikil Undur. Jacob, Cardinall af Pavia seiger fra, ad Ared 1456 hafe heillt hid Neapolitaniska Kongs Rike þremur Stundum fyrer Dag, so skolfed af sterkum Jardskialfta, ad margar Borger og sterkar Byggingar hafa nidur hruned, og herum sextiu þusund Mañа farest, bæde af þvi ad sockva i Jardareñar Sprungur, og af þvi ad verda under Husa og Bygginga Hrune. Hiñ H. Hieronymus hefur fra sagt, ad epter Dauda Keysarans Juliani, hafe sked so ognarlegur Jardskialfte, ad Siooreñ hafe so sterklega olgast, og uppolled, ad hañ hafe varpad af ser Skipunum uppa Fioll, og geinged yfer þang hærstu Huus i Borgeñe Alexandria, i Egyptalande. Fra þvilijku seiger Nauderus, ad Ared 1218 hafe uppkomed soddañ ossa Vedur, ad Siooreñ hafe med so miklu Afle brotest uppa Frisland, ad yfer hundrad þusund Mañа hafe drucknad iñe i þeirra Husum. Soddañ stor Vedur asell i Friiborg i Þyskalande Ared 1559 med so hrædelegum Bysnum, ad hvad syndest beriast i mote odru, a Himnenum, liika sem Heimureñ munde kollkastast, þa rignde so storu Hagle sem Hæsna Eggium, og Fallbissna Kulum, sem voogu yfer þriu Puud. Bæde Evsebius og Josephus skrisa, ad Gud hafe med sterku Stormvidre kollkastad Turnenum i Babylon, sem var su sterkasta Bygging i Heimenum, og hefur vered hardtnær yfernaatturleg. J morgum Stodum i Þyskalande, sast a Himnenum hrædelegt Elldteikn, Ared 1529, sem hlioop first fra Austre til Nordurs, og siidañ fra Nordre til Vesturs. Hrædelegt Skruggu-Vedur

 upp=

uppkom Ared 1537, og ein yfermæta stor Reidarþruma, dunade miøg leinge i Loptenu, hvar epter i Skyunum heyrdest miked Op, og sæust miklar Elldflugur ut ur þeim koma, sem þo utslocktust ædur eñ þær kæme a Jordena, hvar af aller þeinkiu ad Dagur Drottens være uppkomeñ. Eñ hvad miklu hrædelegra Ovedur, mun sikast og heyrast, þegar Gud mun giora Himen og Jord ad eingu a þeim siidasta Heims Deige. Þegar Striids-Tiid er, plaga Meñ ad hallda sina Bardaga ædur eñ Hofud-Orustañ er halldeñ; liika so fara undañ smære Bodaner, ædureñ kemur sa mikle Guds Dooma Dagur, sem boda þad ad sa stigde Gud mune snarlega koma opeñberlegt Striid ad hallda, vid alla sina Ovine, og motþroañlega Syndara, og utbua allar sinar Skepnur til ad beriast i mote þeim. Hver mæ utseigia hvernig Lopted mune þrickiast nær þad mun hrærast under ollum Himne? Slikt Vedur sem þa verdur, hefur alldrei komed um allañ Heims Alldur, sem geingur yfer alla Jardar-Kringluna, og opnar Grafer hiña Daudu; Siooreñ mun þa riisa yfred hæt, med sterkum Yfergænge, og hrædelegum Brimoorum, so þad Folk sem leingst biir fra honum, mun þar vid stausa og nidur falla: Allur Jardar-Hnottureñ mun af Jardskiaalstanum hrærast, so hvert Huus mun yfer añad hrapa, og eckert epter standa. Alldrei hefur heyrst a medañ Heimureñ hefur staded, ad Festingeñ med Sool, Tungle og Stiornum hafe raskast, eñ a effsta Deige mun hun med stor Brestum forgæanga, þa mun Sool og Tungl sortna, og Stiørnurnar munu af Himne hrapa, ecke mun vid þetta bliifa, helldur mun breñande

Elldur

Elldur, af ollum Himne nidurfalla, og Jordeñ i sundur rifna, og opnast, og þar af uppstiiga ur Underdiupenu Reikur med Ellde og Gnistafluge, so Jordeñ mun verda full af Ellde og Reikiarsvælu; liika sem þegar Gud eidelagde med Vatnsfloodenu þañ firsta Heim, og þa uppspruttu ei alleina aller Bruñar, hins mikla Underdiups, helldur opnudust eirnig Himnaraufarnar, so ákaflega ringde á Jordena, Gen. 7, v. 11. So munu á effsta Deige ei einasta Himens-Gluggar opnast og láta Ellde á alla Vegu rigna, helldur munu eirnig Ellbruñar, ur þeim mikla Afgruñe uppspretta, og oll Heimsins gloosande Fioll springa, og Ellde uppspya sem Floode. Hiñ H. Gregorius, sem var kalladur hiñ Mikle, skrifar, ad þá eitt ognarleg Drepsott geck i Room, hafe hañ med sinum eigeñ Augum sed glooande Orvar af Himne nidurfalla, og særa Folked; Hvilikar Piilur, meinar þu þa mune á þeim siidasta Deige, epter Guds Bode, af Himne nidurkomnar verda, á þá Ogudlegu til ad fortæra þeim, og hvernig fær nockur Mañs Tunga, greint þad allt er ske mun á þeim effsta Deige. Þeim miikla Gude hefur ecke þocknast, ad láta oll þaug skelfelegu Undur sem ske munu vid þessa Heims Enda, af Johañe uppteiknud verda; ei olikt vegna þeirra Goomu, ad þeir skylldu ei ofmiog kviidande verda fyrer þeim Deige; þvi þa eirn sterkur Eingill kom ofañ af Himne, sem var Skye klæddur, og hafde Regnboga á Hofde, og hans Andlit var sem Sool, og hans Fætur sem Elldstolpar, og hafde i siñe Hende Bokar korn opnad, og kallade med hárre Rodd, liika sem þa Leon grenjar, og þa hañ kallade, toludu 7 Reidarþrumur

Rauster, og Johañes villde hafa skrifad þær, so sem vidkomande Heimsins Enda, eñ hañ heyrde Rödd af Himne seigia: Jñsigla hvad þær 7 Reidarþrumur hafa talad, og skrifa þad ecke. Apoc. 10, v. 4. Og Eingelleñ hoof upp sina Hond til Himens, og soor vid þañ Lifande, fra Eilifd til Eilifdar, ad eingeñ Tiid skyllde meir vera, so sem þad allt skyllde fullkomnast a Enda Heimsens.

§. 8.

Hvad munu þeir Ogudlegu tilgiöra, nær allt forgeingur, sem nu er sagt? Nær þeir sia ad Nadartiimeñ er ute, eñ Dagur Hefndareñar og Endurgialldsens uppkomeñ, munu þeir þa ecke fölna og blikna af Otta, sem daudur Nár? Mun þa hver sem liitur a añars Asioonu so hriggelega, og ser ecke añad a heñe eñ Daudans Mind, ecke skelfast eñ meir þar vid? Omogulegt er ad útskyra þa Skelfing er yfer þa kemur, þegar oll Natturañ vopnast i mote þeim; sem Guds Ovinum. Audvelldt er ad rada hversu mikel hafe vered Eimd og Tañagnystrañ þeirra i Sodoma, þa Ellde og Breñesteine af Himne rignde, yfer þa, og aller þeirra Stader voru i einu Bale, þa hefur hver þreingt ad odrum og hrunded a Elldeñ, ef hañ kyñe helldur þar med ad forda ser. Gen. 19. Eñ hversu miked Eimdar Op mun uppstiiga i Himeneñ af Jordu, og hvilik Adþreinging, eda hvad Trodningur mun verda i þeim almeñelega Heimsins Bruna, nær hañ allur uppbreñur, nær þeir Ogudlegu vilia forda ser, fyrer Skruggum, Elldingum, Jardskialfta og Bale, eñ sa þo ekert adgiort? Eñ

uppa

uppa þad Heimsens Born ætle ecke þetta se tóm Ordamælge, ad so verde sa. Dagur skelfelegur, a hverium sa birtest er allt Hollð dæmer; þa vil eg til ad saña þad, tilfæra nockrar Greiner H. Ritningar; So seiger vor Frelsare: Þar munu ske Teikn a Soolu og Tungle og Stiørnum, og a Jørdu mun Folked kviidande verda, og ørvilnast, Sioor og Bylgiur munu þioota, og Meñ munu fyrer Hrædslu vanmegnast, og af Epterbiidingu þeirra Hluta, hverier koma skulu a Jørdena, þvi ad Kraptar Himensins munu hræʀast, og þa munu þeir sia Mañsens Son komande i Skyum, med storum Krapte og Dyrd. Luc. 21, v. 25. 26. 27. Og aptur seiger hañ so: Strax epter Hørmung þessara Tiima, mun Sool og Tungl missa sitt Skin, og Stiørnur munu af Himne hrapa, og Kraptar Himnaña munu hræra sig, og þa mun Teikn Mañsens Sonar birtast a Himne, og munu þa grœta allar Kynkvisler Jardar, og þær munu sia Mañsins Son komanda i Skyum Himens, med Krapte miklum og Dyrd. Matth. 24, v. 29. 30. So skrifar Paulus: Þer vited þad siaalfer vissulega, ad Dagur Drottens mun koma sem Þiofur um Noott, af þvi, nær þeir munu seigia; Þar er Fridur, og her er eingeñ Hætta, þa mun Fordiørfuneñ snøgg yfer þa falla, liika sem Soott joodsiukrar Konu, og eige skulu þeir umflued geta. 1 Thess. 5, v. 2, 3. Um þeñañ mikla Dag Drottens maa seigia þad Spaamadureñ Zophonias seiger: Ad hañ se Dagur Grimdareñar, Dagur Hørmungar og Eimdar, Dagur Storms og Vindar, Dagur Mirk-

urs og Dim̃u, Dagur Skya og Þoku, Dagur Bꜳsunu og Trometa mot sterkum Borgum, og hꜳfum Festingum. Zoph. 1, v. 14. 15. Og Christus sialfur seiger: Þa mun verda so stor Hørmung, hvilijk ecke var i fra Upphafe Veralldar allt til þessa, og eige helldur verda mun. Matth. 24, v. 21.

§. 9.

Hvernig mun þeim Ogudlegu og Hræsnurunum vegna, er þeir a þeim Deige skulu koma fram̃ fyrer Drotten̄, og giora Reikningsskap fyrer allar þeirra Athafner? J Heimenum villdu þeir froomer og Guds Born halldner vera, en̄ þa verdur auglioost ad þeir hafa vered Diofulsens Børn, Fyrer hvilikre Smꜳn munu þeir verda, nær aller þeirra Hrecker, og øll þeirra Brogd, sem þeir hafa i Heimenum duled getad, verda opeñber, og koma i Lioos fyrer øllum Heime? Marger hafa i Heimenum viliad vera sem Skirlife, og Hreinferduger ꜳliteꝛ, en̄ þa koma upp øll þeirra Løstabrøgd; Marger sem Rettviiser, er ecke hofdu Samvitsku til ad giora sinum Nꜳunga hid minsta rangt til, um̃ þa kemur upp, øll þeirra Flærd og Prettviise, og aller sa ad vita um̃ hvad marga þeir hafa steted, hvad marga þeir hafa tællt og velad, og hvad mikla Fiemune þeir hafa med raungu under sig dreiged. Marger hafa i Heimenum, neitad þeirra Jllgiordum, og svared fyrer þær fyrer Rette, en̄ þa koma upp þeirra Meineidar, hvernig þeir hafa nytt ser, ogudlegra Talsmaña Adstod, og Lagaflækiur, og hvernig ranglꜳter Domarar hafa sed igegnum Fingur vid þa, fyrer Vinskap og Mutur, og

dæmt

dæmt epter þeirra Villd. Marger hafa i Heimenum stoled fra sinum Naunga, so ei hefur uppevijst orded, eñ þa kemur þad allt fyrer Dageñ, og liika hverier þeim hafa þar til hialpad og hillt þad med þeim. Marger hafa i Heimenum lated sem þeir hyrdtu liited um̃ þad Timañlega, og være vel anægder, sem þa formerkia fyrer Guds Doome, ad þeir hafa vered Agyrndar-Þukar, og kvaled sitt Hiarta med BukSorg. Marger hafa synt sig i Heimenum gudrækelega, beded, andvarpad, og grated i Skriptastolnum, og synt sina alvarlega Laungun epter þeirre H. Kvolldmaltiid, eñ þa opeñberast þeirra Hræsne, ad þeir hafa beded i Vantru, geinged til Skrifta, an sañrar Yferbootar, verdugs Underbunings, og sialfs sins Profunar, og hafa giort þetta af eintomis Vana; þa auglysest þeirra Vantru, þeirra Hiarta Ohoieñmæde, þeirra heimuglegur Ovinskapur, þeirra osundsiuka Hugskot, þeirra Tungu Flærdar-Tal, þeirra iñeleg Gyrnd epter Sællife, Riikdoome, Virding og Uppheſd; þeirra Hiartans Galeise, hversu þeir hafa vered hálfvolger vid Guds Orda Heyrn, hversu þeir hafa bakmællt sinum Naunga, og hversu þeir hafa ferduglega getad allt þviliikt huled, þa sa þeir ad vita þad þeir hafa þioonad Gude med Hræsne, þo þeim hafe, epter Daudañ, fyrer þeirra Gudrækne, miog hroosad vered, þa verdur þad Ioost, ad under Skine christelegra Truarbragda, hafa þeir ochristner vered, liika sem ein Skækia, sem brastar under Blooma-Kranse, eins og være hun Meya, þa sellur Yferskined af, hveriu þeir hafa kliint a sig i Heimenum, af þvi Doomarans Alvitska skiin þeim under Augun, þa

kemur fram̃ Guds Hootan er hañ sagde: Hvar fyrer kuñgiører þu minar Rettlætingar, og tekur miñ Sattmaala þer i Muñ, þared þu hatar Typtunena, og fleiger minum Ordum a Bak þer aptur; þetta giører þu, og eg þeige, þa meinar þu ad eg mune liikur þer, eñ eg vil straffa þig, og eg vil setia þad þer fyrer Augun. Ps. 50, v. 16. 17. 21. Þa verda þeir varer vid ad þeir hafa haft Yferlit Gudlegs Athæfis, eñ afneitad þess Krapte. 2 Tim. 3, v. 5. Ad þeir hafa vered vatulaus Sky af Vinde drifeñ, ofrioffsom Tre, tvisvar daud og upprært, grim̃ar Siaafarbylgiur, utlødrande sinar eigeñ Skam̃er, villar Stiornur, i hverium vardveitt er Myrkrañ Þoka ad Eilifu, Jud. v. 12. 13. Ad þeir hafa hverke vered kallder ne heiter, helldur volger, hvar fyrer Gud vill utskirpa þeim af sinum Muñe. Apoc. 3, v. 16. O, hversu mikelega munu sliiker Hræsnarar skam̃ast sin, þa þeir verda ad Forsmaan fyrer ollum Heime, og allt þeirra Flaaræde og Hræsnisskin, sær ei framar nockurn Yferlit; þar fyrer hefur Dionysius Carthusianus ecke ranglega sagt, ad a þeim mikla Deige, mun a medal allra Skelfinga Sañleikureñ verda hiñ skelfeligaste Hlutur, sem fyrer Ogudlega verdur fram̃lagdur, þeirra Sneipa mun ei verda oliik vid svivirdelega Smaan þeirrar Skiækiu, er fyrer Mey hefur hallden̄ vered, eñ orden̄ er uppeviis ad siñe Odigd, og verdur a Þiing færd til ad afhiidast, bundeñ vid Trestolpa, og so fyrer Almeñinge uthroopud, ad Tabla er bundeñ a Briooft heñe, hvar a heñar liootu Verk eru uppteiknud, so hver eirn meige lesa.

§. 10.

§. 10.

Allt hid Vonda, sem aller Hræsnarar hafa adhafst, bæde þeir sem i Vantru eru dæuer, og lijka þeir sem sa efste Dagur so æhitter, mun i Lioos leidast, hvad helst sem vera kañ, þvi af ollu skal þa Reikningur gioraft fyrer þeim er allt Hollð dæmer; ecke verdur þa yfer hinu minsta þagad af ollu þvi Illa, sem þeir giort hafa, fra þvi þeir first droou Anda, og til þess þeirra Saal foor ut af Liikumanum; Af ollu þvi Illa þeir hafa talad, og læted heyrast af sinum Muñe, og af ollu þvi Illa þeir hafa hurad og foolged i Hiarta ser; Ei einasta munu þa allar þeirra illu Athafner auglystar verda, helldur eirnig allar Kringumstædur, og oll Adferd þarad lutande; Hvar, hvadnær, med hverium Hætte, og hvad opt þeir hafa þad adhafst og ydkad. Hafer þu vered Þioofur og Svikarefur, þa verdur þad ecke einasta auglioost giort, helldur æsamt sær hver eirn ad vita, hvern, edur hveria þu hefur prettad, hvar og i hverium Stad þu giorder þad, nær og hvad opt þu hefur þad giort, hvernig og med hverre Adferd þu hefur stoled og sviked, og dreiged under þig rangfeinged Fe, hvert þad er sked med Underhyggiu, med falsadre Mynt, eda med svikeñe Voru, eda raungum Mæler, og svikulle Vog, eda ochristelegre Gydinga Rentu, edur odrum Hætte, hvar þu hefur geimt Foolañ, hver hyllt hefur þetta med þer, hvad þu hefur gefed af þvi stolna Goodse, og hvernig þu hefur eidt þvi. Hafer þu framed Saurlifnad, þa mun allt þvi vidkomande opeñberad og kuñugt giort verda, med hverre Persónu þu hefur Lostasemder drygt, hvad þu hefur hneixlañlegt talad,

ædur Verked fick Framgæng, med hverre Adferd þu drygder þad, og hverium Atlotum, æ hverre Stundu, i hverium Stad edur Afkrok þad giørdest, med hverium þu hefur sendt yckar Bref til ad mæla yckur Moot, hvad þu hefur gefed Milleferda-Foolke fyrer Omaked, hvad siælfre Hooruñe eda Frilluñe, hversu Hoorkonañ hefur læted Barned skiira under heñar Mañs Nafne, hvernig Skiækiañ hefur sinu Barne leinelega fyrerfared, og hvert hun hefur þvi kastad, hvada Veiting þu hefur feinged epter Verked, hiæ þeirre þu framder þad med, og hveria Gaafu þu feckst hiæ heñe i stadeñ, med hvilikum Klædum hun priidde þig, og hvernig hun hafde Peninga til ad kaupa þaug med, og hvad añad fleira þesshættar. I hveriu Alite verdur þu þæ fyrer Guds Doome? Muntu þæ verda halldeñ rædvandur, ærlegur Madur, eda rædvønd ærleg Kviña, eins og þu villder i Heimenum vera æliteñ? Þæ potar hver eirn ad þer Fingrenum, og verdur Hlessa af ollu þvi Illa sem þu hefur i Heimenum framed. Þæ kemstu ad fullre Raun um þad, ad Gud hefur vered alviis, og sed allt þitt Athæfe, þo þu i Heimenum villder ecke trua þvi; þæ ser þu ad þad er satt sem David seiger: Drotteñ þu rañsakar mig og þecker mig, hvert eg sit eda stend upp, þæ veitstu þad, þu forßerker minar Hugreñingar æleingdar, hvert eg geing eda ligg, þæ ertu i kringum mig, og ser alla mina Vegu, þviad siæ þu, þar er eckert Ord æ miñe Tungu, ad þu Drotteñ viter þad ei allt. Ps. 139, v. 1. 2. 3. 4. Liika þad Salomon seiger: Augu Drottens siæ um alla Stade, bæde illa Meñ og gooda.
Prov.

Prov. 15, v. 3. Ei siidureñ þad Elihu sagde vid Job; Guds Augu sia hvers Mañs Vegu, og hañ ser allra þeirra Footspor, þar er eingeñ su Þoka, og ei soddañ Myrkur, hvar Jllvirkiarner kuñe ad fela sig, Job. 34, v. 21. 22. Asamt þad Syrach seiger; Eirn Madur sem Hoordoom dryger, huxar med sialfum ser, Hver ser mig? Þar er myrkt yfer mer, og Veggerner leina mer, so eingeñ ser mig, hvern skal eg fordast? Sa hiñ allra Hæsta skeiter ecke minum Syndum. Soddañ Madur fordast ad eins Mañaña Augu, og hurar ecke ad Augu Drottens eru miklu skiærare eñ Sool- in, og sia allt þad Meñerner giøra, eirnig i heimuglega Afkiima, Syr. 23, v. 25. 26. 27. 28. Sia, þañig verdur allt opeñbert fyrer þeim siidasta Doome, og so þu hafer eingañ Efa um̃ þad, vil eg saña þad fyrer þer af H. Ritningu. Ad þu skuler giøra Reikning fyrer oll þin vondu Verk, þad vitnar Salomon, seigiande: Gud mun alla Giørninga frañleida fyrer Doomeñ, þa sem eru folgner, hvert helldur sem þeir eru Gooder edur Jller, Eccl. 12, v. 16. Og Paulus: Ver hlióotum aller ad opeñberast fyrer Doomstoole Christi, uppa þad ad hver eirn ødlest epter þvi hañ hefur adhafst i Liikamans Life, se þad Jllt eda Gott, 2 Cor. 5, v. 10. Johañes sa þa Daudu bæde Smaa og stora standa fyrer Gude; Bækurnar urdu upplatnar, og øñur Book var opnud, hver ad er Lissens, og hiner Daudu urdu dæmder epter Skripteñe i þeim Bookum, epter þeirra Verkum. Apoc. 20, v. 12. Ad þu skuler eirnig giøra Reikning af ollum þeim illum

illum og Onytiu Ordum sem þu hefur talad, þad syner sialfur Drotteñ Christus, er hañ seiger: Eg seige ydur, ad af hveriu þvi faafeingu Orde sem Meñerner tala, munu þeir Reikningsskap giøra a efsta Doome, Matth. 12, v. 36 Og Postuleñ Judas seiger: Drotteñ kemur med mørg þusund Heilagra, Doom ad hallda yfer øllum, og straffa þaa sem ogudleiger eru af þeim, fyrer allar Giørder þeirra ogudlegrar Umgeingne, hvar med þeir ogudleger voru, og fyrer allt þad harda, sem ogudleger Syndarar hafa mote hønum talad. Jud. v. 14. 15. Ad þu skuler liika giøra Reikning fyrer allar þinar illar og syndsamlegar Huxaner, vitnar Paulus þa seiger: Þæmed ecke fyrer Tiimañ, firr eñ Drotteñ kemur, sa er anglysa mun þad i Myrkrunum er huled, og opeñber giøra Raad Hiartnaña 1 Cor. 4, v 5. Og aptur; Gud dæmer leinda Hlute Maññaña epter minu Evangelio fyrer Jesum Christum, Rom. 2, v. 16. Um þetta meigum ver syngia:

Ordeñ og Verkeñ ottaleg,
Uppteiknud munu fiñast,
Her med allt þad huxade eg,
Hrigger mig þess ad miñast.
Gud naade mig aumañ Syndara!

§. 11.

Sia, kiære Vin! Sliikañ Enda tekur þiñ hræsnisfulle Christeñdoomur, ad ecke einasta verdur allt þetta opeñbert giort af alls Heimsins Doomara, fyrer øllum H. Einglum og Utvølldum, helldur eiliflig mun Christus tala til þess heila Ogudlega Skara, med so hrædelegre Roddu, ad aller þeirra

Lider

Lider og Limer munu titra og hristast. Þegar Gud utgaf sin 10 Bodord a Fiallenu Sinai, med Reidarþrumum og Elldingum, framtalade hañ þaug oll, med so hrædelegre og sterkre Roddu, ad allt Israels Herlid heyrde þad skiirt um allar þeirra Herbuder, hvar vid Foolked ottadest, ad fyrer soddañ Guds Þrumu-Raust munde þad deya, hefde hañ leingur ad tala framhallded, og þarfyrer bædu þeir Mosen ad tala vid sig, eñ læta Gud ecke giora þad, añars mundu þeir deya, Ex. 19, v. 20. Med hvad hrædelegre Rodd þeinker þu þa ad Guds Sonur mune aavarpa hañ ogudlega Hoop, a ytsta Deige? So mikel Kirrd verdur fyrer Christi Doomstole, ad aller Meñ sa oll hans Ord skyrlega heyrt, hellst vegna þess ad allt hvad hañ talar til hiña Fordæmdu, verdur so hrædelegt sem sterk Reidarþruma, hvar af þeir skelfast. Hafe Christus i sinu Nidurlægiugar Stande getad med þrem Ordum, nidursleiged til Jardar allañ þañ Striids-Præla Flock, sem kom til þess ad griipa hañ, þvi þa hañ spurde þa, ad hverium leited þer, og þeir svorudu, ad Jesu af Nazareth, og hañ sagde; Eg em hañ, þa hørfudu þeir a Bak aptur og duttu til Jardar, Joh. 18, v. 6. Hvad mun þa verda þegar þeir Ogudlegu a þeim siidasta Deige heyra hans Þrumu-Raust, fulla Reide og Grimdar? Hvar um David seiger: Rausteñ Drottens hun høggur sem Elldsloge, Ps. 29, v. 7. Þegar þeir h yra hañ tala, um hvern David talar: Reikur gaus af hans Nøsum, og fortærande Elldur af hans Muñe, so þar leiptrade af, hañ beigde Himnana, og ste ofañ, og Myrkur var under hans Footum, hañ foor upp a Cherub og flaug, hañ sveimade a Vindsens

Væng-

Vængium, hans Tkalld i kringum hañ var myrkt, og svart þickt Sky, þar sem hañ var med huleñ, ut af Glampanum fyrer hønum tvistruðust Skyeñ, med Hagle og Leiptringum, og Drotteñ dunade i Himnenum, og sa hiñ Hærste gaf ut sina Þrumu med Hagle og Leiptring, hañ skaut sinum Geislum ut, og sundurdreifde þeim, hañ let verda miklar Ellđingar og hræddе þa. Ps. 18, v. 10. 11. 12. 13. 14. 15. Nær hañ eirnig mun þa seigia; . z em hañ sem komeñ er til ad dæma ydur, og nidurhrinda ydur i Helviite; Eg em hañ, hvern þer hingaðril hafed forsmaad, og fra ydur reked; Eg em hañ sem þer hafed hardlega offokt; Hvad huxar þu soddañ Þrumu Ord mune verka?

§. 12.

Med soddañ skelfelegre og reiduglegre Naust mun Christus tala til hiña Ogudlegu, og frañtelia fyrer þeim hvad miked Gott hañ hafe þeim audsynt, og hvad oþackláter þeir hafa vered fyrer alla hans Velgiorninga, og med Þrumu Naust a þeñañ Hatt seigia; Heyred þer Belials Born, þer bolvader! Hvar fyrer hafed þer i mørg Ar, hvert Ared epter añad skañarlega reitt mig til Reide, og alldrei låted ydur alvarlega um̃hugad vera, hvernig þer mættud verda lauser vid ydar Synder. Eg hef ecke einungis af Kiærleika skapad ydur epter miñe eigeñ Mynd, helldur eirnig þa þer vorud fallner, endurleyst ydur fra ydar Eimdar-Stande, fyrer ydar Skulld hef eg þolad Hungur og Þorsta, Hita og Kullda, geinged um̃ kring i Volæde og Þreingingum; og eige haft þad, hvar ad eg kyñe mitt Hofud til adhneigia, Matth. 8, v. 20. Eg hef

hef utgefed mitt Lif ydur til Frelsis; Eg let mig forraada og fiotra, so eg leyste ydur ur Syndaña Bondum, og Diofulsens Snorum, þad var eñ ecke noog: Eg let mig eirnig krüna med Þyrnum, so eg utvegade Coronu Rettlætesins; Eg let mig negla a Krossen, og minu Bloode uthella, og eirnig a mig leggia, og mig umspeña, Helviitis Piinu, ad eg giorde ydur friia fra Daudans og Helviitis Vallde, þer hafed giort mer Erfide i ydar Syndum, og Mædu i ydar Misgiordum, Es. 43, v. 24. Eg la vid Oliufialled sem vesæll Madkur, og bar Guds Reide ydar vegna, þar vard min Saala hrigg fyrer ydar Synda Skulld, so eg skalf og titrade, og miñ Sveite vard Blooddropar, Luc. 22, v. 24. Eg trad Guds Viinþrugu eirnsamañ, og eingeñ af Foolkenu med mer, og borgade þar med þad eg ecke rænte, Es. 63, v. 3. Ps. 69, v. 5. Eg let gefa mer Gall ad eta, og Edik ad drecka i minum mikla Þorsta, so eg friiade ydur fra Hungre og Þorsta i Helviite ad eilifu, Ps. 69, 22. Fyrer ydar Misgiorda Saker var eg særdur, og fyrer ydar Synda Saker var eg lemstradur, Hegningeñ la a mer, uppa þad þer hefdud Frideñ, og yrdud fyrer minar Benjar heilbrigder, Es. 53, v. 8. Þa eg var straffadur og piindur, lauk eg ei minum Muñe upp, liika sem Lamb þad til Draaps er leidt, og sosem sa Saudur er þeiger fyrer þeim er hañ klipper, og uppliikur ei sinum Muñe, v. 15. Eg hef lated mitt Blood, sem er Guds Blood uthellast a Krossens Tre, og gefed mitt Lif i Daudañ, uppa þad eg endurleiste ydur fra ydar Bloodskulld, og frelsade ydur fra eilifum Dauda, og er so orden Daudanum ad Olifian, og Helviite ad Drep-

soott,

foott, Hos. 13, v. 14. Eg var burt sliteñ af Lande lifande Maña, þa eg fyrer Misgiorda Saker mins Fooks plagadur var, Es. 53, v. 11. Þeir Ogudleige og sa Riike redu fyrer miñe Grof þa eg var so dauen, þo eg hefde eingum Orett tilgiort, og eingeñ Svik være i minum Muñe, v. 12. Eg let eñ ecke vid þetta bliifa, helldur reis eg upp fra Daudum, þar epter, og baud minum Postulum ad fara ut um allañ Heimeñ, og kuñgiora Evangelium allre Skepnu, hvad eg giorde fyrer ydar Skulld, Marc. 16, v. 15. Eg hefe latid mina Postula og þeirra trua Eptersylgiara kalla ydur alla til mins Riikis, frambiooda ydur Himnariike og Saaluhiaalpena, og keña ydur, ad aller þeir sem a mig trua, skule fyrer mitt Nafn hafa Syndaña Fyrergefning Act. 10, v. 43. Seiged mer, miner truu Postular, Spaameñ og aller Utvallder; Hvad skyllde eg meira giora vid þetta ogudlega Foolk, þad eg hefe ecke giort? Es. 5, v. 4. Eñ seiged mer, þer Bolvader; Hvada Þacklæte hafed þer gollded mer fyrer alla mina Velgierninga? Komed fram med nockud, ef þer geted, hvar med þer hafed vered mer þacklaater og þioonad mer; O þu raangsnuna og illgiarna Kynslood, þu hefur falled fra mer, þer erud Skamar-Flecker, og ecke min Born, þackar þu þañig, Drottne þinum Gude, þu gallda og heimskufulla Foolk; Devt. 32, v. 5. 6. O vei þvi synduga Foolke, þvi Foolke mikilla Misgiorda, þess illskufulla Sædesins, þeim skadsomu Bornum sem yfergefa Drotteñ, og hafa vered mer oþacklaat fyrer alla þa Giæsku og Truseste sem eg hefe þeim audsynt, Es. 1, v. 4. Þer hafed forsmaad mitt Ord, og meted þad miña, eñ hid Tiimañlega; Þer hafed for-

forsmaad min Sacrament, sem eg iñsette til ydar Synda Fyrergefningar, og misbrukad þaug; Þer hafed forsmaad mina Forþenustu, mina Piinu, og miñ Dauda, troded mig under Footum, og Blood mins Saattmaala saurugt reiknad, fyrer hvert þer vorud þo helgader, Ebr. 10, v. 29. Þer hafed hædt ad minum Predikunum, fyrerlited mina trua Pioona sem i miñ Stad hafa aamint og vidvarad ydur, og lagt þeim allskins Hrædungar til. Mitt Liitelæte hafed þer forsmaad med ydar Dramblæte; Mina Hliidne hafed þer ovirdt med ydar Ohliidne; Mina Miskunseme hafed þer spottad, med ydar Ydrunarleyse; Eg kallade ydur til Umvendunar og þer villdud ecke; Eg utrette mina Hond, og eingeñ gaf þar Gaum ad, Prov. 1, v 24. Eg sloo ydur med Krosse, Mootgaange og Hormungum, so eg feinge dreiged ydur fraa ydar Syndum, eñ þer kendud ecke til þess; Eg þvingade ydur, eñ þer villdud ecke berast, þer hofdud hardara Andlit eñ Hellustein, og villdud ecke snua ydur, Jer. 5. v. 3. Þer elskudud þad Tiimañlega meir eñ þad Eilifa; Þer virdtud meir Heimeñ eñ Himeneñ; Þer sokiud meir epter Sællife eñ Saaluhiaalp. Til Kyrkiuñar forud þer, af Yserskine, eñ ecke til ad audga ydar Saaler: þer vorud alleinasta Ordsens Tilheyrendur, eñ ecke Giorendur, Jac. 1 v. 22. Þo þer heyrdud kent uñ Liitelæte, samt vorud þer hofmoodugер, uñ Anægiu, samt sleptud þer ecke ydar Agyrne; Uñ Forliikunarseme, samt var ydar Hiarta hefndargiarnt; Uñ Hoofseme, samt ofþyngdud þer ydar Hiarta med Ofaate og Ofdryckiu; Uñ Skiirlife og Bindende, samt vorud þer saurlifer liika sem aadur; Uñ Sañleika, samt hellдud þer aafram ad bakmæla og liuga aa ydar

O Naunga,

Naunga; Um̃ Nadvendne, samt um̃geinguſt þer med Flarede vid Naungan̄; Um̃ Nettviiſe, ſamt drogud þer ydur rangfeigna Aura, med Piofnade og Underhyggiu, og um̃ Gudrækne, ſamt ſkeittud þer þvi ecke, og forſoomudud ad dyrka mig. Hafed þer þa ecke vered Hræſnarar? Ydar Chriſten̄doomur hefur einaſta vered i Mun̄enum, firſt þarmed ſilgde eingen̄ Lifernis Betran. Hvar er ydar Chriſten̄doomur, hvers eg heſe opt af ydur krafeſt? Til Skripta og Alltaris hafed þer komed, einaſta til ad ſiaſt fyrer minu Auglite, en̄ hafed ei haft Augur fyrer ydar Synder, helldur ſan̄a Tru a mig, ei helldur Aſetning ad betra ydur, þo þer hafed þvi loſad; þar fyrer hafed þer medteked Drottens Kvolldmaaltiid overduger, ydur til Dooms Afelles, og orded ſeker vid mitt Holld og Blood, 1 Cor. 11, v. 27. Siaed þer þa ecke ydar Hræſne, þer Hræſnarar! Þer hafed haft Yferlit Gudlegs Athæfis, en̄ afneitad þeſs Krapte, 2 Tim. 3, v. 5. Þer hafed einaſta ſagt: Herra, Herra, en̄ ecke giort Vilia mins Fodurs i Himnenum, þar fyrer ſkulud þer ecke in̄ganga i Guds Riike, Matth. 7, v. 21. Þer villdud ecke Bleſsanena, ſem eg miked uppa koſtade, og diirt keipte ydur til handa, þvi ſkal hun ydur fiarlæg vera, en̄ þer villdud Bolvanena, og hun ſkal yfer ydur koma, og hun ſkal vera ydur ſem Fat, hveriu þer iklædeſt, Pſ. 109, v. 17. 18. Eg hefe giort ydur allt Gott, en̄ þer hafed launad mer ollu Illu. Ea hefe viliad ſaman̄ſafna ydur under mina Nadar Vænge, ſiika ſem Hænan̄ ſinum Ungum, en̄ þer hafed ecke viliad, Matth. 23, v. 37. Þer hafed ecke viliad þeckia ydar Vitiunar-Tiima, ne hvad til ydar Fridar heyrde, Luc. 19, v. 42. 44.

Þu

Þu bolvada Root! Þer Belials Born! Fyrer þad þer hafed so hædt og forsmaad mina Raad, skulud þer ecke sa Hle i heñe ad eilifu; Eingeñ af ydur sem boduer voru, skal smacka mina Kvolldmaaltiid, Luc. 14, v. 24. Eg sny allre miñe Naad og Ejsku fra ydur; Eckert Angur skal koma i mitt Hiarta fyrer þad, ad þer verded hiaalparlauser, ad eilisu; Eg vil afmaa ydar Miñing, og steipa ydur ofañi Helviitis Afgruñ, fyrer þad þer hafed af Friivilia troded mitt Bod under Footum, skulud þer vita, ad eckert Offur er framar meir til fyrer Syndernar, helldur hrædeleg Epterbid Doomsens, og þess Vandætingar sama Ellds, sem ydur Motstandarana svelgia mun, Ebr. 10, v. 26. 27. Þetta er ydar Hormunga Dagur, a hverium þer skulud fordæmast til eilifs Dauda. Þetta er Dagur Hefndareñar, a hverium ydar Olucka biriast. Alls sem ydur getur til Glede og Gedþecknis vered, skal ydur neitad vera, hvar i mot ydur tilkyñest Hrelling, Angist, Hormung, Skelfing, Kvol, Op og Toñagnistran, Orvænting, Kvein, og Ylfran, Elldur og Breñesteirn, ecke um vissañ Tiima, helldur um allar Eilifdareñar Eilifder, so þer skulud einga Hvilld hafa Dag ne Roott, helldur skal Reykur ydar Piisla, taka nu til ad uppstiiga fra Eilifd til Eilifdar, Apoc. 14, v. 11.

§. 13.

Þañig verda aller vantruader og ydrunarlauser Hræsnarar a efsta Deige fordæmder. Þad Vein og Kvein, Kall og Op sem þa verdur ad heyra, verdur ecke utsagt. Eindar Hlioodeñ taka allt upp til Himens, þa þeir Fordæmdu hroopa til Fiallaña, og seigia; Falled yfer oss, og til

Biargaña, hilied oss fyrer Auglite þess sem a Stoolnum situr, og fyrer Reide Lambsens, þvi sa mikle Dagur hans Reide er komeñ, og hver fær stadest? Apoc. 6, v. 16. 17. Eñ under hverium Klettum og Fiollum vilied þer hiner Fordæmdu hylia ydur? Øll Fioll og Biørg eru i burt vikeñ, og nidurhruneñ af þeim hrædelegu Jardskialftum, vid Doomarans Tilkomu. Hvar vilied þer felast fyrer hans Augsyn sem allstadar getur ydur funded? Vid þessar Skelfingar munu Æringa Ohliood koma fyrer Eyru hiña Ogudlegu, þeirra Augu hardtnær blindast; Þeirra Hiortu hardlega sla þa, og allur þeirra Liikame hristest; Uñ sliikañ Doom hafa þeir ecke i Heimenum adur þeinkt, sem hañ munde yfer þa gaanga; J Heimenum voru þeir jafnañ ofana, og baaru hærra Hlut, eñ standa þa nidre a Jordu, og sia med otraãlegre Furdu þa Utvolldu hia Christo i Loptenu, fulla af Fagnadar Kiæte. J Heimenum geck þeim allt ad Oskum, eñ þa eru þeir hiñe mestu Ogiæfu umgyrdter; J Heimenum voru þeir tiidum fyrer þeirra Hræsne metner sem Guds Born, eñ þa ser hver eirn ad þeir eru fordæmder Helviitis Ellde-Brandar, af þvi oll þeirra Jllska er uppkomeñ. O hvilíik Umskipte! O hvilíik akafleg Stansan! Hvad munu þer þa añad giora, eñ æpa og kveina? Sumer bidia um Naad, ætlande þeir faae hrært Doomarañ til Liknar, og Medaumkunar, eñ þo forgefins; Sumer afsaka sig med þeirra Fauvitsku, og þvi ad þeir hafe vered af odrum tælldter, eñ þad hiaspar ecke helldur; Sumer hafa ser til Afsøkunar, þeirra utvortis Guds Dyrkan, sem þeir hafa þa framed i Heimenum, og taka ad kalla; Herra! Herra! Hofum vër ei spaad i þinu Nafne, hofum

hosum ver ei i þinu Nafne Diosla utreked; Hosum ver ei i þinu Nafne morg Kraptaverk giort? Matth. 7, v. 22. Eñ þvi verdur ei helldur sætt: Adrer kalla; Herra! Herra! Lúk þu upp fyrer ofs, Matth. 25, v. 11. Ei helldur verdur þvi gegnt, helldur bliifur Doomareñ vid siñ affagda Doom, og medtekur einga Afsokun, þvi þad er uppa þa sañad, ad þeir hafa Hræsnarar vered og motþroañlega forsomad Nadareñar Tiima; þar fyrer lætur hañ siñ Doom framgaanga, til ad fullgiora þad hañ dæmt hefur, og med siñe hrædelegu Prumu-Raust seiger til hins ogudlega Skara: Fared burt fra mer þer bolvader i eilifañ Eld, sem fyrerbueñ er Fiandanum og hans Arum, Matth. 25, v. 41. Aller Illgiorda Meñ! Matth. 7, v. 23. Og i þvi hañ skipar þeim i burt, mun hañ med Reidarþrumuñi, Hagle og Elldingum, hrekia þa nidur i Helviitis Afgruñ. Um Kongeñ Philippum þañ añañ i Spania Lande, skrifar Raphael Columbanus, ad þa hañ sa eittsiñ tvo mikilshaattar Herrameñ skrafa samañ i Kyrkiuñe under Guds Orda Heyrn, hafe hañ, þa þeir voru heim komner, med hordum Ordum, og alvarlegu Vidmoote sagt til þeira; Þid tveir skulud ecke dieifast ad koma framar fyrer miin Augu, hvar vid þeim hafe so illt orded, ad añar hafe strax daued, eñ hiñ mist Rænuna, og orded afsiña. Hafe nu Kongsens Ord, sem þo var einungis Mañeskia, verkad so miked; hvilika Ogn munu þa þess medgaada Doomara Prumu-Ord; Fared fra mer, þer Illgiorda Meñ, verka medal hins ogudlega Hoops a ysta Deige? O hvilikt Hrigdar-Auka Ord. Ad fara fra Christo, þad lokar aldeiles Nadar Dyrunum. Ad fara fra Christo,

þad bodar þá ognarlegu Helviitis Piinu; O þañ hrædelega Sorgar-Gang; Frá hverium skulu þeir Fordæmdu fara? Frá Gude, frá hans H. Einglum og Utvolldum, frá Sáluhiálpeñe og Himneskre Glede, sem þeir hafa skamarlega forsoomad ad eignast, frá allre Guds Náد, sem þeir á Jorduñe hafa fyrerlited. O! Med hvilikre Hiartans Angist munu þeir burtfara? Forelldrarner hlioota burt ad fara frá þeirra Bornum, sem hoolpeñ eru ordeñ, Borneñ frá Forelldrunum, ein Systereñ frá añare, eirn Vinureñ frá odrum; Madureñ frá Konuñe, og Konañ frá Mañe sinum. O þá grátlegu Hrigdar For! Hversu aumkunarlega munu þesser Vesælingar, hiner Fordæmdu skignast epter þeirra Ættingium og Kuñingium, hvar þeir eru nidur komner? Hversu munu þeir horfa epter þeim Utvolldu, sem þeir siá koma i fullañ Fognud? Eñ þeir hlioota samt ad vikia frá Guds Auglite; þeir fara burt bolfærder og siñulauser; Eñ hvert? Christus seiger: Þeir munu gánga i eilifar Piisler, Matth. 25, v. 45. O þañ ognarlega Gang! A sama Augnablike, sem þad Ord; Fared frá mer aller Illgiorda Meñ, er uttceinaed af Christi Muñe, munu þeir Fordæmdu af Ellde umkringiast, og Helviite mun opna sitt Gyn til ad gleipa þá, ad þeir ligge i þess Diupe grafner ad Eilifu. Eige alleina rekur þá Ellds bolled epter þeim med Skelfingu, og Reidarþrumurnar med Stormvidre ur ollum Attum, og slá þá, helldur koma eirnig fram H. Einglar sem Guds Striidsher, og med nocktum Sverdum reka þá frá Auglite Christi, og á Flootta med sinu Hroope, so þeir Fordæmdu munu af Otta og Angist fliita ser i mesta Snarræde til Helvitis, og

hver

hver hrinder odrum fram̃ undan̄ ser; þa fullkom-
nast þad sem Christus seiger: Liika sem nu verd-
ur Jllgresed utlesed, og i Ellde brendt, so
mun og ske a Enda þessarar Veralldar; Man̄-
sens Son mun utsenda sina Eingla, og þeir
munu samañsafna ur hans Riike øllum Hneix-
lunum, og þeim Rangendeñ giøra, og þeir
munu kasta þeim i Elldsens Ofn, þar mun
vera Gratur og Tana Gnystran, Matth. 13,
v. 40. 41. 42. Og liika sem øll Sviina-Hiord-
eñ, i hveria Dioflarner fooru, fleigdu sier med
mikille Js i Siooeñ, og þaug dreckust i Vatnenu.
Matth. 8, v 32. So mun eirnig allur Skare
hiña Fordæmdu, asamt med Dioflenum og øll-
um illum Ondum, hastarlega med ognarlegum
Ohlioodum, med skelfelegu Þrumu Vedre, Hagle
og Elldingum steipast nidur i Helviitis Afgrun̄,
og sockva ofan̄ i Ellds og Breñesteins vellande Bal;
þa heiter þad liika sem David seiger um̄ þa Ogud-
legu; Drotteñ mun Elldenum utausa yfer þa,
med Ellde mun hañ þa dinpt i Jørdena nidur
sla, so ad þeir stande alldrei upp, Ps. 140,
v. 11. Þa uppfylleſt þad sem Johañes seiger:
Og Dauds og Helviite urdu køstud i Elldsins
Diike, þad er sa añar Daude, og ef nockur
fanst ei skrifadur a Lifs-Bookeñe, sa vard burt-
kastadur i þad Elldsens Diike. So aumlega
Endalikt fær aller Vantruader, sem dæed hafa i
þeirra Syndum; Hætt þarfyrer ad syndga vis-
vitande, þu hiñ Andvaralause, og giæt ad hvad
þu giorer!

§. 14.

Epter þá skelfelegu Upprisu hiña Vantruudu til Doomsins, og Jesu Christi oapturkallañlega Doom silzer lokksens su afbodslega H. lviitis Piina. Þegar Kongureñ Darius hafde lǽted utgaanga, og sialfur stadfest þad Bod, ad hver sem nockurs beidde sst i 30. Daga af nockrum Gude eda Mane, utañ af Kongenum alleina, sá skillde kastadur verda i Grof til Leonaña, og hañ villde aptur umbreita sama Bode, þvi hañ villde friia Daniel þar fra, sem hafde hans Bod yfertroded, þá komu Hofdingiar og Valldameñ Riikesens til Kongsens, og sogdu til hans: þad være Log i Media og Persia, ad þaug Bod sem Kongureñ hafe alyktad, skule vera oumbreitañleg: Dan. 8, v. 15. 16. Ef Doomur þeirra Konga mátte ecke umbreitast; hversu miklu siidur mun þá Doomur alls Heimsens Doomara aptur kalladur verda; med þvi ecke verdur skoted Málenu under nockurn añañ, þvi Gud er ecke Madur ad hañ liuge, eige helldur Mañsens Barn, so hañ angre nockud; skyllde hañ seigia nockud og giora þad ecke, skyllde hañ tala nockud og hallda þad ecke, Num. 23, v. 19. Israels Sigurvegare lygur ecke, og þad angrar hañ ecke, 1 Sam. 15, v. 29. Þar synet verdur þeim Fordǽmdu strax sem Doomureñ er affagdur og auglystur, kastad i Helviitis Elld, hvar þeirra eilifu Piiser uppbyriast; O þañ ognárlega Bustad! O þá ofbodslegu Vist! Hiñ riike Madur kallar þad Kvalastad, Luc. 16, v. 28. Ad þeinka um Helviite er ad viisu ognarlegt, ad sia þad med Augunum, er so langtum ognarlegra, eñ ad hrindast i þad, er hid allra ognarlegasta. Um. Fialled Etna i Sikeley, skrifar Athanasius Kircher-

gnæfa, og Kiærleikur margra ad koolna? Epter Christi Ordum: Matth. 24, v. 12. sem er Merke hiña siidustu Tiida. Geingur nu ecke eins til og fyrer Syndaflooded? hvar uñ Christus seiger: Þeir atu og druncku, þeir kvonguduft og letu gipta sig, Luc. 17, v. 26. 27. Sem eirnig eru Teikn hins siidasta Dags. Ef Dagur Drottens hitter uppa þig, i þinu Andvaraleyse, hverju aumkunarlegañ Enda muntu þa faa? O liuk upp þinum Augum, og sia! Set þer i Þanka þa Hættu i hverre þu sweimar. Eirn Madur Damocles ad Nafne priisade Dionysium Kong i Syracusa i Sikiley sælañ, fyrer hans Veglemd og Riikdoom, og meinte eingeñ i Heimenum være honum sælle. Kongureñ spurde hañ ad, hvert hañ villde ecke reina soddañ Sæln, hveriu Damocles jatade; Þa let Dionysius uppreisa og tilreida Konglegt Bord, og setia hañ þar vid, og feck honum marga Edalborna Meñ til Þioonustu. Eñ sem Damocles helt sig þa vera hiñ sælasta og best laa a honum, let Kongureñ siiga nidur igegnum Lopted yfer hans Hofde naked Sverd, er heck a einu Hesta Haare, hvar vid þa Damocles vard var, þorde hañ ecke ad hræra vid neitt a Bordenn, helldur took til ad skialfa af Hrædslu, og bad Kongeñ ad leifa ser fra ad ganga, þvi hañ gyrntest ecke soddañ Sæln, og sagdest helldur vilia vera Damocles, eñ Dionysius. Med þessu hefur Kongureñ viliad syna, hañ kyñe ecke gladur ad vera i ollu sinu Sælgiæte, af þvi hañ þeinkte uñ siñ yfervofande Dauda. Gud giæfe, ad þu sem i Ufagleyse lifer, mætter þañig verda var vid þiñ Haska, og sia hañ uñflued! Veistu ecke ad m dt i þinum Vellystingum hanger Guds Reide og Hefndarsverd yfer þer?

Viik þer undann ædur enn þad fellur a þig! Veistu ecke, ad sa efste Dagur, sem er Dagur Reidennar er fyrer Dyrum, og er uggvænt hann kune a þessum Deige, jafnvel a þessare Stundu yfer ad koma? Þvi liika sem Snara mun hann koma yfer alla þa sem a Jørdu byggia. Luc. 21, v. 35. Eins og þu ert þa a þig komenn, eins liidur þer i Eilifdenne. Epaminondas Yferhofdinge Borgarenar Thebæ's i Gricklande, fann eitt sinn einn Striidsmann sofande, sem atte ad standa a Vakt, og stack hann strax i Hel, og sagde: Eg skilst vid þig eins hættadann, og eg fann þig. Allteins fer umm þig, ef Christus a siidasta Deige finnur þig sofande i Syndunum. Liika sem hann finnur þig, so geingur þer siidann; Finne hann þig i Andvaraleyse; O, vei þa þinne aumu Saal sem ad Eilifu verdur utskufud! Þad seiger Christus siaalfur: Ef sa vonde Þioon seiger i sinu Hiarta, minn Herra dvelur enn nu leinge ad koma, og tekur ad slaa sina Samlags Þioona, etur og dreckur med Dryckiuruturum; þa kemur Herra þess Þioons a þeim Deige sem hann vonar eige, og a þeirre Stundu er hann meinar eige, og mun i sundurparta hann, og gefa hønum Laun med Hræsnurum, þar mun vera Op og Tannagnystran, Matth. 24, v. 48. 59. 50. 51. Laat þer i Hug koma hversu hinn siidaste Dagur mun hitta a flesta i Anndvaraleyse, og burtrykkia þeim i eilift Straff, þvi nær þeir seigia; Þar er Fridur, og her er eingenn Hætta, þa mun Fordiørfunenn snøgg yfer þa falla, liika sem Soott jood-siukrar Kvinnu, og eige skulu þeir umflued geta, 1 Thess. 5, v. 3. Þad skede Ared 1680, ad Fialled Conto i Grabotna Lande hrunde nidur af

Jard-

Jardskiælpta, med stor Brestum og miklum Harka, og fell a Augabraad yfer Stadenn Plors med fimtaan hundrud Manna, og hullde þad allt-samann, og þaa nockur Lik voru uppgrafenn undann Fiallsens Hrune, fanst medal þeirra, Lik einnrar Piiku, sem hellt Hænu i Hendenne, er hun hafde viliad skællda, og Braudbita i Munnenum. Lika so skindelega mun sa effte Daaur yfersalla og hitta margar hundrad þusundsinnum þusunder Manna i þeirra Syndum og Andvaraleyse; þaa mun margur Dryckiurutare hallda Bikarnum vid Munnenn, eda liggia sviinfullur og vitlaus. Margur mun þaa vera a Ferdenne til ad uthella Bloode, eda lifa i Oforliikun, tilbuenn ad hefnast a sinum Ovin; Margur mun þaa sveima i sinne Agyrne, og hafa ofþyngt Hiarta af Sorgum þessarar Næringar; Margur mun þaa hafa openn Munnenn til ad bloota, sveria og spotta, og i þvi Bile munu taka ad sinast og heyrast Reidarþruinur, og Elldingar; Margur mun þaa forsmaa Guds Ord, og ecke hafa þad fyrer Augum ser, og tala illa um hans Ord, og hans Þioona sem þad kenna, og þaa mun Christus framkoma med sinn straanga Daa; Margur mun þaa verda fundenn sinum Forelldrum og Yferbodurum ohliidenn, fyrerliita þaa, tala til þeirra med osannsynelegum Smaanar Ordum, og medga þaa, og i einu Augnablike sia þann stora Doomadag yfer koma; Marga mun þaa, sa store Doomsdagur Drottens ranna liggiande hia sinne Hooru, eda a Beigenum til hennar; Margur mun þaa vera framgaangande i Dramb-Klædum, eda fyrer Speiglenum standande til ad skrautbua sinn saafeinga Liikama, sem hverke hefur Þanka til Guds, eda sinnar Saalar Velferdar, og verda i

synd-

syndsamlegu Athæfe a þeim siidasta Deige yferfallen; Margur mun þa vera a Ferdenne til ad stela fra sinum Naunga, eda ad bera Foolann i Fylsne, ellegar hann hefur i Sinne ad sviikia hann og giora honum Afdraatt, i sinne Hondlan og Umm̃geingne, ellegar ad lata utganga svikna Mynt, ellegar ad briota Heilann i, hvernig hann kynne med Underhyggiu, og Rettar Yferskine, ad na under sig sins Naunga Goodse, og i þvi sama mun Guds Basuna kveda vid ad Himne, og kalla Mennena fyrer hinn siidasta Doom; Margur mun þa sitiande tala Flaarœde med sinne Tungu, liuga a sinn Naunga og bakmæla honum, og fyrer utann Bligdan og Angur, tala illa umm hann, og þa munu i Skyunum heyrast hrasar Rauster, sem til kynna gefa Doomarans Tilkomu; Margur mun þa hafa i Hyggiu idel vondar Synder, lata Syndena drottna i sinu Hiarta, og lifa epter Holldenu, og i soddann Andvaraleyse mun sa efste Dagur yfer hann koma; Margur mun þa hafa bænarlaus i Synd og Vantru, lagt sig til Svefns, og vakna vid Guds Ludurs Hliood, og hans Guddoomlegu Raust, sem seiger: Standed upp þer Daudu og komed til Doomsins! Liika sem Fuglarner, þegar þeir eru sem gladaster, hoppa og dansa med Korned i Munne ser, verda fangader i Snorunne, so mun Dagur Drottens yferfalla þa Andvaralausu, sem Snara, og svipta þeim skindelega i burtu a þeirre Tiid, sem þeim er vond: Þvi so sem Ellding utgeingur af Austre, og skyn allt til Vesturs, liikaso mun vera Tilkoma Mannsins Sonar, þa munu tveir a Akre vera, og mun eirn uppteken, enn annar forlaten verda, tvær munu þa i einu Kvernhuuse malande vera, og mun ein

ein uppteken, en øñur forlaaten verda, Matth. 24, v. 27. 40. 41. Mañsins Sonur mun koma a þeirre Stundu, sem þer meined ecke, v. 44. Dagur Drottens mun koma sem Þiofur uñ Nott, 2 Petr. 3, v. 10. Siaa! Eg kem sem Þioofur, seiger Christus. Apoc. 16, v. 15. Er þad þa ecke hin stærsta Naudsyn, ad þu, hiñ Andvaralause, snúer i þessu Augnablike af Syndaña Veige, þvi sa efste Dagur kañ ad hitta þig a life? Hvad verdur þa af þer? Slepp þess vegna ollum Hlutum, yema þvi, ad vera þer ute uñ saaluhiaalplegt Medal, fyrer hvert þin Saal faae umflued Haaskañ, uñ hvert sidar skal talast. Laat Doomsins Baasunu uppvekia þig af Svefne Syndaña, med þvi ad hafa hana jafnañ i Huga. Johañes Damascenus seiger fraa einum Konge, sem alltiid var þeinkiande uñ hiñ siidasta Doom, og forsmaade þar fyrer alla Veralldar Glede, hvad hans Broder lagde illa ut, og talade fyrer honum ad hañ skyllde giora sig gladañ. Sneña Morguns eittsiñ, let Kongureñ blaasa i Trometur vid sins Brodurs Huus, sem var Dauda Teikn i þvi Kongs Riike, þa hañ þetta h yrde iñ i sitt Svefnhuus, þeinkte hañ ecke añad, eñ hañ være af Kongenum til Dauda dæmdur, hlioop þvi i miklum Otta iñ fyrer Kongeñ, og bad hañ uñ Naad og Lifs Frest; eñ Kongureñ sagde til hans: Hvar fyrer ottast þu, kiære Broder, Trometaña Hliood, sem þo ecke hefur til Dauda uñed? Þvi leggur þu mer þad til Liita ad eg ottast fyrer Guds Dooms Baasunu, sem optlega hefe stigt hañ med minum Syndum, og helld mig þar fyrer fraa veralldlegum Lystingum? So byriar þer hiñ Andvaralause, ad forsmaa allar Heims Lystingar, sem motþroaña-

legar

legar eru, og snua þer fra þeim snarlega a Veg-eñ til Himens, so þu sert ecke i Vantru, þegar Guds Basuna lætur sig heyra: Upp og flijt þer til Guds ad bidia um Nꝛad, adur en Drotteñ kemur ofañ af Himnum, med Hroope og Hofud-eingilsins Raust og Guds Ludre! 1 Theſſ. 4, v 16. Gaumgiæf hversu oforſvarañlega þu hondlar vid þina Saal, ef þu lifer i Uggleyse, og veitst ecke nema Gud i Noott giore Enda a þessum Heime. Mer syneſt sem þeir H. Einglar, seu i Tilbun-inge ad setia sig i Fylkingar, og taka Ludrana i Hendur til ad fylgia þeim er allt Hollð mun dæma; Hvar fyrer hiimer þu þa hid andvaralausa Heims Barn, og virder fyrer þer, hvert þu skuler snua af Helviitis Veige? A medañ þu dvelur so vid, kañ Drottens Dagur ad koma yfer þig. Ei er gott ad standa vid i Pudur-Huse i Skruggu Ved-re og Elldgaange, þvi hlaupe Madur ecke þadañ, adur eñ Reidarslaged a þad dynur, fliigur hañ vissulega i Lopt upp, og misser Lifed. Vilier þu first hlaupa af Syndaña Veige þegar þær siid-ustu Reider sla, er þad hælst offeint, og þin Saaluhialp toput. Heimsens Doomare kallar sialfur til þin, og seiger: Ef þu ei vaker, þa mun eg yfer þig koma, sem Þioofur, og ei munt þu vita a hverre Stundu eg mun koma yfer þig. Apoc 3, v. 3. Og Jacob kallar til þin seigiande: Sia! Doomareñ er fyrer Dyr-um. Jac. 5, v. 9. Standed þvi upp og flyed, hver sem getur, og bued ydur til ad fordast Hææst-añ, sem opeñber er fyrer ydar Augum! Nalæged ydur ad Gude, so nalæger hañ sig ad ydur, hreinsed ydar Hendur, þer synduger, og hrein-ferduggiored ydar Hiortu, Jac. 4, v. 8. Upp

Upp,

Upp, þu Andvaralause, fliit þer, og forda þiſſe Saalu! Sæk til og kepſt epter ad ſa geinged iñ um hid þraungva Hlided til eilifs Lifs.

§. 5.

Miñ kiære Vin! ſkiott alldrei a Freſt þiñe Umvendan til Guds, helldur ſtrax ſem þu merker, ad þu ert ecke a Veigenum til Himens, og þin Samvitſka biitur þig og ottar þer, þa hura med þer, nu ſe mer eñ Mal ad lata af Syndunum. Vert til reidu, ad umvendaſt, og ſeig med þeim fortapada Syne; Eg ſkal uppſtanda og fara til Fodur mins, og ſeigia til hans, Fader! Eg hefe ſyndgad i Himeneñ og fyrer þer, Luc. 15, v. 18. Þvi þad ſkalltu vita, ad nær ſem þer koma goder Þankar i Hug til ad betra þig, nær ſem þin Samvitſka liika ſem kallar til þin, og ſeiger: Hvad giorer þu? Þu ert ecke a rettum Veige, hvernig villtu ſtandaſt fyrer Gude med þetta Athæfe? þa er Gud i Verke med til ad ſnua þer, og leida þig a rettañ Truar Veg. Hañ ſtendur þa vid Dyr þins Hiarta og klappar uppa med ſinum Anda og ſinu Orde, og vill þu ſkuler heyra hans Rauſt, og uppliuka Dyrunum fyrer honum, fyrer ſaña Umvendan. Apoc. 3, v. 20. Motſtander þu þa H. Anda, og viller ecke upplata fyrer honum med ſañre Ydran, þa hura uñ i hvilliikañ Haſka þu ſetur þina Saal! Þu veitſt ecke hvert hañ vill a Morgun klappa uppa hia þer i ſiñe Nad, eda hvert ſo goder Þankar koma iñ hia þer i añad ſiñ, þvi med ſoddañ Hætte hindra Meñ ſitt Apturhvarf. Dæme her uppa hofum ver a Agrippa Konge; ſem hrærdeſt i Hiartanu vid Pauli Predikun,

so sem hañ sagde: Liited vantar a, ad tala uñ fyrer mer, so eg giørest christeñ. Act. 26. v. 28. Eñ sem Paulus leitadest framar vid ad snua honum, stod Agrippa upp, og geck i burt, utslockvande þañ Neista, sem H. Ande hafde kveikt i hans Hiarta. Var þad þa ecke hans eigeñ Skulld þo hañ tapadest? Þo Madureñ kuñe ecke af sig ũ Kroptum ad umvenda ser, ei hefldur ad hialpa neitt þar til, so sem þad heiter: Snu þu mer, þa verdur mer snued, þvi þu Drottenn ert min Gud, Jer. 31, v. 18. Samt kañ hañ af eigeñ Kroptum ad hindra sitt Apturhvarf. Siukur-Madur getur ecke hialpad ser sialfur til Heilsuñar; eñ hægt er honum ad hindra sig fra ad na heñe, med þvi ad þiggia ecke Læknarans good Raad, forsma Medoleñ, og fleigia þeim fra ser, og med ostickañlegu Liferne olla þvi, ad Siukdoomureñ þroast, þar til Daudeñ fylger a epter. Sa i diupa Grysin er falleñ, getur ecke komest sialfur upp ur heñe, eñ hindrad getur hañ sig fra þvi, hvar fyrer hañ ma farast, med þvi ad taka ecke i Banded, sem ofañ til hans var varpad, til ad draga hañ upp med, ellegar ad hallda ser ecke fast vid þad. Hægt er Mañenum ad taka Lifed af ser, eñ ecke getur hañ gefed ser þad aptur, eda uppvaked sig af Dauda: So kant þu ad hindra þitt Apturhvarf, þo ecke geter þu gefed þer þad, ef þu motstendur Verkunum H. Anda; þvi liggur þer miog miked a ad fliita þer til ad fa Raad hia Gude, adureñ Daudeñ grijpur þig i sinum Syndum. Lat ecke Sathan hallda þer aptur, þvi hañ sæker epter þiñe Fordiorfun, og vill ecke sleppa þer ur sinum Snorum. Hiñ H. Athanasius

asius skrifar um Einsetumañen Antonium, ad Gud hafe opeñberad honum i eirure Sioon, Heimsins Astand, so hañ hafe sed Heimeñ a alla Vega, lagdañ med Snorum, og Dioflana sitiande þar iñañ um, dragande Snorurnar hingad og þangad, og fangad Meñena i þeim. Lat ecke helldur Heimeñ hallda þer aptur, þvi hañ situr a Svikrædum vid þig, liika sem sa osañsyne Laban sveik hiñ frooma Jacob, og i stadeñ fyrer þa friidu Rachel, fyrer hverrar Astar Saker hañ hafde þionad honum i sio Ar, gaf honum þa ofriidu Lea, Gen. 29, v. 23. So giorer Heimureñ; einum lofar hañ Heilsu og laungum Lifdøgum, sem þo burtsvipptest a sinum Midalldre; ødrum lofar hañ Riikedæme, sem hañ lætur þo falla i Armood; einum ødrum lofar hañ Heydre og Uppheſd, sem hañ lætur þo rata i Skoñ og Ovirdingu. Lat þvi hvorugañ þessara hallda þer fra, ad hrada þer a Veigeñ til Himens! Giæt ad i hvada Hæska þu ert! Giæt ad hvad skamviñ og fallvollt þin Efe er, hvad hverfur brædlegra eñ Mooda og Rik? So er þo þitt Lif, sem Jacob seiger: Hvad er ydart Lif? Rik er þad sem litla Stund varer, eñ siidañ hiadnar þad. Jac. 4, v. 14. Hversu snarlega visnar Bloomstred? So er þo þitt Lif; þvi Madureñ er uñ sina Lifdaga, sem añad Gras, liika sem Bloomstred a Vellenum bloomgast hañ, nær ed Vindureñ geingur þar yfer, þa er hañ ei meir, og hans Stadur þecker hañ ei meir. Ps. 103, v. 15. 16. Hvad hastarlega hverfur Skuggeñ? So er þo þitt Lif, þvi Madureñ fliir burt sem Skugge, og er ecke i sama Stad Jac. 14, v. 2. Og Lifed liidur snart burt,

so sem fliugum ver þadañ i frá. Ps. 90, v. 10. Hverſu fliott verdur Þrádureñ ſliteñ? So er þo þitt Lif: Min Æfe er lideñ, og frá mer i burtu riimd sem añad Fiármaña Hreiſe, ſeiger Ezechias Kongur! Eg ſliit mina Lifdaga frá, liika sem eirn Vefare. Eſ. 38, v. 12. Hverſu ſkiootlega reñur Vatnsſtraumureñ fram hiá vorum Sioonuñ? So er þo þitt Lif, sem Moiſes ſeiger: Þu lætur þá burtliida sem añad reñande Vatn, og þeir eru sem Svefn, liika sem Gras, þad ed ſnarlega viſnar, hvert ed ſneña bloomgaſt og ſkiootlega viſnar, og ad Kvøllde Dags verdur upphøggved og uppþornar, er hañ talar uñ Meñena, Ps. 90, v. 5. 6. Hyza til þeſſa o Madur! og giæt ad hvad Job ſeiger uñ Mañeñ, og hans Lifsſkeid: Hañ hefur ſiñ tilſettañ Tiima, hans Mánada Tala er hiá þer, þu hefur sett eitt Takmark, yfer þad kemſt hañ ecke, Job. 14, v. 4. Ihuga þetta vel, O Mañeſkia! og ſliit þer ad ſiá Raad fyrer þiñe aumu Sáalu! Vert ecke sem ſkinlaus Fenadur, hvern Meñ ſá ecke, þar Elldsneid uppá ſellur, utdreiged ur Huſenu fyrer Þverlindis Saker, og breñur helldur iñe, eñ hañ viliugur verde utláteñ! Þeink med þer, hvilliika Byrde af morgum þuſundſiñum þuſundum Synda þu hefur á þig lagt, og Straffed sem Gud leggur á fyrer þær er þer yferhángande, og fylger á epter. I einu Are eru 8760 Stunder, og þo þu hefder ecke drygt á hverre Stundu utañ eina Synd, sem margur dryger þo fleire, þá hefder þu samt hladed á þig so morgum Syndum á einu Are, og þá á 10 Arum 87600, tel so hvad gamall þu ert, og ſiá hvad mikil

Mergd

Mergd mune vera þiñ Synda Fiollde! Hafe Gud leinge vered vægdarsamur vid þig a þinum Syndaveige, þa mun Straffed verda þess hardara. Ef eitt Flioot stæde uppstijlad i 10 eda 12 Ar, umþeink hversu miked Vatn þa munde i eitt safnast, og bryte þad siidañ af Stysluna og hlype fram, med hvad sterku Afle, og hvilikum Hævodum meinar þu þad munde þa fram-briootast, og yfergænga allt hvad fyrer yrde, og þvi umroota, so omøgulegt være fyrer Mañleg Medol þad ad stilla? Med vidliikum Hætte yferfellur Guds Rettlætis Straff, þegar Mæler Syndaña er uppfylltur, þa brist þad fram sem brusande Straumur, og i Reide burtsliitur Syndarañ midt i hans Synda Hlaupe. Vara þig þvi fyrer Guds rettviisu Straffe! þegar þad yfer dinur, þa fer þad hardlega fram, og hver getur sagt, hvad langt þad er fra þer? Heyr hvad Drotteñ seiger um þad, hvernig hañ vill hondla vid andvaralausa, og forherdta Syndara; Haareñ meige riisa vid a Hofderu, nær þad er einasta lesed! Eg vil vera i moote þeim sem eitt Leon, og so sem eirn Pardus, vil eg umsitia þa a Veigenum; Eg vil mæta þeim sem eitt Biarndyr, sem Ungarner eru fraatekner; Eg vil sundur riifa þeirra hardudugt Hiarta; og eg vil upptaka þa þar, sem eitt Leon. Hos. 13, v. 7. 8. Af þessu ser þu, yferveger þu þad vel, hversu stor Naudsyn se a, ad þu strax snuer aptur af Veige Vellystingaña, sem þu hefur a geinged, og forsoomer ecke Tiimañ, ne slæer a Frest þiñe Umvendan.

§. 5.

Snu þarfyrer aptur, miñ gode Vin, ædur eñ Nædar-Dyrunum verdur fyrer þer aptur lokad, añadhvert fyrer oforvarandis Dauda, edur fyrer haſtarlega Tilkomu Jeſu Chriſti til Doomſens, þvi vid þeſſu er alltiid ad buaſt, og epter þad gagnar þer eckert ad kvedia Dyra, med þeim ſæviiſu Meyum, og ſeigia: Herra! Herra! Lúk þu upp fyrer oſs, þvi ſo ſañarlega, ſem Gud lifer, fær þu þa eckert añad Svar, af Heimſens Doomara, eñ þetta: Sañlega ſeige eg ydur, ad eg þecke ydur eige, Matth. 25, v. 11. 12. Þegar Tamerlanes Kongur hiñar kolldu Sviiþiodar ſetteſt um̃ einhveria Borg, til ad fá hana iñteked, plagade hañ i þria Daga, hvern epter añañ ad uppſlá ymeslegum Tiolldum. Þañ firſta Dageñ let hañ uppreiſa hvitt Tialld, hvar med hañ tilbaud Borgar-Moñunum Nád, ef þeir villdu gefa ſig upp, og á hans Valld. Añañ Dageñ var raudt Tialld uppreiſt, hvar med hañ gaf til Kiña, ad þo Borgeñ giæfe ſig nu upp, ſkillde þar epter fylgia Bloods Urhelling. Þañ þridia Dag var ſvart Tialld uppſett, ſem hafde þad ad þiida, ad þá være ecke Nádar frammar ad vænta, og eingum ſkillde þyrmt verda, hverke Ungum ne Gomlum. Laangt er frá eg vilie ſamliikia Gude vid þañ Tyraña Tamerlan, eñ þad vil eg ſeigia, ad vor Gud eirnig, liika ſem uppſlær þremur ſerdeilislegum Tiolldum. A vorre Lifs Tiid uppreiſer hañ hvitt Tialld, þá hañ i ſinu Orde tilbiidur oſs ſina Nád, Himnariiked og eiliſt Lif fyrer Chriſtum, og kallar ſo til allra: Komed til min aller þer ſem erfided, og þunga erud bladner, eg vil endurnæra ydur. Matth. 11, v. 28.

v. 28. Þegar Menerner er andvaralauser, og fyrerliita hans Ráad, slær hann liika tiidum upp raudu Tiallde, þeim til Vidvörunar, ad þeir skule láta af Syndunum; Þad giörer vor Gud, þá hann sender þeim Hörmungar og Andstreime til handa, hirtande þá her i Heime, so þeir kannest vid og vidurkenne sinar Synder, edur þá hann lætur sina Þiöna ogna þeim med hörmulegum Endalokum, er þeir hallda framm i sins Hiarta Hardud, og lætur so kalla til þeirra: Þu, epter þinu forstockudu og forherdtu Hiarta, safnar þer sialfum Reide uppá Reidennar Dag, og Openberunar Guds Rettlætis Dooms, Róm. 2, v. 5. Hrockve þetta ecke þeim til Gagns, uppsetur hann loksens svart Tialld, og annadhvert med illum Dauda, edur sinne skindelegre Tilkomu til hins efsta Dooms, rycker þeim burt i eilift Straff, þá Náadartiimenn er ute, og Guds Hefndar-Dagur tekur til, þá kallar Guds Rettlæte so til þeirra: Alldrei þeckta eg ydur, fared frá mer aller Illgiørda Menn, Matth. 7, v. 23. Tak vel epter þessu, kiære Vin, og snu af þinum Synda Veige á medann þad hviita Tialld hins mikla Guds er uppsleiged, hann kann enn i Dag ad uppreisa hid rauda, og taka ad straffa þig, edur jafnvel hid svarta, og svipta þer otilreiddum i burt ur Heimenum, og kasta þer i þaug eiliifu Myrkur. Ef eitt Kongur eda Stiornare utgiæfe þaug Log, ad hver sem drycke Viin, skillde ann Dvalar hallda sinne Hende umm eina Stund i siodande Oliu, þá kann eg trua ad margur fyrer Saker Straffsins, lete af ad drecka Viin, þo hans Náttura være þar miog til hneigd. Vor Gud hefur gefed strangt Logmál ut, ad hver sem af Mootþroa syndgar

allt fram̃ i Daudan̄, skule ad eilifu ann afleats breña i Helviitis Ellde, og uppbreña þo alldrei, sem ad framan̄ er umtalad. Skal þad ecke uppörfa þig, þu hiñ Andvaralause! til ad bua þig til ad leitast vid ad fa komest hia Helviitis Ellde? Þvi nær Eykeñ fellur, hvert sem hun fellur til Sudurs eda Nordurs, eda i hvern Stad hun fellur, þar mun hun liggia, Eccl. 11. v. 3. Þeink um̃ um̃ þad, Gud hefur med miklu Langlundargede vægt þer, og ma ske leingur eñ odrum, sem miña hafa syndgad eñ þu. Hversu margar Salerer munu nu kveliast i Helvitte, epter Guds rettvijsum Doome, hverium hañ hefur ecke eins leinge þirmt og þer, eda gefed þeim eins langan̄ Frest til Yferbootar, sem þer, sem þo ecke hafa, ma ske, eins miked syndgad og þu, og ecke haft eins mikla Þeckingu sem þu? Hvar med hefur þu forþenad ad vera luckulegre eñ þeir? Þu hefur leinge lifad i Uggleyse, eins og þeir, og þo liggia þeir nu vardveitter, til hins skelfelega Dooms, eñ þu ert eñ i Heimenum fyrer Guds Naad, og Guds hviita Tiallð er þer eñ fyrer Sioonum, aviisande þer, ad þu kuñer eñ ad fa Guds Naad, og losast fra Helviite. Hugsa alldrei ad þu hafer ecke syndgad so storkostlega sem adrer, þeir sem andvarpa yfer þeirra eilifu Eimd, þvi vid þad kiñer þu ad verda ugglausare. Þeink helldur med þer, hvad avaxtarlaust Fiikintre þu hefur vered allt hingadtil, a hveriu Gud hefur i morg Ar leitad Avaxtar, eñ eingan̄ funded! Hugsa ad Gud hafe sagt til Viingards Mañsens, meinande til þin; Hogg þad af; hvarfyrer hindrar þad Gardlended? Luc. 13, v. 7. Og þad være fyrer laungu afgiort, þvi Oxen hefur leiged vid þinar

Nætur, hefde ecke sa Himneske Viingards Madur Jesus Christus beded fyrer þer og sagt; Herra, lofa þvi ad standa þetta Ared, þar til eg gref um̃ þad, og læt ad Myke, ef þad villde so Avøxt færa, v. 8. 9. Þvi ef nockur syndgar, þa høfum ver Arnadarman̄ hia Fødurnum Jesum Christum þan̄ Rettlaata, 1 Joh. 2, v. 1. Þar fyrer aattu þad eingu ødru en̄ Christi Fyrerboon ad þacka, ad þu ert en̄ a Lise; Vert þvi ecke leingur andvaralaus, þvi ef þu gefur einga Yfferboodtar Avexte af þer, verdur þu sem ofriovssamt Tre upphøggven̄, og i Elldeñ kastadur, þvi so seiger Viingards Madureñ til Husboondans; En̄ ef eige, þa høgg þad eptera af. Luc. 13, v. 9. Þad er: Ef þu ber einga Avexte, þa verdur þu afhøggven̄. Þan̄ig ser þu, þa storu Naad sem Gud veiter þer fram̄yfer adra; Forsma þu ecke Riikdoom hans Godgyrndar, Þolen̄mædis og Langlundargeds, laat miklu helldur Guds Godgyrne leida þig til san̄rar Yfferbootar, Rom. 2, v. 4. Seigdu af Hiartans Audmykt vid þin̄ Gud; Æ Drottin̄! Drottin̄! hvad hefur þu þad gott hia mer funded, hvar med eg hafe forþenad ad þu hefur ecke burtsvipt mer i þin̄e Reide, liika sem odrum? Ecke er eg þess verdugur, ad þu hefur so leinge þyrmt mer, og haft Þolen̄mæde vid mig, o gef mer Naad til, ad liika sem eg i þessu vidurken̄e þina Naad, ad eg so meige fyrer san̄a Yfferboot fin̄a Naad hia þer Amen. Lef siidan̄ ecke vid um̄ eitt Augnablik, ad um̄venda þer, tilbu þig i Skinde, og keppst epter med øllum Hætte ad in̄gaanga um̄ hid þraungva Hlided til eilifs Lifs. Plutarchus skrifar um̄ þan̄ Thebaniska Kong Archias, ad a medan̄ han̄ sat

vid sitt Matbord, hafe honum Sendebref sært vered, hvers Jñhalld var, ad nockrer hefdu giort Samtok til ad myrda hañ; Brefberareñ red honum ad opna strax Brefed, og lesa þad, þvi þad hefde iñe ad hallda vigtuga Hlute, ad hveriu Konguren̄ hloo, og sagde: Þad sem Alvoru gillder, skal biida til Morguns, og lagde so Brefed oupp-broted under Sessu, er hañ a sat; A þeirre somu Noott var Konguren̄ af Pelopida aumkunar-lega drepeñ. So fer þeim Andvaralausu, sem ecke gefa Gaum ad Guds Ords Vidvorunum, og jafnañ giora Dvöl a ad um̄vendast, ad þeim verdur af Guds Reide burtkipt i þeirra Synd-um, fyrr eñ þeir ætla, so þeir sa siidañ eckert Rum til Yferboetar, hver sem þar fyrer ecke er a rettum Veige til Himens, take strax fyrer sig, sem hañ þetta heyrer ad fordast Haaska siñar Sal-ar, og þeinke med ser:

Nu stendur yfer miin Naadartiid,
Naudsin er þess eg giætte rc.

J Dag kantu ad sa Naad hia Gude, eñ a Morgun kantu ad vera burtriktur iñ i Eilifdena-Heyr þad Syrach seiger: Tef ecke med þina Yferbot þar til þu siukur verdur, betra þig helldur a medañ þu kant eñ ad syndga, drag þu ei undañ godur ad verda, og biid ecke med Betrun þins Lifs allt til Daudans, Syr. 18, v. 22. 23. Tak til nu i Dag, i Dag ad snua af Helviitis Veige, þvi nu eru Guds Naad-ar-Dyr opnar, eñ eingeñ getur sagt þer, þad være a Morgun. Riis þu upp og snust skioot-lega vid. Margar þusunder Maña hafa illa for-sed sig i þvi, ad gefa ecke Giætur ad þessu Orde, i Dag, i Dag, og eru af brádum Dauda burtu gripn-

gripner, so ad þeir meiga nu a þeirre fælufullv, myrkvu eilifu Noott forgefins þar yferklaga, ad þeir hafa ecke betur gaumgiæft Orded, i Dag, i Dag, sem þeir so optlega hafa i þessum Heime feinged ad heyra, ser til Vidvorunar. Upp! upp! þarfyrer þu hiñ Andvaralause, flyt þer, ꝼa fliit þer, til Frelsis þiñe Saalu, og keppst nu strax epter ad sa iñgeinged uñ hid þraungva Hlided, og seig til þiñar Saalar;

I Dag vid skulum skipta uñ skiott,
Skal Synd a Flootta rekeñ, ꝛc.

# XVI. Capitule.

## Uñ þad eina duganlega Medal til ad komast hia eilifre Fordæmingu, og a þañ retta Veg til Himins, og hvernig þad a ad brukast.

§. 1.

Þegar. siukur Madur merker siñ Siukdoom ad vera hættulegañ, og fiñur þad sialfur a ser, þa er hañ ser alvarlega ute uñ ad sa kroptugt Medal i mote honum, þvi hañ veit hañ kañ audvelldlega ad missa Lifed, leite hañ ser eingra Lækninga. Þu hefur miñ Vin, ad framañ heyrt, i hvada Hættu þu ert, ef þu ert ecke a Veigenum

til Himens, helldur lifer i Synd og Vantru. Þu hefur heyrt hversu stor Naudsyn þad se ad snua aptur af Syndaña Veige, ædureñ Daudeñ adkemur, so þu getur fordast þiñ Sælar Hæska, og komest hiæ Helviite. A þer liggur sæ vidurstiggeleige Sælareñar Siukdoomur Syndeñ, sem orsakar ecke añad eñ eilifañ Dauda, sem Gud hefur Adam, þec, og ollum Moñum auglyst fyrer Syndareñar Saker, þæ hañ sagde: A hveriumi Deige sem þu etur þar af, þad er, af þvi forbodna Tre, þæ skalltu Dauda deya, Gen. 2, v. 17. Þvi liggur þer æ kroptugu og duguñlegu Medale, fyrer hvert þu fær komest hiæ eilifum Dauda, þvi audrææded er fyrer þig, ad ekkert añad kemur epter Syndena, eñ eilifur Daude, og Fyrerdæming, af þvi ad syndga, er eckert añad eñ ad reita Gud til Reide, forsmæ hans Guddoomlegu Bod, setia sig upp og giora Upphlaup æ mote hans Guddoomlegu storu Hætign, og hallda hans Ord fyrer tooma Liige. Syndger þu af Mootþrooa, hvad giorer þu añad eñ ad sækia epter Fordæminguñe sem Gud hefur lagt vid Syndena? Ad viisu villtu ecke breña i Helviite, eñ þo villtu uppkveikia handa þer Helviitis Elld, med þinum Motvilia Syndum. Hvad giorer þu añad, þegar þu af Vilia og æsettu Raade syndgar, eñ ad bera Breñevid æ Elldeñ, sem þig mun breña og piina i Helviite? þvi fleire þinar Synder eru, þvi hærra blossar um̃ þig Helviitis Baal; Þu villt ecke kveliast med Dioflenum ad eilifu, þo villtu þioona honum, og giora þad sama, med hvoriu þu eñ viñur þer eilift Straff. Þegar þu syndgar af Mootþrooa, og villt þo ecke verda fordæmdur; þad er eins og þu kaster Ellde i þitt Huus fullt af Hælme, og under eins

eins segder: Ecke hef eg i Siñe ad breña upp mitt Huus: Eda sem þu drycker ofkaplega sterkt Eytur, og segder: Ecke vil eg þad spreinge i sundur i mer Hiartad; eda þu steipter þer ofañ af hæum Turne, og segder: Ecke ætla eg med þessu ad hælsbrioota mig: Eñ vilier þu ecke liida þad eina, þa mættu ecke helldur giora þad añad. Vilier þu ecke haalsbrioota þig, mættu ecke hellidur fleiga þer ofañ af hæsum Stad, þvi hvert fylger odru. Eins er hinu vared; vilier þu ecke fordæmast, mættu ecke helldur af Mootþroóa syndga, eda vera oguðlegur, og lifa epter þinu vonda Hollde, eda Diofulsens Villo, og þeim ogudlega Heime; Þvi, ef þer lifed epter Holldenu, munud þer deya, seiger Paulus, Rom. 8, v. 13. Þad er, þeim eilifa Dauda. Og þo þu vilier ecke trua ad Syndeñ skade þig so miked, af þvi þer þiker iñdællt ad giora hana, þa stodar þig þad þo ecke meira, helldureñ þo þu hefder iñteked Eytur i Sykre, og villder ecke trua þad skadade þig, af þvi þu fiñur ecke Eytur=Smeckeñ fyrer Sikursens Sætleika; Hvert eirn truer þvi eda ecke, samt springer Eytred, sem hañ hefur iñteked, hans Hiarta i sundur; Se þetta satt, hvarfyrer syndgar þu þa so diarflega, og villt ecke trua, ad þinar Synder seu Saalareñar Olifian, sem deyde þina aumu Saal? Sertu Hoorkarl, Ofaatsmadur, edur Dryckiurutare, Oforliikunarsamur, Hatursfullur og Hefndargiarn, eda Homoodugur, Svikſamur og Agiarn, eda þu blootar og sver, liigur og baktalar, eda fyrerliitur Gud og hans Ord, og lifer epter þinum illu Hollds Gyrndum, hlytur þu ad deya þeim eilifa Dauda og fortapast, hvert sem þu truer þvi eda ecke, þvi þeir sem slykt giora erfa ecke Guds

Riike;

Riike; Gal. 5, v. 21. Þeir hafa ecke Arfstoku i Riike Christi og Guds; Eph. 5, v. 5. Þeirra Hlutdeilld mun vera i Diikenu, sem af Ellde og Breñesteine Logar, hvert ad er sa añar Daude, Apoc. 21, v. 8. Veitstu ecke ad Rangläter munu ei eignast Guds Riike? 1 Cor. 6, v. 9. Sia, hvernig þu ert sañfærdur i þiñe Samvitsku! Hvad er þad añad, þegar þu syndgar viliande, eñ þu seiger: Eg vil fordæmast? þvi þu kañt ecke hia þvi ad fara, ef þu ydrast ecke af Hiarta. Ef eirn Madur være i Puudur-Huse staddur, og kastade Ellde i Pudred, og segde: Ecke ætla eg mer þo ad fliuga i Lopted; Munder þu ecke hallda hañ vera galeñ Gyck? þvi under eins sem hañ kastar Elldenum i Pudred, er liika sem hañ segide skiirlega: Nu vil eg fliuga i Lopted, þvi hans Fyrertekt kañ ecke añañ Enda fa. Liika so helld eg þig ad vera därlega og forblindada Mañeskiu, ef þu syndgar af Mootvilia, og seiger þo: Eg vil ecke verda fordæmdur, þvi þad er liika sem þu segder: Eg vil ecke verda hoolpeñ, helldur fordæmdur. Seiger ecke Gud so: Þetta giører þu, þad er: Þu syndgar af Illvilia, eñ eg þeige, þa meinar þu eg mune vera liikur þer, eñ eg vil straffa þig, og eg vil setia þer þad fyrer Augun, Ps. 50, v. 21. **Eg er Drotteñ Gud þiñ, eirn vandlætande Gud, vitiande Ranglætis Fedrañа a Børnunum, i pridia og fiorda Lid þeirra sem mig hata**, Ex. 20, v. 5. Serdu ecke her af hvernig þin Samvitska verdur sañfærd og yferuñeñ? Þiofureñ sem hefur Ynde af ad stela, ma läta ser liika ad hañ verde heingdur, eins liika Mordingeñ, sem uthellt hefur Mañs Blood, ad hans Bloode verde aptur uthellt, epter

Yfervalldsens Skilldu; Eins er um̃ þig; Hafer þu a þvi Vełþocknan ad syndga, þa mattu ecke krimpa þer vid Helviitis Ellde, þvi sa ypparste Doomare, og Loggiafare fordæmer þig sem Synd-ara epter siinum Logum. Þegar þu syndgar, mod-gar þu Gud, og giorer Upphlaup i mote honum, þvi Syndeñ er Motblastur i mote honum. Num. 16, v. 11. Ef þu sem Upphlaups-Madur, setur þig upp i mote þinu Yfervallde, fær ad sæta Lifs Straffe sem Seba Son Bichri, sa er reiste sig upp a mote David Konge, 2 Sam. 20, v. 22. Þa mattu vel huxa hvernig þer mune afreida, sem giorer Uppreysn i mote Drottne allra Drottna, og ert honum ohliidugur, syndger þu, þa for-smaer þu Guds Bod, helldur hans Ord fyrer Lyge, og tredur þaug under Footum. Þegar eirn Undersaate forsmaer Kongsins Bod, sem hañ hefur lated opeñberlega uppsla, riifur þad ofañ og for-tredur þad, verdur hañ hardlega straffadur. Mein-ar þu þa, ad þu slepper frii, sem so skam̃arlega forsmaer þess Hæsta og Voldiiga Guds Bod og Skipaner? Syndgar þu med Dryckiuskap, helld-ur þu þa ecke þaug Guds Ord fyrer Osañende, ad Ofdryckiu-Meñ munu ecke erfa Guds Riike, 1 Cor. 6, v. 10? Med þeim Hætte kanu ecke ad hallda þad Guds Ord fyrer Satt i þinu Hiarta, añars drycker þu þig ecke fullañ. Þegar þu hegd-ar þer i ollu epter Heimenum, stærer þig og kræser, sviikur, bolvar og fremur allra handa Vellystingar, af Mootþrooa, þa helldur þu þesse Ord Drott-ens; Hegded ydur eige epter þessum Heime, soñ ad vera, og virder þaug ecke sem Guds Ord; Med saun Ordum. Þegar þu af Moot-þrooa syndgar, er liika sem þu farer til Fiallsens Sinai

Sinai hvar Gud utgaf sitt Logmaal, og uppsloo sinum Bodum opeñberlega, og ryfer þaug ofañ og troder under Footum þer, ihuga vel, hvad þad er ad syndga, og hvad þu gierer, þegar þu syndgar viliande! Elsker þu þina Saalar Velferd, þa sæk epter ad komast rettañ Veg til heñar! Vilier þu ecke i Helviitis Elld utkastast, þa sia þig um epter þvi eina Medale fyrer hvert þu fær umflued Fordæminguna! Siaer þu þig vera mteken af Saalareñar Sytre, Syndeñe, þa leita þer skiootlega kroptugrar Lækningar þar vid, adur eñ þad deyder þig! Se ecke Saaluhiaalpareñar Medal rett brukad, og i Tiima, þa er ecke framar Hiaalpar Von. Liika sem sa hliitur ad deya, sem einkis Matar ne Dryckiar vill neita sinu Lise til Viburhallds; Liika sem sa hliitur ad druckna, er sellur i diupt Vatn, og hverke vill finda til Lands, ne liida hañ se uppdreigeñ; so hliitur þu ad farast i þinum Syndum, og deya eilifum Dauda, ef þu ecke umvender þer, og brukar þad retta Medal, til ad umvendast; **Þvi Verdlaun Syndareñar er Daudeñ, Rom. 6, v. 23.** Þad er sa eilife Daude, hvar i mot eilift Lif er Guds Gaafa i Drottne vorum Jesu Christo.

§. 2.

Hvad vidviikur þvi retta og osvikula Medale til ad frelsast fra eilifre Fordæmingu, þa er þad Mañeskiuñar soñ Yferboot, og rettskickud Umvendan til Guds, þvi þar med fær hun snued ser fra Guds Reide, og orded frii fra Helviitis Ellde. Ad soñu erum ver sem Christner erum i vorre Barnæsku, i þeirre H. Skyrn komner i Guds Naad, og ordner forliikter vid hañ sem Paulus seiger:

seiger: Þer erud aller Guds Børn fyrer Truna a Jesum Christum, þvi so marger af ydur sem eru skyrder, þer hafed iklædst Christo. Gal. 3, v. 26. 27. En af þvi ver aller syndugum a ny, þegar ver brøgunst a Legg, missum optlega Guds Náad, og inviñum oss eilift Straff med vorum Syndum, med þvi ad ver af Illgyrne stiggium vorn Gud; þa þursum ver duganlegs Medals vid, til ad komast undan Guds Reide, og þvi Straffe, er hañ oss hootar, hvert ad er soñ og hrein Ydran og Umvendan. Gud biidur nu ollum Moñum, i ollum Endemorkum, ad giora Yferboot, þvi hañ hefur Dag tilsett, a hverium hañ vill dæma alla Jardarkryngluna med Rettviise Act. 17, v. 30. 31. sem Paulus seiger; Og Johañes Skyrare seiger til Pharisæaña: Þer Nodru Kyn! Hver kende ydur ad flya fyrer tilkomande Reide, af þvi giored verdugañ Avøxt Ydranar, Matth. 3, v. 7. 8. So sagde Petrus til Gydinganña, þa þeir spurdu hañ ad, hvad þeir skylldu giora, so þeir feinge eilift Lif; Giored Yferboot, og hver ydar eirn laate skyra sig i Nafne Jesu Christi til Fyrergefningar Syndaña, þa munud þer medtaka H. Anda Giof, þvi ydur og ydar Bornum er þetta Fyrerheyt lofad, og ollum þeim sem i Fiarska eru, hvoria hellst ad Gud Drotteñ vor mun hertil kalla, Act. 2, v. 38. 39. Og aptur: Fyrer þvi giored Yferboot, og snuest, so ad afmaaest Synder ydar, so Endurlifgunar Tiime kome fyrer Herrans Augsyn, Act. 3, v. 19. 20. Fyrer þetta Medal snyst Guds Reide fra Moñum, sem sia ma a David, þvi þa hañ giorde saña Yferboot, og sagde: Misgiort hef eg i mote Drottne, komst hañ hia þvi eilifa Straffe, þvi

Spamadureñ Nathan sagde til hans: So hefur Drotteñ burtteked þina Synd, þu munt ecke deya. 2 Sam. 12, v. 13. Fyrer þetta Medal kañ eirnig þad Tiimañlega Straffed ad afvendast, edur ad minsta Koste linast, sem sia ma af Ninivitum; þvi þa Gud sa þeirra Verk, ad þeir sneru ser fra sinum vonda Veige, angrade hañ þad Vonda sem hañ hafde sagt, ad hañ villde giora þeim, og giörde þad ecke, Jon. 3, v. 10. so hañ eidelagde ecke þeirra Borg, sem hañ hafde þo hootad ad giora, fyrer Muñ Spamañsens Jonas. Þad er þad sem Drotteñ sagde fyrer Spamañeñ Jeremiam: Skindelega tala eg a mote eirnre Þiood og Kongs Riike, ad eg vilie uppræta, sundurbriota, og fordiarfa þad; Eñ ef þad sniir ser i burt fra siñe Voudsku, a mote hvorre eg tala, þa skal mig eirnig angra þa Ogiæfu, sem eg hugde ad giora þeim, Jer. 18, v. 7. 8. Eñ se eingeñ soñ Yserboot giord, þa fylger omotmælañlega a epter, tiimañlegt Straff, og serdeilis eilif Fordæming. Hugleidum ver allar þær Mañeskiur sem H. Ritning frasfiirer ad tapast hafe, þa er þad ecke einasta þarfyrer sked, ad þær hafe syndgad, helldur fyrer þad þær hafa afram hallded i Synd og Vantru, og ei giort saña Yserboot, ei helldur truad a Christum. Hvar fyrer forst so mikill Fiollde Mañа i Synda-Floodenu Tiimañlega, og flester af þeim Eiliflega, af þvi þeir sneru ser ecke, þo Gud gæfe þeim 120 Ara Frest til Yðrunar. Gen. 6, v. 3. Hvarfyrer var øllum Jnbyggiurum i Sodoma og Gommora foreidt? Af þvi þeir sneru ser ecke, helldur lifdu i þeirra Syndum, sem voru miog þungar, so þeirra Hroop var uppstiiged i Himeneñ, Gen. 18, v. 20. Hvarfyrer

tapadest Saul Kongur? Af þvi hañ giørde ecke saña Yferboot, epter þad hañ hafde syndgad a mote Drottne, þvi hañ doo i sinum Misgiørningum. 1 Paral. 11, v. 13. Hvarfyrer fortapast so margur nu um Stunder? Af þvi þeir syndga i Ofdirfd, og ganga fram i Vantru, allt þangadtil ad Gud kemur, og burtsvipter þeim i siñe Reide, og þeir vilia ecke keppast epter iñ ad ganga um hid þraungva Hlided.

§. 3.

Med þvi eckert añad Medal er ad fiña til ad sa umflued Guds Reide, vesælañ Dauda, skelfelega Upprisu til Doomsins, og eilifa Helviitis Piinu, eñ soñ YDran, þa er Naudsyn ad vita hvad soñ Yferboot og Umvendan se, hvar i hun se iñefaleñ, hvad marger seu heñar Partar, hvad hana hindre, hvernig hun meige giørast, og hvar af þeft verde, ad hun se ecke af Hræsne, helldur alvarleg. Hvad þad firsta ahrærer, sañarlegre Umvendan vidkomande, þa er hun Guds Verk, þegar H. Ande fyrer Guds Logmal leider Mañeskiuna til heñar Synda Þeckingar, so hun fyrer Guds Naad rañsakar sialfa sig, ser og vidurkeñer sinar Synder, og þa Ogiæfu, sem hun hefur med þeim yfer sig leidt, skelfest þar af, hrædest fyrer Guds Reide, og angrast mikelega af þvi hun hefur steipt siñe Salu þañig i mesta Hæska; Þvi næst uppveiker H. Ande fyrer Evangelium iñelega Laungun i heñar Hiarta epter Guds Naad, so hun vill giarnañ verda kvitt, af sinum Syndum, og verkar i þvi Trunadartraust a Guds gruñlausu Miskunseme, ad hañ fyrer Jesu Christi Piinu, Dauda, og fullkomnu Fullnadarbootar Saker, vilie

verda heñi nauđugur, forlaata heñe allar heñar Synder, og Misgiorder, og giora hana rettlaata og saaluhoolpna. Ad þad se einasta Guds Verk, og þad se ecke af Mañens Kroptum, ad hañ umvendest, helldur miklu framar af Guds Naad, þad vitnar Jeremias, seigiande: Snu þu mer Drotteñ! þaa verdur mer snued, þvi þu Drotteñ, ert miñ Gud, þaa er eg snerest bætta eg mig, Jer. 31, v. 18. 19. Liika so Petrus: Þeñañ Jesum hefur Gud fyrer sina hægre Hønd upphafed til eins Høfdingia og Lausnara, ad veita Israel Ydran, og Syndaña Fyrergefning, Act. 5, v. 31. Ad H. Ande fyrer Guds Logmaal leide syndugra Meñ til Þeckingar þeirra Synda, so þeir rañsake sialfa sig, og vidurkeñe sitt Naunglæte, þad vitnar Paulus, seigiande: Fyrer Løgmaaled kemur Vidurkeñing Syndareñar. Rom. 3, v. 20. Og aptur: Eg þeckte ei Syndena, nema fyrer Løgmaaled, þvi eg visse eckert af Gyrndeñe, ad hun være Synd, hefde ecke Løgmaaled sagt; Eige skalltu girnast! Rom. 7, v. 7. Ad saa Syndare, sem Yfer-boot gjorer, hrædest Guds Reide, fiñe til heñar i siñe Samvitsku, og verde ottasleigeñ vegna siña Synda, þad sest af Dæme þess ydrande Davids, þaa hañ sagde: Drotteñ! þin Skeite þaung standa i mer, og þin Hønd hun þiakar mer, eingeñ Fridur er i minu Hollde fyrer þiñe Ognan, og eige neirn Fridur i minum Beinum sokum Synda miña, þviad minar Synder eru uppgeingnar yfer mitt Høfud, liika sem ein þung Byrde, eru þær mer ofþungar ordnar, Ps. 38, v. 3. 4. 5. Liika so af Dæme Ezechias Kongs, sem sagde; Alla mina Lifdaga, vil eg fordast soddañ

soddañ Harmkvælingu miñar Sælar, sua þu, uñ Huggun var eg angurbiteñ. Es. 38, 15, 16. Eñ ad H. Ande verke eirnig fyrer Evangelium, i Hiortuun ydrande Maña, Laungun epter Guds Nad, og Traust a Guds Miskunseme, vegna Christi Forþenustu og Piinu, sem þeir med Truñe umfadma. Pad vitnar Paulus og seiger: Hvernig skulu þeir trua a þañ af hveríum þeir hafa ey heyrt, eñ hvernig skulu þeir heyra añ Predikaraña, fyrer þvi kemur Trueñ af Heyrneñe, og Heyrneñ fyrer Guds Ord. Rom. 10, v. 15. 17 Pad er fyrer Predikun H. Evangelii, edur Truareñar Ord hvert ver predikum, so sem Paulus ad Orde kemst, v. 8. Pañig reider David sig i siñe Ydran a Guds Miskunseme, sem bigd er a Christi Forþenustu; er hañ seiger: Miskuna þu mer Gud epter þiñe Miskunseme, og afma minar Synder epter þiñe Miskunseme, og afma minar Synder epter þiñe storu Miskunseme; Þvo þu mig af Misgiørd miñe, og hreinsa mig af Synd mine, afleis þu mig med Isopo, so ad eg hreinsest, þvo þu mig, soad eg sniohvíitur verde, lat þu mig heyra Føgnud og Glede, soad þaug Beineñ gladvær verde, sem þu hefur i sundur broted, hugga mig aptur med þiñe Hialp, og sa Mattar-Ande styrke mig. Ps. 51, v. 3. 4. 9. 10. 14. Soleidis reider sig Daniel uppa Guds Miskunseme i siñe Ydrunarbæn, og seiger: Ver liggium fyrer þer med voru Bæna Akalle, ecke uppa vort Rettlæte, helldur uppa þina storu Miskunseme, Dan. 9, v. 18. Og þarmed meinar hañ þa Guds Miskunseme, sem grundud er a Christi Fullnægiugiord, þvi þa hañ adur bad

um̃ Bænheyrslu, setur hañ þesse Ord þar vid, fyrer Saker Drottens, v. 17. Þad er fyrer Saker þess Drottens, sem er Messias, Drotteñ yfer øllum Drottnum, og Kongur yfer øllum Kongum. Apoc. 17, v. 14. Þar fyrer er soñ Um̃vendan i þvi iñesaleñ, ad Madureñ, fyrer Gudlega Upplysing, audmiukl ega vidurkeñe sitt Ranglæte og sinar Synder, og angrest mikelega þar af, ad hañ hefur reitt Gud til Reide, og þad motþroañlega, eñ hughreista sig a ny, og leita Nadar fyrer Christum, hia þeim modgada Gude, þvi hañ vite og true ad Christus med siñe Piinu og sinum Dauda hafe giort Forliikun fyrer hañ. Eñ so geingur til um̃ þad heila Ydrunar Verk, þegar Madureñ giorer alvarlega Ydran og rettlætest fyrer Gude. Sa þriieine Gud, og serdeilis H. Ande tekur til ad verka i Syndaranum fyrer Guds Ord, þeim þad gudrækelega les og heyrer, og upplyser hans af Natturuñe formyrkvada Skilning, so hañ vidurkeñer i hvilliku Eimda og Synda Stande hañ lifer, og fer ad yfervega i sinu Hiarta, hver hans Afdrif verde, ef hañ so framfer; Siidañ helgar H. Ande hans Vilia, so hañ motstendur honum ecke leingur af Illgyrne, helldur vill giarnañ losast vid sinar Synder, forliikast vid Gud, og fær Eptirlangan til ad lifa christelega. Þegar H. Ande hefur so underbued hañ til Um̃vendunar, verkar hañ fyrer Logmalsens Predikun, Angur i hans Hiarta, fyrer hans drygdar Synder, og fyrer Evangelii Predikun stodugt Trunadartraust a Guds Nad, vegna Christi Forþenustu. Og med þessum Hætte um̃vendest Madureñ og giorer Yferboot; Ad Madureñ adur hañ um̃vendest se forblindadur i sinum Skilninge, og siae ecke sina yferhangande

ande Olucku, firr eñ hañ verdur upplystur; þad vitnar Paulus, seigiande: Þer vorud fordum Myrkur, eñ nu erud þer Lioos i Drottne. Eph. 5, v. 8. Þar fyrer oskar Paulus ad Gud upplyse þᴂ meir og meir, og seiger: Gud vors Drottens Jesu Christi Dyrdareñar Fader, gefe ydur Viisdooms og Opeñberingar Anda, til hans egeñ Vidurkeñingar, og upplyse Augu ydar Skylnings, ad þer meiged vita, hvilijk ad se su Von, sem þer erud til kallader. Eph. 1, v. 17. 18. Ad Madureñ, adur hañ umvendest hafe eirnig oheilagañ og holldlegañ Vilia, sem eckert Gott vill, helldur allt Illt, eñ sᴂe i Umvendaneñe helgadañ, og andlegañ Vilia, vitnar aptur Paulus med þessum Ordum: Þeir sem hollðleger eru, eru hollðlega siñader, eñ hiner sem andleger eru, þeir eru andlega siñader, eñ hollðlega ad vera siñadur er Daude, eñ ad vera andlega siñadur, er Lif og Fridur, þviad hollðlega ad vera siñadur er Fiandskapur i gegn Gude, af þvi þad er ecke Guds Løgmᴂle underorped, og þad fær þess ei orkad; so geta þeir eige, sem hollðleger eru, Gude þocknast; eñ þer erud ecke hollðleger, helldur andleger, so framarlega Guds Ande bigger i ydur, eñ hver hañ hefur ei Christi Anda, sᴂ er eige hans, Rom. 8, v. 5. 6. 7. 8. 9. Hañ oskar eirnig ad Gud vilie ᴂfrañ hallda, ad helga þᴂ framar og vardveita þᴂ i Helguneñe, og seiger: Hañ sem er Gud Fridarens, helge ydur i allañ Mᴂta, ad allur ydar Ande, ᴂsamt Sᴂluñe og Liikamanum, meige vardveittur verda ostraffañlegur i Tilkomu vors Drottens Jesu Christi. 1 Theff. 5, v. 23.

§. 4.

Veruleger og eigenleger Partar sannrar Umvendunar, eru tveir, sem eru first Angur og Trege fyrer Syndernar, þarnæst sönn Tru a Christum, og maa hver þeirra ei annars aan vera, þvi vante annann þessara Parta, þa er Ydranenn onit, so fyrer hana fæst ecke Syndanna Fyrergefning. Sa firre Partur Ydranarennar, sem er Angur og Trege fyrer Syndernar, er þad, ad Syndarenn fyrer Guds Verkan, kemst til Þeckingar sinna Synda, rannsakar sialfann sig, og yfervegar hversu optlega og þunglega hann hefur syndgad a mote sinum Gude, leidt yfer sig þar med Guds Reide og Onaad, tiimannlegt og eilift Straff, og hversu hormuleg Endalok hann mune faa, med þvi hann a Maalstad, vid þann Almattuga og Rettviisa Gud, sem ecke mune þeigiande stiiga yfer hans Synder; Þegar hann so ihugar sinar Synder, og þa Olucku hann hefur ser med þeim bakad, verdur hans Samvitska, sem allt þaangadtil hefur vered Tilfinningarlaus, loksens vidkvæm, orosom, og hugguuarliitil, og skelfest fyrer Guds Reide, og hans straanga Rettlæte, so hann tekur ad aangrast utaf þvi hann hefur þannig misgiort, hriggest meir og meir þessvegna, og fær Vidbiood a sinum firra Lifnade, og Hatur a Syndenne, sem a sinum Ovin, tekur liika til hid ytra ad andvarpa og kveina, og syna a ser allra handa utvortis Merke sinnar innvortis Hiartans Sturlunar. Þannig var Davids Angur, þa hann giorde Ydran, þvi hann vidurkende fyrer Guds Naad, sinar Synder, og sitt Ranglæte, og hversu hunn hefde giort Gud ser ad Ovin, og være þar fyrer verdugur tiimannlegs og eilifs Straffs, þvi hann sagde: Eg medkenne mina Misgiørd, og min

min Synd er jafnañ fyrer mer, þer einum hefe eg a mote broted, og giørt illa fyrer þer, Ps. 51, v. 5. 6. Hans Samvitska vard eirnig drooføm, og full af Angist og Otta, so hañ vard hriggur vegna siña Synda, af þvi hañ hafde stigt Gud, og uppvaked hans Reide, þvi sagde hañ: Miñ Ande þreingest i mer, mitt Hiarta er fortært i minu Brioste. Ps. 143, v. 3. 4. Eingeñ Heilbrigde er i minu Hollde fyrer þiñe Ognan, og eige er neirn Fridur i minum Beinum søkum Synda miña. Ps. 38, v. 4. Þarnæst tok hañ ad andvarpa og klaga, og villde giarnañ fa Syndena afmaada, a hverre hañ hafde Andstigd, þvi so klagar hañ: Eg em mæddur af Andvarpan, og bleite um alla Noottena mina Sæng, og i minum Taarum væte eg mitt Legurum. Ps. 6, v. 7. Eg æpe utaf Oroosemd mins Hiarta; Drotteñ, fyrer þer er øll min Gyrnd, og min Andvarpan er þer ei huleñ; Mitt Hiata þad skelfur, miñ Kraptur hañ hefur mig yfergefed, og Liooſed miña Augna, þad er ecke hia mer. Ps. 38, v. 10. 11. Frelsa mig i fra þeirre Bloodskulldu, Gud! þu sem ert miñ Gud og Hialpare. Ps. 51, v. 16. Yfervegum Manassis Bæn! i heñe maa skiirlega siña þañ firra Part Yðrunareñar, sem er Angur og Trege fyrer Syndernar; þvi so seiger hañ til Guds: Minar Synder eru fleire eñ Sandur i Sioonum, og eg er beigdur i þungum Jarnbondum, og hefe einga Hvilld, af þvi eg uppvakte þina Reide, og giorde margt Illt fyrer þer, þar med eg uppbiriade sliikar Svivirdingar, og giorde so margar Hneixlaner, þarfyrer beige eg nu Kne mins Hiarta, og bid þig Drotteñ um Naad; O

Drotteñ, eg hefe syndgast, ja, eg hefe syndgast, og eg medkeñe minar Misgiorder. Man. 6, v. 8. 9. 10. 11. A þeñañ Haatt a hver eirn sem giorer saña Ydran, ad hafa Angur og Trega fyrer sinar Synder. Sú añar verulege Partur Ydrunareñar, er soñ Tru a Christum. Þegar Syndareñ, sem er fyrer Guds Logmaal skielfdur ordeñ vegna siña Synda, ottafullur og sturladur leitar Naadar og Hialpar hia Gude, lætur Guds Miskun vera sitt Athvarf, og huggar sig vid Guds Fyrerheit i Evangelio, og med Truñe er H. Ande gefur honum, sem Guddoomlegañ Krapt umfadmar og ad ser tekur Christi Fullnadarboot, sem fyrer hañ er giord, stadfastlega treistande, ad fyrer heñar Saker vilie Gud vera ser naadugur og miskunsamur, og fyrergefa ser allar sinar Synder. Fyrer þetta med Truñe til sin medtekna Lausnargialld, og Christi fullkomna Rettlæte, verdur hañ fyrer Guds Doome rettlaatur aliktadur, og sem Guds Barn a ny viss giordur um Himnariike og Saaluhialpena; þar epter lifer hañ i Krapte Truareñar sem i honum bygger, sem rettsiñadur christeñ Madur, og leitast vid ad þioona sinum Gude i Heilagleika og Rettlæte. So fiñum ver liika i Davids Ydran hiñ añañ Parteñ, saña Tru a Drotteñ, Messiam og Heimsins Frelsara, er David, skelfdur af sinum Syndum leitade Hælis hia Gude i hans Miskunseme, ad Gud fyrer Saker Drottens Messiæ, villde vera honum naadugur, fyrergefa honum hans Synder, og medtaka hañ fyrer sitt Barn. Þetta sitt Truar Athvarf til Guds Miskunar, i siñe Synda-Neid, syner hañ liooslega, er hañ seiger: Miskuna þu mer Drotteñ, þviad eg em veikur, lækna þu mig Drotteñ, af þvi min

Bein

Bein eru skelfd, og min Sala er næsta hrædd; O þu Drotteñ! Hversu leinge? Snu þu þer Drotteñ og hialpa miñe Salu, hialpa þu mer fyrer þiñar Miskunar Saker. Ps. 6, v. 3. 4. 5. Miskuna þu mer Gud epter þiñe Miskunseme, og afma minar Synder epter þiñe storu Miskunseme, þvo þu mig vel af Misgiørd miñe. og hreinsa mig af Synd miñe, afleis þu mig med Jsopo, so ad eg hreinsest, þvo þu mig, so ad eg snioohvijtur verde, lat þu mig heyra Føgnud og Glede, soad þaug Beineñ gladvær verde, er þu hefur so i sundur broted, hugga mig aptur med þiñe Hialp, og sa Mattar-Ande stirke mig! Ps. 51, v. 3. 4. 9. 10. 14. Eg vænte Drottens, min Sala hun biidur, ifra eirnre Morgun-Vøkuñe til añarar. Ps. 130, v. 5. 6. Mina Saal þirster epter þer, so sem añad þurrt Land, Sela; Drotteñ endurlifga þu mig fyrer þins Nafns Saker, leid þu Salu mina ut af Neideñe, þins Rettlætis vegna. Ps. 143, v. 6. 11. Hañ vard eirnig fyrer Guds Doome rettlatur alleiteñ, og honum urdu allar hans Synder af Gude fyrergefnar, þvi so sagde Nathan til hans; Drotteñ hefur burtteked þina Synd, þu munt ecke deya. 2 Sam. 12, v. 13. Hvad David stadfester med þessum Ordum: Eg sagde; Jata vil eg Drottne minar Yfertrodslur, þa fyrergafstu mer þañ Misgiørningeñ miñar Syndar, Sela; Ps. 32, v 5. Vid þessa Tru, vard hans Siñe eirnig so umbreitt, ad hañ asette ser stadfastlega og oskade hiartañlega, ad lifa siidañ Gude þocknañlega; þvi so bad hañ til Guds: Hreint Hiarta skapa þu Gud i mer, og gef mer eirn nyañ

stødugañ Anda, Drotteñ, opna þu minar Varer, soad miñ Muñur kuñgiøre þitt Lof! Ps. 51, v. 12. 17. Giør þu mer kunañ þañ Veigeñ, hvar eg skal uppa gaanga, þviad mig forleinger epter þer, keñ þu mer ad giøra epter þinum Vilia, þviad þu ert miñ Gud, þiñ godur Ande leide mig a rettum Veige. Ps. 143, v. 8. 9. Se Manassis Ydrunar-Bæn eirnig yfervegud, þa finst liika liosleaa i heñe sa añar Partur Ydrunareñar, sem er Trunadartraust a Guds Miskunseme, bigt a Christi dirmætu Forþenustu, er hañ so bidur: Su Miskunseme sem þu lofar, er omæleleg og oraññsakañleg, og þu Drotteñ hefur epter þiñe Giæsku fyrerheited Ydran til Fyrergefningar Syndaña. Eg bid þig, og grætbæne þig, fyrergef þu mer; O Drotteñ! Fyrergef þu mer þad, og laat mig ei fyrerfarast i minum Syndum, og laat ecke Straffed eiliflega liggia a mer, helldur hialpa mer omaklegum epter þiñe mikille Miskunseme, þa vil eg vegsama þig alla mina Lifdaga. Manass. 6, v. 6. 7. 12. 13. 14. Þañig biriar hverium einum, sem saña Ydran vill giora ad hafa Hiartans Angur og Trega fyrer sinar Synder, og asamt saña og saluhialplega Tru a Christum.

§. 5.

Skule Uñvendaneñ vera dugañlegt Medal til ad komast hia eilifre Fordæmingu, a hun ad vera epter adur sogdum Hætte: Gud utheimter i sinu H. Orde, þessa tvo Parta sañrar Ydranar. 1) Ad Madureñ skule hafa sañarlegt Angur og Trega fyrer sinar dryadu Synder, med þvi Mote, ad hañ i eirn stad þecke sinar Synder og sitt Ranglæte,

læte, og hvernig hañ hafe med þeim, Guds Reide a sig bladed, hvar-fyrer Helviitis Elldur biide epter honum, ad hverke hañ ne nockur Skepna gete hañ þar fra friiad, og einageñ utañ Gud all-eina, so hañ sæe hiaalpast. Soddañ Þeckingu og Vidurkeñingu utheimter Drotteñ seigiande: Snu þer, þu hiñ fraafallna Jsrael, seiger Drotteñ; þa vil eg ecke laata mina Reide koma yfer ydur, þviad eg em miskunsamur, seiger Drotteñ, og eg vil ecke reidast æfeñlega; Vidurkeñ þu ad eins þiñ Misgiorning, ad þu hafer syndgast i mote Drottne Gude þinum. Jer. 3, v. 7. 8. So vidurkende David sinar Synder, þa hañ giorde Ydran, er hañ sagde: Eg medkeñe mina Misgiørd og min Synd er jafnañ fyrer mer, Ps. 51, v. 5. Ad Madureñ i añañ stad hriggest af Hiarta af sinum Syndum, og þad angre hañ storlega, ad hañ er falleñ i Syndena, og hefur giort Gud ser ad Ovin. Sliika Hiartans Hrigd utheimter Gud, seigiande: Snued ydur til min af øllu Hiarta, med Føstum, med Graate, med Kveine, riifed ydar Hiørtu, eñ ecke ydar Klæde, og snued ydur til Drottens ydar Guds. Joel. 2, v. 12. 13. So angrad og sundurkramed Hiarta hafde David i siñe Ydran, og þvi seiger hañ: Eige er neirn Fridur i minum Beinum, fyrer søkum Synda miña, þviad minar Synder eru uppstignar yfer mitt Høfud, liika sem øñur þung Byrde, eru þær mer ofþungar ordnar, Ps. 38, v. 4. 5. Hañ syner eirnig ad soddañ audmiukt og sundurmared Hiarta, se Gude þockaunlegt, seigiende: Þad Offred sem Gude þocknast er harmþrungeñ Ande, eitt harmþrunged og sundurkramed Hiarta muntu Gud ecke fyrer-

liita.

liita. Ps. 51, v. 19. Ad Madureñ i þridia Lœge hafe alvarlega Andstigd og Hatur a Syndunum, og skañest sin ad framana i þeim, med þvi hañ hefur fyrer þeirra Saker komest i soddañ Angist, þad liikar eirnig Gude, þvi so seiger hañ til Jsrael; Þer skulud miñast a ydar Breitne, og alla ydar Giorninga, med hverium þer erud saurgader, og angrast af ollum Jllgiordum, sem þer hafed giort. Ezech. 20, v. 43. Þegar Ezechias Kongur giørde Ydran, vidurkende sinar Synder, og fañ til Hiartans Angistar, vegna þeirra feck hañ Leida og Vidbiood a þeim, og sagde; Eg vil alla mina Lifdaga fordast fyrer soddañ Harmkvælingu miñar Saalar. Es. 38, v. 15. Þetta þrent sem nu er sagt tilhliider sañarlegu Angre og Trega fyrer Syndernar, sem er sa firre Partur sañrar Ydrunar, skule þad rettelegt vera. Gud vill eirnig 2) ad Madureñ skule hafa saña Tru a Christum, Heimsins Frelsara, med þvi Mete ad hañ i eirn stad þecke og hugleide, hversu Christus hefur fullkomlega endurleist hañ og alla Meñ med siñe Piinu og sinum Dauda, og afrekad þeim Guds Naad, Syndaña Fyrergefning, Rettlæted, Himnariike og Saaluhialpena, med þvi hañ var sinum Fodur hliideñ, allt til Daudans, ja allt til Krossens Dauda, og Gud vill ad aller Meñ verde saaluhoolpner fyrer Christi Saker; So biriar Mañenum ad vita, a hvern hañ a ad trua; Um þessa Þeckingu seiger Esaias; Fyrer sina Þeckingu, mun hañ, miñ Þioon, sa hiñ Rettlaate, marga rettlaata giora, þvi hañ ber þeirra Synder, Es. 53, v. 14. Og Christus seiger: Þad er eiliift Lif, ad þeir þecke þig alleina eirn

sañañ

sañañ Gud, og þañ þu sender Jesum Christum, Joh. 17, v. 3. Sonnu Þecking hafde Job um̃ Christum er hañ sagde; Eg veit miñ Endurlausnare lifer, Job. 19, v. 25. Ad Madureñ i añañ stad, true þvi ollu og hallde þad i sinu Hiarta allt viist og satt ad vera, sem Gud hefur heited i H. Ritningu, sem er ad hañ vilie vera ollum Moñum nædugur fyrer Christi Skullð, fyrergefa þeim allar þeirra Synder, saker hans Piinu og Dauda, og fyrer saker hans fullkomna Rettlætis, giora þa rettlaata og saaluhoolpna. Um̃ soddañ Tru seiger Paulus: Trueñ er orugt Traust þeirra Hluta, sem Madur vonar, og efar ei um̃ þad sem hañ ser ecke. Ebr. 11, v. 1. Soddañ Tru hafde Martha, þa hun sagde til Christum; Eg true ad þu ert sa Christus Sonur Gud sem i Heimeñ er komeñ, Joh. 11, v. 27. Ad Madureñ i þridia Lage hafe einkañlega orugt Trunadartraust, so hver eirn fyrer sialfañ sig treiste og fastlega bigge uppa Guds Nadar Fyrerheit, og se fullviss um̃ i sinu Hiarta, ad Gud vilie, asamt fyrer Christi Piinu, Dauda, og Fullnadarboot, vera honum nadugur, fyrergefa honum allar Synder, uppgefa honum allt forþent Straff, bæde tiimañlegt og eiliift, og giora hañ rettlaatañ og hoolpeñ. Soddañ Hiartans Truartraust hafde Paulus, þvi seiger hañ: Þad eg life nu i Holldenu, þad life eg i Truñe Guds Sonar, sa mig hefur elskad, og sialfañ sig utgefed fyrer mig. Gal. 2, v. 20. Aller þeir so trua, verda fyrer Christum og hans Rettlæte. rettlaater, þvi seiger Petrus: Af þessum, þad er Christo, bera aller Spameñ Vitne, ad fyrer hans Nafn skulu aller þeir sem a hañ trua, hafa Syndaña Fyrergefning.

gefning. Act. 10, v. 43. Þetta er þad sem Páulus seiger: Aller verda uaf hans Naad, an Verdskulldunar rettlæter, fyrer þa Endurlausn, sem ordeñ er fyrer Jesum Christum, hvern Gud stickade til Náadarstols fyrer Truna, i hans Bloode, hvar med hañ frambiidur þad Rettlæte, sem fyrer honum er fullt, i þvi hañ fyrergefur Syndernar. Rom. 3, v. 24. 25. Allt þetta þrent heyrer til saññre Tru, sem er sa añar Partur Ydranareñar, skule hun giora Syndarañ rettlætañ fyrer Gude.

## §. 6.

Þesser tveir Partar saññrar Ydranar, hver ad er kroptugt og gilldt Medal til ad komast hia Fordæmingunñe, og naa eilifre Saaluhiaalp, eru so naakvæmlega samañbundner, ad hverigs maa vidmissa. Hafe Madureñ einungis Angur og Trega fyrer Syndernar, so hañ skelfest af þeim, og ihugar, hversu hriggelegur hans Afgaangur mune verda i Daudanum, eñ einga Tru a Gud um þad hañ mune verda hönum naadugur fyrer Christi Saker, þa er honum ecke añad bued, eñ ad orvænta, i siñar Samvitsku Sturlan. Hver Orsok var til þess ad Cain tapadest, epter þad hañ hafde myrdt siñ Broodur? Ecke oñur eñ su ad hañ hafde einga Tru a Christum, ei helldur Traust a Gude, ad hañ yrde honum naadugur, þvi gagnade honum eckert, þo hañ hefde Angur fyrer Syndena, first hañ orvænte og sagde; Min Synd er stærre, eñ hun meige mer fyrergefast. Gen. 4, v. 13. Hvad kom til þess ad Judas, epter þad hañ hafde forraaded Christum, orvænte og tapadest? Var þad ecke þad, ad þa hañ aang-

radest

radest og skelfdest so i sine Samvitsku, hafde hañ samt einga Tru a Christum, ad hañ munde deya, og borga fyrer hans Synd? þvi sagde hañ: Illa giorda eg þad, ad eg forred saklaust Blood. Matth. 27, v. 4. 5. Geck sidañ burt i Orvænt-ingu, og heingde sialfañ sig. Sliik verda Enda-lok þeirra sem einasta hafa Angur og Trega fyrer Syndernar, eñ einga Tru um Guds Naad, ad þeir orvinglast i þeirra Syndum, þvi þeir aliita Gud einasta sem rettlaatañ Doomara, eñ ecke naadugañ Fodur, sem vilie fyrergefa Syndernar; Eñ hafe Syndareñ þar a mote Truna einasta, eda meine hañ true og hallde sig til Christum, eñ siñe til einkis nædegs Angurs fyrer Synder-nar, helldur er hugdiarfur og gladur i þeim, þaa giorer hañ einga sañna Ydran, helldur maa hañ ad eilifu fortapast, þvi þetta er ecke saluhialp-leg Tru, helldur folsk Inbirling um-Truna, og toomt Andvaralyse, þvi hañ leggur þaa sinar Synder ad litlu, og leitar ei rettelega Guds Naadar fyrer Christum, og giæter ei þess David seiger: Pad Offred sem Gude þocknast er harm-þrungeñ Ande, eitt harmþrunged og sundurkram-ed Hiarta, muntu Gud ecke fyrerliita; Ps. 51, v. 16. Eñ hañ hefur ecke harmþrungeñ Anda, og sundurkramed Hiarta, helldur hardlindt og andvaralaust Hiarta, sem hverke hrigaest af Synd-unum, ne helldur hefur Vidbiood a þeim; Hver-n'g maa hañ þaa Gude þocknast? Eñ Gud seiger: Eg vil bua hia þeim, sem hafa sundurknosadañ og litelaatañ Anda, soad eg lifge Andañ hiña Litelaatu, og Hiortun þeirru i Sundurmordu. Es. 57, v. 13. Af þessu sær sa, sem Hræsnar med soddañ Mote, audvelldlega dæmt, ad Gud

vilie

vilie ecke bua hia honum, ei helldur lifga hañ, med þvi hañ hefur ecke sundurkrameñ og liitelatañ Anda. I stuttu Maale; Hver sem eckert Angur hefur, eda neirn Trega fyrer sinar drygdar Synder, og kañast ecke vid þær, med Audmykt, hriggest ecke helldur af þeim i Hiartanune sær Leida a þeim, hañ hefur ecke saluhialplega Tru, og giorer ecke saña Ydran, þvi hañ er i sinum Syndum, under Guds Reide, a þeim breida Veige til Helviitis, og tapast eiliflega, eñ þo hañ hroose ser af Truñe; So naudsynlegt er ad Angur og Trege fyrer Syndernar fylge sañre Tru a Christum, og þar a mot fylge Trueñ soddañ Angre, se soñ Ydran giord, þvi su Ydran, sem einasta hefur fridsamlega Þanka, eñ einga Hrigd med ser, er ei añad eñ Hræsne, þo Madureñ syne sig utvortis angradañ, andvarpe, bidie og ligge i Seck og Osku, eins og þa Achab Kongur giorde Hræsnis Ydran, sem uñ hañ er skrifad; Eñ sem Achab heyrde þesse Ord, sundur reif hañ sin Klæde, og took eirn Seck a siñ Liikama, og fastade og svaf i Seck, og geck hrigdarlega fram, 1 Reg. 21, v. 27. þvi Achab geck ei so hrigdarlega fram, af þvi hañ angrade so miog sinar Synder, sem af þvi Gud hafde hotad honum so hordu Straffe, sem hans Ord hlioода; Sia, eg vil leida Olucku yfer þig og þina Eptterkomendur; Hvern sem deyr i Stadnum af Achab, þañ skulu Hundar uppeta, og hver sem deyr a Akrenum, þañ skulu Fuglar under Himnenum uppeta, v. 21. 24. So syner margur sig utvortis ydrande, andvarpar og grætur, medañ hañ bidur, ellegar er i Skripta-Stoolnum, eñ ecke yfer sinum Syndum, er hañ hefur giort, helldur af

af þvi hønum þiker ser ecke gånga allt i Heimenum epter þvi sem hañ vill. Ꝫ þessu á hver eitt ad proofa sialfañ sig; af þvi soddañ Ydran, sem eckert Angur hefur med ser fyrer Synderuar, verdur ad Hrœsne, og skinheilagre Gudrœkne; þar kañ ecke su Tru, sem margur ætlar sig hafa ad giøra hañ rettlætañ. Orsok til þess er su, ad hañ tekur ecke rettelega ad ser Jesum, og hans Forþenustu, so sem Borgun fyrer Syndernar, fyrer hveria ver þo einasta kuñum rettlæter ad verda, helldur er þad hans svikul Iñbirling, ad hañ þad giører, sem ædur er sagt og synt i fyrer farande XI. Capitula. Jafnframt þessu skulum ver þess miñast, ad þeir eru længtum fleire, sem fara hedañ i burt i Andvaraleyse fyrer þeirra Iñbirlada Vantru, eñ þeir sem orvænta; þvi Ritningeñ nefner her um sioora Meñ, sem orvænt hafa i þeirra Syndum, epter þad þeirra Samvitska hefur uppvaknad, og þeir hafa ecke rettelega truad á Christum. So var Cain á sig komeñ, sem efadest um Guds Miskunseme, Gen. 4, v. 13. Eins liika Saul Kongur, sem orvænte i sinum Syndum, og let fallast á sitt Sverd 1 Sam. 31, v. 4. Ecke foorst Achitophel betur, sem heingde sialfañ sig. 2 Sam. 17, v. 23. A medal þessará á Judas Ischarioth heima, sem hafde noog Angur fyrer sinar Synder, eñ einga Tru á Christum, geck þvi burt i Orvænting, og heingde sig, Matth. 27, v. 5. Nu eru þeir tallder sem eg æminteſt; Eñ þar i mot setur Ritningeñ oss fyrer Sioouer margar þusunder þeirra, sem eckert Angur hafa haft fyrer Syndernar, og eru i Ydrunarleyse og Andvaraleyse vidskillder, og þar fyrer eiliflega tapader.

Folked fyrer Synda-Flooded hefur angurlaust, vered vegna siña Synda, og med glodu Gede, af þvi þad sætte þvi ecke sem þvi var sagt af Noa, allt þartil Flooded kom og took þa alla i burt. Munu ecke marger af þeim med roosamlegum og andvaralausum Gedsmunum vera farner til Helviitis? Matth. 24, v. 38. 39. Ecke finst helldur ad Folked i Sodoma hafe fyrer Syndernar angurfullt vered, helldur hafe þad lifad i allskins Ohoofe og goodum Fride med þeirra Dætrum, so hafa þeir varla eittsiñ ottast fyrer Helviite, og i sliiku Andvaraleyse ofañ i þad fared, er þa sem siidst varde. Ezech. 16, v. 49. Hver sær þañ Mañsiollda utsagt sem med hressum Hug eru afgeingner, væntande ser hoolpner ad verda, og hafa þo vered af Gude utskufader? So geingur þad eñ nu til, ad sæster, hverra Samvitska er uppvoknud, orvænta af Truarleyse, eñ flester fara i Fordæminguna fyrer þeirra Andvaraleyse, af þvi þeir meina sig hafa Truna, sem þo ecke er soñ Tru, og fara añ Angurs og Gudlegrar Hrigdar burt ur Heimenum. Þesser meina, hvad Illt sem þeir giora, þa se þad þeim þegar fyrergefed, Ps. 56, v. 8. eñ þo Gud setie allar þeirra Synder i Lioos fyrer þeirra Auglite. Um soddañ Foolk heiter þad sosem Job seiger: Þeirra Huus hefur Frid fyrer Ottanum, og Guds Hyrtingar Vondur er ei yfer þeim, þeir verda gamler i Sællisenu, og skelfast valla eitt Augabragd fyrer Helviite, Job. 21, v. 9. 13, Þeir seigia; Ver hofum giort Samband vid Daudañ; og Sattmaala vid Helviite. So gladt Ged, edur rettara ad seigia, so andvaralaust Hiarta hafa Heimsens Börn i þeirra Synda Ydiu, hafande hverke

Angur ne Trega fyrer þeirra Synder, þo þaug hroose ser af Truñe a Christum. O þu forblindada Folk! Liika sem þeir ed orvænta i þeirra Syndum, aliita Gud einasta sem reidañ Doomara, eñ ecke sem nadugañ Fodur, so aliita þeir Andvaralausu Gud einasta sem nadugañ Fodur, er Syndernar snarlega fyrergefur, eñ ecke sem rettviisañ Doomara, er straffar þa Ugglausu fyrer þeirra Synder bæde i Tiima og Eilifd.

§. 7.

Eñ til sañrar Umvendunar utheimtest Angur og Trege fyrer Syndernar sem er heñar firre verulegur Partur; so Meñ þar vid leidest til ad leita Rettlætis og Saaluhiaalpar i Christi Forþenustu, þvi af Syndunum verdum ver leister, og fyrer Gude rettlaater med þvi alleina ad umfadma med Truñe Jesu Christi Fullnægiugiord; þviad Endalok Logmaalsens er Christus, hver sem a hañ truer, hañ er rettlaatur, Rom. 10, v. 4. Hvernig maa eirn Skulldunautur fyrer veralldlegum Doome friiast fra ad borga sina Skulld fyrer þad, þo hañ gaangest vid heñe, og angrest af þvi þo hañ af Motvilia hafe teked hana? Vilie hañ frii verda, maa hañ Borgunena i Tie laata. So friiast eingeñ fyrer Guds Doome, þo hañ medkeñe sina Skulld, hrædest þar fyrer og angrast af þvi ad hañ hefur stigt Gud, og underokad sig Syndeñe, sem er ysred stor Skulld, helldur vilie hañ vid Skulld þessa laus verda, maa hañ koma fram med Borgunena, sem ecke er eñur eñ Christi Fullnadarboot i Truñe medtekeñ, sem vard ad borga fyrer Meñena, þad hañ ecke rænte Ps. 69, v. 5. Soddañ Angur

og Trege greider Weigeñ til Saaluhiaalpareñar Umvendunar; þvi kañeſt ecke Syndareñ vid ſinar Synder, aangreſt af þeim og hate þær, umvendeſt hañ ecke rettelega, kemſt ecke helldur ſo laangt ad hañ ſæe hiartañlega Laungun epter Guds Naad, epter Chriſto, og hans Forþenuſtu, eda ſetia þar aa orugt Trauſt. Fiñe ecke Madureñ til þeirrar Siike, af hverre hañ er halldeñ, og true þvi ecke ad hañ ſe ſiukur, leitar hañ hverke Læknarans, ne hirder um nockurn Læknisdoom. So er ſaa ſem ecke fiñur til ſins andlega Saalar Siukdooms Syndareñar, ad hañ leitar ecke alvarlega til Chriſtum, hins retta Saalar Lækners, ei helldur epter kroptugu Medale aa mote Syndeñe, þvi ſeiger Chriſtus: Heilbrigder hafa ei Læknarans þorf, helldur þeir ſem kranker eru; Eg er komeñ ad kalla þaa Syndugu, og ecke þaa Rettlaatu. Matth. 9, v. 12. 13. Þad er ad ſkilia, þaa ſem þikiaſt vera rettlaater, og ecke hriggiaſt af ſinum Syndum; Eñ þo hiñ Siuke verde ecke heilbrigdur fyrer þad hañ fiñur til ſiñar Veike, helldur fyrer þad hañ brukar Læknismedaled, ſamt kemur Kraankleikeñ, ſem hañ fiñur til i Liikamanum, honum til ad leita ſer Lækningar, og bruka þar til hentugt Medal, ſo verd eg ecke helldur fyrer þad rettlaatur fyrer Gude, þo eg þecke Syndena, fiñe til heñar, og hriggeſt af heñe, eñ ſamt rekur þad epter mer ad leita i Audmykt Saalna Læknarans Chriſtum, og bruka hans H. Þorþenuſtu ſem andlegt Medal i mote miñe Synd, fyrer hvert eg verd heilbrigdur. Liika ſem tvent utheimteſt til ad faa Liikamans Heilſu, firſt Þecking Siukdoomſens, ſo þar vid verde Naads leitad. Þar n..rſt Medaled, vid hvert hañ batnar; So heyra tveir Partar til ſañre Yfer-

boot,

boot, ad Saalen læknest. First hliitur Syndaren ad komast til sina Synda Þeckingar, af Guds Log-maale, og vidurkena i hvilsiku Eimdar-Stande, og i hvada Hættu han er. Þar næst hliitur han ad friiast fra Syndunum fyrer Christum, med þvi ad taka a mote hans Forþenustu med Truñe. Au soddan Syndana Þeckingar, og Angurs fyrer þær, verdur eingen umvendtur, sær ei helldur Naad hia Gude, ne Syndaña Fyrergefning, þvi honum þiker ser med þvi Mote ecke liggia a Guds Naad og Christi Verdskulldan. O hvad vesæler eru þeir, sem þañig hegda ser! O hvilikt Diofulsens Vela-brago er þad, ad hañ iñbirlar morgum þusund-um Maña i þeirra saaniitu Þaunkum um Truna, ad þeim seu Syndernar fyrergefnar, þo þeir hafe alldrei aangrast af þeim, ne hast a þeim Vid-biood! So andvaralausa Meñ aaliitur Gud ecke i Naad, helldur þa sem hafa liitelaatañ og sundur-mareñ Anda, þvi hañ seiger: Eg aaliit þañ hiñ Faatæka, og þañ sem hefur sundurknosadañ Anda, og þañ ed hrædest min Ord, Es. 66, v. 2. Þær Synder sem þu, gode Vin, hefur eñnu Epterlæte af, þær sem þu hefur eñnu ecke aangrast af, þær eru þer eñnu ecke fyrergefnar. Svjik ecke sialfañ þig og haf ecke i Huga otilheyrelega Þaanka um Veigeñ til Saaluhialparenar, sem ecke leida þig til Himins, helldur til Helviitis, þad er sa rette Vegur til Umvendunar, og til Himins, sem þer er nu syndur, sem er ad þu hafer saarlegt Angur fyrer þinar Synder, og i sañre Tru reider þig uppa Christi Verdskulldan, þad er þad eina kroptuga Medal, til ad komast hia Fordæminguñe. Þetta er sa Vegureñ, þañ sama gaanged, eñ hverke til hægre ne vinstre Handar. Es. 30, v. 21. Þu

skallt vita ad Christi Forþenusta verdur eingum tilreiknud, ne gagnar til Saaluhiaalpar, nema þeim sem eru saňydrande, og hafa hrigg og sundurkrameñ Hiortu. Christus er Lækner, eñ ecke nema þeirra Siuku, sem keña til þeirra audlegra Meina; Su Hrigd sem af Gude er, eñ ecke Andvaraleyse, verkar Ydran til Hiaalprædis, hverrar eingañ ydrar. 2 Cor. 7, v. 10. Hefde nockur broted i mote sinum Konge, og broted af ser Lifed, eñ villde ecke vidurkeña sitt Brot, þo Kongenum være þad alkuñugt, ei helldur audmykia sig, helldur være samt ugglaus og diarskær, munde þaa Kongureñ gefa honum Lif, er hañ merkte hañ være so hardhnackadur? Þetta mætte reina; Hañ ætte helldur audmiukiega ad medkeña siñ Misiorning, falla frañ fyrer Kongsens Fætur, og bidia uñ Naad; Med þvi Mote hræreſt margur Kongur til ad audsyna Naad sinum Undersaatum. Þegar Simei hafde bolvad David Konge, og forbroted sitt Lif med soddañ stoor Glæp kom hañ og medkende siñ Misgiorning, fell frañ fyrer Kongenum, og bad hañ Grida, hañ feck eirnig Naad, þvi Kongureñ soor honum ad hañ skillde ecke deya. 2 Sam. 19, v. 23. So er fyrer hverium sem vill faa Naad hiaa Gude, ad hañ maa. yfer allt frañ medkeña sinar Synder, angrast af þeim, og hafa Bidbiood aa þeim, ecke einasta utvortis, ad hañ laate sem hañ vilie Yferboot giora, helldur liika iñvortis, þvi Drotteñ aaliitur Hiartad 1 Sam. 16, v. 7. og siidañ leita Naadar fyrer Christum, þaa fær hañ þeirra Fyrergefning. Saňydrande Syndare giorer liika sem þad Barn, er hefur stigt siñ Fodur, þvi kemur i Hug bæde sins Fodurs Elska, sem þad hefur adnoted, eñ aptur af ser med sinu illu Athæfe,

Athæfe broted, og liika Hriised, med hveriu hañ er vanur ad hirta þaug obliidnu Borneñ, þvi verdur þad hrædt og ængrad af þvi þad stigde siñ Fodur, og getur ecke komed so gladt til hans sem ádur, helldur fer þad sárt ad græta; samt hleipur þad ecke i burtu frá Fodurnum, helldur kemur þad til hans i þvi Trauste, hañ mune ecke reka þad frá ser, og bidur uñ Vægd, lofande ad giora þad sama alldrei optar, sem þad hafde giort. I þessu, sem ödru, meigum ver, liikiast Bornunum, og i þvi Tillite sagde Drotteñ Christus til siña Lærisveina; Nema þer snueft og verded sem Smáborn, munud þer eige koma i Himnariika. Matth. 18, v. 3. Se eirn Madur sañiðrande, þá kemur honum i Hug bæde Guds Giæska, sem hefur veitt honum miog marga Velgiorninga bæde til Liifs og Sálar, og liika Guds Hirtingar Hriis, sem hañ hefur forþenad, og hvernig Gud muue straffa hañ fyrer hans Synder, þvi verdur hañ ottasleigeñ, og þad geingur honum til Hiarta, ad hañ hefur moodgad Gud, sem honum hefur allt til gooda giort, og sem kañ ad tortiina hans Liikama og Sál i Helviite; og lætur eirnig Táreñ tiidt falla af Hrigd og Hiartans Angre; Eñ i soddañ siñe Synda-Neid og Sálar-Angist, hleipur hañ þo ecke i burtu frá Gude, eins og Cain giorde, þá hans Samvitska uppvaknade, þvi Cain geck ut frá Guds Auglite, Gen. 4, v. 16. helldur leitar hañ Hælis hiá Gude, sem sinum stigda Fodur, afbidur Straffed med Audmykt, og lofar ad giora ei framar sliikar Synder, hefur eirnig Tru á þvi ad Gud mune verda ser nádugur, og fyrer Christi H. Forþenustu og Fullnægiubootar Saker, uppgefa ser Straffed, er hañ hefur

med Syndunum forþenad, med þvi Christus var straffadur fyrer þær, þvi Hegníngeñ lä æ honum uppæ þad ver hefdum Fríðeñ, og fyrer hans Benjar erum ver heilbrigder ordner, Es. 53, v. 8. Ydrande Syndare giorer eins og sa tapade Sonur, hver ed þa hañ komst i Neid, kañadest vid sitt firra Liferne, angradest af þvi, took sig upp og foor til sins Fodurs, og sagde; Fader! Eg syndgade i Himeniñ og fyrer þer, og þvi er eg nu ecke verdugur ad kallast þiñ Sonur, Luc. 15, v. 21. Hañ giorer eins og sa Skulldbundne Þioon, sem var sinnm Konge skilldugur um 10000 Pund, eñ hafde eige til, þad hañ skillde giallda, sa er fell fram fyrer Kongenum, og sagde; Herra! Haf Þoleñmæde vid mig, allt skal eg þer giallda, Matth. 18, v. 26. Hañ giorer sem sa ydrande Tollheimtare, er barde ser a Brioost og sagde; Gud vertu mer syndugum liknsamur! Luc. 18, v. 13. Sia, miñ kiære Vin, so æ Ydraneñ ad vera, skule hun vera kroptugt Medal til ad umflya Fordæminguna, og komast a Veigeñ til Himens. So leinge sem Heimureñ hefur staded, hefur eingeñ fullordeñ Madur, med nockrum odrum Hætte orded rettlaatur og Saluhoolpeñ. Hver sem ecke kemst undañ Guds Reide fyrer þetta Medal, hañ fær hriggeleg Æfelok, og tapast eiliflega, af þvi hañ keppest ecke epter med þessum Hætte, iñ ad gaanga um hid þraungva Hlided.

§. 8.

Nu maa hver eirn af þessu virda fyrer ser, hversu faaer þeir seu sem verda hoolpner, hvad cadur er bued ad syna i þeim VI. Capitula, þo þeir seigest vera ydrande og truader, og gaange til

til Skripta, og syne sig þañig. Þad er ecke noog, þegar Madur vill giora Ydran og gaanga til Skripta, ad hañ take Bæna-Book i Hond ser, jafnvel þo hun se i gilltu eda silfrudu Bande, og lese i heñe margar Bæner, og þad andvarpande; Þad er ecke noog, ad hañ neckra Daga aadur syne aa ser Gudrækne; Þad er ecke noog, ad hañ i Skriptastoolnum seige med Muñenum, hañ se aangradur af Hiarta vegna allra siña Synda, hañ true aa Jesum Christum, hañ vilie eirnig betra siñ Lifnad, sem añars eru þrir Partar vorra Skriptarmaala, þvi þetta giora lika aller Hræsnarar, helldur hlijtur hañ ad bera fram fyrer Gud aangrad og sundurkramed Hiarta, og truad Hiarta, og þad Hiarta sem hefur feinged nitt Siñeslag, þvi fiñest þad ecke hiaa houum, helldur se hans Hiarta andvaralaust, so hañ skeiter ei miked um sinar Synder, ne aangrast af þeim, þaa fer hañ rettlætislaus heim aptur i sitt Huus, eins og Pharisæareñ, Luc. 18, v. 14. og hefur ecke feinged Syndaña Fyrergefning. Þar fyrer hefur eirn audriikur Læresader ecke orettelega sagt, ad margur hafe i tiu, tuttugu, edur jafnvel þriaatiu Ar geinged til Skripta, sem alldrei hafe giort saña Ydran, ei helldur orded rettlaatur fyrer Gude; Þad er ad skilia, af þvi hañ hafe aan Angurs og Truar hlaupped þar til. Vilier þu vita, kiære Vin, hvert þin Ydran er rettskickud, eda af Hræsne, hvert hun er soñ eda svikul, hvert hun er Gude þæg eda oþæg, hvert hun er Medal til ad fordast Topunena, eda Svikseme, sem dregur þig aa Taalar, þaa profa, hvert hun hefur þaa tvo Parta; Hiartans Angur af Syndunum, og saña saaluhiaalplega Tru; Hafe hun þaa, er hun Saaluhiaalpleg, eñ

hafe hun þä ecke, þä er hun svikul og skadleg. Eñ af þvi flester nu ä Tiimum, hroosa ser af Trúe ä Christum, eñ hafa þo ecke ängrad og sundurkramed Hiarta, hvar fyrer þeir meiga, fyrer sina folsku Iñbirling um̃ Truna fortapast, þä er vert ad rañsaka liited þina Ydran, so þu tæler þig ecke siälfañ i þessu. Um̃ David stendur skrifad, þä hañ af Drambseme hafde läted telia Folked, 2 Sam. 24, v. 10. og David sloo hans eiged Hiarta, þä Folked var taled, og David sagde til Drottens: Þunglega hefe eg syndgast, ad eg hefe þviilikt giört, og nu Drotteñ, tak burt Rängläte þins Þenara, þvi eg giörde miög oviturlega. Davids Hiarta ängradest af þvi hañ syndgade af Drambseme, og hans Samvitska vard i honum oroosom, og skelfde hañ. Þu villt liika heita ydrande, eñ ängrast þitt Hiarta þar af, þegur þu hefur einhveria Synd drygt, eda sefur þad? Kañ vera þu hafer leinge vered stærelätur og metordagiarn, og viliad läta alla siä, ad þu værer Madur til so ad bera þig; eñ hefur þitt Hiarta nockurn Tiima ängrast af þvi? eda hefurdu þar af ottasleigeñ orded? Hefur þu vidurkent þitt Dramb, sem eina fordæmañlega Synd? Hefurdu feinged Vidurstigd ä heñe i þinu Hiarta. og ängrast þar af, ad þu länga Tiima eins og adrer fleire, hefur stærelätur vered, og viliad läta miked af þer hallda? Fiñer þu þad ecke hiä þer, hvernig villtu þä ydrande og truadur heita? Etlar þu þä ad þinar Synder seu þer fyrergefnar? O þu blinde Madur! Serdu ecke, ad þin Ydran er folsk, af þvi þig vantar Hiartans Angur fyrer þiñ Hofmood og þina Ærugyrnd? Hriggest eirnig þitt Hiarta af þvi ad þu hefur ecke sett allt þitt Traust ä Gud,

ecke ottast hañ og elskad, sem þer byriade; ad þu hefur beded Gud med liitille Gudræknis Alvorugefne, heyrt hans Ord sem sisiadur, og med Dofeñleika, talad illa uñ þa þad hafa feut, og uñ þeirra Keñingar, og liited vered hliidugur Guds Raust til ad hegda þer þar epter? Legger þu þessar Synder ad litlu, og meiner ad ecke varde so miked uñ þær, helldur þu ad þu muner vera þa saññdrande? Hefurdu eirnig af þvi Hiartasorg, ad þu hefur hingadtil fylgt holldlegum Gyrndum, vered hneigdur til Saurlifnadar, Ofaats og Ofdryckiu, og so fillt þig af Mat og Dryck, ad þu hefur vered odugañlegur og ohæfur til ad þiona Gude, talad slæm og hneixlanleg Ord, og leitad þins Epterlætis i tiimañlegum Hlutum og Veralldar Gledskap? Hefurdu alldrei sturlast af sliiku? Hefurdu eñ ecke feinged Leida a soddañ Syndum? Ef þad er so: Serdu þa ecke, ad þin Ydran og Yferboot er toom Hræsne? Ertu af þvi liika sorgfullur i Hiarta þinu ad þu hefur leiged i Kife og Þrætan vid þiñ Naunga, aled Ovinskap vid hañ, oskad honum Ills, hatad hañ og ofundad, loged a hañ, og baktalad honum, talad bliidt vid hañ, eñ haft allt añad i Huga, sviked hañ og giort honum Afdraatt, ecke hallded vid hañ þinar Lofaner, stoled fra honum, og med Slægd og Underferle firrt hañ sinu, þreingt ad honum, og ecke viliad hañ kiæmest yfer neitt, handa siaalfum ser, ei helldur laated hañ faa aptur þad þu hefur af honum velad? So framt þitt Hiarta hefur ecke sturlast af þessu, helldur laated standa sem komed var, og ecke skeitt þar uñ, hvernig þu kyñer vid þessar Synder kvittur ad verda; Villtu þa kallast ydrande og truadur christeñ Madur? Meinar þu

þa,

þa, þu sert umvendtur, og Gud hafe forlaated þer þær Synder, sem þu hefur ecke angrast af? Etlar þu þa þu sert a Veige til Himensens? Þu Hræsnare! Hversu miog sviikur þu sialfan þig? Hafer þu ecke audmiuklega vidurkent þessar og þvilijkar Synder, hafer þu ecke Andstigd a þeim, og fremur þær enn i Dag, fyrer utan Angur og Trega, er þu les eda heyrer þetta, þa hefur þu ecke hast sliika Hrigd fyrer þinar Synder sem David, og ecke vidleitast fra þeim laus ad verda, þa ertu ecke helldur umvendtur, og sanuydrande, og hefur ecke giort sana Ydran, helldur med Hræsnis Hætte, synt þig so hid itra, og sviked Gud og hans Þioona, med oniitum Skriptamaalum, med þinne forgefens Bæn, og Andvarpan, med þinum Crokodils Taarum, og overdugre Altaris Gaungu; þo hefurdu i Raunenne ecke Gud sviked, helldur sialfan þig, i þvi þu hefur meint þinar Synder være þer fyrergefnar, sem þo i Himnenum hafa vered þer apturhalldnar, i þvi þu hefur ætlad þu værer i Naad hia Gude, sem þo ert en under hans Reide; J þvi þu hefur hallded þu værer a Veigenum til Himens, en ert þo a þeim breida Veige til Helviitis, og hleipur han fullum Fetum. J soddan Astande hroopa eg med rettu til þin, med þeim Ordum sem Petrus sagde til Simonar Toframans; Hverke Hlutskipte ne Part hefur þu i þessu Orde, þviad þitt Hiarta er eige rettferdugt fyrer Gude, fyrer þvi giør Ydran og snu þer fra þessare þinne Jllsku, og bid Gud um, ef verda mætte ad þer fyrergefest ill Meining þins Hiarta, þviad eg se þig ad vera fullan af beisku Galle, og i Fiøtre Rangslætesens, Act. 8, v. 21. 22. 23. Hvad kallar

þu

þu þad nu ad snua ser til Guds? Þvi Gud vill ad Syndareñ snue ser fra siñe Breitne og life. Ezech. 33, v. 11. Þu lætur þad, mæske heira, ad hallda afram i sinum Synda Vana, vera med rooſsomu Gede, og hafa þad gamla andvaralauſa Hiarta; Æ þad er merkeleg Umvendan! Þu telur þig med þeim Ydrande og Truudu; Eñ mun þa Gud liika telia þig med þeim? Hefurdu lagt af þina Agyrne, eda ertu hættur ad formæla, forsmaa Guds Ord, læta miked yfer þer, eta um Of, og ſilla þig, liuga og bakmæla, stela og pretta? Lifer þu eñ i þessum, og sliikum Syndum angurlauſt, hvernig villtu þa telia þig med þeim sem Yferboot hafa giort, med þvi Gud telur þig yferbootarlauſañ? Þu meinar midt i þinum Synda Verkum hafer þu Truna, eñ hvernig fær þu truad, ad Gud hafe fyrergefed þer þinar Synder, og se þer nadugur, med þvi þu hefur alldrei med Audmykt vidurkent þær, ei helldur angrast af þeim, edur alvarlega teked fyrer þig, ad snua þer fra þinum Veige? Mun soddañ þin Tru vera rett, og gillda nockud fyrer Gude? Þu villest kiære Vin, siñer þu ecke i þinu Hiarta, neina Hrigd fyrer þinar Synder edur Andstigd a þeim, þa hefur þu ecke saluhialplega Tru. Eg seige eptur: Þu villest, þvi þu truer fyrer utañ Guds Ord, a hvern su sañа Tru a ad grundast. Hvar hefur Gud, eda hvadnær sagt nockurntiima i H. Ritningu; Eg vil fyrergefa þer þinar Synder, og vera þer nadugur, hvert sem þu angrast af þeim, eda ecke, hvert sem þu sniir þer fra þinum vonda Veige, eda ecke, skalltu lifa og verda hoolpeñ. Hvar hefur hañ sagt; Eg vil forlata þer þina Agyrne, og þitt Okur, hvert sem þu helldur þad fyrer Synd eda

ecke,

ecke, hvert sem þu leggur það af eda ecke. Hvar hefur hañ sagt; Eg vil vera þer nadugur, hvert sem þu betrar þig epter minu Orde, eda ecke; hvert sem þu metur það mikils, eda þu fyrerlijtur það. Hvar hefur Gud lofad, ad hañ vilie giora þig hoolpeñ midt i þinum Bloots og Formælingar Ordum, og Muñeydum, sem þu med jafnade af Motvilia framhleiper? Hvar stendur það i Ritninguñe ad Hoorkarlar og Saurlifis Meñ, sem ecke snua ser fra þeim Syndum, skule fa Syndaña Fyrergefning? Hvar hefur Gud sagt; Eg vil fyrergefa þer þina Drambseme og Metorda Girnd, þo þu gaunger fram i þeim? Þegar þu skriptast og seiger þinar Synder giøre þer Angur. Hvar fiñur þu þvi heited, ad þeir sem stödugt lifa i Ofaate, Ofdrykkiu, og Sællife, skule hoolpner verda, þo þeir legge það ecke af? Hvar lofar Gud þeim Hefndargiørnu, Ofornlijkunarsomu, Þrættunarsomu, Strudlindu og Falsfullu, þeirra Synda Fyrergefning, þo þeir hverke aungrest af þeim, ne skilie sig vid þær? Hvar hefur þu i Ritninguñe lesed, ad Þiofar, Svikarar, underforuler Meñ og Raungsleitner skule fa Nad hia Gude, þo þeir i soddañ Syndum framhallde? Hvar hefur Gud sagt; Eg vil vera þer nadugur, og giora þig hoolpeñ, hvert sem þu bakmæler þinum Naunga, og liigur a hañ, eda ecke, hvert þu þecker það Synd vera eda ecke, hvort þu aungrast fyrer það eda ecke, hvert þu hætter þvi eda ecke? Hvar fiñur þu i H. Ritningu ad sa Hæse og Hattupphafde Gud vilie tilgefa þær Synder, sem þu villt ecke vidkañast ne hriggiast af, sem þu villt ecke hafa Oþocka, helldur Þocknan a, sem þu ætlar þer ecke ad

fordast

fordast, helldur framveigis ad drygia? Þetta finn- ur þu hverge i Guds Orde, og þad hefur Gud alldrei tilætlad, hitt finn eg vel, ad Gud seiger: Ef sá hinn Ogudleige snijr sier i burt frá øll- um sinum Syndum, sem hann hefur giørt, og vardveiter øll min Bodord, og giører rett og vel, þá skal hann lifa og ecke deya, Ezech. 18, v. 21. Þad finn eg i Guds Orde, ad hann hefur sagt; Eg bii hiá þeim sem hafa sundur- knosadann, og liitelaatann Anda, so ad eg lifge Andann hinna Liitelaatu, og Hiørtun þeirra Sundurmørdu. Es. 57, v. 13. Þad finn eg ad Drottenn seiger; Eg aliit þann Faatæka, og þann sem hefur sundurknosadann Anda, og þann sem hrædest min Ord. Es. 66, v. 2. Þad finn eg ad Gud seiger i Ritningunne; Snu þer, þu hin fraafallna Israel, seiger Drottenn, þá vil eg ecke laata mina Reide koma yfer ydur; þviad eg em miskunsamur, seiger Drottenn, og vil ecke reidast æfennlega; Vidurkenn þu ad eins þinn Misgiørning, ad þu hafer syndgast aa mote Drottne Gude þinum, Jer. 3, v. 7. 8. Þad finn eg i Ritningunne, ad Gud vill vera sorg- bitnum og ydrande Monnum naadugur; Þvi þad Offred sem Gude þocknast er harmþrungenn Ande, eitt harmþrunged og sundurkramed Hiarta munu Gud ecke fyrerliita, seiger Da- vid. Ps. 51, v. 19. Hvar sem eg les, ad Gud vilie veita Naad og fyrergefa Syndernar, þá er hans Fyrerheyt alltiid tillagt, ydrande, aangrud- um, sundurknosudum og truudum Saalum. Enn hverge hef eg i Ritningunne lesed, ad Gud vilie giøra þá Syndara saaluhoolpna, sem ad sonn seigiast trua aa Christum, enn ganga þo aan Ang-

urs

urs og Trega fram i þeirra Syndum, og hafa ecke sundurknosud, helldur andvaralaus, ecke ottaßleigen, helldur dyrfikufull, ecke gudlega hrigg, helldur verallðlega glod Hiortu. Hafer þu lesed þad, þa lat mig vita, hvar þad er ad finna; Kom ... med eina þesshattar Grein! Þar fyrer seige eg ... eittsinn; Þu villest og ser villt, þvi su sama Tru, hefur alltiid fyrer ser Guds Fyrerheyt, a hver hun reider sig; en þu hefur hverge i H. Ritningu Guds Naadar Fyrerheyt til handa andvaralausum Monnum sem einga Yferboot giora. Giæt þvi vel ad, hvert þin Umvendan og Yferboot er hrein, edur af Hræsne, rettskickud, eda twaldræg, saluhiaalplea eda skadleg, i Hiartanu, eda ecke nema i Munnenum, Gude þocknanleg, edur oþocknanleg, sem umbreiter Hiartann og hreinsar þad, edur lætur þad vera oumbreitt i sinu firra Edle, sem briitur hinn illa Vilia, edar lætur han vera oaffreittan, sem giorer Leida a Syndunum, edur lætur þær vera gedfelldar, og sem lætur þær finnast ottalegar, og leitast vid ad afmaa þær, edur med Vilia helldur þeim hia ser. Finner þu hia þer hid firra af þessu, þa er þin Ydran rett, en finner þu hitt, þa er hun sviktul og af Yfervarpe.

## §. 9.

Su hellsta Hindran, fyrer hveria flester umvenda ser ecke alldeilis, helldur ad halfu Leite, ecke rettelega, helldur hræsnislega, ecke innvortis, helldur einasta utvortis, er su þeirra Meining, ad þeir mune umvendter vera, sem þo ecke er i Rauneñe. Hver kallar Heimurenn ydrande nu um Stunder? Er þad ecke satt, ad sa er hallden ydrande, sem, þa hann geingur til Skripta, les nockud, i einne Book,

Book, andvarpar þar med, og lætur gudrækelega, og kemur sidan i dockum hreinum Klædum, upp ad Altare Drottens, og epter Kvølldmaaltiidar-enar Nautn, helldur sig heima þan sama Dag, og fer ecke i eirn Selskap, helldur bidur, eda les i andlegre Bok, eda leggur sig um Stund til Hvilld-ar, maaske, af þvi honum leidest Tiiden. Er þad ecke satt, seige eg aptur, þo han Dagen epter, liika sem aadur, take til ad bloota og sveria, brasta og bramla, fylla sig, og russa, okra og aaseilast adra, liuga og sviikia, og adhafast annad þvilikt? En heiter sliikt ad vera froomur? Hvern helldur Heim-uren nu ad vera frooman og umvendtan? Vored þer ecke ad seigia; Þan sem utvortis er ecke, Hoor-karl, Ræninge, Þiofur, Gudlastare eda Viin-svelgur? Meiged þer ecke jaata, ad sa er hallden christen i Heimenum sem aa helguin Døgum fer til Kyrkiu, eins og adrer, syngur þar, bidst fyrer og heyrer Guds Ord, og ef han andvarpar eitt sin, eda stunur þar vid, sem Gud maa vita hvors vegna giort er, þaa er han stor heilagur hallden, þo han alla Vikuna igeanum hafe ecke annad giort, en eta og drecka, okra og utkuga Fiaarmune, dreissa og skarta, giora sig gladan i Selskopum, spila og hafa illan Munnsofnud, kiifa og deila, eda liuga aa sin Naunga, og skamyrda han? Sioaed, so gaarlega dæmer Heimuren, um Mannana Ydran, Umvend-an og Christendoom! Se Faderen Dryckiumadur og Sonuren liika so, en fer þo eins og Faderen til Kyrkiu og Aflausnar, þaa helldur Faderen han fyr-er frooman og umvendtan Mann, þo han i Vikune aa epter drecke sig galen aa ny; Liika so, se Mood-uren innteken af Hofmood og Yferlæte, og Dotturen hagar ser aa sama Haatt, en fer þo til Aflausnar

med Modur siñe, og les nockud i eitnre Bæna-Book, þa helldur Mooduren hana frooma og ydrande. Þetta ma vel heita, so sem Christus seiger: Fær Blindur viisad Veg einum Blindum? falla þeir bader i Grøfena. Luc. 6, v. 39. Þvi þañig hroopa bæde Faderen og Sonuren, sem Ofdryckiu-Meñ, ofañi Helviitis Grøf, giore þeir ecke saña Ydran. Med sama Slag fer Mooduren og Dotturen i Fiandans Balld, legge þær ecke af sitt Oflæte, og ydrest ecke rettelega. Hvad er þa þesshattar Folke til Hindrunar, ad þad uñivendet ser ecke af Hiarta? Þad, ad þad meinar sig ad fullu uñivendt, hellst þegar adrer tala sem þad vill heyra, halldande af þess Digdum, so þad þurfe ei framar Yferbootar vid, þo þess Ydran, se ei añad eñ Skinhelge. Þaraf kemur þad eirnig, ad þess-slags Meñ þeinkia, þegar þeir eru i Predikuneñe aminter til ad giora saña Ydran, ad þad kome þeim ecke vid, þvi þeir iñbyrla ser ad þeir seu a Veigenum til Himens. Eñ hver sem vill fa Naad hia Gude, hliitur ad vera rettelega uñivendtur; þar fyrer er sa Mismunuren a mille þeirra Sañchristnu, og Muñchristnu, ad hiner snua ser af Hiarta ad ollu Leite til Drottens, eñ þesser ecke nema hallfveigis. Þegar nockud langt kemst þeirra Uñivendan. Þeir Sañchristnu uñivenda ser, eñ fra hverju? Fra ollum Syndum, fra Syndaña Veige, a hverium þeir hafa þangadtil rasad; Þeir snua ser, eñ til hvers? Til Guds, og a Sañleikans Veg. Þar fyrer kallast Ydranen Uñivendan, sem er ad snua aptur til Guds, fra hverium Meñ hafa viked fyrer Syndena. Liika sem Ferdamadureñ, er fyrer Okuñugleika Saker, hefur viked af rettum Veige, sniir aptur, þa hañ verdur þess var, og uppleitar

þañ

þañ retta Veigeñ. So giører ydrande Madur, þegar hañ merker sig ad hafa viked utaf Himensens Veige, þá sniir hañ aptur og litast uṁ med allre Kostgiæfne, hvernig hañ sæe aptur kómest á rettañ Veg. Eñ Hræsnararner þar á mote uṁvenda sier ecke olldungis, og ecke nema ad hálfu; eina Syndena vilia þeir afleggia, eñ añare hallda, þeir vilia hallda med Gude, og liika med Heimenum, þeir vilia þioona bæde Gude, og so Mamon, þeir vilia láta af nockrum Syndum, þo ecke sumer allt af, helldur máske, þá Vikuna einasta, sem þeir hafa vered afleister, þeir ætla sier stundum eina Syndena, eñ hinar adrar vilia þeir fordast. Margur seiger med siálfum sier: Eg vil snua mer til Guds og uṁbreita minu Liferne, þvi eg se ad añars hiálpast eg ecke, eñ Hatred sem eg hef á Ovin minum, get eg ecke láted fara, þad kañ ecke ad hindra mitt Apturhvarf. Einn vill láta af Syndeñe, eñ fráskilur þad, þañ verde ad haga ser epter Heimenum i nockru, ellegar verde hañ fyrerliteñ, ef hañ yfergefe Selskaps Sidu, Gud mune ecke gánga so grant epter þvi. Añar vill uṁvenda ser, eñ af sinum Eignum vill hañ ecke utgefa til Hiálpar sinum þurftuga Náunga, berande þad fyrer sig, ad Tiideñ se hörd, hañ verde ad spara sitt Fe, eñ adrar Synder vill hañ fordast, so hañ vill hverke hoorast, stela ne sviikia, eñ sumer hafa so miklu Godse stoled, og þad med allskonar Prettum og Underhyggiu yferkomest, ad þad er noog fyrer þá medañ þeir lifa. Þá þeir hafa linad nockud á Prettunum, trua þeir sig uṁvendta, og ad hafa ydran giört, þo þeir hallde iñe hiá ser þvi ráng-feingna Godse, eñ þeir eiga ad vita, ad þeir fá ecke Syndaña Fyrergefning, nema þeir gefe þad

ut, sem þeir af þvi hafa under Hondum. Þeim sem snua ser, heiter Gud Life, þo ecke þeim sem ad haalfu, helldur ad øllu Leite, og ecke þeim sem stolnu Fe iñehallda, helldur þeim sem laata þad ute. Þeññan Kost setur Gud þegar hañ lofar Naadeñe, so sem hañ seiger: Ef eg seige til hins Ogudlega, ad hañ skule deya, og hañ sniir ser fraa sinum Syndum, og giører þad sem rett og gott er, so ad hiñ Ogudlege skilar Pantenum aptur, og borgar það aptur, sem hañ hefur rænt, og geingur epter Lifsens Orde, so ad hañ giører ecke neitt raanglega, þaa skal hañ lifa og ei deia, og allar hans Synder sem hañ hefur giørt, skulu ecke hugleiddar verda, þvi hañ giører nu það sem rett og gott er. Ezech. 33, v. 14. 15. 16. So priisade Christus ecke Tollheimtumañeñ Zachæum sælañ, firr eñ hañ sagde: Sia þu Herra, Helftena miña Eigna gef eg Faatækum, og ef eg hef nockurn tælt, þaa gef eg ferfaldt aptur, þvi þaa first sagde Drotteñ Jesus; J Dag veitteſt þessu Huse Saaluhiaalp, Luc. 19, v. 8. 9. Eñ añar vill snua ser, og taka Haatta Skipte i sinum Athøfnum, eñ Dryckiuskap vill hañ hallda fyrer sig, þvi hañ meinar, þad soome ecke i Selskap ad standa ecke i Skilum vid Skaalernar, og kemur þad Dageñ epter þad þañ iñbirlade ser ad vera umvendtur, russadur heim aptur. Hver fær uppteled oll þaug Undañbrøgd sem Hræsñarar hafa i siñe Umvendan, og hvernig þeir vilia jafnañ hallda hiaa ser eitthvert edur añare Synd. Eñ sliikt heiter haalf Yoran, eda Hræsnis-Yoran, hverre ecke aa epter fylger Syndaña Fyrergefning, þvi hver sem gyrneſt ad Gud forlaate honum allar hans Synder, hañ aa allar vitañlegar Synder ad fordaſt, og eingre

re þeirra hia ser leina, aňars er hans Yðran saa- nitt, þvi so seiger Gud; Ef sa hiñ Ogudlege sniir burt fra øllum sinum Syndum, sem haň hefur giørt, og vardveiter øll min Bodord, og giører rett og vel, þa skal haň lifa og ecke deya, Ezech. 18, v. 21. Her heiter Gud þeim ecke Lifenu, sem geimer hia ser eina og adra Synd, helldur þeim sem snua ser fra ollum þeirra Synd- um, og hafa raadvandt Hiarta fyrer Gude, þvi þeir sem viisvitande og viliande hallda hia ser ein- hvorre Synd, eru Hræsnarar i siñe Yðran. Þad er serdeilislega Epterteckta verdt, ad marger sem vilia Yðran giora, tilskilia ser einhveria Synd epter, hveria þeir vilia ecke fra ser laata, og med þvi Mote, setia Gude Maal eda Reglu, hvernig haň skule haga ser vid þa. Eñ ad þad se vitleises- leg og bligdunarlaus Fyrerteckt, getur hver eirn sem vill giæta siñar naatturlegu Skinsemdar, raaded af þvi sem epter fylger. Ef nockur fyrer sina Glæpe hefde broted af ser Lifed, hvert sem þad være fyrer Mañdraap, Saurlifnad, Þiofnad, eda þvi um liikt, og Kongureñ af serdeilis Raad giæfe honum Lifed, med vissum Skilmaalum, eñ Oboota- madureñ villde ad soñu taka i mote Kongsens Raad, eñ villde þo fyrersetia Kongenum þa Skilmaala sialfur, er haň villde i mote taka; Hver munde ecke feigia, ad sa same Odaadamadur, være afsiña? Jeg ætla soddaň Madur ætte ad þacka Gude fyrer þad haň hellt Lifenu, og undergaangast hvad helst sem Kongureñ byde. Ver vitum þad, ad ver aller erum Dauda seker, ei einungis þess tiimaňlega, helldur einkum þess eilifa, og Gud hefur allareidu þaň Doom a lagt, ad ver skulum Dauda deya, Gen. 2, v. 17. Eñ af oforskulldadre Raad hefur

Gud gefed oss Lifed, þo med þeim Skilmaala ad ver giorum saña Ydran, snuum oss rettelega til hans, og vikium fra ollum Syndum. Ezech. 18, v. 21. Og þo vilia marger setia sialfer sinum Gude Koste, ad hvad miklu Leite þeir vilie hans Raad medtaka, sem er, vilie hañ epterlaata þeim ad hallda epter hiaa sier i þeirra Umvendan, eirnre eda añare Synd, hveria þeir meige driigia epter sem aadur. O þu Vitfirringur, villtu fyrerleggia þinum Gude, sem af serdeilislegre Naad gefur þer Lifed, hvernig hañ skule ad þvi fara? Eg meina Gud meige setia þer fyrer hvad þu att ad giora, og þer byriade, være þitt Hiarta rettsiñad, ad þacka honum framfallen a þin Kne, fyrer so stora, þer tilsagda Naad. Jhuga þu hin oþacklaata Mañeskia, hvad þu giorer. J Sañleika, vilier þu i þiñe Umvendan, hallda hia þer eirnre Synd, sem þu ætlar framveigis ad drygia, þa er þitt Hiarta ecke raadvandt, helldur af Hræsne fleckad. Sliikt heitir ecke ad snua ser ad ollu, helldur ei nema ad hoalfu, ecke af Hiarta, helldur einasta med Muñenum. Vilie nockur ecke snua ser rettelega, þa vill hañ ecke helldur leitast vid ad verda hoolpeñ; þvi bruke hañ ecke þad retta naudsynlega Medal þar til, hveria Von maa hañ þa hafa til þess? Vilie eirn Madur lifa, eñ þo ecke Matar neita, hverrnig maa honum þad takast? Ad minsta Koste maa hañ seigia fra, hvernig hañ fæe aan Fædslu lifad; Þvi meina eg hañ meige añadhvert giora, Fædu til sin ad taka, ellegar ad deya. Eins er þad ur Lage, ad vilia hiaalpast, eñ vera þo ogudlegur, og holldlegur siñadur, ad ætlast til þess, eñ vilia þo ecke snua ser rettelega, og bruka þar til sitt Medal. Sliiker holldlega siñader Meñ, maa ecke heita ad oske ser Himnariikis, þo þeir seige þad

þad med Mūñenum. Vera mœ þeir offe ser nockurs, sem þeir vilia so heita lœta, eñ þad er ecke þad retta Himnariike, eins og þad er i sialfu ser; þvi þad Himnariike, i hveriu Utvallder biggia, er soddañ Stand, i hveriu ad er fullkomeñ Heilagleike og ostraffañleg Rettviise, hreirn Kiærleike, osleckad Skiirlife, saklaus Sañleikur, heilog Glede og Unadsemd i Gude og Gudlegum Hlutum, hiartañleg Audmykt, og Lotning, og Guds Nafns oaflœtañleg Lofgiord og Hrosan. Eñ holldleiger Meñ og Hræsnarar hafa einga Pockuan œ ad lifa i heilogu Stande, her i Heime, helldur eru þeir þvert i mot til þess alls hneigder, sem er þvi himneska Life aldeilis motstædelegt, og leitast ecke vid, ad fœ soddañ himneskt Siñeslag. Hvernig meiga þeir eda adrer þœ seigia, ad þeir gyrnest Himnariike? Eg œtla margurhver hafe kañske soddañ Grillur uñ Himenseus Vist, ad hañ meige lifa þar i Gœrunga Gledskap, eins og her i Heime, eta og drecka kræsta Fædu og kriddad Viin, spila og dansa, dreissa og dramba, og giora so Holldeb liifad; Jñ i soddañ Himen kyñe margur ad osta ser, eñ ad sliiku Himnariike mœ þar leita sem eckert Rum er til, þvi Gud hefur aldrei tilreidt þad handa þeim Holldlegasiñudu, sem ecke vilia saña Ydran giora. Ad soñu heiter þad stundum so; þeir vilia uñvenda ser, eñ ecke frœ ollum Syndum, eins og Gud vill hafa, helldur þeim einum er þeim sialfum liitst; Eñ fyrer soddañ Uñvendan, er skedur ei nema ad hœlfu Leite, hafa margar Pusunder steipt þeirra Sœlum i Fordiorfun, einkum af þvi þeir hafa meint sig uñvendta vera, eñ halldeb þo veralldlega siñudu Hiarta. Marger meina, bolve þeir ecke ne gudlasta, hoorest ecke, ne stele, ræne ecke ne life i Dryckiusvalle, helld-

hẽñ seiger og ĩngefur Moñunum, þad er ecke nema
toom Liige, og Svikseme; Hañ talar ecke eitt Ord
satt, þvi Sañleikureñ er ecke i honum, þa hañ tal=
ar Liige, talar hañ af sinu eigeñ, þvi hañ er Lyg=
are, og heñar Fader, so sem Christus seiger Joh. 8.
v. 44. Þegar sa H. Kyrkiu Lærefader Augustin=
us, las eitthiñ Cains Orvæntingar Ord, er hañ
sagde; Min Synd er stærre, eñ hun meige mer
fyrergefast, Gen. 4, v. 13. þa geingu þaug hon=
um so nærre, ad hañ fælldest miog, took ser Peña
i Hond, og skrifade nedañ under þau i sina Bibliu,
þesse Ord; Þu liigur Cain; sem hañ villde vidbæta,
þin Synd er ecke stærre, eñ þad hun verde þer
fyrergefeñ. Viist muntu trua þeim almattuga
Gude betur, eñ Sathan; Hañ seiger fyrer Paul=
um; Hvar Syndeñ yfergnæfer, þar yfergnæfer
Nadeñ miklu framar. Rom. 5, v. 20. Lat
þar fyrer ecke þinar Synder hallda þer aptur, helld=
ur fliit þer þvi framar sem þær eru fleire og stærre,
ad giora saña Yđran! Sa Madur sem siukur
liggur og er hætt komeñ, lætur ecke siñ daudlega
Siukdoom fæla sig fra ad bruka Medol vid honum,
helldur þvi hættulegre sem Siukdoomureñ er, þvi
framar liggur honum a Lækninguñe, og þar vid
kañast hañ vel: Hvar fyrer villtu þa fræfælast
ad bruka þad Medal fyrer hvert þu kant ad losast
fra þinum Syndum? Þess fleire Synder sem a
þer liggia, þess meira liggur þer a ad umvendast,
so þu verder kvittur vid þær; Hvert hefur Læknar=
eñ meire Æru af þvi ad lækna sina Kvilla, eda þa
sem liggia i hættulegum Siukdoomum? Villtu ei
meina, ad þvi stærre sem Siukdoomureñ hefur ver=
ed, þvi stærre Virding fær sa hañ læknade? Þar
fyrer mattu vita, ad vorum Salar Grædara

Christo er þad hiñ stærste Heidur, ad þeir allra stærstu Syndarar, sem Ydran giora sa Naad hia honum. Alldrei færdu giort vorum Frelsara Christo stærre Æru eñ þa, ad þu sem stor Syndare komer til hans, framfaller fyrer hañ med sañre Hiartans Audmykt, leitar i Truñe, Naadar og Endurnæringar hia honum, fyrer þina angurdu og sturludu Saal, og hugger þig vid hans Piinu og Dauda. J Sañleika, virder sialfur Christus þad fyrer stora Æru, þegar Stoorglæpa Meñerner leita Hialpar hia honum fyrer þeirra Saaler, þvi þar med gefa þeir til Kyña, ad þeir true þvi stadfastlega, ad Blooded Jesu Christi Guds Sonar gere þa hreinsad af øllum þeirra Syndum. 1 Joh. 1, v. 7. Lat þvi hvorke Fiollda ne Stærd þiña Synda hallda þer fra ad giora saña Ydran, first hun er fyrer þig so vel sem adra Medal a mote Fordæminauñe. Sama Rett hefur þu til Guds Naadar i Christo, sem Paulus, sem tilka var stor Syndare, so þu matt telia þig med honum og seigia: Þad eru vissuleg Sañende, og dyrmætt verdugt Ord, ad Christus Jesus er komeñ i Heimeñ Synduga saluhoolpna ad giora, medal hverra eg em hiñ stærste, eñ mig er þvi Miskun yferkomeñ, uppa þad ad Christus Jesus audsynde a mer serdeilislega, alla Þoleñmæde, þeim til Epterdæmis sem a hañ skylldu trua til eilifs Lifs, 1 Tim. 1, v. 15. 16. Seig þvi til þin og añara sem ver syngium:

So stor Synd eingeñ er,
Ad meige granda þer 2c.

Advarattu 2). ad þitt langsamlega Framhalld i Syndunum, hræde þig ecke fra þvi, ad giora saña Yferboot; rett a þeim sama Tiima sem þu ydrande hurar

hurar til þiña Synda, kallar Gud þig til Yferbootar og Saaluhiaalpar. Hafe eirn Madur leinge seted i Snioo, so hañ er haalfkaleñ ordeñ, hañ hefur þess helldur Naudsyn fyrer ad verda fluttur i varma Stofu. Hafe særdur Madur leinge leiged i sinu Bloode; hañ hefur þess helldur Naudsyn fyrer ad laata binda uñ sin Saar: Eins er þad, hafer þu leinge fram̃ vaded i Syndeñe, þess stærre Naudsyn hefur þu fyrer ad leita Medals til ad losast vid hana. Viter þu ad eingeñ Hoordooms eda Saurlifis Madur verdur hoolpeñ, so leinge hañ liggur i þeirre Synd, þaa skal þad upphvetia þig ad losa þig vid þær Synder fyrer saña Ydran; þvi saa sem hefur vered Hoordooms eda Saurlifis Madur kañ hoolpeñ ad verda, uñvende hañ sier rettelega. Viter þu ad eingeñ Hofmoodugur Oflætis-Madur kañ hoolpeñ ad verda, so leinge hañ fram̃fer i þeirre Synd, þaa aattu ad snua þer fraa heñe, þvi saa Dramblaate getur hoolpeñ orded giore hañ saña Yferboot; Eins er haattad uñ adrar Synder. Laat vera ad þu hafer leinge þiñ Alldur i Syndum aled, samt, lifer þu eñ aa Tiina Naadareñar, og Himnariikis Dyrern eñ ecke fyrer þer tilluktar, so þu fær þar iñkomest, ef þu snijr þer rettelega, hvar eñ nu gefst Stadur og Rum til Apturhvarfs, þar er eirnig ad faa Himnariike og Saaluhiaalpena. J þessum Heime er bæde Stadur og Tiid fyrer Mañeñ, til ad uñvendast, so leinge sem hañ lifer, so sem ver syngium i vorre Kyrkiu Truarjaatning:

Aflausn truum allra Synda ꝛc.

Þad er, ad hun veitest her aa Jordu, ollum þeim Yferboot giora, þar fyrer getur þu eñ þaa her i Heime fyrer sañarlegt Apturhvarf eignast Himnariike og Saaluhiaalpena; Laat þvi ecke þitt laang-

Y 5 varañ-

varañlega Synda Framhalld, bæga þer fra ad giora saña Ydran, helldur afiiſa þig, og hrada þer til þeſs, ſo ad þu þvi firr loſner vid þær, þvi ecke lætur Gud þad vanta a ſina Siidu, ad lata Himeneñ ſtanda þer opeñ, ſem þo kallar til þin; ſnu þer þu hin fraafallna Iſrael! þa vil eg ecke lata mina Reide koma yfer ydur. Jer. 3, v. 7. Eg vil tala til þin med þeim Ordum, ſem Chriſtus talade til Judaſar; Hvad þu giører þa giør þad fliott! 13, v. 27. Tef ecke leingur vid ad giora Ydran, þvi Daudeñ kan ad koma i Veigeñ, og krefia þina Saal til ad mæta añarsſtadar, og i ødrum Heime, hvar ecke er framar Rum til Umvendunar. Eirn Læreſveirn ſpurde ſiñ Læremeiſtara eittſiñ ad, hvad nær hañ ſkyllde uñvenda ſer, hvar uppa hañ gaf honum þetta Svar; Einum Deige adur eñ þu deyr; hvar uppa Læreſveirneñ ſagde, hañ viſſe ecke ſiñ Dauda-Dag, þa ſagde Læremeiſtareñ, rett ſyrer þad ſama, ſkalltu kiære Son, hallda hvern Dag kuña ad vera þiñ ſiidaſta; Tak þvi til i Dag ad giora Yferboot, þvi maaſke Morgun-Dagureñ ſe þiñ ſiidaſte; Tak epter þeſſu, og þeink liika Dagureñ ſa a Morgun kemur, meige verda þiñ ſiidaſte! Tak þvi til i Dag ad ſnua þer, þa verdur þu a Morgun komeñ a Veigeñ til Himens; og keppſt ſo epter iñ ad gaanga um hid þraungva Hlided epter vors Frelſara Amiñingu; Hvad þu giører, þa gior þad fliott, og minſt þeſs ſem ſunged er a medal vor:

Epter Daudañ er Doomſins Tiid,
Daudeñ er Laun Syndaña, ꝛc.

Eg kalla eñ ettſiñ til þin: Hvad þu giører, þa giør þad fliott!

§. 15.

Eñ med þvi sa illskufulle Ovinur, hefur a ar Klær i frame til ad hindra christens Mans sañarlegt Apturhvarf, og kastar allrahanda Hindrunum i Veigeñ, hvar med hañ leitast vid ad draga Meñ fra þeirra goda Aforme, þa er naudsynleat ad syna sañchristnum Mañe, a hveriu hañ skule taka vara, nær hañ ætlar ser ad um̃vendast. Ad Diofsulleñ se svareñ Ovinur alls mañlegs Kyns, og vilie draga alla Meñ med ser ofañ i sitt helvitska Riike, þad er lioost af H. Ritningu; So seiger Petrus þar um̃: Ydar Motstandare Diøfulleñ, geingur um̃ kring sem greniande Leon, epterleitande þeim hañ svelge, 1 Pet. 5, v. 8. So heyrde eirnig hiñ H. Johañes Rödd mikla a Himne seigiande: Vei þeim sem a Jørdu bua, og a Sioonum, þvi ad Diøfulleñ er ofañkomeñ til ydar, hafande Reide mikla, af þvi Diøfulleñ er ofañkomeñ til ydar, hafande Reide mikla, af þvi hañ hefur stuttañ Tiima, Apoc. 12, v. 12. Þar fyrer ef þad være i hans Vallde, lete hañ eingañ Mañ hoolpeñ verda, helldur færde hañ þa alla med ser ofañ i Helviitis Afgruñ, og eidelagde alla Christnena, þar fyrer syngur vor Jyrkia so:

Hiñ gamle Dreke hefur ei nad,
Hveria Stund bruggar Svika Raad,
So hañ oss sigra næde, &c.

Eñ fyrer þvi Gud lætur honum þad ecke epter, sæker hañ fast og akaflega epter ad laata þad i Veg setiast, sem forhindre Mañaña Saaluhiaalp, einkum giører hañ þad þegar christeñ Madur er komeñ a Veigeñ til ad um̃venda ser, og giora Ydran, og ætlar añadhvert ad gaanga til Skripta, edur heima hia ser ad bidia Gud alvarlega, og audmiukiega

um̃

um̃ siña Synda Fyrergefning, og afbidia þeirra Straff; Til þessa þarf ecke marga Vitnisburde ad færa, þvi hver eirn sem hefur i Siñe nockud Gott ad framkvæma, verdur sialfur best æskinia um̃ þad, hvernig Dioful leñ ber vid ad láta þad ecke takast. Margur hefur stoduglega ásett ad gánga til Skripta, og þeirrar H. Kvølldmáltiid-ar á vissum Tiima, eñ hvada Hindraner koma þá fyrer hañ? Stundum fiñur hañ hiá ser einga Gudræknis Alvorugefne, eckert Angur ne Trega, og einga Laungun i sinu Hiarta, epter Gude og hans Naad, stundum þegar hañ er i sinu besta Gudrækn-nis Verke, hleipur eitthvad brádlega iñ, so þad raskast og sorgeingur; Nu huxar hañ med sialfum ser; Ecke er eg nu hæfur til þessa Verks, eg má sleppa þvi i þettasiñ, og geima þad nockud leinge til hentugre Tiidar. Aptur huxar hañ so: Skule eg nu giora Ydran og um̃venda mer, þá má eg gefa frá mer ad hafa Heimeñ og hans Athæfe i Hyggiu, eñ þá verd eg fyrerliteñ; og añadfleira þessslags er Sathan plagar ad iñskioota i Huge Maña. Allt þetta giörer hañ til þess ad hindra Mañaña Ydran, og Sáluhiálp, þar fyrer liikar Sathan eckert verr eñ þad, þegar hañ ser, ad Meñ bua sig til Kyrkiu, eda til Skripta og Altarisgaungu, edur hañ merker ad þeir eru sorgande heima, vegna siña Synda, og á Kne fallande bidia Gud, med grátande Angum um̃ þeirra Fyrergefning, edur þeir syna á ser, þeir vilie afleggia þeirra gomlu Synder, snuast til Guds, og uppbiria añad Fram̃ferde. Þad hafa Tofra-kerlingar medkent, sem fyrer sina Fiolkinge hafa straffadar vered, ad alltiid þegar Dioflarner heyrdu Klucknahliooded, hvar med christner Meñ eru til Kyrkiu kallader, tæke þeir til ad skialfa og hristast.

Orsok-

Orsokena þar til er hægt uppa ad geta, sem er, ad þeir vita margur hefur vid eina Predikun umvendst og losnad ur Diofulsens Snorum. Eirn af þeim gomlu Kyrkiu Lærefedrum, sa eittsiñ ad þegar eirn hofmoodugur Sælgiætingur geck til Kyrkiu, þa hofdu Dioflarner lagt honum Beitsle i Muñ, og teimdu hañ so til Kyrkiuñar, hvar med fylgde stor Flockar voudra Anda. sem dousudu og hoppudu allt i kringum hañ, eins og þeir være fuller af Glede, eñ þeir Heilogu Einglar fylgdu langt a epter, liika sem være þeir sorgfuller; Eñ þegar þesse Madur foor aptur heim fra Kyrkiuñe, sa same Lærefader, ad þeir H. Einglar fylgdu honum med Glede-Laatum, eñ Dioflarner fylgdu med hriggelegu Bragde lange a epter; Af þessu auliktade þesse Guds Madur, ad sa drambulle Sællifis-Madur munde hafa fared til Kyrkiuñar i Aũdvaraleyse og Diofulsens Snorum, eñ munde hafa i Kyrkiuñe fyrer Guds Raad, og hans Ords Predikun, umvendst; Þetta kemur vel samañ vid Christi Ord, er hañ seiger; Eg seige ydur ad liika so muñ Fognudur vera a Himnum, yfer einum Syndugum þeim Ydran giører, meir eñ yfer þeim niiu og niiutiu Rettlaatum, sem eige þurfa Yferbootar vid, Luc. 15, v. 7. Og aptur: Liika so seige eg ydur ad Fognudur muñ vera fyrer Einglum Guds yfer einum Syndugum sem Ydran giører, v. 10. Heyr mer, goode Vin! Giørdu Glede i Heimenum og Guds Einglum, sem þar hafa siñ Bustad, þvi þad giører þu, þegar þu giører saña Ydran, og umþeink, hvad þad hafe ad merkia: Maaske þu sert stor-Syndare, sem hefur i þessum Heime framed margar og storar Synder, og þu getur þo komed storre Glede til vegar, a Himnum, so aller Him-

ensins Herskarar taka til ad hafa yfer þer Glede-Saungva og Fagnadar-Læte. Giættu ad hvad Gud metur mikils þina Saal, ad aller Heimsins Kraptar glediast af þvi ad þin Saal leidest til Guds fyrer taññarlegt Apturhvarf! Eingeñ Syndare a Jordu, og þo hañ være sa allra stærste, skyllde þar fyrer laata sig tefia ad snuast til Guds, so hañ kome Glede af stad a medal Guds H. Eingla, þvi storkostlegar sa Madur hefur syndgast, er snúr ser til Guds, þvi stærre verdur Gledeñ a Himnum yfer hans Umvendan; Laat ecke Sathan spilla þinu gooda Asforme, helldur slit þig lausañ ur hans Flækium; þvi hañ sæker alvarlega epter þiñe eilifre Glotun; Eñ, vilier þu umvenda þer, þo margar Hindraner kome þar i Veg fyrer, þa gegn þeim godum raadum sem eg vil leggia þer framveigis!

## §. 16.

Hafer þu feinged stodugañ Asetning til ad snua þer rettelega, med þvi þu ser hverstu ill Endalok þu muner fa, giorer þu þad ecke sem eg hef synt þer her ad framañ; Þa attu first og fremst ad taka þig Afsiides fra odru Folke, og gefa liika fraa þer allar veniulegar Sysslaner, so þu hindrest ecke i þiñar ydranar Gudrækne; Þad Raad gefur Christus sialfur, er hañ seiger: **Nær þu bidst fyrer, þa gack iñ i þitt Svefnhuus, og lyk Dyrunum aptur.** Matth. 6, v. 6. Ad vera i Einrume stodar miked til Alvorugefnis i Gudrækneñe, þvi hvar margt Folk er i kringum Mañ, sem er imislegt ad skrafa, og hefur allrahanda Tiltekter fyrer Stafne, þar tekst ecke vel ad bidia, eda ihuga andlega Hlute; fiñ þer þar fyrer afvikeñ Stad, nær þu villt tala vid þiñ Gud, og utausa þinu Hiarta fyrer honum;

Eñ þa þú iñgeingur í þitt Svefnhuus og apturlokar Dyrunum, eda í hvern añañ afvikeñ Stad, þa apturloka eirnig Dyrum þins Hiarta, so einger adhlaupande Þankar rugle fyrer þiñe Gudrækne; Se eirn Lærdur Madur a þeirre Stund, ad þeinkia um sinar Lærdooms Idkaner, eda Lagamadur um sin Maal eda Lækner um sin Medol, nema mesta Naudsyn reke epter honum ad tilreida þau, eda Kaupmadur um sina Hondlan, eda Voru sem hañ añadhvert vill hafa iñkeipt eda utkomed, eda Handverks Madur, um siiña Smiidalag og Afkomu, eda Husfader og Husmoder um þeirra Bustand; Hvernig kañ þa hia þeim ad fiñast rett Ydrunar Alvorugefne? Veralldleg Umsorgun er soddañ Gudrækne miog til Hindrunar; Þvi laat hana nidre liggia, og oll Umsvif vikia ur þinu Hiarta, þegar þu villt snua þer til Guds. Þess biriar þer eirnig ad giæta, ad þegar nockur Gudrækne uppkveikest i þinu Hiarta oforvarandis, ad þu strax taker þig affsiidis, og slepper allre jardneskre Umhyggiu, þvi þad kemur ecke alltiid ad þer, þo þu giarnañ vilier, helldur hrærer þa H. Ande þitt Hiarta, hvers vegna þu att vel ad taka Vara a hans Tiima! Merker þu þetta, þa hliid honum strax; Kasta fra þer ollu þvi Jardneska, og bid þiñ Gud ad upplysa þig æ meir og meir! Eñ se ecke Gaumur gefeñ ad þessum Hiartans Hræringum, hvad er þa ad furda þo H. Ande viike fra med sina Verkan, og Madureñ nae ecke siidañ Gudræknis Siñe fliootlega, þo hañ vilie þad feigeñ. Serhver rettsiñadur Christeñ Madur a ad giora ser meira Omak fyrer ad fa Raad hia Gude, eñ allt þad Tiimañlega. Forsooma þvi ecke þañ Tiima a hverium Gud klappar a Dyrnar hia þer, helldur liuk snarlega upp

fyrer honum. Þegar eirn Kongur, eda stor Hofdinge vill heimsækia sina Undersaata, hversu kostgiæfelega taka þeir þa Vara, a hans Tilkomu, og standa stundum heilañ Dag utbuner med Vopnum, til ad taka med mikille Vidhofn i mote honum, og meta þad liitils ad setia til Siidu a medañ allar sinar Utrettingar og Handteringar? Etter þu þa ecke miklu helldur, fyrer þins Guds og hans Hilles Saker, ad lata allar þinar jardneskar Sysslaner, kirrar liggia, þegar þu merker, ad hañ vilie heimsækia þig, og koma iñ i þitt Hiartans Huus? A þeim Tiima kallar sialfur Christus til þin og seiger: Sia! Eg stend fyrer Dyrum og klappa uppa, ef nockur heyrer mina Rødd og uppliikur Dyrunum, til hans mun eg ingaanga og Kvølldverd med hønum snæda, og hañ med mer. Apoc. 3, v. 20. Hafer þu ecke Gaat a þessu, þa undrast ecke, þo þin Gudrækuis Ydia i þinu Apturhvarfe verde sliov, þegar þu villt bidia, og umvenda þer. Þegar su andlega Christi Brudur, lauk ecke strax upp fyrer sinum Brudguma, er hañ barde uppa, helldur brukade ymisleg Undañbrogd, þa veik hañ burt, so hun fañ hañ ecke, so sem hun seiger: Eg stood upp ad liuka upp fyrer minum Vin, eñ þa eg hafde upplated, var hañ i burtu og af stad geingeñ, þa geck min Saala ut epter hans Ordum; Eg leitade ad hønum, eñ eg fañ hañ ecke; Eg kallade, eñ hañ svarade mer ecke. Cant. 5, v. 6. Slepp þvi ecke ur Hende, so hentugre og hackvæmre Tiid, til þiñar Umvendunar, helldur gior sem eg hefe sagt, þvi añars kañu ad verda ouñvendtur, og alldrei geta naad ad umvendast rettelega. Hafer þu sett þer fyrer vissa Viku, a hverre þu villt gannga til Skripta, og Guds Bords,

Bords, þaa laat ecke Tiimañ hlaupa Umþeinkingar lauſt, allt til þeſs Dags aa hverium þu villt þad fyrertaka, ſem marger giora, er þaa taka ſer eina Bæna-Book i Hond, ad leſa i, og laata þad nægia; Þvi hvadañ maa ſeñ Ydran koma, þegar Madureñ umgeingſt med einvoomis jardneſka, og jafnvel ſyndſamlega Hlute, heila Vikuna i gegnum, þeinkiande eckert um ſinar Synder, eda ſin Skriptarmaal, og ſina Altarisgaungu, firr eñ aa ſama Deige? Marger eru alla Vikuna ſyrer, i Gledeſamkvæmum, og liſa i Dryckiu-Svalle, ellegar þeir eru ad okra og utſiuga, ſins Naunga Eigur, ellegar ad hreikia ſer upp i Mikelæte, ellegar ad kiiſa og deila, edur þvi um liikt ſyndſamlegt ad ad hafaſt, allt þar til Aflauſnardagureñ kemur, þaa þeir taka ſer Book i Hond, og leſa i heñe nockud um Stundarſaker, eda liited meir fyrer utañ Epterteckt, Skilning, Grundan og Gudrækne, og hlaupa ſo til Skriptaſtoolſens og Drottens Bords, ad viiſu med þeim Hætte, eins og Sviined til Trogſens; Hvada Umvendan aa þetta ad heita? Hræſne er þad, ſem adur er ſagt; Sañarlega ſaa ſem alla Vikuna hefur leated hiaaliida, aan þeſs ad þeinkia til Guds, edur þeſſa chriſtelega Verks, hañ er ovidbueñ ad taka aa mote Ydranar, og iñelegrar Gudræknis Gæfu, þvi hañ hefur ecke leitad heñar med audmiukre Bæn hia Gude, og þar fyrer ecke alvarlega kañaſt vid ſinar Synder, hañ angraſt ecke, ne verdur hiartañlega harmþrungeñ af þeim, og hefur ecke lifande Tru aa Chriſtum. Fyrer framañ er allareidu ſagt, hvad ſañre Umvendan Tilheyre, og þangad viiſa eg Leſaranum. Eñ ad fleſter af vorum Chriſtnum, hafa þo þeſſa Adferd, nu um Stunder, er noog augliooſt, ſo þar þarf ecke morg Vitne til ad leida;

Jafnvel finnast marger, sem þann Dag þeir ætla ad skriptast gefa ser ecke Toom til umm nockrar Stunder, ad snua sinu Hiarta til Guds, fyrer þeirra Bük-sorgar Saker, eda þeinkia umm hvad þeir hafa i Higgiu; Meiga þesser heita ydrande? Þar fyrer, vilier þu koma framm ad Skriptastoolnum og fyrer Altare Drottens, þaa bu þig þar til ad minsta Koste, heila Vikuna fyrer, og þad daglega umm eina eda twær Studer i þinu Svefn-Herberge, edur odrum afviknum Stad, og sia vel til þu ofþinger þer ecke, nema sem minst verda maa, med jardneskum og ver-alldlegum Umsvisum! Þetta er skilldugt og tilheyre-legt. Umm þaa Sybarita skrifar Svidas ad þeir hafe sett þesse Løg i sinne Borg; Eingenn af oss se til ne-nns nitsamlegur; Og umm þeirra Kvennfolk skrifar Plu-tarchus, ad þad hafe vered hiaa þeim Venia, ad þegar þeim var til Offurgiørda eda Gesta boded, þaa hafe þad orded ad giørast heilu Are aadur, so þær kynne þess betur ad bua sig og priida þar til. Hafe þessar brukad so laangann Tiima til ad bua sig i veralldlega Veitslu, hversu mun þaa miklu naud-sinlegra vera fyrer christna Menn, ad bua sig til and-legrar Nautnar þeirrar H. Kvølldmaaltiidar? Hver-su leinge bliitur margur ad standa vid stor Herra Hof, opt heila Daga og jafnvel heilar Vikur, nær hann leitar Naadar hiaa þeim, aadur honum se gegnt? Skyllder þu þaa ecke tilreida þig heila Viku, nær þu villt gaanga til Skripta, og Guds Bords, og bidia þer Naadar hiaa Gude, sem er Drottenn allra Drottna, og þad soddann Naadar ad þu meiger sæll vera, bæde her i Tiimanum og þar i Eilifdenne. Byr-ia þvi rettelega þina Umvendan, so þer gange hun vel, og þu faaer hiaa Gude, Naad, Miskun, Synd-anna Fyrergefning, Rettlæte og Saaluhiaalp! Gack i Tiima

i Tiima affildes, og bid þiñ Fodur i Leindum, um allra þiña Synda Fyrergefning. Eñ viller þu gaanga til Skripta, þaa bind þig ecke vid neina vissa Tiid, epter þinu Tiimatale, þvi þad er Merke til, ad marger gaanga til Guds Bords, ecke nema af einberum Sidvana; ad þegar þeir ecke hafa giort þad i sextaan Vikur, eda um haalft Ar, eda leingur, þaa seigia þeir vid sina Kuñingia; Ver hofum nu leinge ecke vered til Gudsbords, Tiimeñ er hiaa fareñ, best mun ad giora þad næstkomande Viku. Af þessu maa siaa, ad ecke Gudrækneñ, helldur Vaneñ rekur epter þeim i þessu; þeir hafa vanest þessu fraa Ungdoome, þvi hafa þeir þad so, hvert sem þeir hafa ydrande Hiarta eda ecke, þad gillder þeim liikt, hafe þeir einasta komed af þessu heilaga Verke, sem þeir plaga ad seigia, og þo þeir þaa Dageñ epter, hallde vid siñ gamla Synda Vana, take til aa ny ur Hoose ad eta og drecka, okra og kuga, laata miked yfer ser, sviikia og ææseilast, samt hafa þeir þessu H. Verke afkomed, og þar med laata þeir ser nægia. So geingur þetta til i Sañleika, medal margra christeña Maña. Eñ um þaa heiter þad so, sem Postuleñ Petrus seiger: Hundureñ etur upp aptur sina Spiiu, og þveiged Sviin, vellter ser aptur i Saurnum. 2 Pet. 2, v. 21. Þaa er hiaa þeim þad siidara orded verra hinu firra, v. 20. So plaga þeir liika ad giora, þegar eirn af þeim siikest, þo hañ hafe allt þaangad til lifad i stærsta Andvaraleyse, i Illbud og Sundurþickiu, i Ohoofe, Drambe, Agyrne, og Prettum, i Vellystingum og Motþroa, hafe hañ ad eins feinged þaa H. Kvølldmaaltiid, þaa hallda þeir hañ sælañ i sama Augnablike, sem Saaleñ skilur vid Liikamañ; og seigia; Þad var gott ad þessu H. Verke var afloked,

hvert sem hañ hefur audmiuklega vidurkendt sinar Synder, og ꜳngrast af þeim, eda ecke, hvert hañ hefur hast Andstigd ꜳ þeim eda ecke, hvert hañ hefur Hiartans Laungun epter þeirre H. Kvølldmꜳltiid, eda ecke, hvert hañ hefur hast Asetning ad fordast Syndernar þadañ af, eda ecke, þar um er ecke skipt ser, eins og þar riide ecke miked ꜳ, first þad H. Verk er bued utvortis. O þer dꜳrlegu og blindu Mañeskiur! Dygde þad utvortis Verk til ad fꜳ Sꜳluhiꜳlpena þꜳ yrde flester christner Meñ hoolpner, þvi þeir niita ser þad hid ytra flester, ꜳdur eñ þeir deya, eñ odruviis keñer Christus, er hañ seiger: Marger eru kallader, eñ Fꜳer utvallder, Matth. 20, v. 16. Þeir munu ei aller sem til min seigia, Herra! Herra! iñꜳnga i Guds Riike; Þad er, þeir sem utvortis jꜳta sig christna vera, gꜳnga i Kyrkiu, skriptast og medtaka þꜳ H Kvølldmꜳltiid, helldur þeir sem giøra Vilia mins Fødurs i Himnum, Matth. 7, v. 21. Þad er, þeir sem i Gudrækne og Tru, syngia, bidia, og gꜳnga i Kyrkiu; þeir sem vid sin Skriptamꜳl, hafa sundurknosud, ꜳngurbiteñ, og truud Hiortu, þeir sem medtaka þꜳ H. Kvølldmꜳltiid verduglega og sañydrande; Bruka þad, þar fyrer ecke af Sidvana, helldur nær sem þu fiñur ad þin Samvitska er þung bueñ, edur þin Tru er veiklud, nær sem þu hefur storlega modgad Gud, med einne eda añare Synd, edur þu tekur til ad verda kalldur i Bæneñe, eda til ad heyra Guds Ord, eda til añara andlegra Athafna, þꜳ ꜳttu ad giora saña Ydran, snua þer, og gꜳnga til Skripta, og Guds Bords, þo ecke hafe lided meir eñ ꜳtta, sex eda fiorár Vikur siidañ þu giorder þad; þꜳ er hentastur Tiime til ad giora

saña Ydran, þegar Samvitskañ verdur añadhvert orooſom eda veiktruud, og Madur upporvaſt þar til af iñelegre iñvortis Gudrækne. Tak epter þeſſu, og bir:a þina Umvendan rettelega og a rettum Tilma, þa mun Gud gefa þer Raad þar til.

§. 17.

Vilier þu umvenda þer rett af Hiarta, añadhvert heima hia þer, þegar þu hefur þunglega ſtigt þiñ Gud; ellegar opeñberlega vid Skriptaſtooleñ, og Brukun þeirrar H. Kvølldmaltiidar, þa jaat alltiid Bænena a undañ gaanga. Til Dæmis: Hafer þu aformad faſtlega iñañ atta Daga ad ſkriptaſt, þa far aſſiidis, og i Hiartans Audmykt fall fram a þin Kne fyrer Guds allra hæſtu Hatign, og apturlyk ſo vel Dyrum þins Huſs ſem þins Hiarta, ſo þiner Þankar hvarfle ecke hingad og þangad, og akalla iñelega þiñ Gud, ad hañ gefe þer ſiñ H. Anda, þinu Aforme til Styrkingar, ſo þu geter rettelega og af Hiarta ydraſt! Bid hañ med Epterleitne, ad hañ fyrer ſitt H. Logmaal, leide þig til Þeckingar þiña Synda, ſyne þer i hveriu, hvad opt, og hvad ſtorlega þu hafer misgiort i mote Gude og þinum Naunga, hvad þu hafer þar med forþenad, hvernig ei ſe añars ad vænta þar fyrer, eñ tiimañlegs og eilifs Straffs, og ad þu kuñer þer ſialfur, af þeirre Neid, med eingu Mote ad hialpa. Bid hañ virdeſt ad verka i þer Angur og Trega, fyrer þinar Synder, og Gudlega Hrigd, ſo þu ecke aner leingur andvaralauſt fram i þinum Syndum, helldur later af þeim, fordeſt þær af Alvoru, og hafer a þeim Leida og Vidbiood! Kalla eirnig til hans, ad hañ gefe þer ſaña ſaluhialplega Tru a Jeſum Chriſtum, i þitt Hiarta, ad þu faer um=

sadmad hans H. Forþenustu, Sakleyse og Rettlæte, og fyrer þetta rettlætur og hoolpeñ orded, fyrer hans Doome! Sia, þetta er þad firsta þu ætt ad taka fyrer þig, nær þu villt saña Ydran giora, og þad ættu optlega ad giora i Hiartans Audmykt, og Gudrækne; Þar fyrer er ecke Ydraneñ rett birtud med þvi, ad taka brædlega uñ Stund til eins Bæna Kvers, og lesa þar i þeankalisted nockrar Bæner uñ Syndaña Fyrergefnig, þvi hvernig sær sia beded Gud iñelega og alvarlega uñ Syndaña Fyrergefning, sem ei hefur rañsakad, hveriar Synder æ hans Samvitsku liggia, og hvad Syndeñ epter sig leider, þvi æ sia Madur sem ydrast vill, so ad giora sem eg hefe nu sagt! Þu ætt ad vita christeñ Madur, ad þad er ecke komed under vorum Vilia, ad þad stendur ecke i voru Vallde Ydran ad giora, helldur er þad alleina Guds Verk, sem Gud sialfur hlijtur ad verka i osß, skule þad verda framgeingt, og Medal til ad komast hiæ Topuneñe, og verda hoolpeñ. Eg tala nu ecke uñ þæ Hræsnis Ydran, sem flester giora, og ædur er længt umtalad, þvi soddañ Ydran geter Madureñ giort af eigeñ Kroptum, æn H. Audserdeilislegrar Nædar, og Verkunar, med hverre hañ leitast vid ad pretta bæde Gud og Meñ, eñ sig sialfañ prettar hañ þo allramest, þvi sliker Hræsnarar rettlætast ecke fyrer Gude, og komast ecke æ rettañ Veg til Himens, helldur bliusa þeir i sinum Syndum og fortapast, uñ siider, nema þeir ædur rettelega umvendest. Þeir eru þad Folk, uñ hveria Drotteñ Christus talar i vorum Upphafs Texta: Marger, þad seige eg ydur, munu sækia til, þen: iñ ad gannga, þad er til þess eilifa Lifs, og faa ei getad. Eñ su saña Ydran kemur fræ Gude, sem

sem Jeremias seiger: Snu þu mer, þa verdur mer snued, þviad þu Drotten ert min Gud, þa er eg snerest, bætta eg mig. Jer. 31, v. 18. 19. Skulum ver umvendast þa maa Drotten seigia: Eg vil gefa ydur nytt Hiarta, og eirn nyan Anda i ydur, eg vil burtaka Stein-Hiartad, af ydru Hollde, og gefa ydur eitt kiøtlegt Hiarta; Eg vil gefa min Anda i ydur, og giøra soddan Folk af ydur, sem geingur i minum Bodordum, og helldur min Rettinde, og giører þar epter, Ezech. 36, v. 26. 27. So eignudu þeir Truudu fordum Gude, Umvendan Heidinglana, þvi þeir vegsomudu Gud og sogdu: Þa hefur Gud eirnig unt Heidingiunum Ydranar til Lifsens. Act. 11, v. 18. Af þessu serdu hver-su miog þer riidur a ad bidia Gud umfram allt um ydrande Hiarta, vilier þu sana Yserboot giora, og ad falla fram fyrer honum i Audmykt, og seigiast: Drotten heyr þu min Ord, og athuga mina Rædu, bigg ad hroope minn, min Kongur og min Gud, þviad til þin vil eg bidia. Ps. 5. v. 2. 3. O þu Almaattuge Gud, og Himneske Fader, maklega beige eg min Kne i sanre Hiartans Audmykt fyrer þine haasu Guddoomlegu Haatign, sem ert Fader Drottens vors Jesu Christi, og rettur Fader yfer allt hvad Born kallast a Himne og Jordu. Eph. 3, v. 14. 15. Eg bid þig i Nafne þins Sonar Jesu Christi, fyrer Krapt H. Anda, ad þu epter mins Frelsara Fyrerheyte Luc. 11, v. 13. vilier riikuglega gefa mer þin H. Anda her ofan ad, til Stirkingar minu Asorme, þvi an hans Adstodar, get eg þad Verk ecke fullgiort, sem eg hefe i þinu Nafne uppbiriad, sem er ad umvenda mer. Elsku-legaste Fader! Eg se i hvilikum Haaska eg er stadd-

ur fyrer miña Synda Saker, og þad eg mune saa hormuleg Afdrif, ef eg helld þañig afram; þar fyrer bid eg þig, ad þu fyrer þiñ gooda Anda virdest sialfur ad verka sañarlega Yðran i miñe Saalu, eige eg ad geta Yferboot giort og hoolpeñ orded, þvi ꝺan þiñar Naadar get eg þad alldrei. Keñ mer umfram alla Hlute ad þeckia minar Synder, og yfervega, hversu optlega, storkostlega, þunglega og ovidurkvæmelega eg hefe reitt til Reide þina Guddoomlegu Hatign, hvad eg hefe þar med forskulldad, og ad eg af eigeñ Mætte gete ecke hialpad mer ur þeirre Tiimd, eñ fyrer þina Naad, maa eg hialpast; Snert mitt harda og andvaralausa Hiarta med þinu Gudlega Logmaale, ad þad sañydrande verde, saæ Vjdbiood a drygdum Syndum, og barme ser mikelega þar af ad eg hefe miog raansamlega modgad þig, sem mer hefur Lif og Anda gefed, og i fraa Moodur Life giort vid mig epter þiñe Miskunseme, allt til þessa Tiima; þig hef eg stigt, hvers Umsioon eñ vardveiter miñ Andardraatt, Job. 10, v. 12. sem aan þiñar Miskunar være añars fyrer laungu ofañ fareñ i Helviite. AE! Verka sañarlegt Angur i minu Hiarta, og gef mer harmþrungeñ Anda, eitt harmþrunged og sundurkramed Hiarta, Ps. 51, v. 19. Gior min Augu ad Uppsprettum, so eg meige graata, vegna miña Synda, bæde Nætur og Daga. Jer. 9, v. 1. Gef minum Anda þaa Hrigd, sem er af Gude, sem verkar Ydran til Hialpræðis, hverrar eingañ ydrar, 2 Cor. 7, v. 10. ad miña Synda Miñing, gange mer i gegnum Hiartad, liika sem Petri Tilheyrenda, Act. 2, v. 37. so eg verde ahiggiufullur til ad epter spiria, hvad eg skule giora, so eg verde hoolpeñ, og med David bere Angur fyrer minar Synder, til ad

losast

losast vid þær Ps. 38, v. 19. Gef mer aasamt kiære Fader, sama lifande Tru, so eg mistreiste ecke i minne Synda Neid, ne hallde þær stærre, enn þær meige fyrergefast, Gen. 4, v. 13. helldur true þvi stadfastlega, ad hvar Syndenn yfergnæfer, þar yfergnæfe Naadenn miklu framar, Rom. 5, v. 20. til ad afmaa Syndena. Inngef fyrer þad H. Evangelium, þann Krapt i mitt Hiarta, ad eg i lifande Von og Tru gete umfadmad mins Frelsara, Blood, Sakleisi, Rettlæte, og alla hans Forþenan, bored hana framm fyrer þinn Doom, sem Lausnargialld, fyrer minar Synder, og fæe þar fyrer Naad odlast, gef mer þvi stadfastlega ad trua, og þad i minu Hiarta vissuleg Sannende ad hallda, og diirmætt verdugt Ord, ad Christus Jesus er komenn i Heimenn, Synduga saluhoolpna ad giora, 1 Tim. v. 15. og mig, aasamt med þeim, og ad hann se mer af Gude giordur, til Viisdooms, Rettlætis, Helgunar og Endurlausnar. 1 Cor 1, v. 39. Þessa mina veiku Bæn, virdstu minn Gud, i þinne Naad ad heyra, og uppfilla mina Gyrnd, ad gefa mer af Naad, ydrande og truad Hiarta, fyrer Christi Saker, i Krapte H. Anda. Amen!

§. 18.

Þegar þu hefur þessa Bæn giort, og þannig aakallad Guds Nafn, aattu eirnig þad Medal ad bruka, fyrer hvert Gud plagar ad verka Ummvendanena, sem er þad Gudlega Ord, bæde Logmaaled og Evangelium, fyrer þad lætur Christus predika i sinu Nefne Ydran og Syndanna Fyrergefning aa medal allra Þiooda. Luc. 24, v. 47. First skalltu taka fyrer þig Guds Logmaal, einkum þau tiiu Bodord, og skoda hvad Gud hefur i þvi boded og

bañad öllum Moñum, og rañsaka hvernig Þu hefur hingadtil lifad, og hvert Þitt Framferde hefur vered Guds Logmaale samstema, eda ecke, Þvi fyrer Logmaaled kemur Vidurkeñing Syndareñar, Rom. 3, v. 20. Þvi rañsake Madur sig ecke epter Logmaalenu, kemst hañ alldrei til siña Synda Þeckingar, ei helldur til sañrar Umvendunar, og æstundar ecke ad betra siñ Lifnad; Liite Madur ecke i Speigileñ verdur hañ ecke var vid Þaa Skarn Blette, sem eru i hans Andlite, eñ vite hañ ecke af Þeim, hvad mun hañ Þaa hyrda um ad Þvo Þaa af. Þar af kemur Þad liika, ad flester christner Meñ framfara i Þeirra fornu Syndum, og giora ecke sana Ydran, ad Þeir skoda sig ecke i Speigle Guds Logmaals, edur Þeirra tiiu H Bodorda, og komast Þvi ecke til Þeirra Synda Vidurkeñingar, helldur bliifa Þeir vid siña Iñbirlingar Ydran, er Þeir hafa lesed nockrar Bæner, og laata Þar vid lenda; og med soddañ Mote giora Þeir alldrei sana Ydran, a medañ Þeir lifa, helldur bliifa under Guds Reide, og hlaupa fram a Þeim breida Helviitis Veige, allt Þangad til Þeir fa ofarsæla Endalykt, og fara i Glotunena. Eñ Þu christeñ Madur! maatt odruviis haga Þiñe Ydran, skule hun verda Þer saaluhiaalpleg! Tak Þig utaf! skoda Þig i Speigle Logmaalsens, so Þu Þecker Þinar Synder, rañsaka allar Þinar Athafner, og seig til Saalar Þiñar: Kom min Saal fyrer Speigil Guds Logmaals, giætum ad og proofum hvernig vid hofum hegdad ockur hingadtil, Þvi maaske vid heyrum eina Rødd iñañskams kalla til ockar og seigia: Giør Reikningskap Þiñar Raadsmensku, Þvi Þu maatt ecke hedañaf Raadsmensku hafa, Luc. 16, v. 2. Laatum ockur i heilagre Gudrækne yfervega, hvad Gud hefur bañad ockur under Straff

eilifrar

cilifrar Fordæmingar, og hvad hañ hefur skipad ockur ad giøra! Þeink epter; Hvad optlega hefurdu ecke ottast þiñ Gud, og bligdast meira fyrer Moñunum, eñ honum, og ecke truad hans hootunum i hans H. Orde, firr eñ þu hefur mœtt reina þær sañar vera? Hvad opt hefurdu fyrerlited hans Ord, og ecke syndt honum skylduga Hlidne, ecke giort hans Skipaner, og ecke varast þad hañ bañad hefur? Og þo þu hafer a nockru Vara teked, er þad hvorke sked af Elsku til hans, ne af goodfusu Hiarta, helldur af Hrædslu fyrer Straffenu: Hvernig er þiñe Elsku hœttad uṁ hveria þu ert Gude skyldugur? Hversu opt hefurdu elskad Heimeñ framar eñ þiñ Gud, adhliidt Moñunum firr eñ honum, helldur þioonad Heimenum eñ honum, haft þitt Ynde og Epterlæte helldur i tiimañlegum og veralldlegum Hegooma, eñ i andlegum og himneskum Hlutum? Hvad opt hefurdu eckert Traust haft a Gude, sem þo er sialfur Sañleikureñ? Hvad opt hefurdu efast uṁ hans Almœtte, ad hañ kyñe ad forsorga þig, og uṁ hans Sañleika, hvert hañ munde hallda þad hañ hefur lofad? So hefurdu treist Moñunum og þeirra Lofnum meir eñ Gude, reidt þig framar uppa Aud og Peninga, og adra Hlute eñ a Drotteñ þiñ Gud, og þeinkt med þer; Ef þu hefder Peninga og Riikdoom, þa kiæmest þu vel af i Heimenum, eda, ef þu hefder þañ, eda þañ fyrer Vin, þa munder þu biargast. J Medlætenu hefurdu vered andvaralaus, eñ i Motlætenu vonarliitill og huglaus; Hvad opt hefurdu i Krosse og Þiœningum; møglad a mote Gude, og hans H. Vilia, og ecke vered ásœttur med hans Gudlegu Stioornan? Hefur þer ecke þokt þer være af honum ofhardt boded? og hvar fyrer þu mætter

so miked Þola, medañ odrum lide betur, og hvert Þu værer stærre Syndare eñ Þeir, Þar villder Þu sia Þecking a? Þu hefur ecke aastundad ad vera af Hiarta liitelaatur, helldur stært Þig af Þinum Gaasum, og ecke Þackad Gude fyrer Þær. Haferdu einhvern Tiima giort nockud Gott, Þa hefurdu hoolad Þer af Þvi, og viliad adrer hroosudu Þer, hvar af Þu hefur stærelaatur orded, og Þañig ecke tileignad Gude allt Þad Gooda, Þu hefur giort, helldur Þiñe Vitsku, Sidseme og Kiænsku; Villtu ecke medkeña, ad so hefurdu hingadtil tiidnm hagad Þer, og Þar med syndgad i mote Gude? Kom frañ min Saal, og proofum ockur framar; Hvernig hefurdu dyrkad Þiñ Gud, og Þioonad honum, epter Þiñe Skilldu? Hvad opt hefurdu forsoomad ad bidia hañ, ellegar aan Hiartans Alvorugefne, talad nockur Ord med Muñenum, sem Hiartad hefur liited haft af ad seigia? Hefurdu ecke margopt lesed Fader Vor, eda adra Bæn, heila ut, eñ Þo ecke haft Þiñ Gud i Huga med skilldugre Lotningu, helldur laated Þina Þanka a medañ hlaupa hingad og Þangad? Hvad opt hefur Þu beded Gud i Truarleyse, og efast uñ hañ munde bænheyra Þig, og veita Þer Þad Þu hefur hañ umbeded? Hvad opt hefur Þu vered eins og i Svefnmooke, og med Leidendum i Þiñe Bæn, og ecke beded fyrer Þiña Samchristeña Naudsinium, edur ad Gud villde vardveita sina Christne? Hvad siallðañ og med liitille Alvoru hefurdu beded Gud uñ andlega Hlute, so sem uñ saña Tru, Hlydne, Þolenmæde, Audmykt, gooda Samvitsku, og fleira Þessslags? Hefurdu optlega og af Hiarta, Þackad Þinum Gude fyrer Þad ad hañ skapade Þig ſkin-

uga

uga Mañeskiu, let þig fædast i christelegre Kyrkiu, og hefur siidañ gefed þer sitt Ord til Sœlarfædsis og frelsad þig ur margre Neid og Hœskasemd, eda hefur þer ecke gleimst ad giallda honum verdugar Þacker, og vered so oþacklœatur? Haferdu komest i Neid og Þreingingar, hefurdu tiidum lofad Gude ad þioona honum og þacka fyrer feingna Frelsan, eñ þegar þu hefur ur þiñe Hœttu og Barœttu sloppeñ vered, hefurdu ecke minst œ þad med þacklœatu Hiarta? Villtu ecke jœata þetta? Hefurdu liika þackad Gude fyrer þañ Kross hañ hefur œ þig lagt þer til besta, og hefur þer liikad þad vel, ad hañ med þeim Hœtte hefur viliad liitelœcka þig? Hefurdu jafnañ upploked þinum Muñe til ad priisa Gud, eda hefurdu ecke þar þvert i mot, opnad hañ til ad hœda, bolva, sveria þer til Liita, vanbrukad so Guds Nafn, og þar med sett jafnañ þina Sœal i Ved, yfer hvorre þu hefur þo eingeñ Rœad? Geturdu sagt med goodre Samvitsku ad þu sert osekur i soddañ Syndum? Kom eñ fram, min Sœal! og liit um i Speigil Guds tiiu Bodorda, og giætum ad hvernig þu hefur virdt Guds Ord: Hefurdu meted þad fram yfer alla jardneska Hlute, leitad þer Yndis og Epterlœtis allramest i þvi, lesed þad, heyrt og yfervegad med allre Astundan, og med ollu Liitelœte, fest þad þer i Hiarta, og betrad þig epter þvi? Hvad opt hefurdu vanrœkt Guds Orda Predikaner, og meted tiimañlegar Listesemder, meir eñ þad, lesed Guds Ord i Hyrduleyse, heyrt þad med svefnugum Eyrum, og dofnu Hiart, tynt þvi strax aptur og ecke epter þvi breitt? Hefurdu ecke tiidum haft Leida œ Guds Orde, fyrerlited hardar Stroffunar-Predikaner,

dikaner, hast undernidre Ovilld a Guds Piconum, sem hafa varad þig vid þiñe eilifre Olucku, seted i Kyrkiuñe ad soñu i Liikamanum, eñ hast þina Pauka añarsstadar, imest i þiñe Vooka Ydkana Stofu, edur i þiñe Verubud eda Verk-Smydiu, eda hia þiñe Peninga Hyrdslu, og þinum Mammon, eda hvar añarsstadar? Hefurdu a helgum Dogum hviilst i þinum Gude, og hallded þer fra ollum verالdlegum Utrettingum, eda hefurdu ecke þvert i mot vanhelgad þar med daglegu Erfide, eda eydt þeim i Gestabodum, eda Ydiuleyse, med Onytiu Gaungum, Tafle, Spilum, eda odrum veralldlegum og syndsamlegum Skemtunum? Hefurdu i þessu hreina Samvitsku, so þu geter fyrer Guds Augsyn sagt, ad þu hafer ecke sliikar Synder framed? O min Saal! Ihuga hvad opacklaat vid hofum i þessu vered, vckar Gude! So margar Synder sem þu hefur drygt, so margañ Elldevidar-Bagga hefurdu bored til Elldsins, er þig ætte ad piina uñ alla Eilifd; So margar Synder, sem þu hefur a mote Gude giort, so morg Helviite hefurdu forþenad, þvi Gud hefur hootad fyrer hveria eina Synd Helviitsku Straffe. Athuga grandvarlega hvad þu hefur giort. Kom þo eñ þaa fram, min Saal! fyrer Guds Laga Speigil, og yfervegum hvernig vid hofum hegdad ockur sialfHefurdu alltiid vered trur og kostgiæfeñ i þinu Starfe, Kalle og Embætte, eda jafnvel mælske, uppbored þin Laun med Synd, eñ ecke uñed fyrer þeim tilhlidelega? Hefurdu liika vered prettalaus i þinu Erfide, þegar eingeñ hefur vid vered, og hondlad rettelega med þer lanad Fe, so þu meiger hafa þar af gooda Samvitsku? Hvernig er

er vared þiñe Hoofseme? Hefurdu alltiid vered sparneitiñ og vakande, og ecke eted og drucked meira eñ epter Þorfum? Eda hefurdu ofþingt þinu Life med Ofaate, og Ofdryckiu? Hefurdu ecke af idel Munadarlife leitad kræfstra Retta, aled þiñ Kropp og giort hañ ad Afgude, med þeim Hætte, þo þad hafe maatt kosta tvøfalldt Verd, so Hollded hefur þar vid maatt verda liifad og lausleatt? Hvernig hefur fared uñ þitt Hreinliife? Hefurdu vered hreinferdugur i Ordum, Lœtæde og Hiarta? Hefurdu hafft Andstigd a fyflslegu Hiale, Klaamtale, hneixlañlegum Bookum, og Biilætum, eda hefurdu ecke helldur Skemtan af sliiku, hvar med þo þær vondu Gyrnder upptendrast? Ertu ecke hneigdur til Lostasemda, so þu mæske hafer lifad, eda lifer i Hoordoome, Saurlifnade, og allra handa otærlegum Hollds Fysnum, eda hefurdu Ynde af Ohreinleika Þaunkum, og elur so þær illu Gyrnder? Hvernig er þin Audmykt? Lætur þu hana siaast i Ordum, Vidmoote og Verkum? Eda ertu ecke helldur iñtekeñ af Hofmood, og gefeñ fyrer Klædaskarte? Hefurdu þo ecke bored þig reinbelega af þinu Stande, og apad epter mergum framande Snidum og Hattsemdum? Eda villtu ecke fyna þig ødrum fremre, eda ad minsta Koste, likañ i ollu, safnande onaudsynlegum Husog Bord-Bunade, og ødru sliiku fyrer Metnadar Saker? Hefurdu ecke hafft marga oþarfa Bukfiorg i Hiartanu, og þar med kreinkt sialfañ þig, forþært þinu Hiarta og slited þiñe Heilsu? Hefurdu ecke laated þer ofurþungt falla ad liida Skada a þvi Tiimañlega, edur af Oþoleñmæde oskad þer Dauda? Ertu þo liika vel til frids, med þitt Stand og þinar Eigur, eda byr i þer

Agyrne?

Agyrne? Hefurdu ecke giort þiñe Heilsu, og þinum heilbrigdum Liikama, motþrooañlegt Ofbellde, eda jafnvel stitt þina Daga, og giort þig sekañ i þinu Listioone, med Lostasemdum, Ofdryckiu, ækafa Neide, Hefndrækne, Ofund, mæatalausre Hiartasorg og odru þesshættar? Moistrider þu alltiid vondum Gyrndum, nær þær koma þer i Hug, eda adhyllest þu þær ecke helldur? Geturdu sagt þig osekañ i nockru þvi i þessare Grein er taled, vilier þu satt seigia, eda ertu ecke af ollu þvi fleckadur? O ihuga, min Sæl, til hversu stors Straffs þu hefur med þessu uñed, og hveriu þu getur sparad, nær Gud kallar þig til ad dæmast fyrer þetta! Jhugadu, hvern Enda þetta mune fa! Eñ, kom eñ eittsiñ fyrer Laga Speigleñ, og yfervegum hvernig vid hofum breitt vid ockar Naunga! Hefurdu elskad hañ, offrad honum alls Goods, og audsynt honum þad? Hefurdu vered gagnfroomur i Umgeingne vid hañ, og hreinlindur i Tale og falslaus, og hefurdu halldeð vid hañ þinar Lofaner, og vered honum þacklatur fyrer þad hañ hefur þer og þinum til gooda giort? Hefurdu ecke helldur þar i mot offrad honum Ills, hatad hañ og prettad, talad bliidt vid hañ af flærædu Hiarta, ecke halldeð þad þu hefur honum lofad, og gollded honum Vanþacker? Hefurdu læted hans Neid gaanga þer til Hiarta, varad hañ vid hans Ogiæfu, og biargad honum i hans Naudsyniuin, eda hefurdu ecke helldur vered sættur med hans Olan, gladst af hans Skada, og forlæted hañ i Neideñe? Hefurdu unt honum eda misunt siñar Lucku? Hefurdu vidhiælpad honum i hans Bagendum, eda þreingt ad honum, og vi d koma honum i Ogiæfu? Hefurdu til-

gefed honum af Hiarta, allt þad hañ hefur giört þer i mote, edur haft illt Ged til hans, og leitast vid ad hefnast a honum? Talar þu vel um hañ, og afsakar hañ, þegar adrer baktala og lastmæla honum? Eda dæmer þu ecke helldur illa um hañ, baknagar hañ, og lugur a hañ, og leitast þar med vid ad koma honum i Smaan, og Ofrægd? Hialpar þu til ad hans Eigner aukest, og hans Næring vardveitest, eda ber þu vid ad draga fra honum, og vana hans Lifsbiorg? Stelur þu ecke fra honum, og hefur vid hañ Svik i frañe, med svikeñe Voru, raungum Mæler, rangre Vigt, eda Fals Peningum, og dregur so hans Eigu under þig med Ojafnade og Underhyggiu? Hefurdu upploked þinu Hiarta, og þiñe Hende fyrer þeim Fataæku og Þurftugu, og hialpad þeim epter Efnum af þiñe Formegan, eda hefurdu vered omiskunsamur vid þa, og apturlæst þinu Hiarta fyrer þeim? Eda hefur þu gefed þeim nockud, hefurdu þa giört þad af Goodvilld eda Jllfysn? Eda hefurdu gefed Olmussu af goodfusu Hiarta, eda þer til Hroosunar, og Afhallds? Hefurdu uppaled þin Born i Aga og Umvendun til Drottens, og hallded þeim asamt þinum Hiuum til goodra Dygda, eda hefurdu læted epter þeim ad hafast Jllt ad, og hneirlad þau og Afvega leidt med þinu illu Framferde? Hefurdu vered þinum Forelldrum, Husbændum, eda odrum þinum Yferbodurum, i Litelæte, hlyideñ og audsveipur, haft þa i Virdingu, fylgt þeirra Raadum, og synt þeim alloñ Truskap, eda hefurdu vered þeim ohlyideñ og þverbroteñ, modgad þa og fyrerlited? Hefurdu bored vid ad semia Frid og koma a Forlykun mille sundurþickra Maña, edur helldur upp-

hvatt þa meira, og haft þaraf Gaman, eda sialfur lifad i Kyse og Prætum? Hefurdu duled þins Naunga Breste, eda helldur bored þa ut? Hefurdu beded fyrer þinum Ovinum, ad Gud villde upplysa þa og snua þeim, og elskad þa, eda hefurdu oskad þeim Ills og hatad þa? Hefurdu ecke viliad bæga þins Naunga Lucku, so hañ skyllde ecke komast yfer eitthvad ser til Gagnsmuna? Hefurdu lanad honum eda borgad fyrer hañ, þegar honum hefur aleiged, og þu hefur haft Rad til, ad hañ mætte þar med i einhveriu framast, eda hefurdu þvert i mot kugad hañ, og viliad ecke gefa Polenmæde vid hañ, þegar hañ hefur viliad med Æru borga þer þa hañ giæte, eda hefurdu ecke heimtad af honum oleglega Rentu, eda haferdu sialfur skylldugur vered, hefurdu þa ecke neitad Skulldeñe, og ecke viliad borga, eñ i þess stad biriad onaudsinlegt Maal og Lagasookn i mote Skulldar Heimtaranum, ellegar eirnig med orettu iñehallded añara Verkalaunum? O ihuga min Sal, hversu mikel se Mergd ockar Synda, hvernig þetta mune lenda, þegar þu att ad skilia vid Heimeñ, og mæta fyrer Gude! Ja, ihuga hvad sviwirdeleg vid munum vera fyrer Guds Allraheilagasta Auglite, fyrer vorra Synda Saker, og hversu illa ockur meige þar fyrer vegna.

§. 19.

Pañig attu ad proofa þig epter Guds Logmale, og rañsaka hvad þu hefur giort, eda ogiort lated, af þvi þad bañar eda biidur, skuler þu komast til þiña Synda Vidurkeñingar og rettelega umvendast, þvi eingeñ ma sañydrande heita, nema hañ proofe sig sa þeñañ Hatt. Pad er sem

sem Jeremias seiger: Lætum oss rañsaka og uppleita vora Breitne, og snua oss til Drottens, Thren. 3, v. 40. Þegar Madureñ so rañsakar sina Samvitsku, þa uppvekst þar af Otte fyrer Gude, og hans rettviisu Straffe, asamt sañarlegt Angur og Hrigd fyrer Syndernar, einkum þegar hañ yfervegar, hveriu hañ hafe fyrer Syndena tapad, og þar fyrer talar hañ so til siñar Sælar, ad hans Hiarta verdr sañydrandi. Sia nu min Sal! Þetta höfum vid giort, og getum þad ecke af ockur bered, Gud hefur sed þad allt, og heyrt þad allt, og uppteiknad þad allt, og liika þinar hulldu Synder, sem þu hefur ei fyrer Synder taled; Þvi vorar ovitañlegar Synder setur hañ i Lioos fyrer sinu Auglite, Ps. 60, v. 8. Þar hefur eckert Ord vered a þiñe Tungu, Illt eda Gott, ad Drotteñ þiñ Gud, sem þeckir og rañsakar Hiortun, vite þad ei allt, hañ fornemerker þinar Hugreñingar aleingdar, Ps. 139, v. 2. 4. Huxa þvi alldrei, nær þu syndgar ad hañ vite þad ecke, eda skeite ecke um þad, eda vilie ecke straffa þig fyrer þad. Veitstu ecke hvad hañ seiger til Syndarañs; Þetta giörer þu, og eg þeige, þa meinar þu eg mune vera liikur þer, eñ eg vil straffa þig, og eg vil setia þad þer fyrer Siooner. Ps. 50, v. 21. Ætlar þu ad Gud se þiñ Vinur, hafer þu eckert Angur fyrer þinar Synder? Veitstu ecke ad hañ er sa Gud hverium ecke liikar ogudlegt Athæfe, og ad hver sem illur er, verdur ecke hia hönum, Ps. 5, v. 5. Þu hefur heyrt hvernig hañ hootar ollum þeim sem yfertroda hans Logmal: Eg er Drotteñ Gud þiñ, eirn vandlætande Gud, vitiande Ranglætis

Fedraña a Børnunum i pridia og fiorda Lid, þeirra sem mig hata, Exod. 20, v. 5. Þu ert af þiñe œdur umgeteñe Rañsokn, um þad sañfærdur, ad þu hefur i margañ Mœata hans Logmœal yfertrodeð; Serdu þa ecke, ad Gud vilie i sinu Vandlæte vitia þin og straffa þig? Gud hefur sendt þer margskonar Þreingingar Rauner og Motgang til handa i þessum Heime; Hver mun vera Orsök þar til, oñur eñ þinar Synder, þvi þar med hefur Gud þiñ viliad leida þig til þiña Synda Þeckingar; Huxa med þer, hversu rœanglega þu glörer i þvi ad angra so mikillega þiñ Gud, sem audsiner þer allt Gott, þañ, i hvers Hende þiñ Andardrættur er, þañ sem nu i Dag, kañ ad kalla þig burt ur Heimenum, og ad tortiina þer med Sœalu og Liikama i Helviite, Matth. 10, v. 28. Attu ecke hañ ad hrædast? Þeink ecke ad Gud lœate þinar Synder ostraffad afleidast, þvi leingur sem hañ liidur þær under siñe Poleñmæde, þvi hardara verdur siidañ Straffed; O! Hversu hrædelegt er ad falla i Hendur Lifanda Guds. Ebr. 10, v. 21. Hrædest þu ecke Guds ognarlegu Hootaner? Hañ seiger um alla Ydrunarlausa: **Eg vil mæta þeim sem Biarndiir, þad Ungarner eru fra tekner, eg vil sundurriifa þeirra hardudugt Hiarta, og eg vil uppeta þa þar sem eitt Leon,** Hos. 13, v. 8. Og aptur; **Elldureñ er upptendrad ur allt til hins nedsta Helviitis.** Devt. 32, v. 22. Þeir follnu Einglar hafa reint hvad skelfelegt had er ad hafa Gud fyrer Ovin, þvi er þeir hofdu ecke drigt nema eina Synd, snerest Guds Elska til þeirra, i so ognarlega Reide, ad Gud, hvern þeir hofdu stigt, steipte þeim bund-

num med Myrkraña Fleckium ofañ af Himnum
til Helviitis fyrer utañ alla Naad og Vægd, ad
þeir þar i eilifum Bondum til Doomsens vard-
veitest, oan allrar Vonar uñ nockra Utlausn,
2 Pet. 2, v. 4. Su firsta Verolld hefur lika
reint þad, er Guds Reide let hana druckna i
Syndafloodenu, so allt sem Lifs Anda hafde oa
Jordu þad drapst, Gen. 7, v. 22. Sodoma og
Gomorra reindu þad eirnig hvad Synden færer
med ser, med uñliggiande Borgum, er þær fyrer
Guds Reide, voru med Ellde og Breñesteine, sem
rignde af Himne, hræmulega eidelagdar, og eru
settar Ogudlegum til Epterdæmis, ad þola Kvol
eilifs Ellds. Jud. v. 7. Kongureñ Pharao reinde
þad hvad Synden epter sig leider, þoa hønum
var i Guds Reide burtrykt, og hañ drucknade i
þvi Rauda-Hafe, med ollu sinu Herlide, Exod.
14, v. 28. Israels Folk reinde þad hvad Synd-
eñe oa epter fylger, sem i Guds Reide voru i
Eydmorkeñe nidursleigner, so ad af 600000 Maña
komust ei utañ einer Tveir iñ i hid fyrerheitna
Landed. Num. 26, v. 65. Yfervega þetta, min
Saal! og bust ei vid þer gaange betur, ef þu
helldur fram i Syndunum, og villt ecke rettelega
umvenda þer. Umþeink hvernig Gud hefur morg-
um skindelega burtu svipt ur Heimenum, ecke nema
fyrer eina Synd. Loths Kviña giorde ecke añad
eñ þad, ad hun leit aptur oa mote Guds Bode,
og var oa einu Augabragde lifande og daud,
þvi hun vard ad Salltstoolpa. Gen. 19, v. 26.
Nadab og Abihu Syner Arons baaru añarlegañ
Elld fyrer Drotteñ, hvad hañ hafde ecke boded
þeim, þoa kom eirn Elldur fraa Drottne og brende
þoa, so þeir doou fyrer Drottne. Levit. 10, v. 1. 2.

Usa greip til og hellt Guds Ork, þa Uxarner geingu af Vagenum, þa gramdest Reide Drottens yfer honum, so Gud sloo hañ þar nidur, søkum hans Ofdyrfdar, so ad hañ doo þar hia Guds Ork, 2 Sam. 6, v. 6. 7. Yfervega þu hvernig fyrer þer mune gaanga, gaanger þu fram i Ydrunarleyse, þvi þu hefur ecke alleina eittsiñ broted i mote Guds Bode; helldur marg þusundsiñum syndgad a mote þeim mikla Gude, bæde i þvi ad forsooma þad Gooda, og giora þad Illa; Þu maatt a hverre Stundu þeinkia, ad Gud kuñe ad kippa þer burt ur Heimenum i siñe Reide; Hversu skiootlega sleppur vor Ara og Daga Tala, a Enda? Þvi vort Lif þad lidur snart burt, eins og fliugum ver þadañ i fraa. Ps. 90, v. 10. So sañarlega sem Drotteñ lifer, þa er ecke utañ eitt Footmaal, a mille þin og Daudans. 1 Sam. 20, v. 3. Hversu braadt kañ þitt Lif Enda ad taka? Iñañ skemre Tiima, eñ einrar Stundar, kantu ad vera komeñ i Helviitis Elld. O hvad skelfeleg Umskipte eru þad ad lifa i Dag i Glede, eñ vera komeñ a Morgun i stærstu Harmkvæle, ad vera Sæll i Dag, eñ a Morgun hiñ allra vesælaste, i Dag fagnande, a Morgun graatande, i Dag frii Herra i Heimenum, a Morgun Þræll i Helviite? O þa hrædarlegu Umbreiting! Hvad gagnar þer ad hafa synt þig froomañ fyrer Moñum her i Heime, nær þad verdur allt fyrer Guds Doome, og Christi Doomstoole añars Heims opeñberad, sem þu hefur Illt hurad, talad og giort, so ad þu odlest, epter þvi sem þu hefur adhafst i Liikamans Life, se þad Gott eda Illt? 2 Cor. 5, v. 10. Hvar fyrer villtu koeliast i Helviite eiliflega? Hvar fyrer villtu þvi ollande vera,

vera, ad Reikur þiña Piisla uppstiige fra Eilifd til Eilifdar? Apoc. 14, v. 11. Ad þiñ Ormur deye ecke, og þiñ Elldur utslockne ecke, og þu verder ollu Hollde ad Vidurstigd? Es. 66, v. 24. og hafer ecke Roo Dag ne Nott? Hvar fyrer villtu motþrooañlega utelykia þig sialfur fra eilifu Life, og fyrer þitt Ydrunarleyse fara a mis vid Himnariike, sem Christus hefur þer med siñe Piinu og sinum Dauda afrekad? Hvar fyrer villtu lata adra iñtaka Himeniñ fram yfer þig, eins og hañ heyre þer ecke til, liika sem þeim? Taktu epter, min Sal, hvernig Gud klagar sialfur yfer þvi, ad þu med þinu Yferbootarleyse, villt tapa Saluhialpeñe, er hañ seiger: Hvar fyrer vilied þer deya, þer af Huse Israels? Ezech. 33, v. 11. Ihuga þad ad þu sem ofriooffamt Tiikiutre, værer fyrer laungu af Guds Reide Öxe upphoggveñ, þvi Guds Rodd hefur opt kallad so, þer vidkomande: Hogg þad af! Hvar fyrer hindrar þad Graslended Luc. 13, v. 7. 8. Hefde ecke sa Himneske Viingards Madur Jesus Christus, beded fyrer þer, og med siñe Fyrerboon, hallded her vid Lifed! O vert var uñ þig; þvi ma ske þad se aliktad i Raade þeirra H. Þardhallds Maña, ad þu nu i Dag, vegna þins siifellda Yferbootarleisis, skuler deye, og sem avaxtarlaust Tre upphoggvast, og i Helviitis Elld kastast, Dan. 4, v. 14. Guds oaptnrkallañlege Doomur er affagdur, añadhvert bliitur þu ad deya ydrunarlaus, ellegar ad snua þer. Hvad stodar þig þad, þo þu lifer ecke i Hordoome, og Saurlifnade, ef þu ert samt stærelatur og hofmoodugur? Er ecke Helviite eins giort til Straffs fyrer Drambed, sem fyrer Saurlifed? Mattu ecke eins lenda þar

fyrer þetta hvort fyrer sig eda hverttveggia? Sa same Gud sem Piosnum hefur hootad Helviitis Ellde, hefur liika hootad honum Okrurum og Agiornum. Hvad gaanar þer þad, þo þu steler ecke, ef þu ert samt iñtekeñ af Okre og Agyrne? Sertu ecke Mordinge, edur Mañdrapare, samt kantu ad vera fullur af Hefndargyrne, Tviidrægne, Hatre, Flærd og Illsiñe: Eñ eiga soddañ Meñ, ecke liika heima i Helviitis Ellde? Hvad batar þig ad vakta þig fyrer utvortis stor Glæpum, læter þu þær vondu Gyrnder, so sem, Ofund, Hatur, Reide, Agyrne, Flærd, Hyrdulevse, Dramb og Ærugyrnd drettna i þinu Hiarta, og lifer so epter Holldenu, eñ veitst þo, ad þeir sem lifa epter Holldenu, skulu deya. Rom. 8, v. 13. og ecke erfa Guds Riike, sem er utþryckelegur Doomur H. Anda, Gal. 5, v. 21. Villde Piosfureñ seigia, hvar fyrer skal eg deya, first eg hefe eingañ dreped, þa vite hañ, ad Sverded er ecke einasta, ætlad til fyrer Mañdrapara, helldur liika so Gælge og Snara fyrer Piofa; þo þu hafer ecke uthellt Bloode Maña, eñ samt stoled, ertu þa ecke Straffs verdur, sem sa er drap nockurn Mañ? So hefurdu liitil Not af þvi fyrer Guds Doome, þo þu hafer ecke drigt neiñ opeñber Skamar Verk, iertu samt Hræsnare, et skipter þer liited um þina Tru, Himnariiked og Saluhialpena, og ad vera laus vid þinar Synder; A hvad villtu þa reida þig, og hveria Huggun ætlast þu til, sem ouñvendtur ad hafa i Daudanum? Hvad ma þad hialpa þer, ad hafa þa Iñbirling, ad þu verder hoolpeñ, þegar þu hefur eckert Guds Ord, sem Grundvoll Saluhialpareñar ad stidia þig vid? Hvar getur þu lesed i H.

i H. Ritningu, ad þu sem agiarn, svikfamur, ofinetnadarfullur, metordagiarn, oforliikunarsamur, og ofundsiukur, og med soddañ Slag i fl:ire Greinum, verder hoolpeñ? Um alla þeßhattar Meñ, seiger Gud, ad þeir skule fordæmast, villtu samt trua, ad þu med soddañ Mote hialpest, eda ætlar þu ad iñtaka Himnariike med Valloe? O! þu vesæla Mañeskia! Hvad kallar þu þad þa ad trua? Ad trua, er þad ecke ad reida sig uppa Guds Forerheit? Eñ hvar hefur þu Guds Forerheit um þad, ad þu, sem eirn af upptolldum Syndurum, er ecke proofar þig siaalfañ, og ecke umvender þer, verder hoolpeñ? Meinar þu ad ein vitañleg Synd, kuñe ecke ad verda þer strax til Fordæminaar? Þa spyr eg þig; Meinar þu ad siukur Madur, kuñe ecke, eittsiñ so ad eta einslags ohollañ Mat, ad þad drage honum til Bana? Edur ad eirn þyrstur, heitur og moodur Madur, kuñe ecke skiootlega ad drecka kalldañ Dryck, so hañ fae þar af Sott i sig, sem honum meige orsaka Dauda? Eins liika kantu med eirnre Synd, i hverre þu viliande framgeingur, ad giora þig vidskila vid Saaluhialpena; Þvi þo eirn hellde allt Løgmaaled, og yrde brotlegur i einu, þa er hañ þegar alls þeß sekur, seiger hiñ H. Jacob, Jac. 2, v. 10. Sia þu hin synduga Saal! añadhvert mattu umvenda þer, ellegar deya: Vilier þu seigia med Christi Lærefveinum: Ef so straangt er eptergeinged fyrer Guds Doome, hver fær þa hialpast? Þa svarar Jesus þer og seiger: Hia Gude er allt møgulegt. Matth. 19, v. 25. 26. Hoolpeñ geiur þu orded, og komest hia ollum Ofrum, ollu Gudlegu Straffe, og allre Reid, giorer þu

saña Ydran, og uñivender þer rettelega, þvi Uñivendaneñ er þad eina Medal, sem duger þar til. Tak þig þvi strax upp, hrada þer, far af stad, og snu aptur af Veige Glötunareñar! Þo eirn se komeñ nockud læangt uti diupt Vatn, verde hañ var vid ad þad se eñ dypra og ofært, og snue þa strax aptur kañ hañ ad komast lifs af. Ad viisu ertu sockeñ ysred diupt nidur i þañ botnlausa Syndaña Dañ, samt kantu eñ ad na Lise, ef þu sniir aptur, ædur eñ þetta Fen geingur yfer yfer Hosud þer, Ps. 69, v. 3. Eñnu kallar Gud til þin, seigiande: Snu þer þu hin fraafallna Israel, seiger Drotteñ; þa vil eg ecke laata mina Reide koma yfer ydur, Jer. 3, v. 7. Sia christeñ Madur! So ættu, nær þu villt ydrast, ad leitast vid ad komast til þiña Synda Vidurkeñingar, og þar af ad fa Angur og Trega af þeim; Naer þu ecke ad fa Angur og Trega sem vera skyllde, sem er sa firre Partur sañrar Uñivendunar; þa les alla Vikuna, ædur eñ þu villt leita Skripta, þa Capitula, og þær Greiner i Bibluñe, hvar iñe sa rettviise Gud hardlega hootar, ad straffa yferbootalausa Syndara, og les þetta med goodre Giætne og Epterkekt, til Dæmis; Num. 26, fra v. 14. til 42. Devt. 28, fra v. 15. til Enda. Amos. 6. Matth. 24, og 25. Rom. 2, fra v. 1. til 17. Apoc. 12, fra v. 11. til 16. og viidar þessu liikt! Yfervega liika þeirra Dæme, sem Gud hefur skelfelega straffad fyrer þeirra Synda Skulld, so sem, Folked fyrer Synda-Flooded, Folked i Sodoma, og adra fleire! Les allra hellst Jesu Christi Piinu og Dauda Historiu, og ihuga vel, hversu hrædelegt Straff Gud lagde a hañ, fyrer aňara Synder! Les eirnig þessarar Bookar XIV. Capitula uñ hormuleg Afdrif allra

allra Vantruadra, sem ecke gánga rettañ Veg til Himens; Þegar þu med þessum Hætte yfervegar Guds Reide og Rettlæte, kemstu eflaust til ad ángvast og tregast vegna þiña Synda, so ad þu skelfest af þeim, hrædest Guds Grimdar Reide, fær á þeim Vidbiood, og huxar þig uñ, ad náá þvi Medale, fyrer hvert þu fær umflued eilifa Topun; Eñ þu mátt á medal þessa ecke gleima ad bidia, á þeññañ Hátt, sem þer er her fyrer frámañ fyrerlagt!

§. 20.

Sertu nu, goode Vin! komeñ med þessum Hætte, til þiña Synda Vidukeñingar, utaf Guds Lögmáále, so þin Samvitska vaknar, og þu þecker, i hvern Háská þu ert komeñ, vegna þiña Synda, og ecke er meira eñ eitt Fet á mille þin og Helvijtis, þá bliif ecke kirr vid Guds Lögmál, helst ef þu fiñur hiá þer mikla Samvitsku Angist, þvi Lögmáaled fær ecke huggad, freistada og harmþrungna Sál, sem einasta syner Gud ad vera rettlátañ Doomara, er Straffed áleggie fyrer Syndena, bæde tiimañlegt og eilift; Þad kuñgiorer ecke añad eñ eilifa Fordæming öllum þess yfertrodslu Moñum, og seiger: **Bölvadur vere sá sem ecke fullkomnar öll Ordeñ i þessu Lögmáále, og allt Folked skal seigia, Amen!** Devt. 27, v. 26. Snu þer helldur til hins H. Evangelii, og heyr hveriu Gud heiter i þvi ydrande, liitelátum og sundurkromdum Hiortum, so ad vid þad i þer uppkvikne Huggunar Athvarf til Guds Náádar, og Miskunar, þvi Evangelium er Kraptur Guds, sem hiálplega giorer alla þá sem trua, Rom. 1, v. 16. Ihuga vel, ad Drotteñ þiñ Gud, hefur einga Þocknan á þvi, ad Mañeskiañ, hver sem hun er, steipe ser i Olucku,

og fyrerfarest, eñ mikiu helldur er þad hans alvarlegur og oumbreitañlegur Vilie, ad aller Meñ vidurkeñe, og medtake hans Raad og verde hoolpner; Þvi Gud vill, ad aller Meñ verde saaluhoolpner, og til Sañleikſins Vidurkeñingar komest. 1 Tim. 2, v. 4. Gud vill ei ad nockur fortapest, helldur þad, hver Madur snue ser til Yferbootar. 2 Pet. 3, v. 9. Og so ad eingeñ hafe um þetta nockurn Efa, hefur sa mikle Gud svared vid sina Guddoomlegu Hatign ad þad se hans alvarlegur Vilie, þa hañ seiger: So sañarlega sem eg life, seiger Drotteñ, Drotteñ, hef eg einga Þocknan a Dauda hins Ogudlega, helldur þad, ad hiñ Ogudlege snue ser fra siñe Breitne, og life: So snued ydur nu i fra ydar vondre Breitne! Hvar fyrer vilied þer deya, þer af Huse Israels? Ez. ch. 33, v. 11. Jhuga, hvernig Gud, til Fullvissu uppa þetta, utgaf siñ eińkulega einka Son, hvern hañ af sinum Guddooms Krapte fæder fra Eilifd til Eilifdar, fyrer allañ Heimeñ, sem almeñelegt Medal til Mañaña Saaluhiaalpar, uppa þad aller Meñ frelsest ur Sathans Riike, og setiest i saaluhiaalplegt Naadar-Stand; Þvi so elskade Gud Heimeñ, ad hañ gaf ut siñ Eingeteñ Son, til þess ad aller þeir sem a hañ trua fyrerfarest eige, helldur ad þeir hafe eilift Lif; Þvi ecke sende Gud siñ Son i Heimeñ, ad hañ fordæmde Heimeñ, helldur ad Heimureñ frelsest fyrer hañ, hver a hañ truer fordæmest eige. Joh. 3, v. 16. 17. 18. Hugleid hvernig Christus sa Haattlofade Guds Son, opeñberadest i Holldenu, og sem Gud og Madur, endurleiste allt Mañana Kyn, fra Synd, Dauda, Diofle og Helviite; Þad utkrafde Guds Rettlæte, ad aller Meñ sem med

med sinum Syndum, reittu hiñ mikla Gud til Reide, skylldu deya eilifum Dauda, fordæmest og verda eilifre Bolvan underorpner, sem var Jñehalld Guds Dooms, Gen. 2, v. 17. Eñ Christus took uppa sig, i stad allra Maña, Logmalsens Bolvan, sem a þeim la, og bar allar allra Maña Synder, ad eingre frætekeñe, ecke nockrar, helldur serhveria eina, þad sem aller Meñ hafa allt hingad-til framed, og hedañ af fremia munu, allt til hins siidasta Dags, med Hugrunum, Ordum og Giordum, vitañlega og ovitañlega, af Breiskleika og Jllgyrne; Fyrer allar þessar Synder let hañ sig straffadañ, piindañ, hudstrykstañ og deiddañ verda, og sinu Bloode a Krossens Tre fyrer alls Heimsens Synder uthella, þar med þreif hañ alla Meñ burt ur Diofulsens Vallde, og Helviitis Kyerkum. Uñ þetta stora Endurlausnar Verk, seiger so Spamadureñ Esajas; Sañlega bar hañ, þad er sa Drotteñ, Messias, vor Krankdæme, og vorum Piinum blood hañ uppa sig fyrer vorar Misgiorda Saker er hañ særdur, og fyrer vorra Synda Saker er hañ lemstradur, Hegningen liggur a hønum, uppa þad ver hefdum Frideñ, og fyrer hans Benjar erum ver heilbrigder ordner, Es. 53, v. 7. 8. So seiger Drotteñ, sialfur Messias: Eg skal leisa þa af Helviite, og frelsa þa fra Daudanum: Daude! Eg vil vera þin Olysian, Helviite! Eg vil vera þin Drepsoott, Hos. 13, v. 14. Uñ þad sama seiger so Paulus: Christus hefur leist oss fra Bølvan Løgmalsins, þañ Tiid hañ var Bølvan fyrer oss, þvi ad skrifad er, bølvadur se sa sem a Tre hanger, Gal. 3, v. 13. Hiñ H. Johannes seiger: Ef einhver syndgar, þa høfum ver Ar-

nadar

nadar Mañ hia Fødurnum, Jesum Christum þañ Rettlæta, og hañ same er Forliikun fyrer vorar Synder, eñ eige einasta fyrer vorar, helldur eirnig fyrer allrar Veralldareñar, 1 Joh. 2, v. 1. 2. Guds Rettlæte utheimte eirnig, ad Madureñ skyllde fullkomlega halda hans Løgmaal, villde hañ hiaalpast; þad giorde liika Christus fyrer Meñena, og i þeirra stad, þvi hañ uppfyllte allt Løgmaaled, og þar med utvegade þeim Himnariike, Rettlæte og Saaluhiaalp. Þad vitnar hañ siaalfur seigiande: Þer skulud ei meina eg se komeñ Løgmaaled, edur Spaameñena upp ad leisa; Eg em ei komeñ upp ad leisa, helldur upp ad filla, Matth. 5, v. 17. So seiger eirnig Paulus; Endalok Løgmaalsens er Christus; hver sem a hañ truer, sa er rettlaatur, Rom. 10, v. 4. Þad er sem ver syngium:

Løgmaalsens Bolvan bitur og sterk, ꝛc.

Sia þu! So endurleiste Christus Meñena fraa Helviite, og a vañ fyrer þaa Himnariike, hvad Paulus hverttveggia samañ færer, þaa hañ seiger: Christus hefur Daudañ Valldenu svipt, eñ Lifed og Odaudleikañ i Lioos leidt fyrer Evangelium, 2 Tim. 1, v. 10. Jhuga liika, hversu Gud lætur øllum Heime frambiooda, og einum og serhverium Mañe i honum þaa Naad, sem fyrer hans Son Jesum er afrekud, og vill ad aller Meñ skulu þeirrar storu Naadar nioota, og hoolpner verda, af þvi kallar hañ alla til sin a Naadareñar Tiima, til ad vidlifga þaa, og seiger fyrer siñ Spaamañ Esajam, fyrer hvern hañ biidur øllum til þessarar Naadar, med þessum Ordum: Nu vel: aller þer sem þyrster erud komed til Vatnsens, og þer sem einga Peninga hafed, komed hingad, kauped

kauped og eted, komed hingad, og kauped an Peninga, og fyrer ecke neitt, bæde Viin og Miiolk! Es. 55, v. 1. Christus kemur sialfur berlega fram, og seiger: Komed til min aller þer sem erfided, og Þunga erud hladner, eg vil endurnæra ydur, taked a ydur mitt Ok, og lœred af mer, þvi eg em hoogvær og af Hiarta liitelatur, og munud þer Hvillð finna Salum ydar, þviad mitt Ok er sætt, og min Byrde er lett, Matth. 11, v. 28. 29. 30. So seiger Drottenn þinn Gud: Eg vil endurnæra þær þreittu Saler, og sedia þær sorgbitnu Saler, Jer. 31, v. 25. Og aptur: So seiger sa hinn hæste, hann ed uppafeitt er, sa eiliflega biir, hvers Nafn ad heilagt er; Eg sem i Hædunum og Helgedoomenum bigge, og hia þeim sem hafa liitelatann og sundurknosadann Anda, so ad eg lifge Andann hinna Liitelatu, og Hiørtun þeirra i Sundurmørdu, eg vil ei þratta med Jafnade, og ei reidann æfinnlega, helldur skal eirn Ande af minu Auglite sveima, og eg vil Andardrætte giøra. Es. 57, v. 13. 14. Hugleid allt þetta vel, og legg þad a Hiartad, nær þad fyrer Syndanna Saker er skelft, og viilsamt orded, og fyrer Guds Reide ottasleiged, so þu faaer af þessu Guds Orde, Truarennar Huggunartraust, og fullvissu umm Guds Naad, ennørvilnest ecke i þinum Syndum! Attu ecke ad grata af Elskunne til þins Guds, sem veiter þer so mikla Naad? Fyrer Bolvanena gefur hann þer Blessanena, fyrer Daudann Lifed, fyrer Fordæminguna, Saluhialpena, fyrer Helviite, Himnariike; O Naad yfer alla Naad! O Kiærleike yfer allann Kiærleika! Þessa Naad attu ad tileigna þer med Trunne, viljer þu fyrer Gude rettlatur og hoolpenn

eñ verda, vid hana skalltu hugga þig, i þiñe Synda Eimd, med heñe skalltu, endurnæra og vidhressa þina angurbitnu Samvitsku, fyrer hana ferdu iñ i Guds Fodurs Hiarta, og kemst ad hans oendañlegu Elsku, vid þig. Med þessum Hætte verdur þu fyrer Gude rettlátur og sáluhoolpeñ, so sem skrifad stendur; Meñerner verda af hans Naad an Verdskulldunar rettlaater fyrer þa Endurlausn sem ordeñ er fyrer Jesum Christum, hvern Gud skickade til eins Náadarstools fyrer Truna, i hans Bloode, hvar med hañ frambiidur þad Rettlæte, sem fyrer hønum er fullt, i þvi hañ fyrergefur Syndernar. Rom. 3, v. 24. 25. Fyrer þetta Evangelium, uppkveikest su hin saña Tru á Jesum Christum, sem er sa añar Partur Yrdunareñar, og þar med fær ydrande Syndare Naad hiá Gude, eñ sleppur hiá Glotuneñe; Kuñe þin Samvitska vid þetta ecke vel ad stillast, eda fulla Hægd fa, helldur eñ vera sturlad, þa tak Bibliuna, og leita upp þær Greiner i Guds Orde, hvar iñe Gud fyrer sina Miskun og Millde, lofar øllum ydrande, og sorgbitnum Moñum, siñe Naad, Syndaña Fyrergefning, Frelse og Saaluhialp, og les þær med H. Gudrækne! Til Dæmis: Es. 55, Ezech. 18, Rom. 3, fra v. 21. til Enda, Rom. 4. 5. og 8. viidar añarsstadar. Yferleag liika og les med Athygle Jesu Christi Piinu Historiu, og hyg epter, hvad miked hañ kostade þad, og hafde fyrer þvi ad endurleisa þig og giora þig rettlaatañ, liika sem hañ seiger: Þu hefur giørt mer Erfide i þinum Syndum, og Mædu i þinum Misgiørdum; Eg em hañ sem afmáe þinar Synder, miña Vegna, og miñest ecke þiña Synda. Es. 43, v. 24. 25. Þeinktu her ad auk til þeirra Dæma,

Dæma, sem Gud hefur til Naadar tekeð, og allar þeirra storu og þungu Synder forlaated nær þeir hafa saña Ydran giort; so fyrergaf hañ Nooa hans Ofdryckiu; Loth hans Bloodskom, Aron hans Afgudadyrkan, David hans Mañdraap, Zacheo hans Prette, Petro hans Afneitan, Mariu Magdalenu hennar Saurlifnad, Ræningianum hans Raan og Mord, Paulo hans Ofsookn a Guds Christne, og fleirum odrum. Þegar þu þañig yfervegar Guds Naad, bregst þad ecke ad þu fær fyrer þad H. Evangelium, Truna a Christum, sem er sañarlegt, og orugt Traust a Guds Miskunseme, vegna Jesu Christi Forþenustu, og Fullnægiugiordar, so ad þin efablendna Samvitska vidretterst og endurnærest, serdeilis ef þu bidur Gud þiñ rækelega. Þañig verkar Logmaaled Angur og Trega fyrer Syndernar, og þad H. Evangelium saña Tru a Christum, sem eru þeir tveir Partar sañrar Umvendunar, hver ad er Medal til ad geta fared hiaa Fordæminguñe, og verda ecke fyrer heñe, so sem medal vor er sunged, um þessa Guds Verkan:

Lætur hañ Logmaal bist,
Lemia og hræda, etc.

Og so framar:

Hañ gefur hreina Tru,
Hañ Fallen reiser, etc.

§. 21.

Þetta er sa Maate epter hverium serhver Saal atte ad rañsa sig, vilie hun hiaa Gude odlast Naad og Syndaña Fyrergefning i siñe Umvendan, og grañgiæfelega ad proofa, hvert þess Mans Hiarta sem hiaalpast vill, og hun er ibuande, er 1) ydrande edur angurfullt, og vill Yferboot giora, 2) truande

ande, edur helldur sig vid Guds Nad i Christo; og 3) nysinad, edur hefur feinged Sina Skipte til ad giora Guds Vilia framar en adrer. Pad er ydrande Hiarta, sem i diupre Audmykt kanast vid sinar Synder, finur til Guds Reide yfer heim, gremst vid sig sialft vegna heirra, hefur a heim Vidbiood, hatar hær og andvarpar harmþrunged, epter Guds Nad, seigiande med David; Liika sem Hiørtured kallar epter fersku Vatne, so kallar min Saala Gud til pin; Mina Saalu þyrster epter Gude, epter heim lifanda Gude, hvenær mun eg þangad komast, pad eg siae Guds Auglit? Min Taar eru min Fædsla Dag og Noott, med þvi ad dagleta verdur til min sagt: Hvar er nu þin Gud? Ps. 42, v. 2. 3. 4. Au soddan Hiartans sanrar Audmyktar, og Laungun epter Guds Nad, er eingen Madur sanydrande, og fær ei helldur Syndana Fyrergefning; Þvi heilbrigder hafa ei Læknarans Þørf, helldur heir sam kranker eru. Matth. 9, v. 12. Pad er, heir sem fina til sinar Saalar Syke, og giarnan vilia heilbrigder verda; Pad er truande Hiarta, sem med Sonarlegu Trunadar-Trauste, reider sig uppa Guds Fyrerheit, sem i Christo Jesu lofar ollum sanydrande Monnum Nad og Syndana Fyrergefning, heim sem umfadma Christi Forþenustu, og Fullnadarboot med Trune, og i hene seigia kuna; Christus Jesus er oss af Gude gefen til Viisdooms og til Rettlætis, og til Helgunar, og til Endurlausnar. 1 Cor. 1, v. 30. An soddan lifande Truar, fær eingen Madur hia Gude Nad, Syndana Fyrergefning, eda Saaluhialp; Þvi hver a han, pad er Guds Son, truer eige, han er nu pegar dæmdur, þvi han trude eige a Nafn Ein-

Eingetens Guds Sonar, Joh. 3, v. 18. Pad er nyſiñad Hiarta, ſem aſetur ſer alvarlega med allre Koſtgiæfne ad fordaſt allar viiſvitande Synder, og ad vakta ſig fyrer þeim, ad hrædaſt ſiñ Gud, epter þvi ſtundande honum ad þioena i Heilagleika og Rettlæte, ſem honum er þocknañlegt; So a ſig komeñ umvendtur Madur, ſem ſoddañ Hiarta hefur odlaſt fyrer Guds Naad, ma ſeigia med Kongenum Ezechia; Eg vil alla mina Lifdaga fordaſt fyrer ſoddañ Harmkvælingu miñar Saalar. Eſ. 38, v. 15. Pad er: Eg vil ecke viña til þeſs i añad Siñ, ad min Saal þurfe ſo hardt ad hriggiaſt vegna miña Synda. An ſoddan alvarlegs Aſetnings ad breita ſinu Liferne, kañ eingeñ ad faa Naad og Syndaña Fyrergefning, þvi añars er Ydraneñ ecke ſañarleg, helldur Hræſne, af þvi ad nær Trueñ hefur eingeñ Verk, þaa er hun daud i ſialfre ſer, Jac. 2, v. 17. Þar fyrer a Madur ad proofa ſig grañgiæfelega, vilie hañ ſaña Ydrun giora, edur gaanga verduglega til Guds Bords, ſo ſem Paulus ſeiger: Hver Madur proofe ſig ſialfur, og ete ſo af þeſſu Braude, og drecke ſo af þeſſum Kaleik, þvi hver hañ etur og dreckur overdugur, ſa etur og dreckur ſialfum ſer Doom, med þvi hañ giørde ecke Greinarmun a Drottens Liikama: Hver hañ etur af þeſſu Braude, og dreckur af þeſſum Kaleik Drottens overdugur, ſa er ſekur vid Holld og Blood Drottens. 1 Cor. 11, v. 27. 28. 29. Þañig a Hiartad ad proofaſt og vera a ſig komed, ſkule þad ſañydrande heita; Her af ſærdu dæmt, hverſu faer giore ſaña Ydran, og umvende ſer rettelega, og faae Syndaña Fyrergefning, þvi fæſter haga ſer ſoleidis. Med ſoddañ Hætte, ſem eg hefe nu ſynt þer, kantu þar til ad

komast ad fra Angur fyrer þinar Synder, og Truna a Christum, og þar med ad geta med Fognude umflued fyrer Guds Nad alla Olucku og eilifa Glotun; Fyrer soddañ saña Ydran verdur þu fluttur ur Syndareñar og Reideñar Stande, i Nadareñar Stand, og verdur af Diofulsens Barne Guds Barn, af Vantruudum Truadur, af Vesælum Sæll, af Fordæmdum Guds Utvaleñ, sem hefur Hlutdeilld i Guds Nad og Christi Fullnægiu-Giord, i H. Anda Sameining, Himnariike og Saluhiealpeñe, i Riike Nadareñar, og ollum af Christo utvegudum andlegum Giædum, og i þvi eilifa Dyrdareñar Riike, hallder þu þer i Ydran og trufastlega vid þiñ Gud allt til Enda: Um þetta skalltu eingañ Efa hafa, helldur vera fullviss um þad, ad Gud tekur þig til Nadar, og fyrergefur þer allar þinar Synder, so sañarlega sem hañ hefur þvi heited, i sinu Gudlega Orde, epter þessu hans orafkañlegu Fyrerheite; Nær eirn Ogudlegur gioreft rettviis, þa skal þad ecke skada hañ, ad hañ hefur ogudlegur vered, allar hans Yfertrodslur, sem hañ hefur giort, skulu ecke aminstar verda, helldur skal hañ lifa fyrer sins Rettlætis Saker sem hañ giorer. Ezech. 33, v. 12. og Cap. 18, v. 22. J Landenu Spania var fordum Landkuñugur Reifare og Stiigamadur, sem var kalladur Coracota, er foor med Manshætte nær um allt Landed, og vard ecke tekeñ, hvar fyrer Keysareñ Augustus let opeñberlega uthroopa og lofa, ad hver sem hañ feinge handteked, og afheudt lifande, skyllde fa hundrad Gyllene i sin Omakslaun; Þa Reisareñ hafde þetta feinged ad heyra, kom hañ sem ofdyrfsdarfullur Vogunarmadur, friiviliugur sialfur i eigeñ Persoonu fyrer Keysarañ, og sagde: Her kem

kem eg, Herra Keysare fyrer þitt Auglit, og fære þer sialfañ mig, vonande eg fáe þaug Gyllene, sem þu hefur utlofad, þeim sem afhendtu mig lifande. Vid þetta vard so Keysarauum, ad hañ ei einungis gaf honum Lif, helldur eirnig þar med Vegabref til ad ferdast i Frelse heim aptur, og liika þáa lofudu Peninga. Feck þesse Ræninge Lif hiá Keysaranum, og soddañ Goodvilld, er hañ kom fyrer hañ, og medkende sinar Illgiorder; hvad miktu helldur muntu fá Naad hiá þeim miskunsama Gude, þegar þu kemur fram fyrer hans H. Auglit, med ydrande, sundurknosudu, harmþrungnu og truudu Hiarta, forlaatande þig uppá Christi Blood og Dauda, og bidur hañ audmiuklega um þiña Synda Fyrergefning, so þu munt satt fiña þad ver syngium:

So stor Synd eingeñ er
Ad meige granda þer, 2c.

Og i soddañ Trauste, verdur þu bænheyrdur, og ødlast obrigdañlega Naad og Saaluhiálp; Þvi hvern þañ sem til min kemur, seiger Christus, nefnelega med soddañ Hætte sem nu er sagt, hañ mun eg ecke utreka. Joh. 6, v. 37. Hafer þu þáa so rañsakad þig epter Logmaalenu, og ert komeñ til þiña Synda Vidurkeñingar, og Angurs og Trega fyrer þær, fiñur eirnig hiá þer Laungun epter Guds Naad, og orugt Traust á Christi Piinu Dauda og Forþenan, þáa tak til ad bidia leita og akallia, af þinum Gude, ad hañ fyrergefe þer þinar Synder, veite þer sina Naad, tilreikne þer Jesu Christi Rettlæte, tilreide þig verduglega til Medtekningar þeirrar H. Kvolldmaaltiidar, gefe þer sterka Tru, glada Von, og verke i þer H. stodugañ Asetning til ad lifa Gudrækelega, hafa Gud jafnañ

 fyrer

fyrer Augum, og þtoona honum framveiges i Heilagleika og Rettlæte sem honum þocknast; Þetta er sa rettur Vegur til Saaluhialpar: Med þessum Mæta biriar Mañe, ad biria sina Umvendan, og framhallda heñe, skule hun Gude þocknast, og vera verdugt Medal til ad umflya eilifa Fortopun, og naa eilifre Saaluhialp. Giorer þu so, kiære Vin! sem eg hefe þer nu kendt, af Guds Orde, þaa kemstu so sañarlega sem Drottens Ord er Himneskur Sañleikur, af Glotunareñar Veige, strax aa Veg til Himens og Saaluhialpareñar, aa hverium þu fær hreis og frials framgaingeb, sem i næstfylgiande Capitula mun synt verda; þaa keppest þu rett epter, ad iñgaanga um hid þraungva Hlided til eilifs Lifs, sem Christus uthlutter, og kemst liika obrigdañlega þar iñ.






# XVII. Capitule.

## Hvernig christen̄ Madur, sem fyrer san̄a Um̄vendan er komen̄ a rettan̄ Veg til Himins, a stidan̄ ad hegda ser alla sina Lifdaga, i son̄um Christ-en̄doome, og a allan̄ Hatt kostgiæfa ad bliifa i Guds Naad.

§. 1.

Þegar nockur mikilshaattar Kongur hefur af ofor-þentre-Konunglegre Naad, gefed einum sin̄a Undersaata Lifed, þeim er Daudan̄ hafde forþenad, og teked han̄ aptur til Naadar, þaa er eingen̄ Efe a, ad han̄ varar sig vid ad komast aptur i sins Kongs Onaad han̄ a þad liika ad giora, þvi an̄ars være han̄ hin̄ oþacklaatafte Madur. So aattu eirnig, goode Vin! ad taka Vara a þer, þegar þu fyrer san̄a Um̄vendan, ert komen̄ i Naad hia Gude þinum! Þu hefur heyrt i fyrerfarande Capitula, hvernig og med hvada Adferd christen̄ Madur kun̄e og eige vid Gud ad forliikast, fyrer san̄a Y-ran; samt lofar Gud honum ecke fortakslaust, Naad og Saaluhiaalp, helldur med þvi Skilyrde, vilie han̄ bliifa i Trun̄e; En̄ stande han̄ i hen̄e stodugur a han̄ ad laata þad siaast af H. og Gudlegu Fram-ferde, varast allar vitan̄legar Synder, og hallda fram̄ i þvi Gooda fyrer Gude allt til Enda; þaa kemst han̄ hia Fortopunen̄e, og fær vissulega sem Truadur Saaluhiaalpena; Þvi hvør ed stadfastur

bliifur allt til Enda, sa mun hoolpeñ verda. Matth. 24, v. 13. Þvi lofar eirnig Gud, hver sa sem Yðran giorer, ad betra siñ Lifnad, añad hvert fyrer Guds Augsyn vid Skriptastooleñ, ellegar i siñu Hiarta, þegar hañ heimuglega og med sialfsum ser Yðran giorer; Þegar Madureñ helldur ecke sitt Loford, og med fullum Vilia bligdunarlaust fremur sinar gomlu Synder, þa er hañ trulaus ordeñ, og þad hialpar honum þa eckert ad hañ var rettlætur ordeñ, af þvi hañ er falleñ ur Guds Naad, og villtur ordeñ af Himenſens Veige, og a Veg Glotunareñar. Þegar Jesus Christus afleiste Hoorkonuna i Musterenu i Jerusalem, og villde ecke hana fordæmia, sagde hañ: Gack hedañ, og syndga nu ei optar hedañ af! Joh. 8, v. 11. Þegar hañ giorde þañ Mañ heilañ, sem i Kor hafde leiged 38 Ar, sagde hañ til hans: Sia nu ertu heill ordeñ, syndgadu ei framar, so ad ei hende þig eitthvad verra! Joh 5, v. 14. Af þessu maa liooslega sia, ad sa sem hefur hia Gude feinged allra siña Synda Fyrergefning, maa ecke sidañ hallda afram i Illgyrnis, eda Motvilia Syndum, helldur a hañ ad fordast þær, so hañ hende ecke añad verra. Hræsnaratner meina, ad þegar þeir fara til Aflausnar og H. Guds Bords, epter þad þeir hafa eitthvañ storlega syndgad, þa se allt gott orded fyrer þeim, eñ þo þeir strax a epter, take til ad fremia sinar firre Synder. Hafe þeir ad hialfu Misserе lidnu syndgad viliande, a ny, þa skule þeir skriptast aptur, og þetta skule so gaanga a medañ þeir lifa, meinande þeir seu þa sañchristner og verde hoolpner. Og af þessu maa sia, ad epter Aflausnena og þeirrar H. Kvolldmaaltiidar Medtekning, dreissa þeir i siñu Mikelæte, allt eins og

og mádur, framgánga i Okre, Prettum, Ásseilne, Serdrægne, Bloote, Deilum, Liige, Bakmælge, Dryckiuskap, Kræsa Ate, Falskleika, Vesdystingum, og ødrum þesshattar Syndum, eins og mádur. Þetta hefur Illsku Andeñ Sathan iñblaased i þaa, eñ eingeñ goodur Ande, til ad hallda þeim fostum i sinum Snorum; Þar fyrer liikar honum vel, ad þeir lise i þeirre Von ad þeir mune vera vel christner, og verda hoolpner, af þvi hañ veit ad su Von gagnar þeim eckert til Saaluhialpar, hañ spottar þaa þar vid eñframar fyrer þeirra Heimsku og Daaraskap, ad þeir ætlast til ad hialpast, eñ þioona honum þo i ollu þeirra Athæfe, og giøra þad honum liikar; So hugar Dioefulleñ med sier, og so seiger hañ til Mañsens: Bliifdu i þeirre Von ad þu faaer eilift Lif, i þiñe Synda Ydiu, þegar þu epter Daudañ kemst i minar Greipar, þaa skal eg syna þer til hvada eilifs Lifs þu hefur uñed, med þvi ad þioona mer! Þvi þad er viist ad þeir sem epter þeirrar H. Kvølldmaaltiidar Medtekning, laata ecke siaast virkilega þeirra Christeñdoom, ad þeir hafe feinged uñbreitt Siñe, og lise i Betran, ad añadhvort hafa þeir ecke giort saña Ydran, helldur vered Hræsnarar fyrer Gude, ellegar þo þeir hafe hana giort, þaa hafa þeir a ny falled i Guds Onaad, fyrer þvi ad þeir hafa viliande hallded vid sinar fornu Synder, og hafi Ynde af þeim. Ad Madureñ brioote aptur af sier Guds Naad, þegar hañ af Illvilia syndgar, epter þad hañ hefur feinged siña Synda Fyrergefning, þad syner Christus sialfur i Epterliikinguñe af þeim skulldbundna Þioon, sem sinum Herra og Konge var skylldugur uñ tiiu þusund Pund, eñ hafde ecke til þad hañ skyllde og Kongureñ af mikille Madaumkan og Vorkun-

seme gaf honum upp alla Skulldena. Eñ þegar sa same Þioon, geck ut fra hans Augsyn, og fañ siñ Samlags-Þioon sem honum var uñ tiiu Peninga skilldugur, breitte hañ vægdarlaust vid hañ, hvad þa Kongureñ heyrde, ofurselldi hañ þañ sama omiskuñsama Þioon Kvolurunum, þar til hañ borgade allt þad hañ var Kongenum skilldugur, eñ þo hañ være ædur bueñ ad gefa honum upp alla Skulldena, Matth. 18, v. 23. 35. Sia hvernig þetta fer fyrer Guds Doome, ad sa christeñ Madur hefur ecke Not af feingeñe Syndañá Fyrergefning, sem aptur a ny viliande af Illvilia, Motvilia, Illgyrne og Asetninge giörer þad Illt er, helldur verda honum þa allar hans Synder reiknadar til Fordæmingar. Añadhvort uppgefur Gud serhveria eina Synd, so eingeñ er epterskileñ, ellegar hañ tilreiknar mootviliugum Syndara serhveria eina Synd sem hañ hefur framed alla sina Lifdaga. Þar fyrer a sa christeñ Madur, sem fyrer saña Uñvendan er komeñ a rettañ Veg til Himins, ad hafa mesta Gaat a ser, ad hañ bliife a þeim Veige og life i soñum Christeñdoome. Þu getur vel, goode Lesare, þad rraded, ad þiñ Gud fyrerlætur þer ecke þinar Synder til þess, ad þu skuler siidañ i þeim lifa, helldur til þess ad þu skuler vakta þig fyrer þeim, so þu steiper þer ecke a ny i Ogiæfuna. Hefde eirn Þioofur stoled miked fra þer, so hañ ætte ad heingiast, eñ þu tilgiæfer honum þad af Medaumkan, so hañ feinge hallded Lifenu; Seig mier! Hvad meinter þu med þvi? Var þad til þess giört ad hañ skyllde stela fra þer a ny? Spyr þina Samvitsku uñ þetta. Þegar nockur stor Herra utleiser eirn Fanga af tyrkneskum Þrældoome, til þess ad hañ frelsest fra obærelegre Ohlutvendne villtra

villtra Maña, giorer hañ þad til þeß, ad sa same Faange hlaupe aptur viliande under þad Tyrkneska Ok? dæmdu sialfur uñ þetta. Þegar eirn Lækn= are hefur fyrer good Medol hialpad miog siukum Mañe til siñar Heilsu aptur, giorer hañ þad þa til þeß, ad hiñ sa siukur var, spille aptur siñe Heilsu med sinu Omaata Framferde? Helldurðu þad? A liikañ Haatt forlætur Gud ecke Moñum Syndernar til þeß ad þeir syndge ad nyu, og snar= est þar fyrer i Diosulsens Riike, helldur ad þeir vakte sig fyrer þvi, og af þacklaatu Gede þioone og hliide þeim mikla Gude, og gaange fram christelega fyrer hans Augsyn. Hvernig seiger David? Hia þer er Fyrergefningeñ, so ad Meñ ottest þig. Ps. 130, v. 4. Af þessu maa heyra ad til þeß fyrergefur Gud Syndernar, ad Meñ skule ottast hañ, og bligdast fyrer Illt ad giora. Hvad seiger Zacharias? Ad ver leister af Hende Ovina vorra þioonudum hønum aan Otta alla vora Lifdaga i Heilagleika og Rettlæte sem hønum þocknast, Luc. 1, v. 74. 75. Her heyrum ver aptur, ad þar til hefur Christus endurleyst oß med sinu Bloode og sinum Dauda, fraa vorum Ovinum, Synd, Dauda, Diosle og Helviite, ad ver skylldum þar fyrer vera honum þacklaater med vorre Þioonkan, gaanga aa Digdaña Veige, og lifa christelega. Hver= nig seiger Petrus? Christus hefur sialfur vorum Syndum offrad aa sinum Likama, so ver fraa Syndunum deidder, lifdum Rettlætenu, 1 Pet. 2, v. 24. Her med syner hañ ad Christus hefur til þeß dæed fyrer oß, og piinst fyrer vorar Synd= er, ad ver skylldum deya fraa Syndunum, og førd= ast þær, eñ lifa rettferduglega Gudlegu Liferne, eñ ecke aafram hallda i Agyrne, Oflæte, Flaarœde, Bloots=

Bloots Ordum, Svikſemdum og ødrum Syndum, ſem þeſſa Heims Born og Hræſnarar ætla ohætt ſe, eñ prettaſt þar a, þvi þad er ecke añad eñ ad giora Chriſtum ad Synda-Þræl; Hvernig ſeiger Paulus? Ef eg bigge þad upp aptur, hvad eg hefe nidurbroted, þa giøre eg mig ſialfañ ad Yfertrodſlu Mañe, þvi eg er fyrer Løgmaaled Løgmaalenu dæeñ, ſoad eg liſe Gude; Gal. 2, v. 18. 19. Her heyrum ver eñþa, ad ſa chriſteñ Madur, ſem er fyrer Løgmaaled komeñ til ſiña Synda Vidurkeñingar, ſnueñ til Guds, og fyrer Truna a Chriſtum rettlaatur ordeñ, a ecke ad giorſt a ny motþrooañlegur Løgmaalſens Yfertrodare, og hallda vid i ſinum firre Syndum, helldur ad liſa Gude til Dyrdar, og giøra þad honum þocknaſt, ſo hañ ei einaſta meige med Sañe ſeigia; Eg liſe, þo nu ecke eg, helldur lifer Chriſtus i mer, Gal. 2, v. 20. helldur ſyne eirnig med ſinu Gudlegu framferde ad Chriſtus liſe i honum, ſtiorne honum, tilhallde honum, og verke i honum ad giora allſlags Gott; Þvi a hañ ad laata ſitt Lioos lyſa fyrer Møñum, ſo þeir ſiae hans good Verk, ſem Chriſtus utheimter. Matth. 5, v. 16. Hañ a ecke ad laata Syndena framar drottna i ſinum daudlega Liikama, ſo hañ ſe heñe hliidugur i heñar Gyrndum, helldur ad liaa ſina Lime Gude til Rettlætis Hervopna. Rom. 6, v. 12. 13. Heit hvad Paulus ſeiger: Ver erum hans, þad er, Guds Verk ſkapader i Chriſto Jeſu til goodra Verka, til hverra Gud hefur oſs adur fordum fyrerbued, ad ver ſkylldum þar iñe gaanga, Eph. 2, v. 10. Og aptur: Epterfilged Fridnum vid hvern Mañ og Helguneñe, an hverrar eingeñ kañ Drotteñ ad ſiaa. Ebr. 12, v. 14. Heraf

Heraf ferdu eñ, hvad naudsynlegt þad se, ad sa sem fyrer saña Umvendan er komeñ a Veigeñ til Himins, lifer sem Sañchristeñ, og fordast sinar fornu Synder; Þvi nær Trueñ hefur eingeñ Verk, þa er hun daud i siałfre ser, Jac. 2, v. 17. Hvar med Postuleñ H. Jacob viisar, ad þo christeñ Madur hroose ser af sañre Tru, eñ giore samt eingeñ sañarleg good Verk, og late ecke siaст i sinu Fare, saña Audmykt, Poleñmæde, Miskunseme, Radvendne, Sañleika, Kiærleika, Hogværd Fognud i Gude og andlegum Hlutum, Elsku til Guds Orda, Grandvarleika, og Gudrækniß Alvoru i Bæneñe, Hofseme, Froomleika, Skiirlife, Anægiu, og sliikar Dygder, þa er hans Tru daud og oniit Iñbirling um Guds Nad, Hræsne, eñ ecke soñ Gudrækne, og þa er hañ ecke helldur a Veigenum til Himins, helldur Glotunareñar, þo hañ ætle þad ecke, þar fyrer spyr Jacob so i firr aminstum Capitula; Hvad stodar þad, kiære Brædur! þo einhver seige, hañ hafe Truna, og hefur ei Verkeñ? Getur Trueñ giort hañ hialpleгañ? v. 14. Hans Meining er: Hvad gagnar þad christnum Mañe, ad kalla sig Guds Barn, hroosa ser af sañre Tru a Christum, og hallda sig rettlatañ, þegar hañ lætur ecke i Lioose sañarleg Truareñar Verk; hia honum sest ecke Liitelæte, helldur framar Stærelæte, ecke Radvendne, helldur Falskleike, ecke Miskunseme, helldur Miskunarleyse, ecke Anægia, helldur Agyrne, ecke Poleñmæde, helldur Opoleñmæde, ecke Elska til Guds Orda, helldur Hirduleyse um þaug og þeirra Fyrerlitning, ecke Hreinlife, helldur Lauslæte, ecke Kiærleike, helldur Hatur og Illsiñe, ecke þad hañ vande i Gudrækne sina Bæn og Guds Dyrkan, helldur ad hañ se

þar

þar til ofus og tregur; ecke Hoof og Sparſeme, helldur Ohoof i Mat og Dryck, og ødru fleiru, og ecke Kiærleike til Guds og þeſs Himneſka, helldur til Heimſins, þeſs Tiimañlega og Jardneſka. Mun ſoddañ Tru giora hañ hoolpeñ, ſem er Muñtru og ſaviisleg Ætlan. um Truna, med þvi hañ hefur þad ecke til ad bera ſem hin ſaña Tru verkar? Þar af eru, ſeiger hiñ H. Johannes, augliios Guds Børn og Diøfulſens Børn, hver hañ ei giører Rettviiſena, ſa er ei af Gude, og ſa ei elſkar ſiñ Broodur, 1 Joh. 3, v. 10. Þar vid hliitur ad ſtanda; liſe Madureñ ecke chriſtelega, þa er hañ ecke a Veigenum til Himens, helldur er hañ vantruadur og Hræſnare, og hleipur a fullu Skeide Gløtunar Geigeñ til Helviitis; Vilie hañ truadur heita maa hañ ſyna ſina Tru af Verkunum, Jac. 2, v. 18. Þad er ſoddañ Verkum, ſem ſtrax voru upptaleñ, þa vil eg trua hønum, eñ añars er hañ Liugare, hafe hañ ecke þa Tru ſem fyrer Kiærleikañ verkar, eins og Johannes kallar hañ 1 Joh. 4, v. 20. Med ſam Ordum: Hver hañ hefur eige Chriſti Anda, ſa er eige hans Rom. 8, v. 9. Þad er, hver ſem ecke framgeingur liika ſem hañ framgeck, og breiter epter hans Liſnade; Hver ed ſeiger, eg þecke hañ, og helldur ecke hans Bodord, ſa er Liugare, og i þviliikum er eingeñ Sañleikur; Hver ſem ſeiger ſig i hønum vera, ſa ſkal ganga liika ſem hañ hefur geinged 1 Joh. 2, v. 4. 6. Þeſs vegna hefur Chriſtus oſs Epterdæme epter lated, ad ver ſkylldum epterfylgia hans Footſporum 1 Pet. 2, v. 21.

§. 2.

Af þessu er auglioost hversu mikil Naudsin þad se ad christeñ Madur sem uñvendtur er og komeñ i Naad hiaa Gude, og aa rettañ Veg til Himins, hafe Gud ser fyrer Augum, og life Gudlega. Ad soñu afrekar Madureñ ser ecke med þvi Guds Naad, Rettlæte edur Saaluhialp, þvi oll vor Ydia, og oll vor good Verk eru aldeilis ofullkomeñ, so fyrer Verkeñ Logmaalsens, verdur eckert Holld rettferdugt Gal. 2, v. 16. Samt getur hañ fyrer syndsamlegt Athæfe og illañ Lifnad, misst Guds Naad og Saaluhiaalpena, þvi hvernig maa Gud vera þeim nadugur sem siifellt moodgar hañ af Illgyrne edur Motvilia, og Þrælæte, og giorer honum allt til Angurs; Hvada Þacklæte er þad vid Gud? Jurtagards-Madureñ setur Tred i siñ Alldeñgard til þess ad þad skule bera Avoxt. Kaupmadureñ lætur siñ Dreing læra ad skrifa og reikna, til þess hañ skule siidañ vera honum til Þioonustu; So hefur Gud sett oss i Christneñar Alldengard, og helgar oss til þess, ad ver skulum vera Tre Rettlætesens, og bera marga Averte; Þvi sa Rettlaate er sem Vidartre, hvert ed rootsett er hiaa Vatnslækium, hvert ed ber siñ Avøxt aa sinum Tiima, og hans Laufblød munu ecke visna, og allt hvad hañ giører, þad mun luckast vel. Ps. 1, v. 3. Gud upplyser, fræder og helgar oss fyrer siñ Anda, uppaa þad ad ver þioonum honum med þeim Gaafum sem hañ hefur oss gefed, þvi eigum ver ad kostgiæfa, Gott ad giora og christelega ad lifa, so ver giorum ecke Gud aa ny oss ad Ovin, helldur holldum hans Vinaattu, og synum ad vor Hiortu seu honum þacklaat, fyrer hans Naad, ad hañ hefur fyrergefed oss vorar Synder, og med-

teked

teked oss til ad vera sin Born; Þer erud miner Viner, seiger Christus, ef þer giøred þad eg biid ydur, Joh. 15, v. 14. Vel vitum ver ad ecke forþenum ver Sáluhiálpena med vorum Good-verkum, helldur hefur Christus oss hana utvegad med sinu Piinu, og sinum Dauda, þvi hañ hefur Daudañ Valldenu svipt, og Lifed og Odaudleikañ i Lioos leidt. 2 Tim. 1, v. 10. Og ver verdum af hans Naad án Verdskulldunar rettláter, fyrer þá Endurlausn sem ordeñ er fyrer Jesum Christum. Rom. 3, v. 24. Samt biriar oss þad ad kapp-kosta ad ver ecke med illu og andvaralausu Fram-ferde, briootum af oss þá utvegudu Sáluhiálp, helldur ad ver fyrer Truna fáum hana edlast, og þad er þad sem Christus seiger; Keppest epter im ad gánga um hid þraungva Hlided. Ef nockur stor Herra sette upp til Veds og Máls einhveria kostulega og diirmæta Gerseme, og heite þeim sem á Vedhlaupe firstur næde heñe, hañ skyllde hana eignast; Seig mer! Forþenade hañ nockud so á-giætt Hnoss med þvi ad hlaupa her um tiin Skref? Ei kantu þad med Sañe ad seigia, eñ þo feinge hañ þad aldrei, ef hañ omakade sig ecke til ad hlaupa Skeided, og keppast epter ad ná þvi; á vidliikañ Hátt er vared um Hnoss þess eilifa Lifsens. Ver meigum Kapphlaup hafa skulum ver ná þvi, og sá ingeinged um hid þraungva Hlided. Vited þer ecke, seiger Paulus, ad þeir sem Skeided hlaupa, þad þeir hlaupa aller, eñ eirn er sá sem Hnossed tekur; Hlauped nu og so, ad þer høndled þad. 1 Cor. 9, v. 24. Þegar eirn Keisare eda Kongur er kryndur, þá er alment ad kasta Gull edur Silfur-Peningum ut á medal Folk-sens, þá má sá er vill ná nockru af þeim, hafa gáat

gaat a þvi, hlaupa til, og taka þa; Wiist viñur eingeñ til þessara Peninga med þvi ad keppast epter ad faa þa uppgriped, helldur skedur þad af Keisarans eda Kongsens Raad, ad þeim er utdreift, þo faer þa eingeñ sem ecke vill hafa fyrer þvi ad faa þaa hondlad: So er liika eiliift Lif, Guds Naadar Gaafa, samt eigum ver ad hafa nockud fyrer þvi ad faa þad, þvi þo vor Ydne og Fyrerhofn forþene þad ecke, samt eigum ver ecke þar fyrer ad gefa þad ofur, med þvi eingeñ kemst til þess aan soddañ Mædu og Umhiggiu; Hver sem hoolpeñ vill verda, hañ a ad keppast epter iñ ad gaanga uñ hid þraungva Hlided, so sem vor Frelsare seiger: Hver sem hoolpeñ vill verda, hañ a ad veria þar til ollum Kroptum ad faa iñtekeð Himnariike med Vallde epter Christi Fyrersögn: Himnariike poler Ofurefle, og þeir sem Ofurefled giöra, hreña þad til sin, Matth. 11, v. 12. Hver sem hoolpeñ vill verda hañ a ecke ad forsoomia þad Fyrerheit iñ ad koma til Guds Hvilldar, og þad eingeñ af oss epter verde, Ebr. 4, v. 1. helldur a hañ ad giora sem Paulus, er hañ seiger: Eg gleime þvi hvad til baka er, og dreg mig ad þvi sem i fyrer er; eg skunda ad þvi uppsetta Takmarke, epter þvi Hnosse hvert framhelldur þeirre Himnesktre Kallan Guds i Christo Jesu, Phil. 3, v. 13. 14. Þo eingeñ gete giort sig sialfur heilbrigdañ, samt getur Madureñ, med sinu omaatalega Framferde spillt siñe Heilsu, þo eingeñ gete gefed ser sialfur þad tiimañlega Lifed, samt getur Madur hæglega stitt þad; Eins liika getur eingeñ med sinu mædusama Omake utvegad ser Himnariike og Saaluhiaalpena, samt getur Madureñ audvelldlega fordiarfad af ser Himnariike, þegde hañ ser ecke sem sañchristeñ Madur,

eñ life helldur epter Hölldenu, og sinum illu Gyrndum, i osfickañlegu Athæfe. Vilie nockur vita, af hveriu sañarlegs Christeñdooms Ydkun hefur siñ Uppruna, þa svarast honum; Af sañre iñvortis Tru a Christum, sem heñar Avoxtur. Þvi strax sem christeñ Madur er fyrer saña Umvendan, vid Gud forliiktur og rettlatur ordeñ, þa umfadmar hañ med Truñe Jesum Christum, og hans H. Forþenustu, og verdur Verkfære þad, i hveriu H. Ande verkar, og oll H. Guddoomsins Preñings bigger, þar uñ seiger so Drotteñ Christus: Hver hañ elskar mig, sa helldur min Ord, og miñ Fader mun elska hañ, og vid munum koma til hans, og giøra hia hønum Vistarveru Joh. 14, v. 23. Trueñ sem biir i Mañenum, sem ecke er añad eñ Guddoomlegur Kraptur, framkniir hañ þa til alls Goods, so hañ verdur litelatur, anægdur, þoleñmoodur, forliikunarsamur, medaumkunarsamur, gudrækeñ og digdugur, ottast jafnañ Gud, priisar og heidrar hañ, forsmaer þad Tiimañlega, eñ sæker epter þvi Eilifa, treister Gude, og akallar hans Nafn, i allre Neid, elskar siñ Naunga hreinlega, og añ honum alls Goods, lifer siallfur sparsamlega og hreinferduglega, og fordast af Allvøru allt þad Illt er, og geingur þañig sem sañchristeñ Madur, Veigeñ til Himins: Þetta verkar su ibuande Tru a Christum hia hverium einum sañtruudum Mañe. Trueñ verkar fyrer Kiærleikañ, seiger Paulus, Gal. 5, v. 6. Su saña Tru lætur Meñena ecke vera lata ne oavaxtarsama i Vidurkeñingu vors Drottens Jesu Christi, seiger Petrus, 2 Pet. 1, v. 8. Fyrer hana leidast Meñ af Guds Anda til hins Gooda sem Guds Born. Rom. 8, v. 14. Þegar Madureñ fyrer hana er komeñ i Naad

Naad hia Gude, þa biir Christus, og lifer a andlega Wiisu i hans Hiarta, og verkar þar i allt Gott, so hañ kañ rettelega ad seigia med Paulo; Eg life, þo nu ecke eg, helldur lifer Christus i mer, þvi þad eg life nu i Hollldenu, þad life eg Truñe Guds Sonar. Gal. 2, v. 20 So sem Saalen er aldrei ydiulaus a medañ hun biir i Liikamanum, helldur siifelt verkande, so imest ser Madureñ eda heyrer, eda talar, eda geingur og hreifer sig, eda hugar og ihugar. Laate soddañ Verkaner af, þa er Saaleñ an Efa burt ur Liikamanum og Madureñ daudur. So er liika su saña Tru ecke helldur ydiulaus, helldur siiverkande, so Madureñ sem yfer heñe biir, audmyker sig ymest under volldugа Guds Hond, edur hañ bidur i Gudrækne og lofar Guds Nafn, ellegar hañ yfervegar Guds saaluhiaalplega Ord, eda hañ giører Gott þeim þurfande, og vidhiaalpar þeim underþriktu, ellegar hañ syner sig þoleñmoodañ, hoofsamañ og giafmilldañ, eda hañ leitar þess Himneska, eda hañ audsyner sinum Naunga allskonar Kiærleiks Verk, edur hañ lætur til sin sia adrar andlegar Athafner, og moistendur af ollu Megne þvi Illa; Eñ laate þesshaattar Truareñar Verkaner af, þa hefur hañ þefad fyrer Andvaraleyse og Illgyrns Synder mist þa soñu Tru, og þar med Guds Naad og Saaluhiaalpena, er þvi framar ecke sañchristeñ, helldur Hræsnare daudur i Syndunum, og kañ ecke neitt af þvi andlega Gooda rettelega ad fram̃kvæma, a medañ hañ vantar Truna a Christum, þetta heiter ad vera daudur i Syndunum, so sem Paulus ad Orde kemst Eph. 2, v. 5. og lifande daudur sem hañ aptur seiger 1 Tim. 5, v. 6. Sliika Christna sem Truna hafa mist kallar Postuleñ Judas Ber

og ofriooſſom Tre, twiſvar dand og upprætt, v. 12. Og Paulus ſeiger: Þeir eru til allra goodra Verka oſtickañleger, Þad er, ohentuger. Tit. 1, v. 16. Eñ ſo leinge Madureñ hefur þa soñu Tru, og Gud biir i honum, liſer hañ chriſtelega, og giorer jafuañ Þad Gott er, ecke af Naudung, helldur friaalſum Vilia, Þvi hans Náttura er af H. Anda helgud, ſo hañ hefur Yude af Þvi, og elſkar Þad ad giora Gott. So ſem friooſſamt Tre, ber Avoxt af ſialfu ſer oſkipad, Þvi Þad hefur gooda Náttnrn Þar til, ſo ber ſañtruadur Madur allſkins Dygda Avexte, Þvi hans Tru framdriifur hañ til Þeſs. Þad er ſo ſem Chriſtus ſeiger: Hvert gott Tre mun giora goodañ Avoxt, gott Tre getur ecke fært vondañ Avoxt Matth. 7, v. 17. 17. Þvi ſkyllde ſa ecke bera gooda Avexte ſem er groodurſettur a Liſſens Tred Chriſtum, og dregur af honum til ſin Krapt og Vøkva, til ad liſa andlegu Liſe og vara i Þvi Gooda. Þetta er ſo ſem Chriſtus ſeiger: Eg em ſañur Viinvidur, og miñ Fader er Viingardsmadureñ, hvern Þañ Kviſt a mer ſem færer Avoxt, mun hañ hreinſa, ſo hañ fære meire Avoxt; Eg em Viintred, eñ Þer ernd Kviſterner, hver hañ bliifur i mer og eg i honum, ſa færer mikeñ Avoxt, Þvi an min faed Þer eckert giort, Joh. 15, v. 1. 2. 5. Heraf ſeſt ad ſa ſañchriſteñ er, kañ ecke ad færa nema gooda Avexte, ſe Þad ødruviis, er Þad Merke til ad hañ hefur Truna miſt, og Guds Náad, og er komeñ af Veigenum til Himins a Glotunar Veigeñ, laus ordeñ vid Liſstred Chriſtum, ſo ſem hañ ſeiger: Hver ſa ei bliifur i mer hañ mun utkaſtadur verda ſem añar Kviſtur, og uppÞorna, og Þeir ſamañleſa Þa og kaſta a Elld ad breña; liika ſem Viinkviſtureñ fær eige fært Avoxt af ſialfum ſer,

ser, nema hañ se a Viintrenu, so ei helldur þer, nema þer bliifed i mer. Joh. 15, v. 4. 6.

§. 3.

Af þessu serdu hvad naudsinlegt se ad lifa christelega, þvi añars vidhelst ecke Trueñ; Ad soñu kuñum ver ecke med vorum Goodverkum og helgum Lifnade Truna ad vardveita, helldur giorer þad Guds Kraptur; Þer verded af Guds Mætte fyrer Truna vardveitter til Saluhialpar þeirrar, sem tilreidd er, þad hun openber verde a siidustu Tiimum, seiger Petrus, 1 Pet. 1, v. 5. Og aptur: Sa Gud allrar Naadar, sem oss hefur kallad til siñar eiliifrar Dyrdar, i Christo Jesu, hañ same mun ydur, sem um litla Stuud liided, fullgiora, tilreida, styrkia, efla og stadfesta. Cap. 5, v. 10. Samt tapar Maddureñ þeirre soñu Tru og Guds Naad fyrer syndsamlegt, illt og skinheilagt Framferde, sem adur er sagt; og þegar þad sest ad nockur christeñ Madur lifer ochristelega, er þad Merke til hans Truarleisis, og þess ad H. Ande bue ecke i honum, þvi añars lifde hañ betur: Þu ser eirnig, hvar af þad keinur ad sumer lifa christelega, eñ sumer ecke. Sa sem rettelega hefur umvendst, vidurkendt i Audmykt sinar Synder, og fyrer Truna leitad Guds Naadar i Christo, hañ hefur feinged hana, og þa hañ hefur med oruggu Hiartans Truar Athvarfe umfadmad Christum sem med Fodurnum og H. Anda biir i hans Hiarta, sem i sinu Mustere, þa kniir hañ Mañeñ til hins Gooda, upplyser hañ, hreinsar Hiartad, og giorer hañ, sem er af Natturuñe odugañlegur, hæsañ til ad lifa heilaglega, og gaanga sem Sañchristeñ a þeim Veige sem Gudi þocknast. Hvad sem christeñ Madur,

Þar fyrer, gott giörer, þad giörer hañ allt fyrer Guds Krapt, sem i hönum er fyrer Truna verkande; So leinge sem hañ hefur Gud fyrer Augum ser, og syndgar ecke af Motvilia, so leinge byr Gud i hans Hiarta med siñe Naad, og giörer hañ meir og meir avaxtarsamañ, so hañ Dag fra Deige Prooast i Guds Kyñingu og goodum Verkum. Þar um seiger Paulus: **Eg bid ad þer seud uppfiller med Avexte Rettlætesens, sem er fyrer Jesum Christum sked, til Dyrdar og Lofs Gude,** Phil. 1, v. 11. Og aptur: Ver bidium ad þer uppfillest med Vidurkeñing hans Vilia, i allsháttuñdum andlegum Visdoome og Skilninge, so ad þer ganged Drottni verduglega til allrar Þocknunar, og seud avaxtarsamer i öllum goodum Verkum, og vared i Guds Vidurkeñingu og styrkest i öllum Krapte, epter hans dyrdarlegum Mætte, i allre Poleñmæde og Langlundargede med Fögnude, Col. 1, v. 9. 10. 11. Su Grein, sem a Træd er groodursett, vex og bloomgast þvi betur sem hun fær meire Vokva og Krapt af þvi, og verdur þvi sameinad, eins liika fær sa truadur christeñ Madur sem iñplantadur er a Lifstred Christum, þvi meire Krapt og Styrk, til ad bloomgvast og bera Avoxt, sem hañ er framar Christo fyrer Truna sameinadur; Þad er sem Paulus seiger: Eg beige min Kne fyrer Gude og Fodur Drottens vors Jesu Christi, sa rettur Fader er yfer allt þad sem Born kallast a Himne og a Jordu, ad hañ gefe ydur Krapt epter Rikdoome siñar Dyrdar, ad styrkiast fyrer hans Anda, i hiñum iñra Mañe, og laata Christum fyrer Truna byggia i ydrum Hiörtum, og fyrer Kiærleikañ iñrætast og grundvallast. Eph. 3, v. 14. 15. 16. 17. Sia! goode Vin! Þetta heiter ad standa i Truñe,

i Trūne, og þar af kemur christelegt Lifernè. Þvi er þad allt añad ad trua á Christum, eñ sá dærlege Heimur iñbirlar sér, sem meinar, ad þad se ad trua á hañ, ad hroosa sér med Muñenum af Trūne, og lifa þo epter siñe eigeñ Vild, og seigia: Eg true ad Christus hafe dæed fyrer mig, og endurleist mig frá Syndeñe, Daudanum og Sathans Riike, Þvi verd eg hoolpeñ, þo hañ siñe þad eckert hiá sér sem helldur honum til ad lifa Gude þocknañlega. Eñ soddañ falska Hræsnis Þánka um Truna iñgefur Diofulleñ Mañenum, til ad flækia hañ, so hañ náe ei ad hiálpást. Su saña Tru liggur ecke einungis á Mañsens Tungu og Vorum, helldur allrahelst i Hiartanu; Hun er ecke Mañsens, helldur Guds Verk, og hans serdeilisleg Giafa; Þvi seiger Paulus: Af Nádeñe erud þer hiálpleger ordner, fyrer Truna, og þad-ecke af ydur, Guds Giafa er þad, Eph. 2, v. 8. Og Christus seiger: Þad er Guds Verk ad þer trued á hañ, þañ hañ sende, Joh. 6, v. 29. Sá Truade hegdar sér ecke epter þessum Heime, hañ giorer ecke eins og Heimsins Born, helldur motstendur hañ Heimenum fyrer Truna, og yferviñur hañ med ollum hans Tælingum; Þvi allt hvad af Gude er fædt, seiger hiñ H. Johañes, þad yferviñur Heimeñ, og vor Trua er Yferviñingeñ, hver Verolldena hefur yferuñed; Eñ hver er hañ sem Verolldena yferviñur, utañ alleina sá er truer þad Jesus se Guds Sonur 1 Joh. 5, v. 4. 5. Su saña Tru kemur ecke Mañenum til ad hliida Diofulsens Jñblæstre, helldur er hun Mattur Guds Kraptar, til ad geta stadeð i gegn Umsaatrum Diofulsens, so Madureñ fær i motstaded, þegar su vonda Stund kemur, og allt vel framkvæmt og halldeð Sygrenum; Hun

er sa Skiolldureñ med hverium Madureñ fær utslockt øll elldleg Skeite hins eitrada Ovinar Eph. 6, v. 10. 11. 13. 16. Hiñ sæle Lutherus skrifar so um̃ hana: Trueñ er Guds Verk i oss, sem giører oss um̃skiptelega, og fæder oss ad nyu af Gude, deider þañ gamla Adam, giører oss ad nyum Mañeskium i Hiarta, Hug, Siñe, og øllum Kreptum, og hefur med ser H. Anda. O! Trueñ er lifande, kostgiæfeñ, ydiusøm og mætug, so hun getur omøgulega añad eñ pad Gooda verkad oaflætañlega. Hun spyr ecke epter, hvert hun eige ad giøra Goodverk, helldur er hun bueñ ad giøra þaug, ádur eñ þar er um̃ spurt, og þad er allriid heñar Ydia. Þetta eru Lutheri Ord. Þegar Madureñ þar fyrer lifer ecke sem Sañchristeñ, helldur hegdar ser epter Heimenum, eins þo hañ ætle sig um̃vendtañ vera, og fer fram̃ i Drambe, Agyrne, Prettviise og odrum slikum Syndum, eins og ádur, so ecke sest ad hans Hiarta og Siñeslag se um̃breitt, þa kemur þad þar af, ad Gud hefur ecke um̃ekeď hans Hiarta ser til Bustadar, og ecke sameinad sig hans Sálu, þvi er hans Skilningur oupplystur, og hans Vilie ohelgadur, so hañ kañ ecke sem Sañchristeñ fram̃ ad gánga og Gott ad giøra, af þvi hañ er af Nátturuñe oniitur til ad giøra Guds Vilia og gánga á Vegum hans Bodorda, med þvi Náttúrlegur, þad er Holldlega siñadur Madur, skiniar eckert af Guds Anda, af þvi þad er honum Heimska, og hañ fær þad ecke þeckt, 1 Cor. 1, v. 14. Hvadañ skal Madureñ sá Krapt og Styrk til ad lifa Gudlega, bue Gud ecke i honum med siñe Nád? Nær Greineñ er broteñ af Trenu, visnar hun stidañ snart, og ber ei framar meir Avort, eins er þeim christ-

christnum Mañe, hwattad sem ecke er fyrer Truna inplantadur a Lifstred Christum, ad hañ kañ eckert andlegt Gott ad giora; Af eigeñ Mætte getur hañ þad ecke, þvi hans Náttura er til alls Ills hneigd. Hafe ecke H. Ande helgad hans Nátturu; hvadañ kañ hañ þa ad fa Krapta, og Styrk til ad ganga Veigeñ til Himins, og tia sig sem Sañchristeñ? Þaraf kemur þad ad marger lifa ecke Gudlega, ad Gud er fra þeim vikeñ med siñe Nad, og biir ecke fyrer Truna i þeirra Hiortum, eñ sa ille Ovinur hefur siñ Bustad i þeim og framdriifur þa til Hofmoods, Agyrndar, Svika, Hefndargyrndar, Vellistinga, Falskleika, Miskunarleysis, og añara Synda. Eñ hvad velldur þvi þa ad Gud hefur ecke siñ Bustad i þeim og stioornar þeim til hins Gooda? Þad ad þeir hafa ecke saña Ydran giort, helldur vered Hræsnarar, hvar fyrer Gud helldur þa ei verduga til ad vera sitt Mustere. Þesshattar Meñ hafa i siñe Umvendan einga retta Þeckíng haft a sinum Syndum, ecke vidurkendt þær med Audmykt fyrer Gude, ecke angrast af þeim, og ecke asett ser alvarlega ad betra siñ Lifnad Gude til Dyrdar. Þeir hafa ecke helldur haft iñelega Laungun epter Guds Nad, og ecke beded Gud af Hiart um saña Tru a Jesum Christum, helldur af Allgirne motstade H. Anda sem optlega fyrer Guds Ord hefur hrært þeirra Hiarta og viliad verka i þeim saña Umvendan, jafnvel giort Gis ad H. Anda Stroffunum i þvi H. Predikunar Embætte, og forsmad þær, hvar fyrer hañ hefur ecke iñteked þeirra Hiarta, so þeir fa ei lifad christelega: Þañig eru þeir sialfer Sok i þessu, þvi Spekeñ kemur ecke i hreckviisa Sal, og biir ei i þeim Liikama sem Syndeñe er undergefeñ Sap. 1, v. 4. Hver

Kongur munde vilia herbergia i Huse sins Undersaata, sem ser ut eins og Sviinabæle? þvi mun þaa saa mikle Gud viliia bua i þvi Hiarta, sem fullt er af Syndum, og drottnande illum Gyrndum? So sem Moñum biidur vid Stadasægiarans Hiibiilum, hvar ed morg daud Hræ iñeliggia, so hefur Gud Anstigd a þvi Hiarta sem fullt er af Syndareñar Sviirdingum. Eñ hafe Madureñ saña Ydran giort, og odlast H. Anda, eñ mist hañ aptur, þaa hefur hañ aan Efa mist Sioonar a Gude, syndgad a mote siñe Samvitsku, meted Guds Naad miña eñ Heimsins Vinfeinge, og ecke virdt þad Himneska vid þad Tiimañlega, hvar fyrer Gude, sem þad hefur vel sed, hefur þocknast ad viikia fra so ogudlegre Mañeskiu med siñe Naad, þvi eingañ yfeegefur Gud þañ sem hañ hefur ecke adur yfergefed; So geck þad Saul Konge, af þvi ad hañ burtkastade fra ser Guds Orde, þa burtkastade Drotteñ honum, 1 Sam. 15, v. 26. Og Drottens Onde hvarf fra Saul, og illur Ande fra Drottne giorde hañ miog sturladañ Cap. 16, v. 14. Eins geck þeim ogudlegu Israelitum, uñ hveria skrifad stendur: Þeir voru motstriduger og hrelldu hans H. Anda, þar fyrer vard hañ þeirra Ovin og striidde a mote þeim Es. 64, v. 4. Sia her, kiære Vin! Orsokena, hvar fyrer marger lifa ochristelega. Eñ þar a mote er þad Orsok til þess ad nockrer virda liitils þad Tiimañlega, eñ sækia epter þvi Eilifa, og sa iñgeinged uñ hid þraungva Hlid, ed, ad H. Ande biir i þeirra Hiortum fyrer Truna, og verkar i þeim allskonar Gott. Þvi hæfer þad ecke, ad þu villt vera aliteñ eins og þu gaanger rett añ Veg til Himins, þo þiñ Christeñdoomur se i Hirduleyse og haalfvolgur, helldur þad, vilier þu truadur

truadur christeñ Madur heita, ad þu læter þad siaast i Verkenu, gaanger raadvandlega fram fyrer þinum Gude, og sert froomur; Sia af þessu ad soñ Tru aa Christum er aldeilis odruviis eñ saa dæmalege Heimur ætlar, og utheimter Ndkun þess saña Christeñdooms, og hun kañ ecke ad vera til stadar aan goodra Verka og H. Framferdis, helldur eñ Sooleñ aan Birtu, eda Ellduren aan Varma, so sem ver syngium:

Hvar sem Guds Ande iñe biir,
Er þar Christi Lifnadur niir; rc.

§. 4.

Skiirlega sest af þessu hver Mismunur se aa mille þess hræsnisfulla og falska, og þess saña og hreina Christeñdooms, hvern saa umvendtur er og komeñ aa Veigeñ til Himens bliitur naudsinlega ad æfa og temia ser, þvi se hañ rett umvendtur, leider H. Ande hañ jafnañ til hins Gooda, hañ giorer sufelldlega Guds Vilia med glodu Gede; Seige hañ med Muñenum, ad christner Meñ eige ad vera gudrækeleger, gudhrædder, liitelaater, miskunsamer og hreinlinder, audsiner hañ þad sama i sinum Verknade, seige hañ þeir eige ad fyrerliita hid Timañlega, giorer hañ þad liika so, og helldur alla Hlute Skada ad vera hiaa þeirra yfergnæfañlegu Vidurkeñingu, Drottens vors Jesu Christi, og fyrer Þreck, uppaa þad hañ avine Christum, Phil. 3, v. 8. Seige hañ, þeir eige ad vera i Þrautunum þoleñmooder og leggia sig under Guds Vilia, audsiner hañ sig liika i ollum Hlutum so sem Guds Þenara, i Harmkvælum, i Haaskasemdum, i Þingsium, i Upphlaupum, i Erfide, i Vokum, i Fostum, og so framveiges 2 Cor. 6, v. 4. 5. og hefur

þar

þar. alla Kappsmune ꝏ ad audsina i siñe Tru Dygdena, og i Dygdeñe Vitsmunena, og i Vitsmununum Hoofsemena, og i Hoofsemeñe Poleñmædena, og i Poleñmædeñe Gudrækneña, og i Gudrækneñe broodurlegañ Kiærleika, og i broodurlegum Kiærleika, almeñelegañ Kiærleika, 2 Pet. 1, v. 5. 6. 7. Þetta er sañur Christeñdoomur, ad audsina þad i Verkenu, sem Madur jꝏtar med Muñenum, þvi til hvers stodar þad ad seigia: Christeñ Madur ꝏ ad vera liitelꝏtur, og vera þo stærelꝏtur og drambsullur, eda ad seigia: Hañ ꝏ ad vera svikalaus vid siñ Nꝏunga, og vera honum þo flꝏr og underforull til ad giora honum Skada, eda ad seigiast vera ꝏnægdur med þad Gud hefur honum gefed, eñ okra þo, og under sig draga og vera fullur af Bukſorg; So giora aller Hræsnarar, eñ ecke Sañchristner, þvi þeir hafa Yferskin Gudlegs Athæfis; eñ þess Krapte afneita þeir, 2 Tim. 3, v. 5. Þeir seigia: **Herra! Herra! eñ giøra ecke Vilia Fødursins sem ꝏ Himnum er**, Matth. 7, v. 21. Þegar Hræsnararner komast lꝏngt, fordast þeir utvortis Stoorglæpe so þeir hallda goodu Mañorde fyrer Heimenum, eñ ad giora Gott og gꝏnga ꝏ Guds Veige um þad skipta þeir ser liited; Hlaupa-Gudrækne kemur stundum ad þeim, eñ varer ei leinge, helldur snuast þeir skiootlega til añars Siñis eins og Vindfluged. Legge Gud ꝏ þꝏ þungañ Kross, þꝏ vilia þeir fordast allar Synder og Listesemder, eñ þꝏ hañ er afliideñ, lifa þeir eins og adur, og hafa litla Þꝏnka um Gud; Med Muñenum jꝏta þeir sig Evangeliska, Christna, eñ þeirra Athæfe siner, ad þeir fara ecke rett med þau Truarbreod; þvi hvar keña þau ad Meñ skule eda meige drecka sig druckna, sviikia, stæra sig, bakmæla, fremia

fremia Agyrne, eda draga fra sinum Naunga, og underfrickia hañ? Hverge er þad kent i vorre Tru; þar fyrer jata þeir sig ecke rettelega under hana, og heyra ecke vorre Kyrkiu til, sem heñar retter Limer; eñ Sañchristner fylgia Lærdoome Sañleikans, og lata suñ Lifnad þeim Lærdoome samhlioodа, hvers Jñehallds þetta er i stuttu Male: Sañchristeñ Madur a i Audmykt og Yferboot ad vidurkeña fyrer Gude siña Synda Oedle, leita Nadar hia Gude, fyrer Truna i Christo Jesu, og frañganga Gude til Dyrdar i H. og Gudlegu Athæfe; Sañchristeñ Madur litur ecke epter Afhallde Veralldareñar, helldur þvi, hvernig hañ meige fiñast fyrer Gude i goodum Verkum, ecke hegdande ser vel einungis fyrer Maña Augum, helldur leitast vid hvernig hañ kuñe ad nidurkefia vondar Hiartans Gyrnder, vitande þad ad Gud aliitur helst Hiartad. Hañ veit ad margur sa sem epter Daudañ hefur miked vered af hallded, fyrer hans Gudrækne og Froomleika, situr nu i Helviite, af Gude sem añar Hræsnare utskufadur, þvi sæker hañ framar epter ad sa Lofstiir af Gude, eñ af Heimenum; Hañ dæmer ecke liika sem Heimureñ, er priisar þa stærstu Hræsnara sæla, sem med Muñenum einasta hafa andvarpad, helldur yfervegar hañ þad ad Gud utheimter meira af Mañenum til þess hañ verde hoolpen, eñ þad sem utvortis gioorest. Heimureñ kallar þañ tiidum ad fullu sælañ, sem i goodum Stad er daeñ, þo hañ hafe ecke sem Sañchristeñ lifad. Til Dæmis, hafe eirn dæed braadlega a Kyrkiu Veige, edur i siñe Embættis Utrettingu, þa er hañ aan Efa sæll hallldeñ, eins og ecke þurfe meira eñ þad til ad sa saaluhialplegañ Afgaang. Margur kañ so ad deya, og jafnvel i sialfre Kyrkiuñe, og tapast

eiad

eiad siidur, hafe hañ ecke stadeð i þeirre soñu Tru, og læted hana æsañast i soñum Christeñdoome. Ad soñu er þad satt, ad sa christeñ Madur sem deyr i sinu Kalle edur Embættis-Verke, fordæmest ecke fyrer þa Sok; Til Dæmis; Prestureñ i sinu Verke, stiornar Herrañ i siñe Stioornan, Kaupmadur-ñ i siñe Voru-Buud, Striidsmadureñ i Bardaganum, eda Husfader og Husmooder i þeirra Sysslan, þvi þo Daudeñ hrifse þa burt ur Heimenum, a medañ þeir eru ad giora hvad þeirra Stand utheimter, er þad þeim ecke til Fordæmingar, helldur mætte þad verda Mañenum til Tepunar, ef Daudeñ gripe hañ i Skinde, þegar hañ være a Veigenum til siñar Hooru, edur ad pretta siñ Naunga af ásettu Raade, edur þa hañ hefde drucked sig fullañ og galeñ, edur være ad fremia slijkar Synder an Angurs og Trega, eñ þo hjalpast hañ ecke helldur fyrer þad ad hañ deyr i sinu Kalle, nema Daudeñ hitte hañ þa i Truñe og goodum Verkum; þar fyrer hefur sañchristeñ Madur alltiid goodar Giætur a hvernig hañ fær grandvarlega geinged Veigeñ til Himens, ad hañ stande i Guds Naad, og bere Christum i Hiartanu, þvi fyrer þad alleina verdur hañ hoolpeñ.

§. 5.

Tvent er þad, sem Gud utheimter af Mañenum, hans Lifnad ahrærande, til þess hañ life i soñum Christeñdoome, sem er ad hañ kappkoste ad fordast þad Illa, og allt Naunglæte, og giore þad Gooda, og hvad rettviist er fyrer Gude; So heiter þad; Lat af Illu og giør Gott, Psl. 37, v. 27. Og aptur: Þvoed, hreinsed ydur, taked

taked ydar Illsku-Breitne i burt fraa minum Augum, laated af Illu, læred Gott ad giøra, leited epter Rettenum, Es. 1, v. 16. 17. I þeim saña Christeñdoome maa hverigt af þessu vidmissast, eda añars aan vera; þvi vakte Madureñ sig einasta vid þvi sem utvortis er Jile giort, eñ aastunde ecke aasamt Gott ad giora, þaa er þad toom Hræsne. Eins og saa getur ecke geinged sem ecke hefur nema eirn Footeñ, og ei saa Fugl floged i Lopt upp, sem ecke hefur nema eirn Vængeñ, so maa saa ei helldur gudhræddur heita, sem ecke giorer hvorutveggia, bæde ad fordast hid Vonda, og giora hid Gooda, þvi Froomleike og Sidgiæde aan goodra Verka er eingeñ soñ Gudrækne, helldur fyrer Guds Augsin Illska og Hræsne; þar fyrer seiger Drotteñ Christus: Hvert þad Tre sem ei færer goodañ Avøxt, mun afhøggved verda, og i Elld kastad, Matth. 7, v. 19. Og aptur: Hvern þañ Kvist aa mer er er eitge færer Avøx, mun hañ aftaka, þad er miñ Fader, Joh. 15, v. 2. Þad siner Christus framar, ad christeñ Madur hlioote Gott ad giora, skule hañ ei kastast i Helviitis Elld, aa þeim tveim Fiikiutriaam, þvi eina sem hañ formællte, so þad visnade strax upp, af þvi hañ fañ aa þvi eingañ Avoxt, Matth. 21, v. 19. Þvi ødru, er hañ villde laata afhøggva, af þvi þad bar ecke Avoxt, Luc. 13, v. 6. 7. Þeim sem ecke hafa giort Goodverk i þessum Heime, vill hañ aa efsta Deige fraa ser burtviisa i Helviitskañ Elld, og so til þeirra seigia; Fared burt fraa mer, þer Bølvader i eilifañ Elld, þañ sem fyrerbueñ er Fiandanum, og hans Arum, þvi hungradur var eg, og þer gaafud mer ecke

ad

ad eta, þirstur var eg, og þer gaafud mer ei ad drecka, Gestur var eg, og þer hiistud mig eige, naken var eg, og þer klæddud mig eige, siukur og i Myrkvastofu var eg, og þer vitindud min eige, Matth. 25, v. 41. 42. 43. Jurtagards-Madurenn, er ecke med þad ánægdur, ad Tren i hans Garde bere einga vonda Avexte, helldur meiga þau bera gooda Avexte, skule þau frioofsom heita, enn ei hreikiast upp med toomum grænum Laufum. So er Gud ecke med þad asattur, ad christenn Madur fordest einasta ad giora Illt, hid ytra, enn giore eingenn Goodverk. Þad er hverium christnum Manne sagt; Þu Guds Madur, epterfylg Rettlætenu, Gudhrædslu, Trunne, Kiærleikanum, Þolennmædenne, og Hoogværdenne, 1 Tim. 6, v. 11. Aptur a mot er þad ecke helldur sannur Christenndoomur fyrer Gude, ad giora utvortis Goodverk, enn fordast þo ecke hid Vonda sem komed er i Vana hia Manne, helldur hallda framm i þvi. Þo margur bidie margfalldlega, ræke Kyrkiuna, gefe Faatækum, legge morgum Heilræde og hiaalpe þeim framm, se vingiarnlegur i Ummgeingne, eda giore annur sliik utvortis Goodverk, enn hallde samt vid sitt Ofaat, og sina Ofdryckiu, aan Bligdunar og Angurs, eda laate ecke af sinne Drambseme og Metordagyrne, eda af sinum maatalausa Hroka, og sinu Yferlæte, edur af þvi ad pretta og taaldraga sinn Naunga, edur af sinu Hatre og Illinde, þaa eru þesse hans Goodverk Anstigd fyrer Gude, og verda honum sem Synder tilreiknadar. Þad siaaum ver liooslega a Dæme Israelitanna, hverra Gudsdyrkun Gud siaalfur burtkastade, og fyrerleit hana, so sem hann seiger: Af þvi þeir lifdu i eirn-

eirnre og aṅare Synd a mote þeirra Samvitsku, so sem haṅ seiger: Þa þer komed ad birtast fyrer mer, hver krefur sliiks af ydar Hende, ad þer ganged uppa miṅ Forgard; Færed ecke leingur Matoffur so til forgefens, þad Reikelse er mer Anstigd, þær Tunglkomu Hatiider, og þa Þvottdaga, a hveriumm þer komed til samans til Mædu og Anstigdar, fæ eg ecke lided; Min Saala stuggar vid ydar Tunglkomu Helgum og Hatiidum, þær eru mer leidar ordnar, eg em þreittur þær ad liida, og þo ad þer utbreided ydar Hendur, þa birge eg min Augu fyrer ydur, og þo ad þer bidied margfalldlega, þa heyre eg ydur ecke, þviad ydar Hendur eru fullar af Bloode. Es. 1, v. 12. 13. 14. 15. Þad er, þer lifed i Syndum a mote Samvitskuṅe. Og aptur: Eg er reidur ordeṅ ydrum Hatiides-Døgum, og eg forsmaae þa, og eg kaṅ ecke ad lykta i ydvarre Samkundu, og þo ad þer offred mer Breṅeoffrum, og Matarfoornum, þa hefe eg þo einga Þocknan þar a, so eg get ei helldur sed til ydar feita Þacklætis Offurs; tak ad eins fra mer þitt Psalma-Bulldur, þvi eg get ecke heyrt þitt Psaltara-Spil, Amos. 5, v. 21. 22. 23. So seiger eirnig Paulus: Þo eg giæfe allar minar Eigur Fatæklum, og lete miṅ Liikama breṅa, og hefde ecke Kiærleikaṅ, þa være mer þad eingeṅ Nytsemd, 1 Cor. 13, v. 3. Og aptur: Hvad ecke er af Truṅe, þad er Synd; Rom. 14, v. 23. Þar fyrer skalltu fordast allt hvad vondt er, og hallda eingre eirnre Synd viliande og vitsvitande hia þer epter, vilier þu lifa christelega

og Gude þocknanlega, þvi ellegar giorer þu oll þin Goodverk ad Synd og Vidurstigd fyrer Gude, og undereins og þu fordast þad Vonda, stundadu ad giora þad Gooda, so þiñ Christendoomur se ecke Hræsne. Hvad være þad, þo þu hellder þinum Muñe fra Bloote og Eydum, ef þu upplyker honum ecke til ad bidia Gud, syngia, og lofa hañ med Gudrækne? Eda þad þo þu upperter og moodgader ecke þiñ Naunga, ef þu giorder honum einga Pocknun eda Adstod þegar þu giæter? Eda þad, þo þu bakmælter honum ecke ne lyger a hañ, ef þu villder ecke affaka hañ, og forsvara hans gott Rikte? Eda þad, þo þu hrakyrder ecke Fatæka, ne værer ofugur vid þa, ef þu giæfer þeim ecke neitt? Vara þvi þina Tungu fra Illu, og þinar Varer, ad þær tale ecke Flærd; Laat af Illu og gior hid Gooda, leita Fridarens og sæk epter honum, Ps. 34, v. 14. 15. Lær ad afneita sialfum þer, liika sem Christus utheimter, þa hegdar þu þer sem sañchristen Madur, þvi so seiger hañ: **Ef nockur vill mer epterfylgia, þa afneite hañ sialfum ser, og take siñ Kross uppa sig, og fylge mer epter,** Matth. 16, v. 24. Eñ þad er ad afneita sialfum ser, ad Madureñ med Alvorugefne vandlæte vid sialfañ sig, motstriide þvi ollu, affseige þad, og fylge þvi ecke, sem hans ofkickañleg Sialfselska og hans Tilhneigingar, og illar Gyrnder raada honum, locka hañ, hallda honum, og afsla hañ til. Þvi seiger Paulus: **Laated ecke Syndena drottna i ydrum daudlegum Liikama, so ad þer seud heñe hliiduger i hennar Gyrndum, og liaed ecke ydar Lime Syndeñe til Herklæda, helldur liaed ydur sialfa** Gude,

Gude, liika sem af Dauda upplifnada, og ydra Limu Gude til Rettlætis Hervopna; Rom. 6, v. 12. 13. Med soddañ Hætte afneitar christ ñ Madur sialfum ser, og keppest epter iñ ad gaanga uñ hid þraungva Hlided, til eilifs Lifs.

§. 6.

Sertu, goode Vin! fyrer saña Ydran, komeñ a rettañ Veg til Himens, þa vert ecke andvaralaus, og þeink ecke med þer ad þu sert nu allareidu hoolpeñ, helldur vit þad ad Diofulleñ situr þa hvad helst uñ þig, ad hañ selle þig, þegar hañ merker þad þu hafer saña Tru, og leitast vid ad draga þig fra heñe; Laat hañ ecke iñbirla þer, ad ohætt se þer ad viikia liited utaf Veigenum, og med Vilia fremia eina eda adra Synd, samt kuñer þu ad hallda Truñe og Guds Naad, þvi þar med vill hañ tæla þig, so þu missir Saaluhiaalpena. Hañ hefur liika Adferd, sem eirn Sio-reifare er vill na under sitt Valld ødrum Skipum, og fyrerfara þeirra Folke, hver ed uppdregur Svika-Flag a sinu Skipe, so hiner ætle hañ se þeirra Vinur, og komest hañ þeim nærre asæker hañ somu Skip med Folkenu sem añar Mordinge: So siner Diofulleñ sig miog vingiarnlegañ vid christna Meñ, so hañ locke þa i sitt Net og deide þeirra Saaler. So gat hañ snillelega taled uñ fyrer Evu, til þess hun aat af þvi forbodna Tre, er hañ sagde: Gud veit þad, ad a hverium Deige sem þid eted þar af, þa munu yckar Augu opnast, og þid munud vera liika sem Gud, og vita Skin Goods og Ills, Gen. 3, v. 5. Haf þarfyrer Higgende vid, þegar Diofulleñ vill þañig flækia þig, og

ogudleg Heimsins Born hindra þig fra þinu Christeñdooms Hlaupe, og seig: Far fra mer Sathan, og fared þer Heimsins Born, hviad skrifad er; Eg set fram fyrer þau Ord H. Ritningar, eins og Christus þiñ Frelsare giorde. Matth. 4, v. 10. Samþyktt ecke nockre Synd, og ecke hiñe minstu, Dioflenum ne Heimenum til Gedþecknis, þvi Smaa-Syndernar þvinga liika Samvitskuna; og Gud setur vorar ovitañlegar Synder i Lioos fyrer sinu Auglite, so sem Moses seiger: Psalm. 90, v. 8. Stundum er þad eitnig halldeð gott vera, sem er stor Synd fyrer Gude. Hver hefde þeinkt Usa giorde rangt i þvi, ad taka til Guds Arkar, og hallda heñe, af Otta fyrer þvi hun munde falla? þa sloo Gud hañ þar nidur, so hañ doo, 2 Sam. 6, v. 6. 7. Edur Saul Kongur hefde syndgad med þvi, ad færa Drottne Breñeoffur og Packlætis Foorner, til ad giora honum Þocknan þar med? þo forkastade Gud honum þar fyrer, ad hans Riike skyllde ecke stodugt vera, 1 Sam. 13, v. 14. Hver mun meina, ad David sem Kongur, giorde illa i þvi ad lata telia sitt Folk og sina Undersaata? Þo var þad af Gude fyrer soddañ Synd aliteð, ad hañ straffade Landed þar fyrer med Drepsott, 2 Sam. 24, v. 14. Edur Achab Israels Kongur, i þvi ad gefa Lif Benhadad Kongenum i Syrlande, hvern hañ hafde i Striide yferuñed? helldur kyñu Meñ meina hañ hefde þad vel giort, ad þirma af Miskunseme sinum Ovin, eñ þo var Gude þad opocknanlegt, so hañ let eitn Spamañ seigia Achab, ad þar fyrer skyllde hans Land straffast, og hañ sialfur missa Lifed i Benhadads stad. 1 Reg. 20,

20, v. 42. Med þvi þaa ad hulldar Synder eru til, fyrer hveriar Gud þo straffar, þarftu forsiaalega fram̃ ad gaanga, og maatt hverke laata Sa han ne Heimen̄ koma þer til neirna vitan̄legra Synda; Þu aatt ecke einásta alltiid ad hafa stad,astan̄ Asetning þer i Hiarta, ad fremia þær ecke, þvi an̄ars tavar þu Trun̄e og Guds Naad, helldur aattu eirnig ad vera forsiaall, vakande, vareigdarsamur og um̄higgiusullur, aa Veigenum til Himens, og hafa goodar Giætur aa ollum þinum Verkum og Fyrerteckтum. Þaa er yfer nockra Mork geingur, berande ser i Hondum diira og priidelega bloomada Flosku med aagiætu Lækninga Vatne, han̄ hefur goodan̄ Athuga aa ser, ad han̄ hverge vidsteite ne hrase, so han̄ spille þvi ecke nidur; Hversu miklu framar biriar christnum Man̄e ad vera vorum og fram̄gaanga forsiaalega aa Veige Saaluhiaalparen̄ar, so han̄ misse ecke Guds Naad og Truna, þvi þan̄ sin̄ Fesiood ber han̄ i brothættu Leirkere, sem Paulus seiger, 2 Cor. 4, v. 7. Af þvi han̄ kan̄ ad missa aptur Truna, þo han̄ hafe um̄vendst, aasamt H. Anda, og Guds Naad, og liida Skipbrot aa Trun̄e, so sem hendte Hymenæum, og Alexandrum. 1 Tim. 1, v. 19. 20. Þaa sem hefur fært sig i ny Klæde, varast ad aa þau falle Saur-Bletter, ætte þaa ecke saa, hvers Samvitska er hreinsud orden̄ fyrer Truna ad varast, ad hans Samvitska saurgest ecke aa ny med Syndunum? Þar fyrer, ef þu fin̄ur nockurt Naanalæte hiaa þer uppkomed, þaa vert ecke i Roon̄e sirr en̄ þu hefur afmaad þad, þvi an̄ars hefurdu ecke glada Samvitsku; San̄christen̄ Madur vaktar sig ecke einasta fyrer þvi sem Illt er, þegar eingen̄ gefur honum þar

til Efne, helldur liika nær hañ verdur til þess a=fiistur. Sañchristeñ Madur er skiirliisur midt i Hooruhusum, þo hañ ofyrersiniu komest a medal þeirra er-Lauslæte fremia; Hañ er hoossamur þo hañ verde ad sinum Ovilia a medal Dryckiu=maña i Dryckiuhuse; a medal Stærelatra er hañ liitelatur, a medal Svikara og Falsara freomur, og falslaus, og so i fleiru ødru. Liit ecke epter þvi sem adrer giora, helldur þvi sem Guds Bod heimta af þer! Hefde Loth hagad ser epter ødrum sinum Nabuum, þa hefde hañ ecke lifad Gudlega, helldur i Ofdrambe, allskon=ar Ohoofe, Ydiuleyse og Miskunarleyse, eins og þeir i Sodoma, Ezech 16, v. 49. Alldrei mattu ugglaus vera, helldur siifelldt vaka, og a þinu Hiarta Vara taka, ad þad fare ecke utaf Veig=enum. Þegar eirn Fiskedamur er med Prike upp=hrærdur, og þad snerter Botneñ, sem fullur er af Bleitu, þa verdur Vatned strax grugguglt, sem añars er klaart i honum a medañ ecke er vid þvi hrært. Honum er Mañsins Hiarta liikt, sem er fullt af Saurendum Uppruna=Syndaren=ar, se vid þeim hrært med litlu Tækefære, hverſu fliott er þad þa til ad saurgast af Syndeñe? Þar fyrer attu fyrer Andans Krapt ad kross=festa og temia þad illa Holld med þess Gyrn=dum og Tilhneigingum Gal. 5, v. 24. Hver eirn christeñ Madur hefur nockud hia ser foolged, sem ogiarnañ vill akalla Gud og þioona honum, trua og giora Gott, helldur er seinlat til ad hyrda um himneska Hlute, eñ þad er Holldet sem girn=est i mote Andanum v. 17. First þu veist af þessu, þa mattu ecke gefa radrum þinu illa Hollde og Bloode, ad þad leide þig ecke af þin=um

um gooda Veige, helldur nær sem þu fiñur hiaa þer Hyrduleyse og Lete i andlegum Efnum, eda þad þu sert ecke ænægdur med þitt Hlutskipte; eda iñvortis Drambseme, eda oniita, og otilheyrelega Buksorg fyrer þessa Lifs Næringu, þaa þeinktu strax med þer; Þetta kemur af minu illgiarna Hollde og Bloode, og af Erfdasyndeñe sem i mer byr og hreifer ser. Eg hef eñ Tiima til ad dempa og nidurkefia þessa Synd, æ medañ hun skrymter, eins og Glood i Oskuñe, ædur eñ þar verdur Elldur af, sem uppblossar med fullum Loga; Tak so strax til þeirra andlegu Hervopna, sem eru Guds Ord og Gudrækeleg Truareñar Bæn, og utslock þar med þessar illu Girnder, og allar glooande Piilur hins Hreckvisa; Vilier þu lifa christelega og ecke syndga mote þiñe Samvitsku, þaa þeink og seig vid sialfañ þig, þegar þer kemur til Hugar ad giora nockud; Villder þu ad Gud kallade þig nu i þessu Hugarfare hastarlega i burt ur Heimenum, ellegar hañ frambryteſt i siñe siidustu Tilkomu til Doomsens? Ef þin Samvitska þaa neitar þvi og skelfeſt vid sliika Þanka, þaa serdu þar af ad þiner Þankar til ad stunda slikt, eru ecke retteleger, so þu hefur fulla Orsok til ad læta þaa strax fara; eñ seige þin Samvitska ja til þess, og þu biigdaſt ecke vid ad giora þad, þo Christus kome strax til ad dæma, af þvi þad er ecke æ mote Gude ne hans Orde, þaa er þin Fyrertekt retteleg. Gæuger þu epter þessare Reglu, muntu ecke viliande og viisvitande syndga; Ef þu færer til ad liuga æ þiñ Naunga edur lasta hañ, eda fiña ad þinum Keñendum og þeirra Predikunum, og leggia þeim margt til Lista, eda værer þu komeñ æ Ferdena

til ad pretta þiñ Naunga og draga hans Goods under þig, eda giora honum Ojofnud, eda ef þu sæter sofande i Kyrkiuñe, eda værer ad þvætta og skrafa medañ Guds Þioonustañ yferstæde, eda þu sæter vid Viinstauped eda i Dryckiubeckium, mælande skamarlegum, saurugleguni, illum og hneixlañlegum Ordum, eda þu leter miked yfer þer af þinum Klædnade, sem mætte være yfer þitt Stand, og hreikter þer upp hofmoodugleqa, eda þu værer ad kiisa vid þiñ Naunga med illum Oskum og Fyrermælum, eda hefdest añad þvilíikt ad. Adspyr þu þina Samvitsku, hvert þu villder ad Gud svipte þer bradlega i burt i soddañ Athæfe, eda Christus kiæme þa med Reidarþrumum og Leiptur Elldum Doomeñ ad hallda, og hvert þu kyñer þa med Glede ad framkoma fyrer hans Doomstool? Seige þin Samvitska Nei þar til, sem ecke kañ odruviis ad vera, þa hura med þer þu giorer raunglega, og hætt strax af sliiku! Eñ tæker þu Gudrækelega epter Guds Orde i Kyrkiuñe, eda værer a Bæn til Guds heima hia þer, lofader Guds Nafn, og talader um andlega Hlute vid Folk þitt eda adra; og upp aptur tæker þins Keñemans Ord til Yfervegunar, eda værer ad afsaka þiñ Naunga, og giora honum Adstod med Raad og Daad, eda i einhvern handa Maata Gott ad giora. Seig mer hvert þu skelfdest þa vid i þiñe Samvitsku, þo þer i Hug kiæme þiñ Daude, og sa efste Doomur, mattu ecke seigia Ney, med þvi þu hefst þa Gott ad, sem ecke er i sialfu ser fordæmañlegt. Þañig attu ad gaunga forsialega og varlega i þiñum Christendoome, epter Pauli Meining, er seiger: So siaed nu til ad þer gaunged sem Forsiaaler, eige so

sem

sem Fawiiser, helldur so sem Viiser, og skick- ed ydur i Tiidene, þvi þad er vond Tiid, fyrer þvi vered eige skilningslauser, helldur skiliande hvad Vilie Drottens er, Eph. 5, v. 15. 16. 17. Og aptur: Hegded ydur eige epter þessum Heime, helldur giøred ydur umskipte- lega med Endurnyungu ydar Hugskots, so ad þer meiged reina, hver ad se goodur, þæg- ur og algiørdur Guds Vilie Rom. 12, v. 2. Med þessum Hætte sær þu forsiælega og varlega umgeingest.

§. 7.

Lat þin Cristendoom umfram allt vera al- varlegan og Undanbragdalausan, og giæt þess ad sa alviise Gud dæmer oll þin Verk epter þinu Hiartalage, og hann ser epter þvi, hvert þer er Alvara ad vilia verda hoolpenn, epter þvi sem þu hefur sagt og æsett. Umþeink hvad morg Ar eru hiæhlaupenn af þinu fallvallta Lifе, hverium þu hefur eidt i þinu Hegooma Athæfe, og annadhvert a þeim liited þioonad Gude, eda ecke rettelega; Umþeink ad þu ert noog gamall ad Aratale, enn ungaur i Gudrækneñe, og hefur litlu af þinum Lifdøgum vared Gude til Dyrdar, og þer til Saaluhiælpar. Ef þu fræreiknar alla þa Tiima hverium þu hefur sooad med Svefne, i Ydiuleyse, i Gestabodum, i Listreisum, i Gledskap, med Spil- um, og odrum slikum jardneskum Listesemdum; Seig mer! Er þa miked umfram af þinum Lif- døgum, a hverre Tiid þu hefur rettelega bored Umsorgun fyrer þinne Saaluhiælp? Hvad þeinker þu, sertu nu 50 eda 60 Ara gamall, ad þu hafer morg Ar af þeim brukad Gude til Dyrdar, og

til ad keppast epter iñ ad gaanga uñ hid þraungva Hlided til eilifs Lifs? Geturdu sagt med goodre Samvitsku, ad þu hafer brukad eitt af þeim til ad verka alvarlega og prettalaust þina Saaluhiaalp? Og hver Not hefurdu af allre Aratolu þins Alldurs, haferdu ecke aa heñe allraheltst haft Umhyggiu, fyrer ad komast i Himnariike, og þaa sælu Eilifd? Einn Hofmadur var saa, Similis ad heite, sem leinge hafde lifad i Hofgordum, er uñ siider leiddest saa Lifernis Haattur, gaf sig þvi þadañ fraa uppaa Meigeñlanded, og hellt sig þar þau 7 Ar, sem hañ aatte epter olifad, til ad bera Umsorgun fyrer þvi Eilifa; Þegar hañ lokseins laa fyrer Daudanum, sagde hañ fyrer ad þesse Grafskript være sett aa hans Legstad: Her liggur Similis, sem vard margra Ara ad Alldre, eñ sialfur lifde hañ raunar ecke nema 7 Ar. Her med villde hañ syna, ad hans Lif allt fram til þeirra 7 siidustu Ara, hefde ecke maatt Lif heita, fyrer þvi hañ brukade þad einungis til veralldlegrar Glede eñ ecke til Guds Dyrdar. Þeinktu þig uñ, miñ Vin! hvert þu hefur so morg Ar retteleaa þiaonad Gude, og bored Umhyggiu fyrer þiñe Saalu! Ver vitum, ad su Tiid maa spillt heita sem Mañeskiañ lætur hlaupa med þvi, ad hafa eintoomis jardneska Hlute Handa i mille, og lifa i synduamlegre Onytiu og þo hafa fæster Þaanka uñ þetta; Hvad marga Daga lætur margur liida aa medañ hañ lifer i jardneskum Vellistingum, og ad horfa aa Gledeleika Dans og Spil? Hvad margar Stunder standa sumer fyrer Speiglenum til ad priida sig, og laata leingre Tiid hiaa hlaupa aa medañ þeir eru ad færa sig i fogur Klæde og beingia uppaa sig, þad sem ecke añad syner eñ Narra Side, helldureñ ad bidia Gud og lesa hans Ord?

Muñu

Munu þeir þeinkia til ad fa Laun hia Gude fyrer þetta i Eilifdeñe, eda hvar hefur hañ heited þeim þvi? Ecke so, þesser hliota a siidasta Deige Reikning ad giora fyrer þa Tiid sem þeir hafa uppeidt i soddañ Hegooma, og ecke haft Umhyggiu fyrer siñe Saalar Velferd; þvi seiger Paulus: Hegded ydur i Tiideñe, þad er vel, þvi þad er vond Tiid Eph. 5, v. 16. og slepped heñe ecke hia ydur, so þer a heñe naaed þvi Himneska Life. Liika sem Kaupmadureñ forsoomar ecke ad vera til stadar, Markadar eda Torgdageñ, so hañ ei hia hlaupe, og þar af er Maaltæked Pauli epter Griskuñe, kauped Tiidena Þær Tiider eru helst blessadar sem christner Meñ nyta ser til Gudlegs Frañferdis og froomlegrar Umgeingnis hafande Umsorgun fyrer siñe Saaluhiaalp. Þvi er a medal vor sunged:

Viñ þu sem flest Goodverk þin i Dag,
Undañ þau ei drag ꝛc.

Laat þer i Hug koma hversu fliott þiner Lifdagar hlaupa i burtu, og hvernig þin Ar eru eins og a Flootaferd; Seiger ecke Moses so uñ vort Lif? Þad liidur snart burt so sem flygium ver þadañ i fraa. Ps. 90, v. 10. Seiger ecke Ezechias Kongur so uñ sitt Lif? Min Æfe er lideñ, og fraa mer rimd, so sem añad Hiardmaña Hreise, og eg sliit mina Lifdaga i fraa liika sem Vefare, Es. 38, v. 12. Seiger ecke Job so uñ sitt? Miner Dagar hafa vered sliootare eñ nockur Hlaupare, þeir eru burt fluner, og hafa eckert Gott aslifad, þeir eru forgeingner liika sem þau sterku Skipeñ, liika sem þad Orneñ burt flygur til Braada. Job. 9, v. 25. 26. Fer nockud odruviis uñ þitt Lif? Hverfur þad ecke med sama Hætte? Þessvegna attu ad bruka vel þiña Lifdaga

daga Tiid, so þu hliooter ecke aňars ad vera fullur Angistar i Eilifdeňe; Lif her so alltiid sem þu villt ofta þer ad hafa lifad, a siidasta Deige, þa muntu lifa christelega! Haf hreina Alvoru og Raadvendne i þinum Christeňdoome, þa verdur þer allt lettbært. Þegar nockur hefur stoduglega asett ser ad verda lærdur, þa falla honum hans Ydkaner lett; Gior liika so og laat ecke þa goodu Tiid til onytis hia hlaupa, a hverre þu hefur Fære til ad leita þiňar Saalar Velferdar, so þu ecke a siidaň hliooter af heňar Misser eiliflega ad angrast. Yfervega gaumgiæfelega þesse Pauli Ord: Ver amiňum ydur ad þer medtaked ecke Guds Naad til onytis, þvi haň seiger: J þægaň Tiima bænheyrda eg þig, og a Deige Hialpræđeſins hialpade eg þer; Siaaed nu er sa þægelege Tiime, nu er Dagur Hialpræđeſins 2 Cor. 6, v. 12. Þvi laatum oss nu hrædast, ad ver forsoomum ecke þad Fyrerheit, iň ad koma til hans Hvilldar, og þad eingeňi vorra epter verde. Ebr. 4, v. 1.

§. 8.

Vilier þu christelega lifa, þa attu i þiňe Umgeingne ad horfa jafnaň a þetta Þrent. 1) Þiň Gud. 2) Þiň Naunga. 3) Sialfaň þig, og epter Pauli Amiňingu, ad lifa sparlega, rettferdugleg og gudlega i þessum Heime, Tit. 2, v. 12. Ollu framar skalltu 1) gudlega lifa og hafa þiň Gud jafnaň fyrer Augum og i Hiarta og ganga i hans Otta, med Sonarlegre Bliigdun og Lotningu, fyrer hans hæsu Hatign! Þeink alltiid med þer ad Gud siae, heyre, vite og dæme, allt hvad þu giorer, talar, hugsar eda fyrer þig tekur. Jhuga þad Gud er

er allstadar naalægur, og liika nærre þer, og gefur Giætur ad øllu þvi þu adhefst eda forsoomar, uppteiknande þad allt, i Book sinar Guddoomlegu Alvitsku, hvert sem þad er Illt eda Gott, so hañ setie þer þad fyrer Siooner a Dooma-Deige; þvi hefde hañ ecke Gæt a þvi, hvernig kyñe hañ þa ad auglisa þad sem Doomare, og framfæra þad opeñberlega fyrer Doomenum? Þar fyrer seiger Salomon: Gud mun alla Giørninga framleida fyrer Doomeñ þa sem eru foolgner, hvert sem þeir eru helldur Gooder eda Iller. Ecc. 12, v. 16. Hvernig kyñe hañ ad uppskrifa allt soddañ i sina Book, sæe hañ ecke ne heyrde þad? Þegar hinum H. Johanni var sa efste Dagur i Sioon syndur, sa hañ hina Daudu bæde Stora og Smaa standa fyrer Gude, og Bækurnar urdu upplaatnar, og ein oñur Book vard opnud, hver ad er Lifsens, og hiner Daudu urdu dæmder epter Skripteñe, i þeim Bookum, epter þeirra Verkum, Apoc. 20, v. 12. Hugadu til þess nær þu tekur nockud fyrer Hendur þer, sia! Gud er her nærstaddur, og ser hvad eg hefe fyrer Stafne, mun þad vera hans H. Vilia samkvæmi? Get eg huggad mig vid þad eg mune fa Naadarlaun hia Gude fyrer þetta? Giorer þu Illt, þa straffar Gud þad, giorer þu Gott þa launar Gud þad; Þañig attu i øllum Stodum ad bligdast fyrer hans H. Naalægd, og framganga i hans Otta; Þad kallast med rettu Gudhrædsla ad fordast þad Illa sem Gud bañad hefur, og giora þad Gooda sem hañ boded hefur i sinu H. Orde, fyrer hans H. Naalægdar Saker. I þessu tveñu er iñefaleñ Sonarlegur Otte fyrer Gude, hvar til su H. Ritning optlega aamiñer oss, og þad strax i firsta Boodorde meigum ver þad heyra:

Ver eigum yfer alla Hlute fram̃ Gud ad ottast; So kallar Salomon til hvers eins Mans; Ottastu Gud og hallt hans Bodord, þvi þad hliider til øllum Mønnum, Eccl. 12, v. 15. Og þad kallar Salomon Jnhalld alls Løgmaalsens. Þad er viist og satt ad nær christeñ Madur hefur med þessum Hætte Gud fyrer Augum og ottast hañ Sonarlega, þa giorer hañ eckert Jllt viliande. Þar fyrer seiger Syrach; Otte Drottens ver Syndeñe, Otte Drottens giører Hiartad gladt og gefur Føgnud og eilifa Unadsemd. Syr. 1, v. 12. 27. Soddañ Underviisan gaf hiñ gamle Tobias Syne sinum. Haf Gud fyrer Augum þer, og i Hiarta alla þina Lifdaga, og fordast ad þu sert nockurntiima samþickur i nockre Synd, og giører a mote Guds Bode, Tob. 4, v. 6. So ad hegda ser, lagde sa mikle Gud sialfur fyrer Abraham, og sagde; Eg er almaattugur Gud, gack fyrer mer og vertu algiørdur, Gen. 17, v. 1. Næst Guds Otta, nær þu lifer gudlega i þessum Heime fyrer Guds Auglite, aattu ad horfa 2) a þiñ Naunga, og lifa rettferduglega se þiñ Christeñdoomur Skiilaus; Þetta hliitur liika Guds Otta ad fylgia. Þegar eirn ottast Gud, hvernig maa hañ þa med Vilia stiggia og angra siñ Naunga, þvi hañ veit ad alls Heimsins Doomare straffar þad, eñ þo Naungeñ þeige, þar fyrer kemst þad alldrei heim, ad sa se gudhræddur og eige Gud fyrer Vin, sem ecke elskar siñ Naunga, helldur giorer honum optlega til Moods. Soddañ Christeñdoomur er ecke nema Hræsne. Ver vitum hvad vor Frelsare seiger, þegar hañ setur til samans Kiærleikañ til Guds og Naungans; Elska skalltu Drotteñ Gud þiñ af øllu Hiarta, af allre

allre Saalu, og af øllu Hugskote, þetta er hid helsta og mesta Bodord, eñ añad er þessu liikt; Elska skalltu Naunga þiñ sem sialfañ þig; I þessum tveim Bodordum er iñebunded allt Løgmaal og Spaameñerner, Matth. 22, v. 37. 38. 39. 40. Ver vitum hvad Johannes seiger: Ef einhver seiger; Eg elska Gud, og hatar siñ Broodur, sa er Liugare, þvi hver hañ elskar ecke siñ Broodur hvern hañ ser, hvernig getur hañ Gud elskad þañ er hañ ser eige, og þetta Bodord høfum ver af hønum, ad hver hañ elskar Gud, sa elske og eirnig siñ Broodur. 1 Joh. 4, v. 20. 21. Af þessu siaum ver ad Guds Otte fyrer utañ Naungans Kiærleika, er til onytis, og þad, sa er eingeñ gudhræddur sem viliande giorer sinum Naunga rangt til. Fyrer vorn Naunga eiga ecke einungis ad skiliast vorer Ættingiar og Viner, helldur liika vorer Ovinér, framande, okender og aller Meñ sem vorrar Adstod-ar vid þurfa, hvad Drotteñ Christus liooslega syner med Eptirliikinguñe um þañ Mañ sem hras-adur var a medal Ræningia, þegar sa Skript-lærde spurde hañ hver siñ Naunge være, Luc 10, v. 29. 37. Gier þarfyrer Rett hverium Mañe, og elska hañ sem þiñ Naunga; Her med er ecke su Elska meint sem einungis er i Muñenum, þegar Meñ eru goodsamer i Ordum, helldur su sem fals-laus er og audsynd er i Verkunum, med þvi ad giora Naunganum Gott; Vilier þu vita hvad heyre til sañarlegrar Elsku til Naungans, þa les med Kostgiæfne igegn hins H. Johannis firsta Sendebref. Med sama Ordum: So attu sem Sañchristeñ, ad audsyna þig rettviisañ vid þina Naunga, ad þu giorer honum i aungu viliande rangt,

rangt, helldur allt Gott, og so þu viter þad betur, þa yfervega þa Reglu sem Christus hefur þer um þad gefed; Allt þad þer vilied Meñerner giøre ydur, þad skulud þer og þeim giøra Matth. 7, v. 12. Nu villtu, ef þu villt tala epter Samvitsku þiñe, ad eingeñ giøre þer Skada eda svike þig i Hondlaneñe med falskre Vigt eda Voru, eda svik-num Mæler, eda Peningum, eda liuge a þig, og bakmæle þer, eda bregde sitt Loford vid þig, eda med Underhyggiu og Rettarens Yfervarpe drage þitt Fe under sig, eda þreinge ad þer og þinum, eda arne þer Ills, og giore þer vondslega til; þa mattu ecke helldur neitt af þessu giora vid þiñ Naunga, ef þu villt kallast ad elska hañ af ein-lægu Gede; Giæt eirnig þess ad Gud lætur añars vid þig framkoma siñ Jafnadar Rett, og endur-gelldur þer, allt eins og þu hefur ødrum tilgiort, eins og þu hefur vid adra breitt, verdur aptur breitt vid þig, þo þiñ Naunge late þad kirrt vera sem þu hefur honum orett giort, samt straffar þiñ Gud þig fyrer þad, og bænheyrer þins Naunga Andvarpaner yfer þer, sem seiger: Med þeirre sømu Mælingu, hverre þer mæled ut, mun ydur aptur mælast, Luc. 6, v. 38. Þar i mot villtu, sertu i Volæde og Naudum, ad añar reise þig vid, ofte þer Goods, giore þer til gooda og vid-hialpe þer, hondle ærlega vid þig i Vidskiptum, hallde vid þig sinar Lofaner, giore þer Greida, og stode þig til þess ad þu faer halldeð Eign þiñe, og tale Gott fyrer þig, og vel um þig, far þu þa og gior slikt hid sama vid þiñ Naunga; Med soddañ Hætte elskar þu þiñ Naunga af Einlægne, og lifer rettferduglega epter þvi sem Johannes amiñer, seig-iande! **Elskum eige med Orde og Tungu, helldur**

med

med Verke og Hañleika. 1 Joh. 3, v. 18. Næst Elskuñe til þins Naunga· ætti 3) ad horfa ꝏ siælfañ þig, og lifa sparlega og hreinferduglega, vilier þu lifa christelega; þvi hvernig mæ sæ sem hefur Guds Otta i Hiartanu, adhafast þad vondt er i Dimuñe, og þo hañ se eirnsamañ med þvi hañ veit ad Gud er allt i kringum hañ, og giæter ad øllum hans Vegum? Christeñ Madur veit þad hañ æ ad vera Guds Mustere, sem Paulus seiger: Vited þer ei, ad þer erud Guds Mustere, og þad Guds Ande bigger i ydur, eñ hañ sem fordiarfar Guds Mustere, þañ mun Gud fordiarfa, þviad Guds Mustere er heilagt, hvert þer erud, 1 Cor. 3, v. 16. 17. So æ hañ hreinferduglega ad lifa, ad hañ saurge ecke siñ Liikama med Saurlifnade, og odrum Ohreinleika, hañ mæ ecke taka Christi Lime, og giøra þar af Skiækiuñar Lime, Cap. 6, v. 14. Hañ æ ad vita, ad eignast sitt Ker, þad er siñ Liikama, i Helgan og Heidre, og ecke Gyrndarbruna, sem Heidingiar, þeir af Gude eckert vita, 1 Thess. 4, v. 4. 5. Hañ æ eirnig ad vera sparneiteñ og hoofsamur, og læta sitt Hiarta ecke þingiast af Ofæte og Ofdrickiu og med Sorgum þessarar Næringar Luc. 21, v. 34. og giøra ecke siñ Kropp ad Afaude, helldur ræktia Hollded, þad er, læta þad hafa sina Naudþurst, eñ þo so þad fremie ecke sinar Gyrnder, Rom. 13, v. 14. Hañ æ ad eta og drecka til ad lifa, og sinu nætturlegu Life til Vidurhallds, eñ ecke lifa einasta til ad eta og drecka. Hañ æ ecke helldur ad saurga sig med vondum Listingum, ecke helldur ad kreinkia sina Gedsmune med onaudsinlegre Ahiggiu, ei helldur ad fortæra siñ Hiarta med Neide og Ofund, ei helldur læta i þvi

riikia Hofmood og Vrugyrnd, ei helldur iñtakast af Augyrne, helldur tiidka so þeñañ Heim ad hañ vanbruke hañ eige, þviad þessa Heims Friidleike forgeingur, 1 Cor. 7, v. 31. Christeñ Madur lifer hreinferduglega med sialfum ser, og audsyner i siñe Tru Dygdena, i Dygdeñe Vitsmunena, i Vitsmununum Hoofsemena, i Hoofsemeñe Poleñmædena. 2 Pet. 1, v. 56. Hañ leitast vid ad vera heilagur bæde i Liikama og i Anda. 1 Cor. 7, v. 34. Sia, miñ Vin! þetta tilhliider soñum Christeñdoome; Þañig aattu a Gud ad horfa, og lifa gudlega, a þiñ Naunga, og lifa rettferduglega, og a sialfañ þig, og lifa sparlega, þa ertu sañchristeñ og hagar þer rettelega.

## §. 9.

Þvi maattu ecke i þinum Christeñdoome gleima, ad keppast ei einasta epter ad naa Saaluhialpeñe, helldur eirnig frañgaanga stoduglega og orugglega a Veigenum til Himins, og ecke laata tefia syrer i Uppbirian þins Christeñdooms, muntu þad reina, ad Diofulleñ vill giøra þer allt til Ordugleika, og leggia margar Hindraner i Veg fyrer þig, til ad hallda þer fra þinu goodu Aforme, eñ laat hañ ecke fra þvi fæla þig, helldur gack frañ med Hugpriide, og tak allar Hindraner ur Veige; allrahellst maattu stoduglega asetia þer ad verda hoolpeñ, hvad sem þad kostar, og laata þer ecke leidast ad sækia epter þvi. Giør liika sem hugstor Hershofdinge sem asett hefur ad iñtaka þa Borg hañ hefur setst uñ, er geingur i gegnum Her Ovinaña, og geingur hardt frañ, hvad sem þad vill kosta. Þegar þu hefur þeñañ Asetning feinged, ad keppast epter fyrer Christi Krapt iñ ad gaanga uñ hid þraungva Hlided, og

og iñ þreingia þer i Himnariike, med Ofriike, þaa setur þu allar Torfærur ur Veige, og fyrerliitur allar Hættur sem þer mæta aa þinum Christeñdooms Veige. Eñ þar þvert i mot, hvar ecke er alvarleg-ur Asetningur til ad sækia epter Saaluhiaalpeñe, og Madureñ ætlar sér þo ecke, nema med hælfu Gede heñe ad naa, halldande þess i millum med Heimen-um, og fylgiande Syndeñe, þar er ecke helldur sañur Christeñdoomur, og med þvi sæst ecke Saalu-hiaalpeñ, helldur liidur hver Dagureñ af odrum, hver Vikañ af añare, hver Maanudureñ af odrum, og hvert Ared af odru, aadur hañ tekur til ad lifa sparlega, rettferduglega og gudlega, so miog er uggvænt ad Daudeñ kome aa medañ, og hrifse Mañeñ i burt, aadur eñ hañ er fareñ ad lifa sem Sañchristeñ; Hafe Ferdamadureñ ecke fastlega aa-sett ad reisa til eins viss Stadar, helldur slagar hingad og þangad, sinn siñe hvern Veg, þaa kemur hañ ecke siñe Reisu vel af; So kemst sa illa noog iñ um Liffens Hlid sem ecke setur sér fastlega fyrer ad gaanga med Snarræde og lettur i Spore, Veig-eñ sem þangad liggur. Seigdu þar fyrer; Eg vil naa iñ i Himnariike og verda hoolpeñ, hvad sem i Veigeñ setst fyrer mig, og mote mer kañ ad riisa; Eg vil iñtaka Riike Dyrdareñar, hvad miked sem eg maa hafa fyrer þvi, og þo eg tape þar vid bæde Fe og Fiore. Eg vil komast til ad skoda Guds Andlit, þo eg eige þad til ad viña ad þreingia mer i gegnum þusund Diøfla, og þo eg hafe allañ Heim-eñ mer aa mote, samt vil eg yfirviña alla mina Ovine fyrer Christi Krapt, fyrer Lambsins Blood, og fyrer Orded mins Vitnisburdar, og ecke elska mitt Lif allt til Daudans, Apoc. 12, v. 11. þvi eg formaa alla Hlute fyrer þañ sem mig mættugañ

giorer, sem er Christus, Phil. 4, v. 13. Þegar þu hefur so alvarlegañ Ásetning fyrer þig teked, þá tak strax til ad verka þina Sáluhiálp án allrar Dvalar, og hvad þu giorer þá gior þad fliott; Þviad ei má Madureñ láta standa vid þañ gooda Ásetning, helldur taka strax til med Árvekne ad láta hañ framkvæmast i Verkenu; Þar um seiger Petrus: Kiærer Brædur! Legged þess meire Kappsmune á ydra Kallan og Utvalning ad stadfesta, þvi ef þer giøred þad, munid þer eige hrasa, og mun ydur so riikuglega Iñgángur gefeñ verda i æfeñlegt Riike vors Drottens og Lausnara Jesu Christi, 2 Pet. 1, v. 10. 11. Þad vill vor Drotteñ Christus ad ver keppunst epter iñ ad gánga um hid þraungva Hlided, þad hefur þad griska Orded ad seigia, sem er ad beriast til þess allt til Daudans, hvad ádur er utskirt, so ad Madureñ hlidre hiá eingre Mædu, eda neinu Erfide til ad ná Sáluhiálpeñe; þvi þad er forgefens Von, ad vona Madur fáe hana, og kappkosta þad þo ecke, eda leggia nockurt Kapp á þad. Ef nockur Skipherra, er siglande fære um Siooeñ, vonade hañ kiæmest iñ á þá Hofn hañ villde med Skip sitt, þo alldrei legde hañ sinar Hendur ad Stioorntaumunum, eda segde ødrum fyrer þvi, einkum i Stormum og Storvidrum, munde þá toom Voneñ verka þad, eda munde hun ecke bregdast honum? Villde nockur giora lánga Reisu til eins Stadar, munde hañ komast þángad fære hañ alldrei af stad, eda biriade Reisuna? Eg ætla þo hañ i 10 Ar eda fleire hefde þá Von ad hañ feinge þad Land skodad, er hañ tilætlade, eñ tæke sig þo aldrei upp, til ad ferdast þángad, ad hañ sæe þad aldrei. Vilier þu iñkomast i Guds Riike mátt-tu ecke

ecke hætta vid toomañ Asetningeñ, helldur verdur þu ad kostgiæfa þad i Verkenu, og giora þer Erfide fyrer ad naa Velferd þiñar Saalar. Hiñ H. Kyrkiu Lærefader Augustinus spyr i einum Stad, hvad hin rike Madur, sem nu er i Helviite, munde giora, feinge hañ ad koma aptur i þetta Lif? Hvert honum munde þikia leidiñlegt ad taka uppa sig Mædu og Erfide? Eda hvert hañ munde ecke fastlega asetia ser, ad erfida þar uppa, ad hañ kiæmest ecke aptur i Kvalernar, helldur yrde hoolpeñ? Ecke er Efe a þvi ad hañ munde allt Kapp a leggia ad naa iñ i Himnariike, feinge hañ til þessa Leife, eñ ur Helviite er eingeñ Endurlausn. Liika so hefur þu, sem eñ ert i Lifenu, fulla Orsök til ad leggia Hond a Verked, asamt med Von þiñe, og erfida til ad odlast Koroonu Dyrdareñar. Haldt ecke vid þad kireu fyrer, ad Gud hefur lofad þer eilifu Life i Christo, sem Naadargiafu, helldur haf eirnig Kappsmune a ad faa iñgeinged til Lifsens! Gud lofade ollu Israels Folke þvi fyrerheitna Lande, þo komust þaangad ecke iñ af sex hundrad þusundum nema tveir Meñ, af þvi Folked hafde syndgad a mote Gude, Num. 26, v. 65. Eins geingur til um þad Himneska fyrerheitna Lifsens Land, hveriu Gud hefur ollum Moñum lofad i Christo, ad fæster faa þad þo, af þvi þeir sækia ecke alvarlega þar epter, so þad heiter sem Christus seiger: Marger munu, þad seige eg ydur, sækia til þar iñ ad ganga, og faa ei getad, þvi Marger eru kallader, eñ Fæer utvallder, Matth. 20, v. 16. Þar fyrer ferdu þad er ecke naog þu viter ad Gud vill ad aller verde saaluhoolpner, edur ad þu asetur þer þad ad verda, helldur attu ad hreña þad til þin, Matth. 11, v. 12. Striida attu til þess ad þu fæer

Lifsens Koroonu, vilier þu med Simeone i Fride fara, maattu i Heimenum Guds Þioon vera. Vilie nockur lærdur verda, maa hañ first ydka sig i Lærdoome, so maattu eirnig ydka þig i Gudrækne, vilier þu hoolpeñ verda. Pad var ecke noog ad Hnoss voru uppsett þeim til Launa er Vedhlauped villdu hlaupa i Gricklande, ei helldur þad þeir vissu af þvi edur vonudu ad naa þeim: þeir urdu liika ad qmaka sig til ad hlaupa til Maalsins; So er liika vared uñ Lifsens Hnoss, þar fyrer seiger Paulus: Vited þer ecke ad þeir sem Skeided hlaupa, pad þeir aller hlaupa, eñ eirn er sa sem Hnossed tekur, hlauped nu eirnig so ad þer høndled þad 1 Cor. 9, v. 24. Laatum oss afleggia Syndena, þaa oss jafnañ vid loder og letur, og hlaupa fyrer Þoleñmæde i þaa Orustu, sem oss er tilskickud, og liita til Jesum, þess Uppbiriara og Fullkomnara Truareñar, Ebr. 12, v. 12. Berstu goodre Baraattu Truareñar, høndla eilift Lif, þar til þu eirnig ert kalladur 2 Tim. 6, v. 12, Vert herkeñ, sem goodur Striidsmadur Jesu Christi, þo nockur beriest, verdur hañ ecke koroonadur, nema hañ beriest rettelega, 1 Tim. 2, v. 3. 5. Paulus syner sig sialfañ sem Epterdæme uppaa þetta, seigiande: Ecke þad eg hafe þegar høndlad þad, edur se fullkomeñ, eg skunda þar epter hvert eg giæte eirnig høndlad þad, epter þvi sem eg em af Christo Jesu høndladur. Kiærer Brædur! Eg hello mig sialfañ eñ nu ecke fyrer þañ, ad eg hafe þad høndlad; Eitt vil eg seigia; þad eg gleime þvi hvad til baka er, og dreg mig ad þvi sem i fyrer er, eg skunda ad þvi uppsetta Takmarke, epter þvi Hnosse, hvert framhelldur

þeirre

þeirre Himneskre Kallan Guds i Christo Jesu, Phil. 3, v. 12. 13. 14. Hliif þer ecke fyrer Mædu og Omake i þinum Christendoome, vilier þu hoolpen verda, og laat eingañ Hæska, ei helldur ordvuga Veige fæla þig þar fraa. Liika er þad torveldt ad verda riikur, þo laata Meñ þad ecke vid so bued standa, helldur giøra sier mikla Erfidesmune fyrer þvi, og uppþeinkia øll þaug Medøl þeir kuña, til ad komast yfer neckud; Giør med sama Hætte, og kosta Kapps uñ ad þu komest yfer Himnesk Audæfe; Giør eins og sa lærdur vill verda, eda audugur, eda sa iñteked nockra Borg, er þeir vilia framkoma siñe Fyreætlan, hverke leidest þeim Omak ne Erfide, og hverke spara þeir Ahuga ne Nætur-Vokur. Og eg kañ ecke ad seigia, þeir sem Gude þioona, gaanga a hans Vegum og keppast epter Himnariike, hafe meira fyrer edur seu meire Hættusemdum underorpner, eñ þeir sem Heimenum þioona, og a vondum Veige gaanga. Þegar nockur er a vondum Veige, og ætlar til ad stela eda hoorast, eda giøra eitthvad Illt, hversu mikla Ahiggiu hefur hañ fyrer ad koma þvi fram? Hvad opt hlitur hañ ad snua aptur, þegar einhver mæter honum, hvar af hañ bagast? Hversu hætt er honum ad verda gripeñ i sinu illa Erende? Eñ sa sem geingur Veigeñ til Himins, er miklu helldur frii fyrer øllu soddañ, og maa friihuga framgaanga; Og þegar hañ hefur framkomed sinum Christendoome nockud i Verk, verdur honum þad ecke leingur þungbært, helldur gerur hañ geinged med Gladværd a Vegum Drottens. Blaase Byreñ i Segleñ gaanga Skipeñ vel fram; Seu Hicoleñ i Sigurverkenu vel smurd med Vidsmiøre, geingur þad rett og vel; Blaase liika H. Aude ad þer med sinum Himneskum

Maadar Vindblæ, þa luckast þer vel þitt Aform; Eñ so þu farer ecke villt, þa spyr kostgiæfelega epter Guds Veige, liika sem Ferdamadureñ spyr vandlega epter þeim beinasta Almeñings Veige, edur Pioodbrautum, nær hañ vill giora langa Reisu um okendt Land, og nær þar um goodre Tilsøgn, so hañ standse ecke, helldur komest greidlega aa Baga siñ Veg. Ecke er þad eñþa noog til ad naa Saluhiaalpeñe, ad þu hefur aasett þer stoduglega epter heñe ad sækia, og ert fareñ ad giora þer Omak fyrer þvi, helldur verdur þu liika ad vera stodugur i þinum Framgange, og maatt ecke þar vid hætta, ne a þvi lina, ad beriast og keppast epter eilifu Life, allt þangadtil þu ert iñgeingeñ um hid þraungva Hlided til Liffsens, þvi hætter þu Gott ad giora, þa stodar þig liited þad þu hefur adur Gott giort. Hvad gagnar þad Hershofdingianum ad hafa asookt eina Borg med mikille Fyrerhøfn, til ad faa hana uñed, ef hañ ad heñe nærre þvi underlagdre, snyr fraa, og vogar ecke ad giora þa siidustu Atlogu? Er þa ecke allt þad hans Erfide forgefins? Hvad gagnar þad reisande Mañe, ad vera komeñ a Reisuna til ad skoda okendt Land, eñ koma heñe þo ecke af? Laatum Vegaleingd hans Reisu vera tvo hundrud Miilur, og hañ hefde afloked hundrad og niitiiu Miilum, so ecke være nema eitt hundrad epter, og hañ legdest þa kirr eda snere aptur, munde hañ þa geta skodad Landed? Allt hvad hañ hefde uppa þa Reisu kostad, og allt hvad hañ hefde orded a heñe ad þola af Ovedre, eda añare Mædu, være þa til onytis, og gagnade honum ecke meira, eñ þad þo hañ hefde vered kirr heima, og hverge fared. Þañig gagnar þad ei helldur christnum Mañe ad vera komeñ vel a Veg og hafa haft miked fyrer ad

naa

na eilifu Life, hallde hañ ei stoduglega afrañ þangadtil hañ hefur þvi nad. Ja, þo þu hætter ecke ad lifa christelega firr eñ einum Deige eda tveim Dogum adur eñ þu deyr, þa stodade allt þad hid Gooda sem þu hefder þangadtil giort þig ad eingu. Þvi ef hiñ Rettlate burtsniir ser fra sinu Rettlæte og breiter vondslega, og lifer epter øllum Sviviirdingum sem hiñ Ogudlege giører, skyllde hañ lifa? Allt hans Rettlæte sem hañ hefur giort skal ecke i Miñe leggiast, helldur skal hañ deya i sinum Syndum og Misgiørningum sem hañ hefur giort, Ezech 18, v. 24. Hver sem leggur Høndena a Ploogeñ, seiger Christus, og liitur a bak ser aptur, er ei hæfelegur til Guds Riikis, Luc. 9, v. 62. Hvad hialpade þer ad hafa adur liitelatur vered, verder þu siidañ dramblatur og farer ad upphroka þer med Heimenum? Eda ad hafa vered froomur i Umgeingne vid þiñ Naunga, elskad hañ, nut honum Goods, giort honum Gott og til Greida, farer þu siidañ ad giora honum illa til, vera honum falskur og fiar, og giora honum Ojofnud, Kugan, og Angurseme? Eda ad hafa i goodañ Tiima fyrerlited þad Tiimañlega, eñ tæker siidañ ad hegda þer epter Heimenum, hafa allskins Hegooma Athæfe i frame, og elska, sem Demas, Heim þeñañ, 2 Tim. 4, v. 10? Hvad ma þad stoda þig ad hafa þioonad Gude med allre Alvorugefne, og sookt epter Himnarike og Saluhialpeñe, ef þu stendur vid i þinum Christendoome og helldur ecke stodugt afrañ allt til Enda? Meinar þu ad þu muner fa nockur Laun þar fyrer? Vissulega alls eingeñ: Rettelega ma til þin kalla, so sem Paulus kallar til þeirra i Galatia. Þer hafed uppbiriad i Andanum, vilied þer þa i Hollde-

enu fullkomna þad? Hafed þer þꝏ lided so margt fyrer eckert? Gal. 3, v. 3. 4. Ecke mꝏ Striidsmadureñ leggia frꝏ ser Vopneñ, helldur beriast þꝏngadtil hañ hefur Ovinena ad Velle lagt, vilie hañ hafa Hroos og Laun hiꝏ sinum Konge. Þiooneñ mꝏ vera sinum Herra ꝏn Afslꝏts trur, skule hañ adstodast af honum til Frama. Þegar Keysareñ Ferdinandus Añar var kioreñ og kryndur til Keysara, i Borgeñe Frankfurdu, let hañ epter Konga Plagsid utdreifa Gull og Silfur Peningum, ꝏ hveria myndud var Hond komande ut ur Skye, og halldande ꝏ Koroonu, med þessare Yfer-skript: Þeim løglega beriast. Vilier þu hiꝏ Gude odlast Koroonu eilifs Lifs, þꝏ berst sem goodur Christi Stridsmadur, allt þꝏngadtil þu fær yferuñ-d, og hlaup so leinge ꝏfrañ Veigeñ til Himins, þar til þu nær Takmarkenu, og fær sem Sigurvegare Koroonuna, so þu meiger i Sañleika seigia med Paulo; Þegar Tiime þiñar Burtfarar er fyrer Høndum; Eg hefe goodre Barꝏttu barest, eg hefe Hlauped fullkomnad, eg hefe Truñe hallded, nu hedañisrꝏ er mer assiides løgd Korona Rettlætesins, sem Drotteñ hiñ rettlꝏte Doomare, mun mer ꝏ þeim Deige gefa, 2 Tim. 4, v. 7. 8. Þar fyrer seiger Christus: Hallt þu, hvad þu hefur, soad eingeñ take þina Koroonu, Apoc. 3, v. 11. Vert trur allt til Daudans, so mun eg gefa þer Koroonu Lifsens. Cap. 2, v. 10. Þvi hver stadfastur bliifur allt til Enda, sꝏ mun hoolpeñ verda, Matth. 24, v. 13. Hver yferviñur, sꝏ skal med hviitum Klædum klæddur verda, og eige mun eg hans Nafn utsletta af Lifs-Bookeñe, og eg mun jꝏta hans Nafn fyrer minum Fødur, og fyrer hans Einglum.

Apoc.

Apoc. 3, v. 5. Siaa! þanig aattu ad haga þer i þinum Christendoome, viler þu hoolpen verda, og taka vel Vara aa þessu þrenu, ad aasetia þer þad fastlega, hvad sem i vill skerast, ad laata þad komast alvarlega i Verk, ad keppast epter Saaluhiaalpenne, og hallda þer stoduglega aa Veigenum til Himens, og staldra ecke vid firr enn þu ert komenn ad Lifsens Porte, þaa keppestu rettelega epter inn ad gaanga umm hid þraungva Hlided til eilifs Lifs, og med soddann Hætte, bregdst þer ecke ad saa þinu Aforme framkomed, so þu getur sagt med Paulo: Eg veit aa hvern eg true, eg em fullviss, ad hann kann þad ad vardveita, hvad mer er til truad, allt til þess Dags, 2 Tim. 1, v. 12.

§. 10.

Uppaa þad þu bagest ecke af þinne Reisu til Himens, maattu ecke þingia þig nidur med þeim Hlutum, sem nidurtoga og sockva vilia, og giora þer Fararraalma. Þegar Ferdamadurenn tekur uppaa sig laanga Reisu, hledur hann ecke aa sig storum Byrdum ne Þyngslum, er seinka kunna hans Ferd, helldur ser hann lettklæddur af stad, og skilur allt epter, er honum maa til Þyngsla verda; So aa christenn Madur sem luckulega vill framkomast Veigenn til Himens, ecke ad þyngia sig nidur med morgum jardneskum Hlutum, helldur burtkasta þeim ur Hiarta sinu, so þeir seu honum ecke til Hindrunar, þvi þad er omogulegt ad saa sem elskar þad Tiimannlega, life sem hæfer sonnum Christendoome, eda stunde rettelega epter Himnariike, med þvi þad Tiimannlega, er eins og stor Klumba, fost vid hans Fætur, sem hindrar hans Reisu Framhalld. Þar fyrer seiger Christus; Riikur Madur kemur tor-

velldlega i Himnariike, Matth. 19, v. 23. Og Johannes seiger: Eige skulud þer Heimeñ elska, ne neitt þad i Heimenum er; Ef nockur elskar Heimeñ, i hønum er ecke Kiærleike Fødursins, þvi allt þad i Heimenum er, sem er Fysn Holdsens, Fysn Augnaña og drambsamt Liferne, þad er ecke af Fødurnum helldur af Heimenum, og Heimureñ forgeingur og hans Fysn, 1 Joh. 2, v. 15. 16. 17. Þar fyrer skal christeñ Madur ecke ofþingia sig med Sorgum þessarar Næringar, helldur jafnañ vera med friaalsu og glodu Gede. Sañchristeñ Madur er bæde aanægdur og oaanægdur; Hañ er aanægdur med allt þad Tiimañlega sem Gud gefur, og neiter þess og nyter ser þad med Þackargiørd, eñ hañ er ecke aasaatur med sitt Liferne, ad hañ lifer ecke i meire Heilagleika og Rettlæte, þvi hañ vill feigeñsamlega vera gudhræddare, þoleñmoodare, liitelaatare og dygdugre eñ hañ er; Þañig aattu ad hegda þer aa þiñe andlegu Reisu. Þeink uñ hversu allt þad Tiimañlega, Virdingar, Uppheſd, Ualld, Vegsemd, Audæfe og Vellistingar, er ostødugt, fallvallt, og snarlega forgeingelegt. Hversu fliott kañ sa Riike ad verda snaræktur, sa Haattvirdte forsmaadur, og sa Sæle vesæll? Eg meina Crœsus Kongur i Lydia reinde þad; Hañ spurde eittsiñ Soolon, eirn af þeim sio Gricklands Spekingum, hvert hañ þeckte nockurn þañ, sem hefde vered ser sælle? Hvar uppaa Soolon svarade, eingeñ mætte sæll kallast fyrer sitt Endadægur. Skomu siidar var Crœsus herttekeñ af Cyro Konge i Persia, edur Serklande, og dæmdur til ad breñast; Þaa hañ var ad Baalenu hafdur, took hañ aumkunarlega ad hroopa: O Soolon! Soolon! og er Chyrus let hañ adspyria hvad hañ meinte med þvi,

Þvi, svarade hañ ad Spekingureñ Soolon hefde sagt vid sig, ad eingeñ mætte sæll kallast fyrer siñ Afgang, og nu feinge hañ þad ad reina, sem hañ hefde ædur ecke truad; So sniist optlega tiimañleg Lucka i hina mestu Ogiæfu, og so er allt þad Jardneska hverfullt. Þegar Sesostris Kongur i Egyptalande hellt Sigurhroos, let hañ speña fioora Konga er hañ hafde i Striide yferuñed, fyrer siñ Vagn, i stadeñ fyrer Hesta til ad draga hañ. Þa eirn þeirra Konga eitt siñ þeir droou Vagneñ, horfde jafnañ uñ Oxl ser, til baka, og starde a Hiooled, spurde Sesostris, hvar fyrer hañ giorde so; hañ svarade: Þegar eg horfe a þad eirn og hiñ same Hlute Hioolsens er stundum ofaña, eñ strax aptur nidur vid Jord, þa þeinke eg a Luckuñar Hiool; þvi so diupt sem Luckañ hefur nidurfleigt oss, so hætt kañ hun ad hefia oss upp, og eins diupt kañ hun ad nidurkasta þer, sem hun hefur þig hætt upphafed; Uñ þad er þetta kveded:

Ymsar Bruuner eru a Vellte-Hioole
Under eda ofaña,
Allteins Luckañ fer med þa,
Heñi treista Heims a Vegaroole.

I Sañleika er allt þad Jardneska so a sig komed, hverju fallvallt er þad alltsamañ? Þetta villde ein froom Drottning i Englande seia sinum Herra Kongenum fyrer Siooner, sem elskade miog þad Tiimañlega, eñ skipte ser liited uñ þad Eilifa, med þvi hun let tilreida ypparlegt Gestabod, tiallda alla Hollena med diirum Vefnade, og dreifa alla vega fögrum Roosum og velluktande Bloomstrum, Saungvara framkoma med lystelegum Hlioodfæra Saungum, kræsta Rette af Mat og Dryck hid ægiætlegasta frambera, veitande Kongenum af allre Alud,

og

og hellt sig sialfa glada þar med. Dagen̄ epter let hun ollum þessum Skrautbunade i Skinde burtsvipta, og alla þaa somu Höll maka med Skarne og allskonar Oþeckt og leidde so Kongen̄ þar i gegnum; en̄ sem han̄ furdade storlega þessa snogglega Um̄breiting, sagde hun til hans; Min̄ kiære Herra Kongur; Hvad maa vera orded af allre ockar Vegsemd, Vellisting og Geds Anægd, sem vid hofdum i giær? Hveriu fliott Um̄skipte eru þetta? Æ allt eins er hattad þin̄e og min̄e Vegsemd, hversu fliott kan̄ hun ad hverfa og forganga? Vid þessa skinsamlegu Rædu Drottningaren̄ar, betrade Kongurenn sig nockud siidan̄. Sia þu! so er oll jardnesk Sæla, Glede, Audlegd, Upphefd, og Vellisting, hversul og fallvollt. Saladin Kongur i Egyptalande, baud ad epter hans Dauda skyllde hans Liinskirta vera boren̄ a Staung, fyrer hans Liikkistu, nær hun være utboren̄, og þar med uthroopud þesse Ord: Kongur Saladin hefur eckert an̄ad med ser i burt ur Heimenum, en̄ þessa Skirtu, an̄ad allt saman̄ hlitur han̄ epter ad skilia; Þar fyrer eru þeir Riiku sem einasta sækia epter Goodse og Peningum, Silke-Ormunum liiker, sem leggia hina mestu Alud a sitt Verk, eins og þeir ætle ad spin̄a ser miuka Sæng ad hvilast i, en̄ þegar þeir hafa utspun̄ed, leggiast þeir fyrer ad deya, eins og þeir hafe med þessu Moorebued ser sialfum Grofena. Eins liika ser þeim er leita sins hædsta Gooda, og sin̄ar helstu Unadsemdar i Riikdoome og odrum jardneskum Hlutum, þvi nær þeir hafa sliiku naad, leggiast þeir fyrer og deya, en̄ Saaler þeirra fara i eilifa Glotun; Um̄ sliika Men̄ heiter þad so sem Christus seiger: Vei ydur Audugum, þviad þer hafed ydar Huggun i burtu, Luc. 6, v. 24. Og hvad er tiiman̄leg

Upp-

Uppheſd og Virding þeſs verd ad epter heñe ſe ma-kaſlega ſokt, eda miſſeſt hun ecke i Daudanum? Hiñ mikle Alexarder Kongur fañ eittſiñ þañ viiſa Mañ Diogenem ma einum Greptrunar Stad, og ſpurde hvad hañ være þar ad giora? hvar til Diogenes ſvarade: Jeg er ad leita epter Beinum Kongſens Philippi Fodur þins i þeſſare ſtoru Beinahrugu ſem þu ſer her, eñ eg ſe eingañ Mismun ma ollum þeſſum Beinum, þvi get eg ecke funded Bein þins Fodurs, og hef ſo mitt Erfide til forgefins. Sañlega ſeſt ecke epter Daudañ Mismunur ma Beinum þeirra, ſem hafa vered hærre eda lægre Stettar, Riiker eda Fatæker, þvi þa þau eru fareñ ad rotna, er hvert odru liikt, og oll þeirra Vegſemd horfeñ: So heiter þad; Þetta er þeirra Hiarta, ad þeirra Huus mune vara eiliflega, þeirra Buſtadur bliife uñ Alldur og Æfe, og hafe mikla Virding ma Jordu, þo kuñu þeir i ſliikum Virdingum ei ad bliifa, helldur hliota þeir vid ad ſkilia ſem añar Fenadur; Lat ecke þad villa þig, þoott eirn verde riikur, edur þo Soome hans Huſs verde mikill, þviad i ſinu Andlate mun hañ eingañ Hlut med ſer taka, og hans Dyrd mun ei epter honum fara, Pſ. 49, v. 12. 13. 17. 18. Eirn Madur ſem horfde ma Umbilltning tiimañleara Hluta, let uppmala fyrer ſer Glerſtaup, til Hugar Jmindar med þeſſare Pferſkript: Skinande brotnar þad. Þeir eru liika ſem Graslundur Jonæ Spamans ſem varande viſnade, og ma rirnre Nootiu voor, og ma eirnre fyrerfoorſt, Jon. 4, v. 10. Jhuga þetta vel, og lat ecke þad Tiimañlega tefia fyrer þer ma þinu Chriſteñdoms Hlaupe. Gior ſem Vedhlaupararner, er med eingu þyngia ſig nidur, ſo þeir gete hvatlega hlauped; Til þeſſa viiſar Paulus chriſt-num

num Mõnum seigiande; Hlauped so ad þer høndsled þad, þad er Hnossed, hver sem slæst hañ varar sig vid øllu, þeir ad sõnu, uppa þad þeir ødlest forgeingelega Koroonu, eñ ver osorgeingelega, 1 Cor. 9, v. 24. 25. 26. Hañ geingur liika undañ þeim med sinu Dæme, sem hañ seiger: Eg hleip eige so sem uppa hid oviisa, eg slæst eige, sem sa er i Vindeñ slær, helldur tem eg miñ Liikama og þiae hañ v. 26. 27. Umþeink ad vid þad ferdu a mis vid Salubialpena, ad festa þitt Hiarta vid þad Tiimañlega, þvi þu geiur eige þioonad Gude og Mammon, Matth. 6, v. 24. Su Synd ad elska þad Tiimañlega, er noog til ad steipa Mañenum i eilifa Glotun, þo hañ añars varest adrar Synder. Eirn Malsvordur af oheilnæmum Mat kañ ad olla siukum Mañe Dauda, so kañ ein Synd ad spilla Mañsens Velferd. Þeink til þess ad ver hofum her eingañ bliifañlegañ Samastad, helldur eigum ad leita hins Tilkomande, Ebr. 13, v. 4. Giæt þess ad þu hefur eckert iñflutt i þeñañ Heim, þvi er þad opeñbert ad þu munt eckert med þer i burtu hafa, 1 Tim. 6, v. 7. Lat þer þvi nægia sem komed er, og ecke þad Tiimañlega draga þig nidur a Veigenum til Himens; Giæt ad þvi sunged er i vorre Kyrkiu:

Allt þad Veralldeñ er af full, 2c.

og tak þad allt ur Veige, sem þer kañ ad verda til Hindrunar, so þu faaer fullkomnad þitt Hlaup med Glede, og þad Kall sem þu hefur, sem christeñ Madur medteked, af Drottne Jesu Christo; Kepst einkum epter ad iñganga um hid þraungva Hlided, og ihuga þad vel, ad marger munu sækia til þar iñ ad ganga, og fa ei getad, so sem vor Frelsare seiger; og lat þig miked uñvarda ad fyrerliita þad Tiimañ-

Tiimanlega vegna þinar Velferdar, fær eina Orn i þinu Merke, sem siälldan setst a Jord nidur, helldur a Fioll og hafa Kletta, og horfer til Himins og Soolareñar, og skrifa þar hia þesse Ord: Þad er odaudlegt sem eg kiis mer!

§. 11.

Þegar þu ert bueñ ad setia allar Hindraner ur Veige, þa upporfa sialfañ þig til ad gaanga orugt-fram a þiñe Reisu; Þegar Vegferda-Madureñ vill koma siñe Reisu vel af, a almeñre Vegabraut, ma hañ smyria vel siñ Vogn, so hañ gange betur, so maattu eirnig bruka þau Medol, sem þer eru nytsamleg a Veigenum til Himens. Stande Vindureñ i Segl Skipsens geingur þad vel, eñ vante hañ, kemst þad ecke laangt, þvi þad getur ei siglt sialfkrafa; Aller erum ver af Naatturuñe later og treger til hins Gooda, þvi eigum ver og þursum, ad bruka þau Medol, sem giora os framfusa til ad fullkomna vort Hlaup farsællega. Þad firsta Medal, sem ver skulum hertil bruka, eru Gudrækelegar Umþeinkingar, sem drage vora Hiartans Þanka fra þvi Jardneska til hins Himneska. Viliet þu, goode Vin! lifa sem christnum hæfer, þa ven þig til ad smiida þer her og þar, gudlegar Umþeinkingar og saluhialplegar Jhuganer, af einu og odru, sem þu ser og heyrer, ad þu ætiid hafer þina Þanka helldur um þad Himneska og Saluhialplega, eñ þad Jardneska og Tiimanlega, þvi soddañ Jgrundaner uppvekia Mañeñ til Gudrækuis, Lofgiordar og Þacklætis vid Gud, Poleñmædis, Litelætis, Stoduglindis i þvi Gooda, og Vareigdar i Christeñdoomenum, sem añara Dygda, og þar med sniist hañ meir og meir, fra Heimenum til Guds, so þad

 i ollum

i ollum þinum Athofnum fare sem Paulus utheimter; Allt hvad þer giøred med Ord og Verk, þad giøred allt i Nafne Drottens Jesu, og þacked Gude og Fødur fyrer hañ, Col. 3, v. 17. Þegar þu vaknar a Morgna i Rume þinu, eda fer a Fætur, þa getur þu haft gooda Þanka, og medal añars þeinkt so med þer. Hversu margar þusunder Maña munu hingad og þangad uñ Heimeñ hafa i Nott upphrocked af Svefne, añadhvort fyrer Ovina Sverde, eda Elldsvoda, eda añare Neid sem uppeð þa hefur falled þeim til Onædis og Skelfingar, eñ eg hefe ohulltur sofed roosamlega under Guds Varatekt, og ecke skelfst fyrer Ogn Nætur nar, ne þeirra Drepsoott sem i Myrkrunum lædest? Ps. 91, v. 5. 6. Hversu morgum þusundum Maña mun sa rettviise Gud hafa a þessare Noottu uñ heilañ Heimeñ burtrykt i þeirra Syndum og Vantru, og nidurhrunded þeim i Helvite, sem nu ecke liggia eins og eg a miukre Sæng, helldur i Diikenu sem af Ellde og Breñesteine logar? Hver veit nema marger af þeim hafe ecke syndgad nærre so miked sem eg, og sa rettviise Gud hafe þo ecke so leinge þirmt þeim sem mer, helldur burtkastad þeim epter sinum rettviisum Doome? Med hveriu hef eg þad forþenad ad vera eñ nu vid Liide fyrer Guds Nad, og hafa Tiima til ad snua mer til Guds, og bera Uñsorgun fyrer miñe Saaluhiaalp? Eg hefe Orsok til ad kalla upp med Gydingaña Samkundu. Goodgytne Drottens er þad ad ver erum ecke øldungis utgiørder, hans Miskunseme hefur eingañ Enda, helldur er hun ny hvern Morgun, og hans Truleike er mikill. Thren. 3, v. 22. 23. Soddañ Uñþeinkingar kuña ad koma þer til sañrar Audmyktar, Uñvendunar

unar og Packlætis vid Gud. A Kvollden̄, þegar þu geingur til Sængur og fer ad hætta, kantu aptur ad hafa gooda Þanka, og þeinkia so og seigia vid sialfan̄ þig. Nu ertu komen̄ einum Deige nær Daudanum, en̄ þu varst i giær, og þar med an̄ad-hvert nær Himnariike eda Helviite; hvernig er ästadt mille Guds og þin? Ertu viss um̄ ad þu sert i hans Naad, eda hvar af veitstu þad? Hefurdu ecke syndgad i Dag, med Vilia og af Asetninge æ mote hans Vilia, og giort neina Mootvilia Synd? Og giæt þess vel, ad þad kallast her Mootvilia Synder, sem Madurenn giorer af Illvilia; Illgyrne og Mootþrooa, af Ottaleyse vid Gud, epter sinum eigen̄ illum og spilltum Vilia, æ mote Guds Vilia, en̄ þad kallast þar fyrer utan̄ Breiskleika Synder, sem Madurenn giorer oviliande mote sinum eigen̄ Vilia, af Ovarleika, Fæviisku, edur æstrydande Breiskleika, sem han̄ an̄adhvert getur ecke mootstaded, eda þecker ecke Synder vera; og an̄ars kallast huldar Synder, hveriar han̄ æ þo ad leitast vid ad læra ad þeckia, þeirra eirnig ad ydrast, og þeirra Straff ad afbidia, äsamt ser fyrer þeim vara ad taka, af fremsta Megne, so þær verde ecke ad Andvaraleyses, og þar med Illvilia-Syndum. Ef Gud i Noott burtkallade þig ur Heimenum fyrer tiimanlegan̄ Dauda, eda Christus kiæme til Doomsens med Reidarþrumum og Elldingum, og þu vid þad uppvaknader, ad þu heyrder þetta i gegnum Svefnen̄, med þvi stora Hroope H. Eingla, og Guds Ludurs Hlioode, muntu þæ ecke þar vid skelfast? Ertu þæ reidubuen̄, so þu sert verdugur til ad um̄flia allt þetta hvad epterkomande er, og standa so fram̄e fyrer Man̄sins Syne? Luc. 21, v. 36. Soddan̄ Þankar sæ þad adgiort;

 ad

ad þu leggest ecke til Hvilldar, firr eñ þu hefur æfingast af þinum Syndum og afbeded þeirra Straff; Þegar þu situr til Bords og matast, gior þer soddañ Þænka, sem kuña ad asiisa þitt Hiarta, til ad losa Gud og þacka honum; Hægt er ad læta Steineñ vellta ofañ af Hæd nockre, so fyrer þvi þarf ecke miked ad hafa, af þvi hans Nattura er ad sockva og siiga nidur, eñ ad koma honum uppa hana, þad kostar meire Fyrerhøfn; Ver erum af Natturuñe til hins Vonda hneigder, til þess Jardneska og Tiimañlega, so Fyrerhafnarliited er fyrer Mañeñ ad læta þad ser i Hug koma, eñ eige hañ ad snua sinu Hugferde til hins Gooda, a þad ma leggia mikla Alud og Astundan. Þeinktu þar fyrer a medañ þu ert Fæduñar ad neita; a hverium Akre mun þetta Braud hafa vaxed? J hveriu Vatne munu þesser Fiskar hafa veidst? og so framveigis; Adrer eñ eg hafa med þungu Erfide plægt og sæd þañ Akur i sins Andlitis Sveita, eñ eg hef eckert fyrer þvi haft, þo fæ eg nu ad neita þess, og maske Korned i þessu Braude, se vaxed her og hvar i morgum Akurlondum; þo niit eg nu þessarar Guds Blessunar? Kome eirn fatækur Þurfamadur a medañ, og bidie Olmusu, þa þeink nær þu retter ad honum Bita. Eg sit her uñ kirrt i Huse minu, og neite Matar, eñ þesse Vesælingur ma fara a Husgange, og sniikia ser ut Fædu; Hvar fyrer mun Gud hafa gefed mer Braud, eñ honum ecke? maske hañ se þo froomare eñ eg: Liiter þu eirnig a medañ a þiñ Husbunad, kantu ad þeinkia: Hvar mun þad Tin vera vaxed sem er i þessare Skal, og i hveriu Bergverke uppgrafed? J hverium Skoog, mun þad Tre hafa staded, sem þetta Bord, eda þesse Skapur er afgiordur? Þetta hefur

hefur Gud lꝍted vaꝛa mer til Nota, mꝍske ꝍdur eñ eg var fæddur, og ſed þañig fyrer miñe Þorf fyrerfram. Þetta hrærer þitt Siñe til ad giora Þacker Gude þinum, og epter Mꝍltiidena ad undertaka med Syrach: Giøred aller Gude Þacker, ſem verkar mikla Hlute i øllum Attum, Syr. 50, v. 24. og ad ſeigia med David Kong: Nu vor Gud, ver þøckum þer, og gøfgum þitt Dyrdareñar Nafn, þvi hvad er eg, og hvad er mitt Foolk, ad ver ſkylldum hafa Valld til viliuglega ad gefa, ſem nu ſker? þvi þad er allt komed af þer, og af þiñe Hende høfum ver þad gefed, þer liika ſem aller vorer Forfedur, vort Lif á Jørduñe er liika ſem Skugge, og þar er eingeñ Dvøl, 1 Paral. 30, v. 13. 14. 15. Komer þu i nockurn Alldengard og liiter þar á Averte Triꝍña, þá þeink ſo ad Gud hafe liika ſett þig i Alldengard ſiñar chriſtelegrar Kyrkiu, og i ſiñ Viingard, ad þu ſkyllder Averte fꝍra honum til Dyrdar, eñ hefurdu hingadtil fært nockra gooda Averte? Hefurdu vered ſem Vidartre, þad rootſett er hiá Vatns-Lækium, hvert ed bar ſiñ Avoxt á ſinum Tiima, og hvers Laufblod ecke viſna, Pſ. 1, v. 3. Eda mun Gud helldur hafa Orſok til ad klaga ſo yfer þer: Hvad ſkylldu Meñ meira giøra vid miñ Viingard, þad eg hefe ecke vid hañ giørt? Hvar fyrer hefur hañ þá ſuur Viinber af ſer gefed, þá eg vonade hañ munde ſæt Viinber af ſer gefa? Eſ. 5, v. 4. Mꝍſke Guds Rauſt ſe allareidu utgeingeñ, og hans Doomur yfer þig felldur, ſem þad ávartarlauſa Fiikiutred; Siá, nu i 3 Ar hef eg ꝍrlega komed og leitad Avartar, af þeſſu Fiikiutre, og funded eige, hogg þad þvi af, hvar fyrer hindrar þad Graslended?

Luc. 13, v. 7. Þu hefder mæſke fyrer laungu, med Guds Reide Ore upphoggveñ vered, og i Helviitiſkañ Elld kaſtadur, hefde ecke ſa Himneſke Viingards Madureñ Jeſus Chriſtus beded fyrer þer og ſagt, Herra! Loſa þvi ad ſtanda þetta Ared, þar til eg gref uin̄ þad, og læt ad Myke, ef þad villde ſo Avoxt færa, eñ ef ei, þa hogg þad epteræ af, v. 8. 9. Soddañ Þankar kuña ad upperſa þig til ad vera avaxtarſamur i ollum goodum Verkum, og vara i Guds Vidurkeñingu, Col. 1, v. 11. Sertu i Brudkaupe, hvar allskonar Fæda og Dryckur er frambored, og þu fær ad heyra Hlioodfæra Saungeñ, þa lat þer i Hug koma Lambſens Brudkaup, og þa Himneſku Eingla-Saunga i eilifu Liſe, og hugſa med þer: Munum ver aller ſem her erum nu til ſtadar, komaſt um̄ ſiider i Brudkaup eilifs Lifs, og ſa ad ſitia til Bords med Abraham, Iſaac og Jacob i Riike Himnaña, Matth. 8, v. 11. Þetta mun ſrahallda þer ad giora miked af jardneſkre Glede, eda misbruka hana. Þegar þu heyrer Sigurverked ſla, eda Kluckna Hlioodeð, þa þeink, nu er ſem hringt ſe fyrer Liike, og þad er liika ſo, þvi ſa lidne Tiime, er liika ſem i burtu daudur, og keimur aldrei aptur ad eiliſu, eñ i Eilifdeñe teliaſt hverke Tiimar ne Dagar, helldur er i heñe añadhvert eilif Sæla, edur eilif Veſæld, hvers vegna þu att til þeſs ad ſtunda, ag epter þad þitt tiimañlega Lif er utlided, meiger þu eignaſt eilifa Velferd. Vere fyrrr þig blindur, daufur, edur i einhvern handa Mata vanfær Madur; þa þeink: Þeſſe Mañeſkia ma vera til frids med þad Gud hefur a hana lagt, eñ mig hefur hañ heilbrigdañ giort, hef eg þo þackad honum fyrer mina Sioon, Heyrn eda Heilſu? Opt er eg ecke ſattur med mitt

Astand, þo eg hafe Heilsu og heila Lime. Hveersu feigeñ villde þesse Mañeskia hafa Viite vid mig, og feinge hun þad, þa mæske hun giorde Gude þar fyrer þusundfalldar Packer. Soddañ Umþeinking mun giora þig bæde ánægdañ, og þacklátañ. Siáer þu Ura leiddañ til Slátrunar, þa þeink; Þesse Uxe hefur ecke vit á hvad vid hañ á ad giora, visse hañ þad, þa slite hañ sig lausañ og hlype i burt. So fara Heimsins Born i Ovite og Fyslsku til Helviitis, og vita ecke ad þeirra Lif er i Vede, og þeirra Æfelok verda hormuleg: Þau fylgia Dioflenum eins og Nauted Slátrunarmañenum, og flüte ser, liika sem Fügl til Snoruñar, er ecke veit ad þad kostar hans Lif, Prov. 7, v. 23. O være þeir hyggner og kyñe ad formerkia sliikt, so ad þeir underskiæde þad, hvad yfer þa mun her epter koma, Devt. 32, v. 29.

Gef mer, O Gud, ad eg gange ecke i Rade Oguddlegra, ne helldur stadnæmest á Veige Syndugra, eda sitie á Stoole Hadungarmaña. Ps. 1, v. 1. helldur ad eg gange beinañ Veg til Himens, og keppest epter iñ ad ganga uñ hid þraungva Hlided til eiliifs Lifs.

Heyrer þu nockur se dáeñ, eda hafe med einhverium Hætte látest, þa þeink; Þesse er iñgeingeñ i Eilifdena, og hefur feinged siñ Doom hiá Gude, hans Astand breitest aldrei hedañ af ad eilifu, hvort sem hañ hefur hiálpast eda fortapast, þo skalltu eingañ fordæma med þinum Hleipedoomum, þvi so er skrifad; Dæmed eige, so ad þer dæmest eige, fordæmed eige, so ad þer fordæmest eige, Luc. 6, v. 37. helldur fær þer einasta hans Fráfall i nyt, hafe hañ sáluhiálplega dáed, hvad skadar hañ þa allt þad Andstreime, sem honum hefur

i Heimenum ad Hondum bored? Eñ hafe hañ dœed osœlum Dauda, hvad gagnar honum þa allt þad Tiimañlega sem hañ hefur under Hondum haft? Er þad nu ecke allt honum horfed? Hañ fær aldrei þeñañ Heim framar ad sia firr eñ a efsta Deige, þa hañ i hans Upprisu skal af Ellde uppbreña; Liika kemur eittsiñ ad minu Endadœgre, og viis er mer sa Dagur a hverium sagt verdur, ad eg se daudur; þar fyrer vil eg keppast epter iñ ad ganga uñ hid þraungva Hlided til eilifs Lifs, þvi hvad stodar mig þad, þo eg iñe allañ Heimeñ, eñ lide Tioon a Saalu miñe, Matth. 16, v. 26. Være ecke sliikum Mañe betra hañ hefde aldrei fæddur vered? Matth. 26, v. 24. Sia, kiære Vin! Med þessum Hætte attu ad hafa allslags saluhialplegar Umþeinkingar, ad þu uppveker þig alltiid til þess sem Gott er a Veigenum til Himens, og ganger hañ so friimooduglega. Vid þetta uppbyggest Madur miked i sinum Christeñdoome, og kañ ecke ad trua hvad miked Gott soddañ Umþeinkingar verka i hans Hiarta a hans Veige; So fer christnum Mañe i þessu sem Skipe, er fyrer goodañ Byr kemst luckulega til Hafnar. Soddañ Jhuganer forsoomar ecke sañchristeñ Madur, þvi oll Nattuurañ gefur þar til Efne, og þad er liika sem oll Skepnañ kalle til þin, og seige: Af þessu skalltu þeckia og priisa þiñ Skapara, þvi Himnarner framtelia Guds Dyrd, og Festningeñ kuñgiorer Verk hans Handa, eirn Dagureñ seiger þad odrum, og hver Nootteñ kuñgiorer þad añare Ps. 19, v. 2. 3. Og giæt ad Pauli Amiñingu er hañ seiger: Hvert þer eted eda drecked, og hvad þer giøred, þa giøred þad allt til Guds Dyrdar, 1 Cor. 10, v 31.

§. 12.

§. 12.

Pad añad Medal, sem framhelldur Þinu Christeñdooms Hlaupe, er gudrækeleg Heyrn og Lestur Guds Ords, med Þess gaumgiæfelegre Jhugan og Eptertekt, an hvers Þiñ Christeñdoomur kañ ecke ad vera sañur, ei helldur Þiñ Framgangur farsællegur a Himensens Vege; Liika sem Mañsens Liikame Þarf Fædu og Dryckiar vid, skule hañ ei vanmegnast, Þvi vante Ferdamañeñ Þetta a siñe Reisu, kemst hañ ecke afram, helldur ma hañ liggia og uppgefast, so sem Christus sagde um Folked sem vered hafde hia honum Þria Daga, og eckert til Matar haft; Ef eg læt Þa fastande fra mer fara, verda Þeir hungur morda a Leideñe, Þviad sumer voru langt adkomner, Marc. 8, v. 3. So hefur Mañsens Saal Þorf Þeirrar andlegu Fædu, skule hun ecke bilast, hvar fyrer christeñ Madur a jafnañ ad hafa hana hia ser, so hañ hafe Kraptana, og su Fæda er Þad saña og lifande Guds Ord, Þvi seiger Christus: Verked Fædu, ecke Þeirrar sem forgeingur, helldur Þeirrar sem stødug bliisur til eiliss Lifs, Joh. 6, v. 27. Og su Saalarfæda, Guds Ord, er ei forgeingeleg, so sem Petrus seiger, ad christner Meñ seu endurborner, ei af forgeingelegu, helldur af oforgeingelegu Sæde, sem er af Þvi lifanda Orde Guds, Þad æfeñlega bliifur. 1 Pet. 1, v. 23. Þar fyrer syngur vor Christne Þañig:

O Þu Heidre ha
H. Þreñing eina!
Oss Lifs um Skeid al a
Orde Þinu hreina! 2c.

Og so:
Se vor tvist, Skal fyrst
Sødd af Þinu Orde! ꝛc.

Þañ Krapt hefur Gud lagt i sitt gudlega Ord, ad það kañ ei einungis ad umvenda Moñum, og leida þa rettañ Veg til Himens, helldur ad vidhallda þeim eirnig a Veigenum, og giora þa hiaalplega þegar þeir yfervega það rettelega, og leggia það a Hiartad, þvi það er Kraptur Guds, sem hiaalplega giorer alla þa sem trua. Rom. 1, v. 16. Eñ hvad þa rettu Verkan Guds Orda hindre, það er adur skiirlega sagt i fyrerfarande XII. Capitula. Nu viljum ver syna hvernig christeñ Madur eige Guds Ord ad yfervega, sem Medal til ad efla hans Christeñdooms Framfor. Vilier þu, liufe Lesare! Guds Ord yfervega þer til Uppbiggingar, þa gaumgiæf nockud bæde fyrer og epter, og liika amedañ þu heyrer eda les það. A undañ þess Heyrn eda Lestre skalltu i firstu helst umþeinkia, hversu mikil Nad það se ad fa heyrt og lesed það hreina og saña Guds Ord, hveriu þo er svipt i burt, epter Guds rettviis-um Doome fra morgum þusundum Maña, er þess vegna meiga uppgefast i sinum Syndum, vegna hverra Gud hefur sendt Hungur i Landed, ecke Hungur epter Braude, edur Þorsta epter Vatne, helldur epter þvi ad heyra Ord Drottens, Amos. 8, v. 11. Umþeink þar næst, ad ecke giorer þu það Gude til Nota, ad þu heyrer og les hans Ord, helldur veiter hañ það þer til Nota. Þegar þu fer ut i Soolskined til ad varma þig, giorer þu Sooluñe nockurn Greida med þvi, eda giorer hun þer ecke helldur Nytseme med þvi ad varma þig? Þegar Læresveirnen kemur til ad heyra sins Skolameistara Undervijsun, hvor þeirra giorer þa odrum Gagned? Þu munt

seigia,

seigia, ad Soolen og Skolameistare giøre Nytsemena: Eins er þvi hættad, þegar þu heyrer og les Guds Ord, þeink þvi, ad þar med vill Gud giøra þer til gooda, fræda þig, siua þer, og giøra þig hoolpen. Nær þu þetta hugleider, þá underbiir þu þig betur til ad heyra Orded, og heyrer þad med stærre Virdingu; En first á Underbuuningunni ad gioraſt sem naudsinlegur er, á þan Hætt, ad þu slær frá þer allre Veralldar Ahiggiu, og annarleaum Þaunkum, ad þu geter upplipt þinu Hiarta og Sinne til Guds, og teked epter Ordenu, soad Sæde Guds Orda fære Avøxt i þinu Hiarta; Hiá þeim sem hafa Hiartad, á medan þeir heyra þad, fullt af Veralldar Umsorgun, kan þad ecke Avøxt ad færa, þvi þad fellur i millum Þyrna, Sorga, Audæfa og Vellistinga þessra Lifdaga, og kiæfest nidur, Luc. 8, v. 14. Þeink med þer, þegar þu fer til Kyrkiunnar: Nu fer eg til þess Stadar, hvar Gud med øllum H. Einglum er nærverande; Han hefur skickad ad þar skule vera Minning sins Nafns, þvi vill han koma þangad til min og blessa mig, Ex. 20, v. 24. Þeinktu, nær þu heyrer Klukkunne hringt, til Predikunarennar; Nu er Guds Riike nalægt; nu skal Evangelium Riikesens predikast i allre Christnenne, so sem vor Frelsare seiger, Matth. 24, v. 14. Nu kemur Guds Riike til vor; so sem ver bidium i annare Bæn i Fader Vor, og seigum, Til kome þitt Riike! Nu liikar Sathan þad stoorlega illa, ad bæde eg og adrer erum innkallader til ad þioona Gude, og bodner til Guds Riikis, þvi han veit ad margur kan þar vid ad losna ur hans Snorum; Haf soddan Þanka þegar þu geingur til Guds Huss, og tilreid þig soleides ad heyra Guds Ord. Þetta er þad sem Salomon seiger: Vakta þinn Foot, nær þu geing-

ur i Guds Huus, og kom so þu kuñer ad heyra. Prov. 5, v. 1. Þegar þu ert iñkomeñ i Guds Huus, þaa þeink so: Saññlega er Drotteñ i þessum Stad; Hversu heilagur er þesse Stadur, her er ecke añad eñ Guds Huus, og her er Hlid Himens, Gen. 28, v. 16. 17. Tak siidañ til ad bidia þiñ Gud audmiuklega, ad gefa þer her ofañ ad Anda Vitsku og Skilnings, Anda Raads od Stirkleika, Anda Þeckingareñar og Otta Drottens, sem upplyse þiñ Skilning, helge þiñ Vilia, efle þina Gudrækne, og opne þitt Hiarta sem Lydiæ þeirrar er Purpurañ sellde, Act. 16, v. 14. So þu giæter ad, hvad af Guds Þioonum til þin sagt verdur i Christi stad, andvarpa eirnig soleides til þins Guds. O Gud miñ Himneske Fader, send þina Speke og þiñ H. Anda hingad ofañ af þinum H. Himne, og af þinu Dyrdar Velldis Sæte, send hañ, so hañ se hiaa mer og erfide medur mer, so eg kuñe ad skilia hvad þer vel þocknast, þvi hañ veit alla Hlute og skilur þaa; Laat hañ leida mig skickañlega i minum Verkum, og vardveita mig fyrer sina Vegsemd Sap. 9, v. 10. 11. Laat þiñ gooda H. Anda kroptuglega verka i minu Hiarta, so þad H. Guds Ord uppbigge mig i minum Christeñdoome, auke mer Truna, giore mig avaxtarsamañ i ollum goodum Verkum, og um siider eiliflega hoolpeñ. Opna Drotteñ min Augu, so eg siaae þaa furdañlegu Hlute i þinu Logmaale; Viisa þu mer Drotteñ! Veigeñ þiña Rettinda, soad eg vardveite þau allt til Enda; Underviisa mer, so eg vardveite þitt Logmaal, og hallde þad af ollu Hiarta, Ps. 119, v. 18. 33. 34. Drotteñ opna þu minar Varer, soad miñ Muñur kuñgiore þitt Lof, Ps. 51, v. 17. Amen. Edur andvarpa

varpa so til Guds, ædur eñ þu ser til ad heyra Guds Ord, eda lesa þad i H. Ritningu, edur ødrum Bookum:

Ord þitt vil eg ydka og læra,
Avoxt gef þad meige færa,
Blessadur i Brioostꝛe mer ꝛc.
Edur so:
Lææt mig ydka Ord hrein,
Og elska Nafn-þitt! ꝛc.

Þañig ættu ad tilreida þig under Guds Orda Heyrn, og einkum bidia Gud iñelega uñ sina Nææd og H. Anda, sem hañ neitar þer ecke, hvi vor Frelsare seiger: Med þvi þer sem vonder erud, kuñed goodar Giafer ad gefa Børnum ydar, miklu meir þaa mun Fadereñ aa Himnum, gefa þeim H. Anda er hañ bidia, Luc. 11, v. 13. Og Jacobus seiger: Ef nockurn vantar Viisdoom, hañ bidie af Gude, sa er einfalldlega gefur hverium Mañe og bregdur eingum þar uñ, so mun hañ hønum gefast. Jac. 1, v. 5. Eñ kome nockur otilbueñ, aan allrar Gudrækn is og Virdingar hlaupande til ad heyra Guds Ord, þaa er eingeñ Furda, þo þad fære ecke Avoxt i hans Hiarta, hafe þad hingadtil ecke rettelega hiaa þer verkad, þaa mææske þu hafer þig ecke helldur med soddañ Hætte under þad bued, þaa serdu hvar ad rekur, og ad Skulldeñ er hiaa sialfum þer; Firſt þu veitſt nu þetta betur, þaa betra þig, og bu þig rettelega til ad heyra Guds Ord, og lesa þad, so þad fære hiaa þer Avoxt, og verde þer Medal Saaluhialpareñar; þarfyrer aamiñer Christus alla sina Tilheyrendur, med þessum Ordum: Giæted ad hvernig þer heyred, Luc. 8, v. 18. Sem villde hañ seigia; Þad er ecke noog ad þer heyred og lesed Guds Ord, helldur heyred þad rett, so

sem

sem hæfer, og þvi seiger hañ eirnig: Giæted ad hvad þer heyred. Marc. 4, v. 24.

§. 13.

Hafer þu so underbued þig sem nu er sagt, attu eirnig ad taka vara a nockru, a medañ þu heyrer og les Guds Ord. J first u maattu þa ecke laata þina Þanka flokta hingad og þangad, helldur attu med Gaumgiæfne ad taka epter þvi, sem þu les eda heyrer. Her a þad heima sem Christus seiger: Hver þad les, eins liika, hver þad heyrer, hañ hygge þar ad, Matth. 24, v. 15. Þarfyrer skalltu a medañ hafa gudrækelegt og eptertektasamt Hiarta, eige Drottens Ord þer til Nota ad koma, þvi Eyru þeirra sem tilheyra, eiga ad þvi ad giæta. Es. 32, v. 3. Og Paulus aminner so: Þarfyrer byriar oss ad tæsa þess framar Gaum ad þvi Orde sem ver heyrum, so ad ver ecke førunst, Ebr. 2, v. 1. Þad er, ad ver laatum þad ecke hlaupa fram hia vorum Eyrum, og Hiortum, eins og þad Skip er under Segle i Skinde framhia strïdur: So ad þu taker þess betur epter þvi med Gudrækne, þa giæt þess ad Diofulleñ geingur uñ kring liika i Guds Huse, til ad hindra Guds Ords Krapt i Tilheyrendaña Hiortum, soad þad sem er Jlmur Lissens til Lissens, skule verda þeim Jlmur Daudans til Dauda, sem Paulus adkvedur, 2 Cor. 2, v. 16. Giæt þess er Christus seiger, ad Diofulleñ kome, og take Orded ur margra Tyrheyrenda Hiortum, so þeir true eige, og verde hialpleger, Luc. 8, v. 12. Þess vegna attu ad gefa þig til goodrar Epterteklar þegar Predikuneñ biriast, og laat sem þu seiger til þins Keñemans i Hiarta þinu, þad sem Hofudsmadureñ Cornelius sagde vid Postulañ Petrum,

Petrum, þa hañ kom i hans Huus. Nu erum ver her aller nálæger fyrer Gude, til ad heyra þa alla Hlute, sem þer eru af Gude boðner, Act. 10, v. 33. Ef eirn Kongur, sitiande i sinu Hásæte, talade, byde eda upplæse nockud, mundu ecke þeir sem tilheyra taka vel epter þvi? Meñ sia hvad mikil Kird og Þogn gioreſt a medal Folkſens, og hverſu vel er Hliood gefed, þegar nockur volldugur Tignar Herra ſkal hillaſt, og Hollustu Eydureñ ſem Underſatarner ſkulu viña, eda nockur Lagaſetningur er i hans Nærveru uppleſeñ; þeinktu liika ſo þegar Guds Orda Keñing biriaſt, ad nu vilie hiñ Mikle og Háſe Gud tala ſialfur til þin fyrer ſina Þenara, þvi meiger þu taka vel epter þvi ſem Chriſtus ſeiger: Hver ydur heyrer, hañ heyrer mer, Luc. 10, v. 16. Eins og þu villder vera athugaſamur, ef Chriſtus ſtæde frame fyrer þer, og talade vid þig i eigeñ Perſoonu, eins átt þu ad vera, þegar þu ſer hans Þioona talande i hans Stad, hans Ord fyrer þer, og ſeig med Samuel i Huga þinum; Tala þu Drotteñ, þvi þiñ Þenare heyrer þad. 1 Sam. 3, v. 10. Þeinktu under Predikun: Máſke þad ſe nu i ſeinaſta ſiñe, eg verd vid Predikun i Heimenum, og heyre Gud i ſinu Orde til min talande i þeſſu Huſe; Þetta hefur fyrer margañ komed, ſem ecke hefur til þeſs þeinkt, og ma þvi upporfa þig til þvi meire Gudrækne. Auk þeſſa biriar þer a medañ þu heyrer eda les Guds Ord, ad medtaka þad med Lotningu og Liitelæte, ecke ſem Mañaña Ord, helldur epter þvi ſem þad ſañarlega er, ſem Guds Ord. 1 Theſſ. 2, v. 13. Þu átt ad ihuga, hver hañ er, ſem a tal vid þig, ſem er hiñ Háſe og Vollduge Gud, Drotteñ yfer ollum Drottnum, og Kongur yfer ollum Kongum, Apoc. 17, v. 14. Sa Drotteñ

ſem

sem Sælu og Life getur tortiint i Helviite, Matth. 10, v. 28. Ottest Meñ ecke ne bligdest fyrer hans hæsu Hætign, eñ fyrerliite helldur hans Ord; Sæ Drotteñ fyrer hverium þeir H. Einglar og Seraphim, hylia, fyrer Virdingar og Æruveitinga Saker sin Andlit, Es. 6, v. 2. Constantino Mikla hinum firsta christna Keysara, er hroosade Kyrkiu Sogunum, fyrer þad hañ heyrde Guds Ord med soddañ Virdingu, ad hañ setteſt ecke nidur, so leinge Predikuneñ stood yfer, helldur stood berhofdadur fræ þvi hun biriadest, og til þess hun endadest; Siæ! þetta giorde eirn mikilshættar Keysare, af þvi hañ visse vel ad hañ stood fyrer Guds-Auglite; Þad er viist, ad hverier helst Tilheyrendur, sem hafa þæ folsku og fæviislegu Iñbirling i Hofde ser, ad þeir seu ei siidur viiser eñ þeirra Keñefader, fyrerliita hañ, og æliita hañ ecke sem Guds Þioon i hans Embætte, helldur hafa leinelega illt Ged til hans, af þvi hañ hefur mæske snert Kaun þeirra, so sem seigiande i Hiarta sinu; Hvernig skal þesse syna oss hvad Gott er, Ps. 4, v. 7. Hiæ þeim kañ ecke Guds Ord, ad verka storum til Uppbiggingar; Gior þvi Virding Guds Orde, hvenær sem þu heyrer þad, og hyga med þer, ad allt hvad Prestur þiñ talar epter Guds Skipan, þad giorer hañ þer til Sæluhiælpar, liika þæ hañ straffar Syndena openberlega. Truer þu, ad þegar Presturen skiirer Barn, hañ giore þad þæ i Guds Stad? Truer þu þegar hañ viiger þig i H. Hioonaband, ad hañ giore þad þæ i Guds Stad? Þvi villtu þæ ecke trua, þegar hañ i siñe Predikun straffar Syndena, og hitter þæ mæske æ þig sem adra, ad hañ giore þad liika epter Guds Bode, þar fyrer ættu eirnig ad medtaka þad i Hogværd. Drotteñ vor Gud seiger til hvers eins

Lære-

Læresodurs; Eg hefe sett þig til eins Vardhallds-Mans yfer Israels Huus, þu skallt heyra Orded af minum Mune, og vara þa vid miña vegna Ezech. 3, v. 8. Til ad miñast a þetta, let eirn Madur uppmaala fyrer ser eirn Hund til Hugarmindar, standande jafnañ a Vakt vid sins Husbroonda Dir, med þessare Hiaskript.: Epter Herrans Bode; synande þar med ad til þess være Hundureñ settur vid Huss-Dirnar, ad hañ skyllde gellta, ef einhvern Þioof eda Ræningia ad bære; og so være eirn Saalusorgare til þess settur ad opeñbera og straffa Mañaña Synder og Leste; So hlioodar Guds Bod: Kalla þu i Akefd, og væg ecke; upphef þina Raust sem eina Baasuñu, og kuñgiør minu Folke þeirra Yfertrodslur, og þvi Husenu Jacobs sinar Synder, Es. 58, v. 1. Medtak þvi þiña Læresedra Amiñingar og Vidvaraner med allre Hoogværd og Poleñmæde, epter þvi sem Postuleñ Jacob amiñer, seigiande: Medtaked Orded i Hoogværd þad hia ydur er groodursett, hvad ed kan ydar Saaler hiaalpLegar ad giøra. Jac. 1, v. 21. Huradu med þer ad ecke mundu Prestarner þetta giora, hefde Gud ecke so hardlega bunded þa vid Bord, ef þeir væru honum ohlijduger, þvi þad vita þeir vel, ad þar med koma þeir ser ut undañ margra Maña Vinseinae. Eñ so hlioodar Guds Ord, um̃ hvern þañ Læresodur sem ecke advarar sina Tilheyrendur, so þeir þar fyrer meige tapast i sinum Syndum: Nær eg seige til hins Ogudlega, þu skallt Dauda deya, og þu varar hañ ei vid, og seiger honum þad ecke, soad sa hiñ Ogudlege kuñe ad vakta sig fyrer sinu ogudlegu Athæfe, o hañ meige Life hallda, þa mun hiñ Ogudlege deya. fyrer siña Synda Saker, eñ hans Bloods mun eg kresia af þiñe Hende.

Ez.ch. 3, v. 9. Hvxadu med þer, þegar Presturenn i sinne Predikun, varar þig vid þinum Syndum, ad þa se Gud ad kalla þig inn i Himenenn til ad giora þig hoolpenn. Meinar þu ad David Kongur, mune nu ecke i Himnenum þacka sinum Skriptafodur, Spamanenum Nathan fyrer þad hann sette honum hans Synd opennberlega fyrer Siooner, med hordum Ordum, og sagde: Þu ert hinn same Mann, þad er, Daudans Madur, so seiger Drottenn; Sia! Eg vil uppvekia Olucku i gegn þer, 2 Sam. 12, v. 7. 11. Veit nockur hvert David hefde annars komest til sinnar Syndar Vidurkenningar og hiaalpast? Geturdu ecke meint ad Petri Tilheyrendur, sem fyrer hans Predikun urdu ummvendter og hoolpner, mune nu þacka honum fyrer þa hordu Predikun hann hafde i framme fyrer þeim firsta Dag Hviitasunnu, er hann brixlade þeim sem Mordingium, er Christum hefdu aflifad, Act. 2, v. 23. 27. Hver Predikun geck so i gegnum þeirra Hiortu, ad þeir spurdu Petrum hvad þeir skylldu giora, so ad þeir feinge eilift Lif, eda yrde hoolpner? Veistu hvort þeir hefdu nockurntiima ellegar til Guds snuest? Þenktu jafnann, þegar þu heyrer Aminninga Predikaner; Nu er Gud ad kalla mig til Himnariikis og Saaluhiaalparennar, eins og hann hefur sinum Pioonum i sinn stad boded ad giora, þvi hann seiger: Þer erud eige þeir sem tala, helldur er þad Ande ydar Fødurs, sa er talar fyrer ydur, Matth. 10, v. 20. Merk þad aller Guds Pioonar eru i þeirra Embætte Guds sialfs, þess stora Konungs Sendebodar, þar fyrer seiger Paulus: Ver erum Sendebodar i Christi stad, þviad Gud aminner fyrer oss. 2 Cor. 5, v. 20. Laat þer i Hug koma, ad hver sem fyrerliitur Guds Pioona i þeirra Embætte, hann for-

forsmaaer Gud sialfañ, og hrinder vilande fraa ser Saaluhialpeñe; Þvi seiger Christus: Hver ydur forsmaaer hañ forsmaaer mig, og hver mig forsmaaer, hañ forsmaaer þañ mig sende, Luc. 10, v. 16. Og aptur: Hver hañ medtekur mig eige, og fyrerliitur min Ord, hañ hefur þañ hañ dæmer, þad Ordeð sem eg talade, þad mun dæma hañ aa efsta Deige. Joh. 12, v. 48. Þad sama vitnar Paulus; Ad hver sem forsmaaer Guds Ord, og þaa sem hañ hefur boded þad ad keña, hañ reke þad fraa ser, og hallde sig eilifs Lifs omaklegañ, Act. 13, v. 46. Þar fyrer, vilier þu framast til eilifs Lifs, þaa heyr og les Guds Ord med Lotningu, og Hiartans Audmyngt, og þeink þegar þu ert i þvi aaminntur; Þetta er Guds Fingur; Nu kallar Gud mig til eilifs Lifs, eñ fyrerliit eingvañveigeñ þetta Saaluhialpareñar Medal; Hvad giorer saa Siuke er forsmaaer Læknisdoomeñ, añad eñ ad forsmaa sina Heilsu? So er þad, ad hver sem hatar Stroffunar-Rædur, hañ hatar sina Saalar Velferd. Minstu þess, þegar þu heyrer þær af Guds Orde, ad þaa vill Gud samañsafna þer til eilifs Lifs, liika sem Hænañ safnar Ungum sinum under Vænge ser, Matth. 23, v. 37. Eirn Maadur, til Hugarmiindar, uppaa rettskickadra Keñemaña Embætte, let uppmaala ser Hænu, med morgum Ungum kringum sig, og þessare Hiaaskript: Hun kvakar til ad safna. Synande þar med, ad so villdu Keñendurner viisa sinum Tilheyrendum aa retta Leid, med sinu siifelldu Kalle, þegar nockud framkemur i Predikun eda Lestre Guds Orda, sem þu fiñur þig snerta, þaa andvarpa til Guds ad hañ lagfære þig i þvi, so þu faaer þig betrad; Loksens mattu aa medañ, ad hafa hliided Hiarta, og setia þer

alvarlega fyrer ad viikia fra ollu Oretrlæte, og giora fyrer Guds Anda og Raad, ferhvad þad sem Gud utheimter. , Þvi til þess lætur Gud sitt Ord kennast, ad Menn lage sinn Lifnad epter þvi. Vered giørendur Ordsins, seiger Jacob, enn eige alleinasta tilheyrendur, hvarmed þer sialfa ydur a Tælar draged, hann sem ecke er sorgleimanlegur heyrare, helldur giører þar epter, sa same mun hialplegur vera i sinu Verke, Jac. 1, v. 22. 25. Hvad stodar þad hann, sem er under Aganum, ad vera i þvi Stande, hliide hann ecke ne fylge sinum Yfermeistara? Ecke ætlar þu til þess, nær þu aminner þinn Þioon, eda þina Þernu, ad þau skule einasta heyra þina Tilsogn, helldur ad þau liika giore epter henne, so er liika vared umm Guds Ord; Hræsnarar heyra ad sonnu margar Predikaner, enn giora þo ecke epter þeim, so sem Gud sagde um Ezechiels Tilheyrendur; Þeir munu koma til þin i Samkundunne, og sitia framme fyrer þer, so sem mitt Folk, og munu heyra þin Ord, enn ecke neitt giøra þar epter, helldur munu þeir blystra epter þer, og lifa so samt afram epter sinne Agyrne, og sia þu, þu verdur ad vera þeirra Asmors-Kvæde, hvert þeir munu giarnann kveda og spila, so munu þeir heyra þin Ord, og ecke neitt giøra þar epter. Ezech. 33, v. 31. 32. Ecki spyr Gud epter þvi a ytsta Deige, hvad margar Predikaner þu hafer heyrt, helldur hvad þu hefur vid þær betrast; Hvad Gud skipar i sinu Orde, attu ad medtaka med liitilatu, truudu, og hlidnisfullu Hiarta, og breita þar epter; Hafer þu i Guds Orde lesed, ad þu skuler eignast þina Saal med Þolinmæde, Luc. 21, v. 19 þa biriar þer liika ad lata þina Þolinmæde i Verke framm koma; Hafer þu heyrt þu eiger ad

ad fleigia uppa Drottenn þinne Ahiggiu, Ps. 55, v. 23. þa attu liika ad hafa Traust a Gude, og ecke mistreista honum i Neidenne, ne verda viilsamur. Hafer þu merkt þu eiger ecke ad hegda þer epter þessum Heime, Rom. 12, v. 2. þa hæfer þer þvi eirnig hliidenn ad vera, og fyrerliita Heimenn, og allt hans Hegooma-Athæfe, med þessum Hætte medtekur þu Guds Ord rettelega.

§. 14.

Enn attu a nockru vara ad taka, epter þad Guds Orda Aheyrn, edur Lestre er rettelega afloked, Sannchristenn Madur a einkannlega ad innsigla Ord Drottens, þad hann hefur heyrt eda lesed, med gudrækelegre og innelegre Truarennar Bæn, og akalla Gud i Audmykt, ad hann late ecke þad Ord, sem af hans guddoomlega Munne er utgeinged, koma toomt til sin aptur, helldur giora þad hvad honum vel þocknast, Es. 55, v. 11. ad þad verke allt Gott i Hiarta þess sama Mans, Stoduglinde i Trunne, Hreinlinde i Kiærleikanum, Þollinde i Hormungunum, og ad hann gete vandad vel sinn Christenndoom, og i honum orugglega og forsiallega framm geinged: Andvarpa til þins Guds umm þetta, epter þad þu hefur Guds Ord heyrt, eda lesed, hvad þu kant eirnig ad giora, epter þvi sem i vorre Christne er sunged:

Ver bidium þig, O Jesu Christ!
J vor Hiortu vel innrætist
Þiin kroptug Kenning hreina! rc.

Ad giordre innelegre Bæn til Guds, attu ad hafa upp aptur med sialfum þer, þad þu hefur lært og eptertekeð af Guds Orde, ihuga þad kostgiæfelega, og geima þad þer i Hiarta; Af þvi ad flester christ-

ner Meñ nu uñ Stunder, þeinkia ecke epter Orðenu, helldur gleima þvi strax sem þeir eru ut ur Kyrkiuñe komner, og eida Tiideñe med hegoomlegre Skemtan, serdeilis a helgum Dogum, uppbiggiast þeir ecke af þvi, helldur eru Hræsnarar eina Tiid epter adra, og umbreita ecke sinu Liferne, so Guds Ord verdur hia þeim ecke nema toomt Ord, eñ kemst ecke i Verk. Liika sem Madureñ fær ecke Vidhalld ne Krapta, af Fæduñe, hversu good sem hun kañ ad vera, ef hañ helldur heñe ecka nidre, so hun melltest med honum, helldur gefur heñe strax upp aptur, epter þad hañ hefur hana til sin teked, fyrer sins Maga Ohreistis Saker, so færer ecke helldur Guds Ord hia honum Avoxt, ef hañ ihugar þad ecke, framveiges, og vardveiter þad i goodu og sidsomu Hiarta, helldur gleimer þvi strax aptur, epter þad hañ hefur þad heyrt; Um þessháttar Meñ seiger vor Frelsare: Hiner vid Vegeñ, eru þeir sem heyra, þad er Guds Ord, eñ eptera kemur Diofulleñ, og tekur Orded ur þeirra Hiortum, so ad þeir true eige og verde hoolpner, Luc. 8, v. 12. Sliiker einberer Tilheyrendur eru liika, sem Myskuanrnar, er sveima um kring velluktande Bloomstur Hoopum samañ, eñ kuña þo ecke ad siuga af þeim Hunanged og safna þvi, eñ sañer Tilheyrendur, eru Byflugunum liiker, sem safna þvi sætasta Hunange af Bloomstrunum sem þær hafa a setst, og bera þad heim i siñ Bystock; Allt ad einu gyllder Diofuleñ þad, þo christeñ Madur heyre miked af Guds Orde, og hafe andlega Hlute um hond, ef hañ yfervegar þad siidañ ecke stoorum, edur hefur Þanka a þvi i sinu Hiarta, skule þvi

Guds

Guds Ord verda þer Saaluhjaalplegt Medal til þins Christendooms Framfarar, þaa yferlegg og igrunda þad vel i Hiarta þinu, og kepst eptec ad færa af þvi marga gooda Avexte, og lifa epter þvi. Þeir eru saṅchristner sem heyra Ordeð, og hallda þvi i goodu og sidsomu Hiarta, og fære Avoxt i Þoleṅmæde, Luc. 8, v. 15. So er sagt uṁ Jungfru Mariu: Hun vardveitte oll þesse Ord, og yfervoog þau i sinu Hiarta. Og aptur:. Og hans Mooder geimde oll þesse Ord i sinu Hiarta, Luc. 2, v. 19. 51. Uṁ Borgarmeṅena i Berrhoa er skrifad, ad þeir hafe daglega raṅsakad Ritningarnar, hvert þad være so sem Paulus kende; Act. 17, v. 11. So vardveitte David Guds Ord i sinu Hiarta, og færde þad ser i Nyt, sem haṅ seiger: Eg helld þinu Orde i minu Hiarta, soad eg syndgest ecke aa mote þer, til þiṅa Rettenda hef eg Listing, og forgleime ecke þinum Ordum. Ps. 119 v. 11. 16. Þaṅig attu ad vardveita þad Guds Ord, sem þu hefur heyrt og leseð, ad uṁ þig meige seigiast þad David seiger: Sæll er saa Madur sem hefur sina Listing i Løgmaale Drottens, og talar uṁ hans Løgmaal Daga og Nætur; Haṅ er liika sem Vidartre hvert ed rootsett er hia Vatnslækium, hvert ed ber siṅ Avøxt aa sinum Tiima, þess Lauf bløð munu ecke visna, og allt hvad haṅ giører, þad mun luckast vel, Ps. 1, v. 1. 2. 3.

§. 15.

Pad þridia Medalid, sem stirker þiñ Christeñdooms Framgang, er gudrækeleg og iñeleg Truareñar Bæn, an hverrar þer tekst ecke farsællega fram ad ganga Vegeñ til Himins. Pad velldur þvi helst a þessum Dogum, ad flestra Christeñdoomur er hræsnisfullur, ad þeir akalla ecke Gud og bidia hañ alvarlega um H. Framferde, helldur eru i þvi forsoomunarsamer. Ver vitum hvad Christus seiger: An min fæed þer eckert giørt, Joh. 15, v. 5. Pad er ad skilia, i andlegum Efnum. Og Paulus: **Eingeñ fær Drottein Jesum kallad, utañ fyrer H. Anda.** 1 Cor. 12, v. 3. Pad er, þekt hañ og medteked sem siñ Frelsara, og filgt hønum epter. Þegar Madureñ bidur ecke Gud alvarlega um Rad og Hialp til ad geta lifad christelega, hvernig ma hañ þa sa þad giort? Kemst nockud Barned afram sem first fer ad læra ad ganga, ef eingeñ stidur eda leider þad? Fellur þad þa ecke um koll og hliitur kirrt ad liggia? Kemst Skiped luckulega iñ i Hofnena, þegar eingeñ stiirer þvi? Er þvi ecke hætt vid ad forganga? So er þvi liika vared, þegar christeñ Madur hefur ecke Adstod og Leidsogn H. Anda, hvernig kañ hañ þa an Falls og Asteitinga ad komast fram Vegeñ til Himins? Eñ bidie hañ ecke Gud um sina Stioornan, hvernig mun hañ þa odlast þetta? Er Gud skilldugur til ad naudga H. Anda uppa Mañeñ, i mote hans Vilia? Jesus seiger ad soñu, ad sa Himneske Fadereñ gefe H. Anda, eñ þo tilleggur hañ þad Ord, þeim sem hañ bidia, Luc. 11, v. 13. First øll good Giof, og øll fullkomeñ Giof kemur ad ofañ fra

Fodur

Fodur Lioosaña, Jac. 1, v. 17 eñ ver hofum skort a sliiku, og þad er ecke til hian sialsum oss, og ver getum ecke veitt oss þad, þa er ess sialfsogd Skilda ad bidia Gud þar uñ: Seu Kiærleike, Fognudur, Fridur, Polenmæde, Bliidleike, Goodgyrne, Tru, Hoogværd, Hreinlife, og adrar Dygder, Avexter Andans, sem Paulus seiger, Gal. 5, v. 22. er H. Ande verkar i oss, þa er Naudsin ad bidia Gud uñ þær audmiukleg, fyrer þa er lifa vilia sem sañchristner; Eingeñ þarf sa til ad ætlast hañ komest vel frañ a Himensens Veige, sem ecke fær af ser ydugleg ad bidia; þvi biriar þer ad bidia audmiuklega, gudrækelega og kostgiæfelega, og vilier þu bænheyrast, þa attu uñsrañ allt ad hafa Hiartad laust vid veralldlega Uñsorgun, og tæma þad af añarlegum Þaunkum, apturloka bæde þins Huss og Hiarta Dyrum, og bidia þiñ Fodur i Leindum, Matth. 6, v. 6. sem allareidu er adur sagt i fyrerfarande XVI. Capitula §. 16. Naudsinlegt er ad þu buer þig til Bænareñar. Þegar nockur vill ganga iñ i Stoor-Hofdingia Huus til ad bidia einhvers, fleiprar hañ ecke allt hvad honum i Hug kemur, helldur huxar hañ sig first vel uñ, hvad, og hvernig hañ skule tala. Bæneñ er truadrar Saalar Samtal vid Gud, skyllde þa ecke Mañeskiañ uñþeinkia hvad hun skal vid hañ i Bæneñe tala, adur eñ hun fer ad bidia? Sa a Hlioodfære syngur, setur Streingena i lag, adur eñ hañ fer a þa ad spila, so attu ad upplipta þinu Hiarta til Guds, med H. Hugreningum, adur eñ þu fer ad bidia. Hiñ H. Bernhardus seiger: Þa bidur þu rettelega, er þu huxar til einskis añars, eñ þess þu bidur: Upp-

lipt þvi Hugskote þinu nær þu ætlar ad bidia, og seig: Drotteñ heyr þu min Ord, og athuga mina Rædu, hygg ad hroope minu, min Kongur og miñ Gud, þviad til þin vil eg bidia, Ps. 5, v. 12. Tak siidañ til ad bidia; Þegar aller adrer Þankar eru farner; Med ydrande Hiarta hliitur þa eirnig ad bidia skuler þu bænheyrast, þvi kome nockur fram fyrer Guds Auglit i Yferbootarleyse, sem lifer i nockre vitañlegre Synd, so hañ hverke angrast af heñe, ne hefur Asetning ad laata af heñe, þañ bænheyrer Gud ecke um hvad sem hañ bidur. Þad heiter so; Ver vitum ad Gud heyrer eige synduga, þad er, sem lifa i Moothrooa og Yferbootarleyse, helldur ef nockur er Guds Dyrkare, og giører epter hans Vilia, þañ heyrer hañ, Joh. 9, v. 31. Og aptur: Þo ad þer utbreided ydar Hendur, birge eg þo min Augu fyrer ydur, og þo ad þer bidied margfalldlega, þa heyre eg ydur þo ecke, þviad ydar Hendur eru fullar af Bloode, Es. 1, v. 15. Þad er, fullar af Illgyrnis Syndum; Lise nockur i Hatre og Ulfbud, i Drambe og Stærelæte, i Ohoofe og Dryckiuskap, i Prettviise og Hreckium, i Agyrne og Buksorg, eda odrum vitañlegum Syndum, fyrer utañ Angur af þeim, og Aform ad betra sig og laata af þeim, þa verdur hañ aldrei bænheyrdur, þo hañ se æfeñlega ad bidia, þvi hañ a ad upphefia heilagar Hendur, skule hañ bænheyrast, sem Paulus seiger, 1 Tim. 2, v. 8. Og þetta er liklegt, þvi þegar eirn Undersaate hefur syndgad a mote sinum Landsherra, og brotid af ser hans Naad, hvernig maa hañ þa beidast nockurs af honum, firr eñ hañ er vid hañ for-

forliikiur? Eins er þad, viliet þu nockud fa med Bæn hia Gude i þiñe Neid, þa leita first ydrande hia honum þiña Synda Fyrergefningar, ad hañ verde þer nadugur, og fyrer Christi Blood forliikest vid þig vegna þiña giordra Afbrota, eñ giorer þu þad ecke, og bliifur vid ad syndga, þa er þer forgefens ad koma med þina Bæn, fram fyrer hans Auglit. Heyr þad Esajas seiger; Ydar Odigdir adskilia ydur og ydvarn Gud, hvørn fra ødrum, og ydar Synder birgia Andlited fra ydur, so ad þer verded ei heyrder, þvi ydar Hendur eru med Bloode saurgadar, og ydrer Fingur med Illgiørdum, ydar Varer tala Lygar, og ydar Tunga diktar upp hvad Orett er, Es. 59, v. 2. 3. Þar fyrer hliitur þu ad bidia i sañre Ydran, skuler þu bænheyrdur verda; Næst þessu attu ad bidia i stødugu Trauste til Guds, ad hañ vilie bænheyra þig fyrer Jesu Christi Skulld, med þvi hañ hefur bæde boded ad bidia, og lofad ad bænheyra; So seiger vor Frelsare siaalfur: Sañlega, sañlega seige eg ydur; ef þer bidied Fødureñ nockurs i minu Nafne, þa mun hañ gefa ydur þad, Joh. 16, v. 23. Og Jacob seiger: Ef einhvern ydar vantar Viisdoom, hañ bidie af Gude, so mun hañ hønum gefast. Eñ hañ bidie i Truñe og efest ecke, þvi sa efablandeñ er, hañ er liika sem Siaafarbylgia, su er af Vinde verdur drifeñ og uppæst; þvilikur Madur þeinke ecke hañ mune af Drottne nockud ødlast. Jac. 1, v. 5. 6. 7. Bid þvi i Truñe fyrer Christi Skulld, og efast ecke, helldur seig til Guds med David; Mitt Hiarta, þad setur þer þin Ord fyrer, þer

skulud

skulud mins Andlitis leita, þar fyrer leita eg eirnig Drottenn, þins Andlitis, Ps. 27, v. 8. Lokſens ꝏttu ad bidia af gudrækelegre Alvoru, og ecke einungis tala margt med Munnenum, helldur lꝏta eirnig Hiartad med fylgia, ad hvertveggia se samhliooda, med þvi Bænenn er Samtal vid Gud. Aller Streinger i Hlioodfærenu skulu til Samhlioods stillast, eige Saunglistenn vel ad fara, so eiga Mannſens Kraptar ad vera i Bænenne, ſe hun chriſteleg. Skule Reikelſed gefa af ſer ſætann Ilm, verdur þad ꝏ Glood ad kaſtaſt; Skylldu Gamla Teſtamenteſins Offur verda þægeleg, urdu þau ꝏ Altarenu ad upptendraſt; So þin Bæn meige duga fyrer Gude, ſem Reikelſis Offur, og þinna Handa Upphafning, liika ſem annad Kvolldoffur, ſem David umbidur, Ps. 141, v. 2. verdur hun ad leggiaſt ꝏ glooande Kol brennheitrar Andans Alvoru, og þitt Hiarta mꝏ þꝏ ei hafa annarsſtadar ſina Þꝏnka enn hiꝏ Gude: Ef nockur i ſinne Bæn veit ecke, hvers hann bidur, eda tekur ſiꝏlfur ecke epter þvi hann er ad tala, edur hefur umbeded, hvernig mun Gud þꝏ gefa Gaum ad þvi? Um þꝏ er þannig bidia, heiter þad ſo; Þer bidied og ødleſt ecke, af þvi þer bidied vondslega, Jac. 4, v. 3. Sliiker Tilbidiendur nꝏlægiaſt Gud med ſinum Munne, og heidra hann med ſinum Vorum, enn þeirra Hiarta er lꝏngt frꝏ honum, Eſ. 29, v. 13. Þvi ſkalltu bidia innelega i Gudrækne ſo þu bænheyreſt, epter þvi ſem Chriſtus ſeiger: Sanner Tilbidiendur tilbidia Fødurenn i Anda og Sannleika, af þvi Faderenn vill hafa þꝏ er hann ſo tilbidia, Joh. 4, v. 23. Enn ſo þu fꝏer gudrækelega beded, þꝏ þeinktu jafnann er þu

bidur,

bidur, fyrer hverium þu stendur. Fyrer Guds Hastoole stendur þu, og villt afhenda þina Audmyktar Beidne hönum, sem er Kongur allra Konga, og Drotteñ allra Drottna, þar sem aller Himensens Herskarar standa hönum til hægre og vinstre Handar, þvi biriar þer ad framkoma fyrer hañ med allre Lotningu, i Audmykt og Hiartans Bligdan, ad hañ syne þer Naad! Hafer þu eitthvertsiñ, sem verda maa, gaalauslega beded, og þu merker þad strax i Bæn þiñe, þa tak upp aptur Ordeñ i heñe med stærre Alvörugefne, so heñe verde ecke fraa viisad; þvi gaalausleg og kolld Bæn aviñur eckert hia Gude. Fiñer þu ad þiñ Bænrækinis Hite vilie rena, þa bid i stuttu Maale, eñ fiñer þu hañ vidhalldest, þa utaus þvi betur þinu Hiarta, þvi þu veitst ecke hvad snarlega þer verdur soddañ Naad aptur veitt. Christner Meñ faa ecke a ollum Stundum vered eins gudrækeleger; Þegar þu, þar fyrer, fiñur hia þer gudrækelegar Hræringar, þa gef allt añad fraa þer a medañ, og gack afsiidis og bidst fyrer! Forsooma ecke þad gooda Tækefære, sem þer er gefed, helldur slepp a medañ ollu þvi Jardneska, og tak til ad bidia, Huxande med þer, ad nu vilie H. Ande reina þig, hvert þu elskar meir þad Tiimañlega eda þad Eilifa, og hvert þu vilier first leita Guds Riikes, og hans Rettlætis, Matth. 6, v. 33. Þegar þu a Kvolldeñ leggur þig til Svefns, þa þeink med þer: Nu geingur Sathan uñ kring ad Beniu siñe, og giæter ad hvert eg bid gudrækelega og fel mig Gude, siæe hañ eg giore þad ecke, þa leitast hañ ad minsta koste vid, ad skelfa mig med illum Draumum; Giorer þu þetta, muntu betur hafa

Gaat

Saat a Bæn þiñe, helldur eñ þu maaske hefur giort. Ven þig einkañlega til i ollum þinum Athofnum ad bruka smaar Bæner, til ad vidhallda þar med þiñe Gudrækne, þo er ei Naudsin ad þu alltiid uttaler þær med Muñenum, eñ þad næger, þa þu andvarper i Hiartanu, og soddañ Bæner eru Gude mioq þocknañlegar, þvi Gud er Ande, og hverier hañ tilbidia, þeir skulu tilbidia hañ i Anda og Sañleika, Joh. 4, v. 24. Sa sem borgar odrum Skulld sina med goodre Mynt i heilum Gull og Silfur Peningum, gerur uttaled so miked a eirnre Stundu, sem hiñ er kemur fram med Smapeninga, kemur ecke af heilañ Dageñ ut, so kañ soq er med stuttum Bænum, gudrækelega og iñelega bidur, og med saum Hiartans Andvorpunum, meira hia Gude ad utretta, eñ sa er brukar langar Bæner med Margmælge, sem Heidingiar þeir ed ecke þeckia Gud, Matth. 6, v. 7. Med þessum Hætte skalltu bidia Gud, med Ydrunar, Truar og Gudræknis Bæn, ef þu villt bænheyrast!

§. 16.

Þetta Medal hliitur þu ad bruka, so sem hin adursogdu, skuler þu geta christelega framgeinged, og skule allar þinar Fyrertekter vel luckast? Haf þar fyrer jafnañ i Miñe þad ver syngium:

Bæneñ ma alldrei bresta þig,
Bueñ er Freisting ymislig. 2c.

Liika sem Sigurverked verdur lagfært þegar þad geingur osseint, med þvi ad draga þess Jafnvigt upp, og smiria Hiooleñ, so lagfærest Mañsens Framfor sem tekur til ad verda seinfær, i hans Christeñ-

Christeñdoome, med þvi ad sa Gud ser til Adstodar med gudrækelegre Bæn, og hañ seige med David: Drotteñ! giør þu mer kuñañ þañ Veigeñ; hvar eg skal uppa gaanga, þviad mig forleinger epter þer; Keñ þu mer ad giøra epter þinum Vilia, þviad þu ert miñ Gud, þiñ goodur Ande, hañ leide mig a rettum Veige, Ps. 143, v. 8. 10. og synge med vorre Kyrkiu:

Leid þu mig Gud þañ vissa Veg,
Sem viisa Ord þin guddoomleg,
Uñ alla Æfe mina, 2c

Eñ þo christner Meñ eige Gud uñ allt Gott ad bidia, bæde andlegt og liikamlegt, so sem Christus keñer oss i vorre Drotteñlegre Bæn, eigum ver samt allraheldst ad bidia med Audmykt uñ andlega Hlute, og vora Framfor i soñum Christeñdoome; So bad David: Hreint Hiarta skapa þu Gud i mer, og gef mer eirn nyañ Anda, kasta mer ecke burt fra þinu Auglite, og tak ecke þiñ H. Anda i fra mer, Ps. 51, v. 12. 13. So bad Salomon: Gef þinum Þenara hliided Hiarta, so hañ meige dæma þitt Foolk og skilia hvad Gott se og Illt. 1 Reg. 3, v. 9. So badu Postularner, seigiande til Christum: Auk þu oss Truna, Luc. 17, v. 5. So attu liika ad bidia ad þu saer lifad christelega, ad Gud snue þinum Augum fra Hegoomanum, og þinu Hiarta fra þvi Tiimañlega, so þu allraheldst leiter Guds Riikis og hans Rettlætis, og halldet alla Hlute fyrer Skada, hia þeirre yfergnæfañlegu Vidurkeñingu, vors Drottens Jesu Christi, Phil. 3, v. 8. Seig þañig: Drotteñ Gud Fader og Herra mins Lifs, laat mig ecke

a

a [illegible] Lastarañs koma, og lát mig ei á medal þeirra tapast, ad eg kuñe minum Hugreñingum i Taume ad hallda, og mitt Hiarta med Guds Orde ad aga, og eg mer eige hlife, hvar eg fer villt, so ad eg ei af stad kiæme nockre Synd, giæt min fyrer obliugu Alite, og viik frá mer allre vondre List, lát mig ei falla i Ofneitslu og Saurlifnad, og geim mig fyrer obliugu Hiarta, Syr. 23. v. 6. 7. 8. Bid daglega þiñ Gud, ad gefa þer gudræked, hliid-ed, liitillátt, fridsamt, skiirlist og dygdugt Hiarta, og stiorna þer med sinum gooda Anda, so þu fáer geinged á Vegum hans Bodorda, ottest hañ son-arlega, og giorr hvad honum þocknast; Bid hañ ad gefa þer Stirk til ad motstriida Dioflenum, þeim ogudlega Heime, og þinu eigeñ Hollde og Bloode, ad þu geter yferuñed þessa þina andlegu Ovine, sem sækia epter ad giora þer Hindraner á þinum Christ-eñdooms Veige, og hallded Sigrenum; Bid hañ kostgiæfelega, á medañ þu ert eñ vel fær og heil-brigdur, ad gefa þer sáluhiálplega Burtfor ur Heimenum, og geima þad ecke þángadtil þu verd-ur siukur, þvi þá Liikameñ er af Verkium og Sár-endum iñteckeñ ordeñ, verdur Bæneñ opt giord i miklum Dofeñleika. Þegar þu verdur var vid ad þitt Hiarta skeikar ut af Veigenum, i einhverre þiñe Christeñdooms Skilldu, og verdur, kañske, ofug-lindt, oþoleñmoodt, eda ofornægt, þá griip strax til Bænareñar, og bid Gud iñelega um Styrk og Adstod til ad fá motstaded þvi Illa, eñ giort hid Gooda. Viter þu ecke vel, hveria Bæn þu skuler bruka, til þess ad bidia Gud med, um þiñ Fram-gang i soñum Christeñdoome, þá bruka þá vod-arlegu Bæn, med hverre Paulus bad fyrer sinu Folke i Epheso, og heimfær hana uppá sialfañ þig á

a þeñañ Hꝛatt. Eg beige min Kne fyrer Fodur Drottens vors Jesu Christi, sa sem rettur Fader er yfer allt hvad Born kallast a Himne og Jordu, ad hañ gefe mer Krapt, epter Riikdoome siñar Dyrdar ad styrkiast fyrer hans Anda i hinum iñra Mañe, og lꝛate Christum fyrer Truna biggia i minu Hiarta, og fyrer Kiærleikañ iñrætast og grundvallast, so ad eg mætte hondla med ollum Helgum, hver þar se Viidd og Leingd, Dypt og Hæd, og ad vita þad ad elska Christum, er betra eñ allt ad vita, so ad eg uppfillest med allshꝛattadre Guds Fillingu. Eñ honum sem mꝛattugur er alla Hlute yferguæfañlegar ad giora, helldur eñ ver bidium eda skiliun, epter þeim Krapte sem i oss verkar, þeim sama se Dyrd i Sofnudenum, sa i Christo Jesu er ætiid fra Eilifd til Eilifdar, Amen. Eph. 3, v. 14. — 21. Bidier þu jafnañ þiñ Gud iñelega med þessare Bæn, epter þina Morgunbæn, muntu komast ad Raun uñ hvad hun verkar i þinum Christeñdoome; Þegar þu bidur, þa tala alltiid seint, skilmerkelega og med Athuga, so þu geter vel yfervegad hvert Ord i þiñe Bæn; þvi hvad er Bæneñ an Skilnings og hvad gagnar hun? Marger bidia so med Fader Vor, ad þegar þvi er loked, vita þeir ecke hvers þeir hafa beded, og fliita þvi, eins og þeir ætle ad senda þad bꝛadlega burt med Vresamañe. Þegar þeir meina sig taka til ad bidia med þvi, er þad allareidu a Enda, og med þvi Moote kañ þar ecke Gudrækne med ad fylgia. Athuga þar fyrer vel hvert Ord i þiñe Bæn, hvert sem þu bidur med Fader vor, eda odrum Bænum, so þu geter teked epter þvi og skiled þad þu umbidur. Þer til betre Jgrundunar kantu i stuttu Mꝛale ad utsæra Fader Vor, nær þu bidur a þeñañ Hꝛatt,

so þu sœer halldeð þess Iñehallde i Hiarta þer, og so að seigia: Elskulege Himneske Fader, þu sem ert Fader yfer allt hvað Born kallast a Himne, og a Jordu! Gef þar til Nœð, að þitt H. Nafn helgest a medal vor, so að þitt H. Ord se hreint og klart, kendt, og ver epter þvi lifum heilaglega, so sem þin Born; Lat þitt Nœdar og Christneñar Riike, æ meir og meir hia oss utbreidast, og nidurbrioot Sathans Riike! Gef oss þiñ H. Anda, er leide og vidhallde oss i Truñe og Helguneñe, sem þins Riikis Erfingium, og iñleide oss uñ siider i þitt eilifa Dyrdar Riike! Hindra allañ Diofulsens, Heimsens og Holldsens vondañ Vilia, fyrer Adstod þins Kraptar, að ver viliuglega og med Gledi fullkomnum þiñ Vilia her a Jordu, liika sem þeir H. Einglar og Utvallder a Himnum, og i Krosse og Mootlæte undergefum oss med Poleñmœde þinum Nœdar Vilia. Gef oss þiñ Nœd og Bleſſan til að utvega ærlega vort daglegt Brauð, og hvað sem ver vid þurfum til Liikamans Nauðþurftar og Uppeldis, og að ver medtokum það og nytum oss med Packlæte, i Heilbrigde, Fride og Rooseme. Fyrergef af Nœd þiñe fyrer Christi Saker allar vorar Skullder, eins Uppruna Syndena sem þær gioraňlegu, er ver daglega fremium, med Þaunkum, Ordum og Verkum, med þeirra forþenru Straffe; og gef oss forliikunarsamt Geð, að ver af Hiarta tilgefum vorum Skulldu Nautum og ollum sem hafa oss nockud i moote giort! Leif ecke Dioflenum, Heimenum, ne voru illa Hollde og Bloode að gera med Freistneñe tælt oss til hins vonda, ne fellt oss i Synder og Leste, helldur gef oss Krapt og Styrk soddañ Freistingum að sa motstaðed, og sem goodsr Jesu Christi Striidsmeñ Sigrenum hallded!

Frelsa

Frelsa oss loksins fra ollu Illu fyrer þiñar Giæsku Saker, bæde andlegu og liikamlegu, fra allskins Neid og Hormung, og gef oss sarsælañ Afgang, og flyt oss fyrer tiimañlegañ Dauda i þitt Dyrdar Rike. Þessa vora Bæn, virdstu elskulege Fader nadarsamlega ad heyra, þviad þitt er Riiked, þu ert vor Gud og Kongur, þvi muntu ei sinia þinum Þegnum þiñar Hialpar, þiñ er Mattureñ, þer er hægt ad gefa oss þad ver hofum umbeded, og þin er Dyrdeñ, þar af hefur þu Vegsemd ad þu bænheyrer oss, þvi þar fyrer vilium ver priisa þig i Tiima og Eilifd; Ver efunst eckert um, ad þu fyrer Christi Saker muner heyra vora Bæn, og seigium þvi i Truñe, Amen, ja, þad mun oss alltsamañ vissulega veitast, sem ver hofum umbeded, Amen! Soddañ Þanka, attu ad hafa, miñ kiære Vin, a medañ þu bidur med þeirre H. Bæn Fader Vor, og vita hvers þu bidur, skule þin Bæn Gude þocknast. Vegna þess ad Þackargiörd er eirnig eirn Hlute Bænareñar, mattu ecke helldur gleima sem sañchristeñ Madur, ad þacka þinum Gude, fyrer allt Gott, sem hañ audsyner þer, bæde til Lifs og Salar, serilage attu ad þacka honum, og lofa hañ fyrer þad hañ hefur lated þig fædast midt i Skaute christelegrar Kyrkiu, gefed þer sitt Ord, hreint og omeingad, umvendt þer, upplyst þig, lated þig verda sañchristeñ, og leidt þig a rettañ Veg til Himens. Til þessa amiñer Paulus oss, seigiande: Uppfyllest af Anda, og taled hver vid añañ, af Psalmum, Lofsaungum, og andlegum Kvædum, synged og spiled Drottne i ydrum Hiörtum, og seiged Þacker alla Tiima Gude og Födur fyrer alla Hlute, i Nafne Drottens vors Jesu Christi. Eph. 5, v. 18. 19. 20. Heyrer þu

Næturgalañ, edur añañ Fugl syngia, þa þeink med þer; Þesse Fugl miñer mig a Skilldu mina, og tak liika til ad losa þiñ Gud! Serilage aattu hvern Laugardag, þa su og su Vika er lideñ, ad akalla Gud audmiuklega uñ Fyrergefning allra þiña Synda, sem þu hefur þa Viku giort, og þacka honum iñelega fyrer þad, ad hañ hefur a heñe allre verndad þig og þina fra allre Ohamingu, i hveria adrer hafa ratad, og audsynt þer mikla Velgiorninga. Þad a liika ad vera allra sañchristeña Maña Ydia a helgum Dogum, epter asstadna Guds Þioonustugiord, ad bruka þad epter er Tiimans til ad losa og priisa Gud, þacka honum fyrer þad hañ hefur frelsad þa fra morgum Haaskasemdum, og bidia hañ rækelega uñ Raad til ad lifa christelega. Nær sem þu hefur endad Bæn þina, þa bruka til Aliktunar þesse Davids Ord: Lat þer þocknast Ordræður mins Muns, og Maaled mins Hiarta, fyrer þinu Auglite, Drotteñ miñ Frelsare og miñ Endurlausnare Ps. 19, v. 15. Amen! Þo sañchristeñ Madur eige allraheldst ad bidia Gud uñ siñ gooda Anda, so hañ fæe lifad Gude þocknañlega, samt ma hañ ecke forsooma ad bidia Gud i odrum sinum Athofnum uñ Raad, Verndan og Blessan, þvi añars fær hañ eckert rettelega Gott og Gagnlegt framkvæmt, helldur er hañ jafnañ morgum Hættum og Oforum underorpeñ. Þegar þu ætlar ad taka þer nockud fyrer Hendur, þa huxa med þer; An Efa vill Dioskulleñ spilla fyrer mer, so eg kome ecke fram þessare miñe rettelegre Fyrertekt, þvi þarf eg ad hafa Gud i Verke med mer, og bidia hañ uñ adstod. Hiñ H. Lærefader Chrysostomus seiger so uñ Bænareñar Naudsin, liika sem Muralaus Borg komst audveldlega

lega i Ovina Hendur, so kañ Diosulleñ ad yfer-buga þa Sal, sem ecke hefur Bænena ser til Hlifdar, og lettelega filla hana af Syndum, Skõmum og Lostum; Þarimot getur hañ ecke hæglega komest iñ a þa Sal sem ver sig med Bæneñe, þvi hañ hrædest fyrer Styrk og Krapte gudrækelegrar Bænar, af hverre Saleñ nærest og vidhelst, langtum betur eñ Liikameñ af Fædune. Þegar þu villt biria nockra Reisu, þarftu ad bidia Gud, añars kantu an Guds Vardveitslu ad rama i einhveria Olucku, þvi margur hefur heill og haustur af stad reist, eñ siukur og sar aptur heim komed, edur eirnig farest a Veigenum; Flytier þu þig ur einum Bæ i añañ, þarftu ad bidia Gud, þvi þu veitst ecke hvad þar kañ þer ad mæta. Allar þinar Athafner attu med Bæneñe ad biria, i hveriu Stande sem þu ert! Meinar þu ecke ad sa sem Vide hoggur, þurfe ad bidia, adur eñ hañ biriar sitt Verk, kyñe hañ ecke margopt ad skeña sig sialfañ, ef Gud hefde ecke Valld a hans Oxe? Hvad sem þu giorer, hvert þu ert lærdur, eda olærdur, Kaupmadur eda Handverksmadur, Þioon eda Viñumadur, þa tak alltiid Gud med þer! bid hañ og andvarpa til hans! og hvert þu situr eda stendur, eda hvar þu ert, þa seig med Christneñe!

Leidena syn mer saña,
Y Sorgardalnum her, 2c.

Og ver þig yduglega a hverium Deige fyrer ollum Slisum og Ohoppum, med soddañ Andvarpan?

Drotteñ miñ goodur gef eg þer,
Mitt giorvallt Rad og Efne, 2c.

§. 17.

Sia þu, vinsamlege Lesare! Þañig mattu ad haga þer i soñum Christeñdoome; Seter þu vel sagt ad þu sert a Veigenum til Himins, og rettelega umvendtur, þvi Trueñ verkar ekkert añad eñ sliika Avexte. Sertu Sañchristeñ, verdur þu ad hafa retta Þecking a Gudi, med soddañ Hætte: Ad Guds Rettlæte hallde þer fra Illt ad giora, þvi þu veitst, ad hañ er rettviis Gud, og straffar fyrer þad; Ad hans Almætte uppveke i þer Traust a honum, þvi þu veitst, ad hañ er almaattugur Drotteñ, og getur hiálpad þer; Ad hans Alvitska giore þig gudhræddañ, þvi þu veitst, ad hañ ser og veit alla Hlute, og lika þad þu giorer i Leindum. Ad hans Heilagleike asyse þig ad fylgia honum, og lifa heilaglega; Ad hans Mistkunseme uppkveike i þer Hugguñartraust i þiñe Synda Neid, og añare Barattu, þvi þu veitst ad Guds Miskun ysergefur þig ecke i Neideñe; Ad hans Sañleike giore þig vissañ um þad og oefadañ, sem hañ hefur þer i Ritninguñe fyrerheited, þvi þu veitst hañ er sañordur Gud sem helldur sin Ord. Ad hans allstadar Nalægd giore þig esalausañ um hans Varatekt, þvi þu veitst, ad þo þu sert eirnsamañ, samt er Gud hia þer med siñe Rad og Hialp; Og ad hans eilifa Vera upphvetie þig, til ad sækia alvarlega epter Saluhialpeñe, þvi þu veitst, ad aller Hluter her i Heime eru forgeingeleger, eñ añars Heims er epter eilisu Dyrdar Life ad vænta. Þetta heiter ad hafa saña Þecking a Gude, og lika i soñum Christeñdoome, og þad utheimter Gud af øllum Moñum; þvi þegar hañ fordum sagde fra hversu þeir firre Kongar i Juda hefdu giort Doom og Rettviise, og hialpad þeim Þurfstuga og Fatæka, þa seiger hañ: Er

þad

þad eige so, ad sliikt kallast rettelega ad þeckia mig? Jer. 22, v. 16. So attu ad lifa þinum Gude til Þocknunar, og þar med verdur þu Hræfnurunum frælsilen, er med Munnenum ad sonu seigia, Gud se rettviis, eilifur, alvitur, heilagur, miskunsamur, almattugur, sannordur, og allstadar nalægur, enn þasa þar þo ecke meira af, og þad kemst ecke hia þeim leingra enn til toomra Ordanna, helldur eru þeir aller hiner somu sem adur; Þu att ad giora sem hugprudur Herhöfdinge a Veigenum til Himins, og ecke einasta veita Ovinunum harda Adgaungu, helldur eirnig briootast i gegnum allar þeirra Filkingar! A alla Vegu leggur Sathan Snorur i Veg fyrer þig a medann þu ert i Heimenum, og þvi helldur sem hann ser þu keppest meir epter, ad na Hnosse eilifs Lifs a Veigenum til Himens: Kome inn hia þer Gyrnd til tiimannlegra Hluta, seu þad Peningar og Audæfe, Metord og Yferlæte, eda hvad annad syndsamlegt, þa hura med þer! Nu vill Sathan reina til ad lata mig missa Truna og Saluhialpena, eg ma veita honum Motstodu, so hann fae mig ecke sigrad. Þu skallt vita ad Diofullenn gæter grant ad, hvernig hvers Mans Natturulage er hattad; Sertu af bloodriiku Edle, og þar fyrer hneigdur til Gladværdar, og Listesemda, þa tak vara a þer, ad Diofullenn teige þig ecke, til Ofneitslu, Dryckiuskapar, Lostasemda, Spila, Gledeleika, Yduleysis, og annara sliikra Lasta, og syndsamlegra vellistinga, eins og hann foor med hinn riika Mann; Se þitt Edle helst af kolldu Bloode, þa vakta þig ad Sathan fære þig ecke i Þungsinne og Geds Sturlan, þegar Kross og Motlæte uppa þig fellur, er hann veit þig tilhneigdann, og ei helldur til Bukfsorgar og Ahiggiu fyrer þvi Tiimannlega, sem

þañ auduga Mañ, er þar fyrer tapade eilifum Giædum. Se þitt Edle af Hita Bloode sem uppæser Galled, þa varast ad Diofulleñ locke þig ecke til Bræðrædis, Reide, Hefnda, Miskunarleysis og Grimleika, hvar vid þer er hættast, sem Saul Konge er hañ breitte grimelega vid Borgena Robe, og sioo þar med Sverds Eggium bæde Meñ og Kviñur, Born og Briostmylkinga, Uxa, Asna og Saude. 1 Sam. 22, v. 19. Þegar Hofudsmadur nockrar Borgar, veit ad Ovinerner hafa Augastad a hans Festingum, og niosna um þær, gæter hañ sin vel, og setur sig til Mootvarnar; Gior liika so, þvi Sathan hefur alltiid Augastad a þiñe Saluhialp, ad hañ skeme hana af þer; Vert vakande og var um þig, ad hañ kollsteipe þer ecke, og berst goodre Barattu Truareñar, og hondla eilift Lif, 1 Tim. 6, v. 12. Eñ berstu loglega epter Guds Bode, þvi þad er ecke i Mañsens Valldead lifa so hans Endalok verde Saluhialpeñ; Og so sem Gud vill, bid þvi Gud kostgiæfelega ad gefa þer siñ Anda, sem styre þer og leide þig, ad þu ecke steiker ut af þeim beina Veige til eilifs Lifs, helldur ad þu fiñest standande i Truñe, og andlegre Arvekne, nær þiñ Yferhofdinge Christus kemur ad vitia þeirra sem a Vakteñe standa. Tak Vara a Christi Aminingu, er hañ seiger: Lated ydar Lendar umgyrdtar vera, og ydart Lioos loga, og vered liiker þeim Møñum, er biida epter sinum Lanardrottne, hvenær hañ mun aptur koma, fra Brudkaupenu, soad þa hañ kemur og ber, se strax fyrer hønum uppløked; Sæler eru þeir Þioonar, hveria Herrañ fiñur vakande þa hañ kemur; Sañlega seige eg ydur, ad hañ mun uppstitta sig, og setia þa til Bords, og gaanga fyrer

fyrer þeim, og pioona þeim. Og ef hañ kemur a añare Vakt, eda a hiñe pridiu Vakt, og fiñur þad liika so: Sæler eru þeir Pioonar, Luc. 12, v. 35. — 38. Heyrdu her ad auk Guds Ord med allre Alud, soad þu þvi framar meir og meir uppbyggest til eilifs Lifs, og heyr þad i sañre Gudrækne; Kyrkiulæresedurner hafa sagt, ad sa sem Guds Ord vill heyra til Nota ser, skule hafa med ser Davids Hiarta, er hafde af þvi hid mesta Ynde, ad ganga i Guds Huus til ad heyra hans Ord: Samuels Hiarta, sem gaf vel Giætur ad Ordum Drottens, þa hañ opeñberadest honum og talade vid hañ i Musterenu, og Jungfrur Mariu Hiarta, sem yfervoog oll þau gudlegu Ord, hun heyrde og geimde þau i sinu Hiarta; J Kyrkiu-Raadstefnuñe i Eliberis i Spania var medal añars dæmt, ad serhver iñefæddur Madur i Landenu, sem heilbrigdur være, og ecke kiæme til Kyrkiu i þriaar Vikur samfleitt, skyllde utsetiast fra þeirre H. Kvolldmaaltiid. Ei einasta skalltu heyra Guds Ord med Kostgiæfne, helldur eirnig lesa þad daglega heima hia þer, einkum i H. Ritningu, og rañsaka hver ad se Vilie Drottens, þvi þar af frædest þu til Saaluhiaalpar! Hiñ H. Chrysostomus talar þar uñ i eirne siñe Predikun a þeñañ Haatt. Eg amiñe ydur jafnañ, og vil ecke aflaata ad aamiña ydur þar uñ frañveigis, ad þer skulud ecke laata ydur nægia, þad þer heyred af mer, helldur skulud þer aasamt kostgiæfelega lesa H. Ritningu heima i ydar Husum, og eingeñ frañkoma med þaa onytu og lettvægu Afsokun: Eg stend i Maalasooknum, og verd ad hafa Umhyggiu fyrer Almeñings Haattum, eg er Handverks Madur, og hliit ad viña fyrer minu Braude, eg hef Konu og Born a Hende,

og verd ad sia fyrer minu Huuse, eg er i veralldlegre Stett, þvi er þad ecke fyrer mig ad eida Tiidenñe til ad lesa i Bibliuñe, þad er fyrer þa sem eru andlegrar Stettar, eda lifa i Einlife, eda eru Einsetumeñ, eda hafa liited ad giora: Æ þer vesælu Mañeskiur! Hvarfyrer taled þer so? Hafed þer ecke Tiima til ad lesa H. Ritning i gegnum fyrer þvi ad þer mædest i morgum Veralldar Umsvifum? Rett fyrer þad sama ad þer erud morgum veralldlegum Sysslunum iñviklader, liggur ydur sem mest a ad rañsaka Guds Ord, og ad viisu meira eñ odrum, sem ecke hafa miked ad giora. Þad er ecke mogulegt, eg seige aptur, þad er ecke mogulegt sa kuñe hoolpeñ ad verda, hverhelst hañ er sem ecke les med Kostgiæfne H. Ritning, þad Guds Ord. Tak vel epter þessum Ordum Chrysostomi, og vit i stuttu Maale, ad fyrer utañ þau tvo Medol, sem eru gudrækeleg Bæn, og Guds Ords Yferveigañ, kantu omogulega ad lifa i foñum Christeñdoome, þvi þau eru hin heldstu þar til. Umþeinkiu hversu stoora Hættu og eilifa Olucku þu sær þar med umflued, asamt, hvers þu hefur ad vænta, ef þu ert stodugur a Veigenum til Himins. Þvi so er skrifad: Hver sem yfervinñur, hañ mun erfa alla Hlute, og eg vil hans Gud vera, og hañ mun miñ Sonur vera, Apoc. 21, v. 7. Jhuga hversu gledeleg verda mune þins Christeñdooms Endalok, sem þu munt señ fa ad heyra, hvad þig upporfe til ad sækia epter Himnariike, striida og briootast i gegnum allar Hindraner, med þeim andlegu Hervopnum, og keppast so epter iñ ad gaanga um hid þraungva Hlided til eilifs Lifs, epter Amiñingu vors Drottens Jesu.

# XVIII. Capitule.

## Um̃ gledileg Afdrif allra truadra og sañchristiña Maña, er stadfaster bliifa a rettum Vejge til Himins, sem eru roosamligur og sæll Daude, gledelig Upprisa til eilifs Lifs, og Himnariikis Vegsemd.

§. 1.

Liika sem vantruader Meñ sa hörmuleg Afdrif, þeir sem gaunga þañ breida Veg til Helviitis, hvar um̃ adur er nockud margt talad i fyrerfarande 14 Capitula, um̃ hveria so heiter: Ydar Hlatur skal um̃snuast i Grat, og ydar Glede i Hrigd, Jac. 4, v. 9. So sa aller Truader og Sañchristner þar a mot, gledeleg Endalok, sem standa stoduger a Veigenum til Himins allt til Enda. Þetta gefur David þeim til Um̃þeinkingar, er hañ seiger: Vertu meinlaus og haga þer rettelega, þviad sliikum mun ad siidustu vel gaunga, Ps. 37, v. 37. Seu good Endalok viis, nia Malesned med þvi meira Filge framhalldast: Þad heiter; Þegar Endereñ er goodur, þa er allt gott. Þegar Hershofdingeñ er viss um̃ Sigureñ, ydrast hañ ecke þess sem hañ hefur fyrerhaft ad iñtaka eirn fastañ Stad. Med þvi christner Meñ eru aldeilis visser um̃, ad þeirra saña Christeñdooms Ydkan fær gledelegañ Enda, þa virda þeir einkis alla þa Barattu og

Mædu

Mædu þeir hafa þar fyrer haft, eda eñþa hafa kuña, helldur eru þeir med goodu Gede. Epter þvi þeir vita, ad þeir faa good Omaksláun, hlaupa þeir glader Brautena til Himins, audsynande sig sialfa i ollum Hlutum, so sem Guds Þeenara, i mikille Poleñmæde, i Harmkvælum, i Hœskasemdum, i Þyngslum. 2 Cor. 6. v. 4. Ad soñu vita þeir vel, ad þeir forþena eckert med sinum goodum Verkum, bæde vegna þess þau eru ofullkomeñ, eñ Gud utheimter fullkomna Hliidne, sem þar stendur: Þu skallt elska Drotteñ Gud þiñ af øllu Hiarta þinu, af allre Ønd þiñe, og af øllum þinum Formætte, Devt. 6, v. 5. Liika so vegna þess þeir eru skillduger til ad giora Goodverkeñ, og Gud hefur þeim þad boded, sem Christus seiger: Nær þer hafed allt þad giørt hvad ydur var boded, þaa seiged, onyter Þioonar erum ver, þvi hvad ver aattum med Skilldu ad giøra, þad giørdum ver, Luc. 17, v. 10. Samt vita þeir eirnig, ad allt hid Gooda, sem þeir giora i þessum Heime, og alla þaa Mædu og Fyrerhofn, sem þaa kostar ad lifa, sem christnum soomer, vill Gud i Naad siñe launa ei einasta her i Tiimanum, helldur eirnig þar i hiñe oforgeingelegu Eilifd, þvi Gudrækneñ er til allra Hluta nytsamleg, hafande þessa Lifs Fyrerheit, og so hins epterkomanda, 1 Tim. 4, v. 8. Ei kañ Sañchristnum odruviis eñ vel ad gaanga, hafe þeir i þessum Heime, eins og aa Saadtiima, nidur saad allrahanda goodu Sæde, eñ ecke leiged i Ydiuleyse, þaa kañ þeim ecke ad bregdast riikugleg Uppskera i þeim okomna Heime, sem þeim er lofad med þessum Ordum! Laatum oss Gott giøra, og ecke þreitast, þviad aa sinum Tiima munum ver eirnig oaflaatañlega uppskera,

ſkera, Gal. 6, v. 9. Truader chriſtner Meñ liita ecke eigeñlega epter þeſſu Liſe, helldur þvi tilkomanda, þar til horfer þeirra Epterlangan, þar epter þraa þeir, til þeſs ſtunda þeir med ollu Kappe ad komaſt, þar til geimer Gud þeim ſin fullu Laun, þar til dreg- ur hañ undañ Upphefd hiña Truudu, þar heſur hañ affiides lagt Koroonuna, med hverre aller and- leger Chriſti Striidsmeñ ſkulu krynaſt. Þeirra Aſelok geta ecke orded odruviis eñ gledelig, ſem ganga ſtødugt fram a Veigenum til Himens, leggia vel ad ſer ad hafa, Uñſorgun fyrer ſiñe Tru og Saluhialp, og keppaſt epter iñ ad ganga uñ hid þraungva Hlided til eilifs Lifs.

§. 2.

Upphaf a þeirra gledelegu Afdrifum, ſem til Aſeloka framhallda i ſoñum Chriſteñdoome, er roo- ſamlegur og ſæll Daude, þeir hrædaſt ecke fyrer Daudanum, þa hañ adkemur, helldur ſkilia þeir glader vid Heimeñ, eñ vantruudum Moñum og Hræſnurum fellur þad þungt, af þvi þeir hafa ecke ſaña Von uñ eilift Lif. Þegar nockur ſa i Leigu- huſe biir, hliitur fra þvi ad fara, fellur honum þad ecke vel, helſt þegar hañ veit ſer ecke añars Von; So vilia Hræſnararner tiſa eiliflega her i Heime, ættu þeir Koſt a þvi, af þvi þeirra Samvitſka ſañ- ſærer þa uñ þad, þeir hafe ecke ſo lifad, ad Gud ſe þeim nadugur, og þeir epter Daudañ eig Von a himneſkum Buſtad. Uñ eirn Mañ er ſkrifad, ſem var Veralldar Sonur, ad fyrer þad hañ var riikur, hafe hañ ecke viliad ſiuuslega deya, hañ hafe eittſiñ orded ſiukur, og þa lated ſig i Sængeñe bera ut i ſiñ Liſtegard, under berañ Himin, og ſo ſagt: O þu goode Gud! Hvar fyrer viltu nu lata

mig

mig deya, og med Valloe neida mig iñ i Himnariike; þvi um̃ þad hef ea aldrei beded þig? Laat mig eñ þa lufa nockra Stund i Heimenum, og þo þad se ecke nema ein 50 Ar, so eg a þeirre Tiid meige hafa mitt Ynde, og mina Anægiu, eins og eg hefe hingadtil haft, þa mættu sialfur siidañ eiga þitt Himnariike! Þar i mot skilia truader christner Meñ vilinger vid Heim þeñañ, þvi þeir vita vel ad þar biida þeir stoora Vegsemd. Damascenus skrifar i einu Lande hafe sa Sidvane vered, ad Landsfoolked hafe utkiored ser Kong, af þeirra eigeñ Foolke, og leinge haft hañ i stoorum Hæavegum, og styrkt hañ til ad verda stoor audigañ, eñ þa hañ hafe orded þeim leidur, hafe þeir svipt hañ allre Virdingu, Audlegd og Konglegre Priide, og reked hañ Landflootta, i eina lángt fra liggiande vide Eyu; hvar hañ hlaut ad enda sitt Lif i mikillre Einid og Vesæld. Eñ einn nüvaleñ Kongur, sem komst ad þessu Haattalage, hafe daglega dreiged nockud af sinum yfergnæfañlega Uppakostnade, og safnad þar af stoorum Fesiood, og miklum Efnum, og sendt þetta til sömu Eyar, so eckert a bære, til hverrar hañ biooft vid sem adrer um̃ siider aan Efa, rekeñ ad verda, og sem Tiideñ kom a hverre þeir settu hañ af og sendu hañ, sem hina firre bersnaudañ i burtu, hafe hañ fared med glodu Gede til Eyareñar, þvi hañ visse ad þar munde ecke neitt ad ser gaanga, helldur þad hañ munde þar lifa i öllu stærre Roosemd, og Sælu, eñ hañ hafde adur. Þesse Epterliikingar Fraasaga gefur þad ad merkia, ad sañchristeñ Madur, sem hefur lagt sig epter Gott ad giora, fer ecke hriggur i burt ur Heimenum, og aangrast ecke af þvi ad skilia vid allt hid Tiimañlega, sem hañ hefur i Hondum haft, helldur glédur sig

framar

framar vid þad, ad fyrerlaata þeñañ illa Heim, þui hañ veit vel ad hañ kemur aptur, i þañ Vegsemdar Stad, hvar hañ lifer i æskelegustu Reosemd og Glede; Hañ hefur safnad ser um̃ sina Lifdaga Fiarsiood a Himne, hvern Molur og Rid fær ecke uppeted, ei helldur sia Pioofar honum epter grafed og stoled, þui fer hañ gladur ur Heimenum þaang= ad sem hans Fesioodur er; Hañ hefur giört ser Vine af þeim Rainglætis Mammon, þui veit hañ nær hañ þriitur i Daudanum, ad þeir medtaka hañ i eilifar Tialldbuder, þo hañ laate epter sig allt þad Tiimañlega i Daudanum, Fe og Peninga, Huus og Garda, Ettfoolk og Vine, samt tekur hañ med ser þad hañ hefur fyrer Guds Raad tilreidt handa siñe Saalu. Hañ tekur med ser gooda, og med Jesu Christi Bloode hreinsada Samvitsku; Hañ tekur med ser Guds Hille og Raad, og Jesu Christi Sakleyse og Rettlæte, hverin hañ hefur iklædst; Hañ tekur med ser sina Tru, Poleñmæde, Gudrækne, Audmykt, Hoogværd, og adrar good= ar Dygder, þaa uppfyllest þad sem Roddeñ af Him= ne sagde til Johannem: Sæler eru þeir Framlid= nu sem i Drottne deya, i fraa þessu, ja, Andeñ seiger, ad þeir hvile af þeirra Erfide, eñ þeirra Verk filgia þeim epter, Apoc. 14, v. 13. Og Esajas seiger: Hiner Rettferdugu verda burt tekner fraa Ogiæfuñe, og þeir sem rettferdug= lega hafa geinged, koma til Fridar, og hvilast i sinum Svefnhusum, Es. 56, v. 13. Hvad er truads Mans Daude? Gior þer ecke undarlega Paanka um̃ Daudañ, ad hañ se eins og Maalarar plaga ad maala hañ upp, so sem dauds Mans Beinagrind, halldande a Sigd eda Lia i Hend= iñe, ottande Moñum þar med. Soddañ Hofud=

Grill=

Grillur meiga christner Meñ ecke giora ser um̃ Daudañ. Ad soñu verdur Liikameñ epter Daudañ, ad Beinagrind, þegar Hollded er rotnad og uppvisnad, eñ þad er ecke Daudeñ sialfur. Vilier þu vita hvad truads Mans Daude er, þa set þer first fyrer Siooner Dauda hins Ogudlega. Hvad er þa þess Ogudlega og Hræsnarans Daude? Hans vantruada Sal verdur fyrer ofarsæla Uppleising skileñ fra hans ogudlega Liikama, uppa þad hañ skule fyrer sina Vondsku medtaka eilift Straff, þegar Mæler hans Synda er uppfilltur, þa burtrycker Gud sem rettviis Doomare, med Vallde hans fordæmdu Sal ut af Liikamanum, añadhvort fyrer Banasoott, edur oñur Tilfelle, og þa er liika sem hañ seige til heñar; Fyrer þvi þu hefur forsmad og spottad mina Raad, og ecke viliad fylgia minum Bodum, helldur slept hia þer øllum minum Aminingum, get eg ecke leingur horft a þina Illskubreitne; Kom þvi fram̃ fyrer miñ Doom, og gior Reikningskap af þinu Framferde, og heyr Straffed, sem eg hefe geimt þer fyrer þiñar Illsku Saker; þa verdur su vantruada Sal afhendt illum Ondum, til ad færa hana ofañ i Helviitis Elld, sem adur er utskiirt i undañfarande 14 Capitula. Eñ hvad er þar i mot truads Mans Daude? Hans Sal, sem med Christi Bloode er hreinsud, verdur fyrer sæla Uppleising skileñ vid Liikamañ, sem vered hefur Bustadur þeirrar H. Guddoomsens Þreñingar, uppa þad hañ fyrer sina Tru, og sitt heilagt Liferne, skule medtaka eilif Nadarlaun; Þegar komed er ad hans Lifdaga Takmarke, sem Gud hefur hønum fyrersett, og Gud ser ad hañ stendur stodugur a Veigenum til Himens, þa burtkallar hañ sem nadugur Fader, hans Sal, fyrer Banasoott edur añad Tilfelle

selle ur Heimenum, og þa er sem hañ seige; Fyrer
þvi þu hefur i Truñe medtekeð mina Raad sem eg
frambaud þer, og þioonad mer trulega, lifad sem
Sañchristeñ, og orded mikeð ad þola; legg eg ecke
lengur a mitt Fodurlega Hiarta, ad laata þig vel-
kiast i soddañ Orooseme; Kom þvi, elskulega Saal!
og heyr þad Gooda sem eg hefe geimt þer, heyr og
sia, hvad Gud hefur tilbued þeim sem hañ elska,
þa verdur su truada Saal, boreñ af H. Einglum
iñ i eilift Lif og Himneska Glede, liika sem Lazari
i Abrahams Skaut, Luc. 16, v. 22. So sæl
Uppleising er Daude truadrar Saalar sem fraaskilst
Liikamanum, þvi seiger Paulus: Eg hefe Gyrnd
a fra ad skiliast, og hia Christo ad vera,
(edur eigeñlega epter Griskuñe, ad uppleisast) Phil.
1, v. 23. Þa Spaamadureñ Elias gyrntest ad
deya, sagde hañ til Guds: Þad er noog, tak nu
mina Saal, Drotteñ! Eige em eg betre eñ min-
er Forfedur, 1 Reg. 19, v, 4. synande med þessu
siñ Daude være i þvi iñefaleñ, ad Gud tæke hans
Saal, til sin i Dyrdena; So gledelegañ Afgaang
fa aller Sañchristner, sem med hreinu Gede hafa
Gude þioonad, og keppst epter iñ ad gaanga uñ
hid þraungva Hlided til eilifs Lifs, þvi þeir uppleis-
ast hedañ og fara til Guds.

§. 3.

Sem Stundeñ er komeñ, a hverre Gud vill
til sin taka truads Mans Saalu, þa eru þeir H.
Einglar i kringum hañ, og vakta Saalena, eñ reka
Sathan a Flootta, so hañ faae ei vidkomed sinum
glooande Piilum, allt þaangadtil hun fer ut af Lii-
kamanum oskodduð. Þegar Lærefader Kyrkiuñar
hiñ H. Ambrosius la fyrer Daudanum, saaust

skiinande Geislar og Elldslogar nockrumsiñum i kringum hans Sæng, hvar vid hans Sveirn vard hræddur, sem þa var til stadar, eñ Biskupeñ sagde til Sveinsins, hañ skyllde ecke ottast, þvi þetta være H. Einglar, til þess komner ad sækia sina Saal; Þañig giorer Gud sina Eingla Anda, og sina Þenara Elldsloga, Ebr. 1, v. 7. Einglar Drottens setia Herbuder i kringum þa sem hañ ottast, og hiaalpa þeim. Ps. 34, v. 8. Paulus seiger: **Eru þeir ecke aller þioonustusamer Andar, utsender til þioonustu vegna þeirra sem erfa skulu Saaluhiaalpena.** Ebr. 1, v. 14. Gud hefur sett hveriuni einum truudum Mañe Eingla sina til Vardveitslu, sem vakta hañ alla hans Lifdaga, þeir eru hiaa honum, allt þaangadtil Saaleñ skilur vid Liikamañ, og taka hana þaa i sina Varatekt, og færa hana til Christum; þaa er liika sem þeir kalla til hañar fyrer soddañ Þaanka: Kom þu heilaga Saal, þu utvallde Himna-Borgare! Nu er komeñ þiñ Heidurs Dagur, aa hverium þu skallt iñflitiast i þaa Himnesku Sælu, fraa þeirre striidande Kyrkiu, til hiñar Sigrehroosande. Her stendur Brudar-Vagneñ til reidu, aa hverium þu, sem Jesu Christi Brudur skallt færast i þad Himneska Brudkaup; Hingadtil hefurdu vered ecke nema trulofud Christo fyrer Truna, eñ i Dag biriast þiñ Brudkaups Dagur. Oss er boded af vorum Yferherra, þinum Brudguma, ad taka þig med oss sem hans Brude, og fylgia þer i þañ Himneska Brudkaups Sal. Kom þvi þu hin blessada medal margra þusunda, vert til reidu, og gack iñ i þins Herra Fognud! J sama Bile sem Saaleñ fer þañig ut af Liikamanum, taka þeir mote heñe, og færa hana i Dyrdareñar Riike. Þegar nockur er hiaa einum

dey-

deyande froomum Mañe, og ser hans siidasta Andvarp, maa hañ þeinkia med ser, þessa Mans Saal se nu allareidu komeñ til Guds, þvi saler eru þeir Framlidnu sem i Drottne deya i fra þessu, þad er fra þvi Augnablike þeir gaafu upp Andañ, Apoc. 14, v. 13. **Og Saaler Rettlaata eru i Guds Hende, og eingeñ Piina snerter þær**, Sap. 3, v. 1. So het Drotteñ Christus þeim truada Ræningia, ad hañ sama Dag hañ deyde, skyllde hañ vera hiaa honum i Dyrdeñi, þad er ad Saaluñe, med þvi hañ sagde; **Sañlega seige eg þer, i Dag skalltu vera med mer i Paradiis.** Luc. 23, v. 43. Þegar Saaleñ fer hañig og liidur i burt, er H. Ande kroptuglega i heñe verkande, so hun helldur ser vid Jesum Christum, og hefur med ser Lausnära-giallded, hans heilaga Forþenustu, huggande sig i siñe siidustu Daudans Neid, vid Guds Fyrerheit, og þad er sæl Burtfór. Meined þer ecke ad froomer christner Meñ müne i sinum Dauda fyrer kroptuga Verkan H. Anda, glediast i Anda vid sina Burtfor ur Heimenum? Ad Guds Ande gefe þeim þaa Fullvissu uñ Himnarike, og Saaluhialpena, og gefe þeirra Anda hañ Vitnisburd, ad þeir seu Guds Born? Ad þeir i Daudanum saae ad siaa og smacka hvad Drotteñ er liufur? Af þvi truud Saal er viss uñ Guds Barna Utvaluñg ser vidkomande, fagnar hun, og fer feigeñsamlega i burt, og af þvi hun veit ad heñar Nafn er skrifad a Himnum. Hun reider sig uppaa Guds Fyrerheit, og seiger i Truñe; **Nu laattu Drotteñ Þioon þiñ epter Ordum þinum i Fride fara, þviad min Augu hafa sed þitt Hialpraad, þad þu tilreiddet fyrer øllum Þioodum**, Luc. 2, v. 29. 30. 31. Af þvi hun hefur striidt kallmañlega a Jordu, von-

ar hun epter ad sa Koroonuna af Guds Hende, og seiger med Paulo: Eg hefe goodre Baraattu bareſt, eg hefe Hlauped fullkomnad, eg hefe Truñe halldeð, nu heðañ i fra er mer aſſiides løgd Koroona Rettlæteſins, ſem Drotteñ hiñ rettlaate Doomare mun mer a þeim Deige gefa 2 Tim. 4, v. 7. 8. Hun reiner það, að fyrer þvi hun hefur Guds Ord halldeð, kañ Dauðeñ ecke að giøra heñe nockurn Skada, ſo ſem Chriſtus ſeiger: Sañlega, ſañlega, ſeige eg ydur, hver min Ord heyrer, og truer þeim ſem mig ſende, ſa hefur eiliſt Lif, og ei kemur hañ i Doom, helldur hefur hañ þreingſt i gegnum fra Dauðanum til Liſſens, Joh. 5, v. 24. Hun reiner það, af þvi hun hefur uñ ſina Liſdaga yðkad ſig, i þvi að hafa oſkerta Samvitſku, bæde fyrer Gude og Moñum, að hun hefur ei einaſta viſſa Von að ſara til Guds, helldur eirnig, að heñar Liikamemune til Liſſens uppriiſa; Hun ſer hun fær það, er hun hefur uñbeded og ſungeð:

Gefðu oſs Herra! Heims uñ Hriid
Heja gott Striid,
Og Tru heilagre hállda, ꝛc.

Hun ſer það að Chriſtus mune gefa heñe Liſſens Koroonu, með þvi hun hefur vered tru allt til Dauðans Apoc. 2, v. 10. Soddañ truud Saal verdur full af Glede, þvi hun er i Anda, viſs uñ ſina Saaluhiaalp, og Guð lætur ſiñ Anda, miña hana þar a; Hver hañ truer og verdur ſkiirður, ſa ſkal hoolpeñ verda, Marc. 16, v. 16. Hver a hañ, það er Guds Son, truer fortapaſt eige, Joh. 3, v. 18. Hver eð ſtaðfaſtur bliifur allt til Enda, mun hoolpeñ verda Matth. 24, v. 13. Hun tekur fagnande mote þvi ſem Guð ſetur fram fyrer

fyrer hana, heimfærer þad uppa sig, og tileignar ser þad, sem hun seige: Eg er skiird uppa Jesum Christum, og hef truad a hañ, og i Truñe stadfost blifed; hvar uppa Gud dæmer so i heñar Anda; Þar fyrer verdur þu hoolpeñ og dæmest ecke, helldur iñgeingur þu i eilift Lif, þvi i Tillite þiñar Truar hef eg utvaled þig, adur eñ Grundvollur Veralldareñar var lagdur, og iñskrifad þitt Nafn i Book þess eilifa Liffsens; Þu hefur yferuñed, þvi mun eg ecke afma þitt Nafn af Lifs-Bookeñe, helldur medkeña þad fyrer minum Fodur, og fyrer hans Einglum. So fara Saler hiña Truudu hedañ, vissar uñ eilifa Sælu, og so er þeirra Burtfor gledeleg. Af þessu sest ad Daude Truadra er eckert añad, eñ Salareñar Adskilnadur fra Liikamanum, og fagnadarsæll Iñgangur i eilift Lif; Hvad deyr þegar truadur Madur deyr? Hiñ H. Augustinus seiger:

Eimd Mañsins deyr, eñ ecke hañ.

Þad er satt, hans Neid og Hørmung deyr, hans Areiting, hans Siukdoomur, og hans Synd, sem i Daudanum aldeilis Aflætur; Fra Heimenum fer hañ, og veit eige hvernig þad tilgeingur, hans Augu lykiast hægt samañ, liika sem eirn leggur sig til Svefns og sofnar. Laatum vera hañ fiñe til sarra Verkia i siñe Soott, uñ nockra Daga, er þad samt ecke su siidasta Piaaning sem hañ skal utñanda? Epter þad kemur aldrei neitt Þungbært fyrer hañ, þvi Daudeñ mun eige meir vera, eige Harmur ne Kveinar, ne helldur Piina mun meir vera, þviad hid firsta er forgeinged, Apoc. 21, v. 4. Þa getur hañ sagt, Daude! hvar er þiñ Broddur? Helviite! hvar er þiñ Sigur. 1 Cor. 15, v. 55. Þa getur hañ sunged:

Þar fyrer auma Verolld vid
Vil eg nu fuslega skilia, ꝛc.

Hvad misser truadur Madur i Daudanum? Angist og Neid. Hvad fær hañ aptur? Audlegd og Dyrd. Hvad skilst hañ vid? Mædufulla Ahyggiu, og eirn Molldar Hnefa, mœsske af raudre Molld; Hvad fiñur hañ aptur? Fognud og Glede. Hvad lætur hañ epter sig? Tiidum Vesæld og Barœttu. Vid hveriu tekur hañ aptur? Himneskre Sælu. Vid hveria skilur hañ? Nockra Vine. Til hverra kemur hañ aptur? Heilagra Engla og otal Fiollda Utvalldra. Hvadañ fer hañ? Ur Heimenum, og ur Huse sem bigt er af Jord og Grioote. Hvert ferdast hañ? Til Fiallsins Zion, til Stadar Guds Lifanda, og til Þeirrar himnesku Jerusalem; A so dyrdlegum Umskiptum œ truadur Madur Von. Af Vesælum verdur hañ sæll, af Voludum audugur, af Siukum heilbrigdur, af Nidurlægdum upphafeñ, af Daudlegum odaudlegur, og af Jardar-Madke, Himensens Borgare. Hvad deyr med þeim Truada? Hans Eimd, Vesæld, Neid, Erfide, Mæda, Synd, Angist, Motlæte, Otte, Skelfing, Plaagur, Offokner, Freistingar, Ahyggiur, Sorger, Siukdoomar, Þreingingar, Hrellingar og Harmkvæle. Hvad odlast hañ aptur þar i mote? Fognud, Glede, Frid, Noseme, Heidur, Upphefd, Odaudleika, Heilsu, Sælu, Heilagleika, Rettlæte, Lioma og Dyrd, þa sañast þad, ad Eimd hans deyr eñ ecke hañ, so sem vor Christne syngur:

Hans Motlæting, Hrigd og Mæda,
Hefur nu oll Ending gooda, ꝛc.

Foolked i Landenu Thracia hafde fordum þa Sidveniu, ad þegar nockurt Barn fæddest medal þeirra, þa gretu þeir, eñ þegar nockur doo, þa fylgdu þeir

þeir hans Liike med Gledskap, Hlatre og Saung-
um, yfervegande þar med, hins Dauda farsællig
Umskipte, asamt þa Eimd, til hverrar Barned
fæddest. Og i Sanleika, stæde ecke vor Truar
Veikleike i Veige, mættum ver fara syngiande burt
ur Heimenum, liika sem ver komum foraaude i han,
þvi i Fædinguñe biriast vor Eimd, eñ i Daudanum
endast huñ; Þar fyrer, þegar þeir truudu Christnu
taka ad beriast vid Daudan, liita þeir ecke epter
þeirra uppþornada og fortærda Liikama, ecke þeirre
dimu Grøf, ecke þeirra Rotnan i Jorduñe, og ecke
þeirra epterlatnu Vinum, helldur horfa þeir med
sinum Truar Augum a Daudans Sigrara, Drott-
en Jesum Christum, sem Daudañ hefur Valldenu
svipt, eñ Lifed og Odaudleikañ i Lioos leidt, 2 Tim.
1, v. 10. Hañ kemur sialfur fram, og seiger:
**Eg em Uppriisañ og Lifed, hver hañ truer a
mig sa mun lifa þoott hañ deye, og hver hañ
lifer og truer a mig, hañ skal aldrei deya,** Joh.
11, v. 25. 26. Þeir horfa a þau eilifu Ord
sem biidur þeirra, og ad Daudeñ er þeim ecke añad
eñ Dyr til eiliifs Lifs, þegar Daudeñ þar fyrer dvel-
ur leinge ad koma, þa er þad ecke añad eñ Hind-
run fyrer oss, fra þvi ad nioota sem first himnesk-
rar Glede, sem Christus hefur oss afrekad. Veana
þessa, hressa froomer Meñ sig upp, þegar þeir fiña
til natturlegs Kviida fyrer Daudanum, og seigia
til Salar siñar, liika sem hiñ sæle Hilarius, um
hvern hiñ H. Hieronymus fra seiger, ad hañ hafe
til siñar Salar sagt, sem var nockud kviidande
fyrer ad fara ut af Liikamanum; Far ut, min Sal,
far ut, þvi ertu ottablendeñ? Þu hefur nu nærre
þvi i 70 Ar, þioonad Christo þinum Drottne i
morgum Þreingingum, og Offsoknum, skylldet þu

nu hrædast Daudañ? Þeir Trunidu vita þad i Daudanum verda þeir slegner til andlegra Riddara, af þeirra Hershofdingia Christo, af þvi þeir hafa i margre Orustu barest hraustlega under hans Merkium, og vered truer allt til Daudans, og odlast oforgeingelega Dyrdareñar Kooroonu, þeir ferdast sem andleger Riddarar med Fagnade til Fiallsins Zion, þvi þeir hafa luckulega broteſt i gegnum allra þeirra Ovina Lid og Fyrersatur, og eru komner ur øllum Vanda, og seigia: Ver hofum yferuñed Sathan og alla vora Ovine fyrer Lambsens Blood, og fyrer Orded vors Vitnisburdar, og ver hofum ecke elskad vort Lif allt til Daudans, þar fyrer glediest þer Himnar, og þer sem þar iñe bigged. Apoc. 12, v. 11. 12.

§. 4.

Hvad orendum Liikama truads Mans er vidkomande, þa er hañ i Jordena lagdur, og verdur þar ad Molld og Dupte, eñ þar hviilest hañ sem i Sæng, og hefur af ser margt Andstreime. Grafer Truadra eru helgadar fyrer Jesu Christi H. Liikama, sem eirnig var i Grofena lagdur, og giordar ad Svefnherbergium og Hviildarstodum, þvi er sañchristeña Maña Daude sætur Svefn, so sem Christus sagde um Dauda Lazari: Lazarus Vinur vor sefur, Joh. 11, v. 11. Og þa sem feinged hafa sælañ Afgang, kallar Paulus sofnada i Christo. 1 Cor. 15, v. 18. Hið er sefur veit ecke hvad a medañ gioreſt; Visse Saul Kongur nockud af þvi, er hañ la og svaf i Vagnborgeñe, ad David og Abisai komu ad honum, og tooku Spiooted og Vatnskered fra hans Hofde? Heyrde hañ nockud hvad Abisai sagdest þa vilia giora honum? Eg meina

meina hañ visse eckert til þess þaa hañ vaknade, 1 Sam. 26, v. 7. 8. So sofa truader fast i Jorduñe, og vita ecke hvad i Heimenum framfer, Illt eda Gott. Hvad visse Ungmeñed i Nain af þvi, epter þad hañ var sofnadur i Drottne, ad hañ var kistulagdur, og boreñ ut uñ Borgarhlided, edur ad hans Mooder og Borgar-Meñerner fylgdu grætande hans Liikfor, eda ad Christus mætte Liikfylgdeñe og kom til ad uppvekia hañ? Luc. 7, v. 12. 13. Þañig hviilast Truader i Jorduñe, og verda ecke varer vid nockuru Mootlæte, eda Striid, ne helldur nockra Neid eda Oroo i þeirra Grosum, sem þeir Lifendu saa þo opt ad mæta; Gud siaalfur setur oss fyrer Siooner, heilagra Maña Grafer, sem Svefnhuus, er hañ seiger! Far þu mitt Foolk iñ i þitt Svefnhuus, og lyk aptur Dyrnar epter þer, geim þig þar uñ liited Augabragd, þaangadtil ad Reideñ er hiageingeñ, Es. 26, v. 20. Og aptur: Eñ þu Daniel! Far hedañ þaangadtil ad Endereñ kemur, og hviil þig, ad þu uppstander til þins Hlutskiptis aa Endanum þeirra Daga, Dan. 12, v. 23. Sofande Mañ er hægt ad vekia se nockud haatt til hans kallad, eda se honum ruggad, vaknar hañ strax. Kuñugt er hvad snogglega Petrus vaknade af Svefne, þaa Eingill Drottens laust liited aa hans Siidu i Myrkvastofuñe, Act. 12, v. 7. Eins hægt, og hægra er Gude ad uppvekia hina Daudu af þeirra dauda Svefne. Hversu braadt uppvaknade Lazarus, af siuum Dauda-Svefne, þaa Drotteñ Christus kallade vid hans Grof, og sagde: Lazare! Kom þu ut hingad, Joh. 11, v. 43. Hversu farsæll er þiñ Liikame, þo hañ i kalldre Jordu ligge nidurgrafeñ, þar hañ sem Hveitekorn skal

goodañ Tiima til Uppvaxtar friosgast, er hañ a effsta Deige uppkemur med dyrdlegum Blooma? Þeink til þess ad marger helger Meñ, Alldafedur, Spameñ og Postular, hviilast med þer i Skaute Jardareñar, i Epterbid þess Fagnadar Dags, a hverium aller Hluter verda endurskickader; þar verda hiner Ogudlegu og Omilldu ad lata af Grimdar-Ædenu, þar hviila sig þeir ed hafa miked Erfide, þar hafa Fangarner Frid hver vid añañ, og heyra ecke Kvalarans Hliood. Job. 3, v. 17. 18. Gud hefur soddañ Gat a Liikomum siña Heilagra, sem i Jorduñe liggia, ad eckert af þeim misferst; So seiger David þar uñ: Hañ forvarar øll þeirra Bein, so ecke eitt af þeim i sundurbrotnar, Ps. 34. v. 21. Og þañig hviilast þeir i sinum Svefn-Husum allt til hins siidasta Dags.

§. 5.

Epter salañ Dauda hiña Truudu fylger þeirra gledeleg Uppriisa, til eilifs Lifs. Strax epter þad fullkomnud er Tala Utvalldra, mun Christus koma i siñe Dyrd, og uppvekia Liikame allra Truadra sem i Jorduñe sofed hafa, til eilifs Lifs. Himineñ er Stadur stoors Samkvæmis, hvar ed Utvalldra Saler samañ safnast fra ollum Heimsins Attum. Þegar Brudkaup skal hallda, safnast Gesterner sem bodner eru, hvad epter añad til Brudgumans og Brudareñar i þeirra Huus, og biida þar þeirra Okomnu, þangadtil þeir aller eru komner, uppa þad Brudkauped med Glede fullgiorest. Vidlika geingur til i þvi eilifa Lifs Brudkaupe, þar samansafnast Lambsens Brudkaups Gester, utvalldra Saler, og lifa i Fagnade til samans, i Dyrdar Sal þess eilifa Lifs, i þeirra Brudguma Vegsemd, epter-

epterbiidande þvi ad Utvälldra Tala full verde, og Doomariñ i siñe Hœtignar Dyrd, frambrune til Doomsins; Sialfa þa H. Eingla langar til ad sia i Lissens Book, og vita hvad snarlega þetta mune ske; Þar fyrer er allur sa himneske Her til reidu hid vegsamlegasta buen, til ad vera i Filge med þeirra Drottne og Konge, þa hañ tekur sig upp til Doomsins, undan honum ad fara, honum epter ad fylgia, og honum ad þioona; Um þessa dyrdarlegu Tilkomu Doomarans Christi hefur Enoch, hiñ siounde fra Adam, spaad og sagt: **Drotteñ kemur med mørgum þusundum Heilagra Doom ad hallda yfer øllum.** Jud. v. 14. 15. Sleidanus skrifar uñ mikla Hefdarreisu, er Keysariñ Ferdinandus hiñ Firsti giorde Ared 1558 iñ i Praga, sem er Hofudborgeñ i Buheimum a þeñañ Hatt; ad hans Son Erke-Hertogeñ Ferdinandus kom i mote honum ut af Borgeñe, til ad veita sinum Herra Fodur Vidtoku, med sim þusundum Riddara Lids, og Footgaungu Lid under 16 Merkium, af Buheima Foolke, og af Silesia. Þeim epterfylgdu tvo hundrud Bændur klæddir gomlum Buheima Buninge, af hverium Keysareñ hafde Epterlæte, einkum af þvi þeir sloou sinar Trumbur, er þeir høfdu epter fornum Sid; Þar epter fylgdu aller Borgareñar Raadherrar attatiu og atta Mans, iklædder siidum Kyrtlum af Damaske, med græna Kransa a Hofdum; Epter þessum fylgde allur Skare andlegrar Stettar-Maña hundrad ad Tolu, og mikill Fiollde lærdra Skoola Ydkana-Maña. Þegar Fylgdeñ var komeñ allt ad Stadarins Raadhuse, stoodu þar til beggia Handa hundrad Jungfruur priidelega bunar ad Landsens Sid, er tooku i moote Keysaranum med latinsk-

latinskre Rædu; Fram leingra stoodu atta hundrud Ungmeñe i hviitum Skyrtum, med raudum Krosse merktum, berande grænar Vidagreiner, og halldande sinum eigeñ Merktum, 13 til 5 Ara gamler, sem liika heilsudu Keysaranum a latinska Tungu; Eñ leingra fram stoodu Gydingarner i vissum Rodum, sem epter sinum Hætte tooku i moote Keysaranum med Saungum. Eñþa framar; A Keysarans Veige stoodu fiorutiiu Eckiur, iklæddar siidum svortum Kapum, med vidheingdu svortu Sorgarbunings Silke, er i moote honum tooku med latinsku Tale; Siidast og nærst þeim Sal Keysareñ skyllde iñ i ganga, stoodu fim̃ Hundrud grahærder gamler, svartklædder Meñ, berande græna Vidarlaufa Kransa a Hofdum, og þa hætte þesse Vidhofn. Þad ma liika i Sogunum fiña, ad nær sem Alexander hiñ Mikle giørde Utreisu ur nockrum Stad, þa fooru first fram̃ undañ fim̃ hundrud Serkiar edur Persar, aller skrautlega buner i Purpura; Þeim epterfylgdu þriu þusund Boogmeñ, sumer raudklædder, sumer blaklædder; Þvi næst plagade Kongureñ Alexander hiñ Mikle ad riida a veglegu hunum Heste, sem var kalladur Bucephal, ellegar ad aka i logagylltum Vagne; Epter Kongenum fylgde mikill Fiollde Fiila a besta Hætt buñner, og þriu þusund Griekia af Macedonia i siidum Kyrtlum; Siidast lauk Fylgdeñe med fimtan hundrud Persa, klæddum Purpura; Þañig eru Skrautreysur hiña Stoorvolldugu i Heimenum; eñ hvad er þad ad reikna, hia Tilkomu hins Allrahærsta Konungs Jesu Christi, er hañ opeñberast af Himne a efsta Deige, til ad uppvekia hina Daudu, og iñtaka þa Utvolldu i þad himneska Brudkaups Herberge? Christus sialfur skiirer fra þvi a-

þeñañ

þeñañ Hætt; Eñ þa Mañsens Son mun koma i sine Dyrd, og aller helger Einglar med hønum, hañ mun þa sitia i Sæte siñar Dyrdar, og allar Pioodir munu samañsafnast fyrer hønum, Matth. 25, v. 31. 32. Og Paulus seiger þar um: Drotteñ sialfur mun med Hroope og Høfudeingilsins Raust, og Guds Ludre, ofañkoma af Himnum, og hiner Daudu i Christo, munu first upp aptur riisa, 1 Thess. 4, v. 16. Liika sem vid Tilkomu veralldlegra Stoorvallds-Herra verdur Kluckunum hringt, Fallbissum afhleipt, i Ludra blæsed, og Lucku Offer upphroopadar, þeim tilkomanda Konge til Æru; So verdur vid Christi Tilkomu, so sem hringt hiñe stooru Klucku, þegar Guds Ludurs Hliood heyrest under eins um Heim allañ, hvar vid hiner Daudu uppvakna; Fyrer Doomara alls Heimsins munu utfara, Reidarþrumur og Elldingar, hvar vid oll Jardarkringlañ mun skialfa og hristast, hvar med þeim Truudu verdur til Kiña gefed, ad Gud vilie sækia þa, og iñfæra i þad Himneska Brudkaup. Þa munu H. Einglar med sterku Hroope og Fagnadar Hlioodum, kuñgiora Truudum af þeirra Brudguma Nalægd, og seigia: Sia! Brudgumeñ kemur, gaanged ut i moote hønum, Matth. 25, v. 6. Fognum og verum glader, og gefum hønum Dyrd, þviad Brudkaup Lambsins er komed, og hans Husfru hefur sig tilbued, Apoc. 19, v. 7. Þeir munu kalla til hiña Utvolldu, ad þeir samañsafnest og kome frañ; Þvi Christus mun utsenda sina Eingla med Baasunu, stoorre Raust, og hans Utvølldum munu þeir samañsafna af fioorum Vindum; fra eirnre Endingu Himins til añarar. Matth. 24, v. 31.

Christ-

Christus, mun med siñe Almættis Raust uppvekia sina Utvallda af þeirra Svefnhusum, framkallande þa til Lissens, epter sinu Fyrerheyte, er haū seiger: Eg vil opna ydar Grafer, og eg vil utleida ydur mitt Foolk af þeim, og iñflitia ydur i Israels Land, Ezech. 37. v. 12. Og aptur: Þad er Vilie Födursins þess er mig sende, ad eg glate eingu af þvi sem haū gaf mer, helldur skal eg uppvekia þad a efsta Deige; Eñ þad er Vilie þess er mig sende, ad hver sa sem Soneñ ser og truer a haū, hafe eilist Lif, og eg mun uppvekia haū a efsta Deige; Hver haū etur mitt Holld, og dreckur mitt Blood, sa hefur eilist Lif, og eg mun uppvekia haū a efsta Deige. Joh. 6, v. 39. 40. 54. Spamadureñ Ezechiel sa fordum Upprisuñar Fyrermindan, þa Drotteñ flutte haū i Anda, og sette haū a viidañ Voll, sem fullur var af Beinum, og haū sa hvernig þesse Bein hrærdu sig og komu til samans, og Ædar og Kiot uxu a þeim, og Hörund drooft yfer þau, og Ande kom i þau, og þau lifnudu aptur, og reistu sig uppa Fætur Ezech. 37, v. 1. —10. Karl Gustaf Kongur i Sviariike let til Miñingar, sinar gledelegrar Upprisu, setia til Hugarmindar, a siñ Legstad, sofande Leon, med þessare Yferskript: Eg mun upp aptur riisa. Þeir gomlu Serkiar settu a sina Legstade uppdregna undergangande Sool, med þessare Yferskript: Hun reñur upp aptur. Uñ þad meiga aller Truader visser vera, ad a efsta Deige munu þeir af þeirra Grofum framkoma, liika sem skiinande Sooler, liika sem Sooleigiañ (ein Jurt sem eigeñlega hefur þad Heite) leggur sin Lauf samañ, vid Soolareñar Nidurgaungu, og hneiger sitt Hofud ad Jordūñe,

uñe, eñ vid heñar Uppgaungu reiser hun sig upp aptur, og opnar sin Lauf; So hneigia þeir, Truudu sig nidur i Daudanum, og leggiast i sinar Grafer, eñ sem Rettlætis Sooleñ Jesus Christus uppreñur, og frañskiin a effta Deige, reisa þeir sig upp aptur fyrer hans Krapt, og uppkoma lifande ur Jorduñe. J Fljootenu Eophrates er sagt einslags Tre vare, sem kallad er Scapus, er legge sig ofañ i Vatned ad Kvollde, med ollum sinum Greinum og Laufum, so þad siaest ecke frañyfer Midnætte, reise sig upp aptur under Morguneñ, og siaest þa allt. Vidliika giora sañchristner Meñ, þegar Daudans Noott yferkemur, sijila þeir sinum Liikomum og hviilast i Jorduñe, eñ ad Morgne hins effta Dags, munu þeir ur þeirra Grofum lifande uppstanda. Þessa Von hafde hiñ þoleñmoode krossberare Job, er hañ sagde: Eg veit ad miñ Endurlausnare lifer, og þad hañ mun herepter uppvekia mig af Jorduñe, og eg mun siidarmeir uñgefast med þessu minu Hørunde, og eg mun sia Gud i minu Hollde, þañ hiñ sama mun eg sia fyrer mig, og min Augu munu liita hañ, og ecke eirn añarlegur, Job. 19; v. 25. 26. 27. Þessa Von hafa aller truader Sañchristner Meñ, og þess vegna skilia þeir glader vid Heimeñ, og seigia ser til Huggunar:

Af Eikum falla Avexter,
Aptur þo vara bloomleger, 2c.

Þegar i opeñberum Samkomum i hiñe firstu Christne, voru leseñ eda sungeñ þesse Ord i þridiu Truareñar Hofud Grein. Eg true ad se Holldsins Upprisa, og eiliift Lif, þa løgdu þeir Christnu sina Hond a sitt vinstra Briooſt, viliande þar med teikna, ad þeir hefdu obrigdañlega Von, Upprisuñar

uñar til eilifs Lifs, og þeir mundu med sama Hollde sem þeir þaa snertu, af Grøfunum uppriisa.

§. 6.

Einginn sannchristenn Madur hefur Efa a þvi, ad truader Menn saae so gledelega Upprisu, nær hann ihugar þad mikla Almætte Jesu Christi, med hveriu hann kann ser alla Hlute undergefna ad giora, sem hann sialfur seiger: Allt Valld er mer gefed a Himnum og a Jørdu Matth. 28, v. 18. Nær Madurenn yfervegar, hversu fliootlega ad Drottenn Christus uppvakte af Dauda, med sinu Mattar Orde, Doottur Jairi, Ungmenned i Nain, og Lazarum, er þo var tekenn ad lukta illa i Grøfenne, er hann kallade med hærre Roddu, og sagde: Lazare! Kom þu ut hingad, Joh. 11, v. 43. Umm þesse Christi Ord, hefur Cyrillus eirn Kyrkiu Lærefader so skrifad; So var Christi Rodd þaa mattug, ad hefde hann ecke nefnt Lazarum, serdeilislega a Nafn, þaa hefdu eirnig hiner adrer Daudu sem þar umkring laau, uppvaknad, og meint ad þeir væru uppkallader. J Sannleika hefur Christi Raust soddann Krapt a þeim siidasta Deige, ad vid hana uppvakna aller þeir sem i Grøfunum liggia, hann er sa sem vorar Grafer apturlykur, og þeim upplykur, so sem hann sialfur seiger: Eg em sa firste og siidaste, og sa lifande, eg var Daudur, og sia ad eg em lifande fraa Eilifd til Eilifdar, og eg hefe Likla Helviitis og Daudans, Apoc. 1, v. 17 18. Gete Gud laated þau Tre sem alla Bloomgan mist hafa a Vortiimanum, a ny bloomleg verda, og bera allslags Averte, og allrahanda affallenn og folnud Bloomstur i Aldengordum, Eingium, Morkum og Skoogum, aptur uppgrooa;

þvi munde hañ þaa ecke geta læted Liikame siña Truaðra aptur a Upprisuñar Vore veglega bloomgast? Hañ seiger sialfur: Ydar Bein skulu blomgvast sem añad Gras. Es. 66, v. 14. Þegar Gydingar fordum Daga hofdu jardad nockurn af þeirra Foolke, og sneru aptur heimleidis, kiptu þeir upp Hnefa af grænu Grase, og kostudu þvi a Bak ser upp i Lopted, og sogdu; til hans Upprisu Miñingar; Hañ skal bloomgvast aptur sem Gras. Þeir kolludu eirnig Grofena Beth Chajim, þad þiidest Lifendra Huus. Petrus Petrei i siñe Book um Gardariike seiger fraa, ad þess Lands Foolk, sem nu kallast Russar, edur Moscovitar, og þeirra Land Russaland, hafe, nær þeir mætust a Paaska-Dageñ, og hver heilsade odrum, so sagt: Saa eine, Christus er krossfestur, hiñ añar þar a moote; Hañ er sañarlega upprisēñ, og þvi næst hafe hver gefed odrum eitt Egg, kyst hver añañ, og geinged so siñ Veg; Þar med villdu þeir gefa ad merkia siña Von um Upprisuna, þvi liika sem i Eggenu sest eckert af Unganum, sem i þvi er, hverke hans Fidur, Nef, eda neckud añad, og þo leider Gud hañ þar ut af; So kañ Christus, saa allsheriar Kongur, ad framleida siña Truadra Liikame, er i Jorduñe hiliast, aptur af heñe med Life. Hiñ H. Lærefader Augustinus, hefur viliad læta af Eggenu Merkiast Vonena, þvi so skrifar hañ þar um: Egged þiider Vonena, þvi Ungans Lif, er i first þar ecke i, eñ er væntanlegt, og sest ecke, helldur er þess Von; Vid þessa Von gledia sig aller Sañchristner, og seigia til sins Drottens Jesum, so syngiande:

Eins sem af Dauda Uppre:stu,
J Grof mun eg ei bliifa, ꝛc.

Þeir hafa aller Ord Drottens fyrer ser, er so hlioodar: Þiner hinu Daudu munu lifa, og medur Liikømum uppriisa, vaked upp og lofsynged þer sem ligged i Jørdu, þviad þin Døgg er Døgg hins græna Vallarens, Es. 26, v. 19. At viisu uppriisa þeir med þeirra firre Liikomum, þo ecke af Syndeñe saurugum, helldur helgudum, ecke siukum og veikum, helldur hraustum og heilbrigdum, ecke daudlegum helldur odaudlegum, ecke nattturlegum, helldur andlegum og forklarudum; Þvi seiger Paulus: Þad verdur sad Forgeingelegt, eñ mun upp aptur riisa Oforgeingelegt, þad verdur sad i Vansemd, eñ mun upp aptur riisa i Vegsemd, þad verdur sad i Breiskleika, eñ mun upp aptur riisa i Krapte, þad verdur sad nattturlegur Liikame, eñ mun upp aptur riisa andlegur Liikame, 1 Cor. 15, v. 42. 43. 44. Og aptur: Vor Uñgeingne er a Himnum, hvadañ ver væntum Frelsarans Jesu Christi vors Drottens, sa vorn forgeingelegañ Liikama mun forklara, þad hañ verde liikur hans forklarudum Liikama, epter þeim Krapte, er hañ kañ ser alla Hlute med undergefna ad giøra, Phil. 3, v. 20. 21. Þañnig munu allra Utvalldra Saaler þeirra forklarudu Liikømum, a Augabragde sameinast, og lifande framkoma. Liika sem sa er utsofed hefur a Morgna, er liiflegur og hress, þo hañ hafe þreittur og sifiadur lagst nidur a Kvolldeñ, so munu eirnig þeir Truudu, sem a Kvolldtiima þeirra Lifdaga, hafa i Daudanum mædder, og mattfarner til Hvilldar lagst, a Morgne hins efsta Dags snarsærer og hresser med fullum Ungdooms Kroptum ur Grofunum framgaanga, og liika sem þeim er sofed

sofed hefur heila Noottena, finst þad ecke þegar hañ vaknar, hafa vered nema stundarkórn, og hañ hafe vered so sem ny sofnadur; So finst þeim Utvoldu, þo þeir hafe hviilst i Jerduñe, nockur þusund Ara, þad ecke hafe vered nema uñ liteñ Tiima, siidañ þeir sofnudu i Drottne. Þañig verda þeir Truudu vid Christi Tilkomu uppvakter til eilifs Lifs, eñ þeir sem þa lifa, munu næska skindelega a einu Augabragde umñskipteleger verda, vid hiñ siidasta Ludurs Þyt. 1 Cor. 15, v. 51. 52. So ględeleg verda afdrif allra sañchristeña Mañа, sem her keppast epter iñ ad gaanga uñ hid þraungva Hlided til eilifs Lifs, og so dyrdarleg verdur þeirra Upprisa epter þeirra sælañ Dauda.

## §. 7.

Strax sem þeir eru uppvaknader i Grofunum, munu þeir ecke einasta heyra alls Heimsins Doomara, komande med miklu Vallde, helldur eirnig sia hañ i Skyum Himens i mikille Dyrd; og þo hiner Ogudlegu hristest þa og skialf: af Sorg og Otta, med ognarlegre Angist, Hroope og Kveinañ, og seige til Fialla og Biarga; Falled yfer oss og hilied oss fyrer Auglite þess sama a Stoolnum situr, og fyrer Reide Lambsins, þviad hiñ mikle Dagur hans Reid: er komeñ, og hver fær stadest, Apoc. 6, v. 16. 17. hvad adur er ad miklu leite utskiirt i 14 Capitula, samt munu þeir Truudu, þa okviidner vera, þeir geta þad eirnig vered, af þvi þeirra Saaler eru adur epter Daudañ allareidu til Saaluhiaalpareñar aaliktadar. Hvadañ maa þeim koma Hrædsla eda Angist? Syndeñ alleina velldur þvi, ad Samvitskañ er kviidafull, eñ þeir Utvolldu hafa i Upprisuñe einga, og ei þa minstu Synd a ser,

helldur verda þeir i Daudanum fullkomlega helgader, fyrer Christi Blood, og allar þeirra Synder verda epter i Grofeñe, liika sem gagnfunar, so her um maa seigia þad Paulus seiger: Hver sem deiddur er, hañ er rettlættur fraa Syndeñe. Rom. 6, v. 7. Þvi kuña þeir ecke ad hrædast ne kvida vid Christi Tilkomu. A medañ Adam var i Sakleisesins Stande, og syndlaus, var hañ kviidalaus, og kende einkis Otta i siñe Saalu, eñ strax sem hañ hafde syndgad og Gud kallade aa hañ, svarade hañ: Eg heyrde þina Rødd i Alldeñgardenum, og eg hrædunst, Gen. 3, v. 10. Þeir Truudu muñu aa efsta Deige uppriisa, syndlauser, heilager, og rettlaater, berande aa ser Guds Mind, hvernig meiga þeir þaa hrædder vera? Þeir hafa þaa ecke helldur framar naatturlega Liikame, sem Hrædslu eru underorpner, helldur andlega, þvi munu þeir uppvaknader strax taka til ad fagna Christi Tilkomu, og med H. Eingla Fagnadar Raustum undertaka, og seigia: Hosianna Syne Davids! Lofadur se saa sem kemur i Nafne Drottens, Hosiañe i hædstum Hædum! Matth. 21, v. 9. Nu er Heilsa og Kraptur, Riike og Maattur vors Guds orden hans Christs, þar fyrer gledieſt þer Himnar, og þer sem þar iñe bigged. Apoc. 12, v. 10. 12. þar til upporfast þeir med þessum Ordum. Vaked upp, og lofseiged þer sem ligged i Jørdu, Es. 26, v. 19. Konungleg Brudur, sem sookt verdur til sins Brukaups, verdur ecke hrædd, ecke helldur hrædest soddañ Brudkaups Gestur vid þad, þo þeir heyre Bumbu og Ludra Hlood, og Fallbissum se afhleipt, og allrahanda Listelldar brender; So verda ecke helldur hiner Utvolldu, sem eru Lambsins Brudkaups Gester, er sookter verda til þeirra Brudguma, hrædder vid þad aa efsta Deige, þo Himnarner

ner forgange med stoor Brestum, og allt Jardriiked upp brine, þvi þeir vita ad sa Dagur er þeirra Brudkaups Dagur, Heidurs, Fagnadar og Frelsis Dagur, helldur verda þeir glader vid ad heyra Guds Ludurs Hliood, visser um þad ad Guds Riike er nælægt, en þeir Froomu og Gudhræddu, a hveria sa effte Dagur hitter a lise, kuna ad sonu i firstu ad formerkia hia ser nockurn Otta, adur en þeir umskiptast, af þvi þeir eru en þa umgefner þvi syndugu Hollde; Þegar þeir sia Teikn, a Soolu, Tungle og Stiornum, og heyra ad Sioor og Bilgiur þioota, en þeir sleppa þeim Otta aptur snarlega, þvi þeir vita ad Guds Riike er nælægt, þeir upporfast eirnig þar til, epter þvi sem Christus seiger: Nær þetta tekur ad ske, þa liited upp, og upphefied ydar Høfud, af þvi ad ydar Endurlausn tekur ad nalgast, Luc. 21, v. 28. Su Borg sem af Ovinum er hardlega umsetenn, skelfest ecke vid þad, þo hun heyre sins Konungs Her-Piipur og Fallbissna Hliood, af þvi hun veit han kemur med Hiaalpar-Lid til ad frelsa hana fra Ovinana Vallde; So ottast ecke sanchristner Menn fyrer ad lifa a siidasta Deige, helldur þeinkia þeir so med ser: Nu lætur Christus sinka sem nockra Listellda uppstiiga i Lopted, sem Teikn til þess, ad þeir skule snarlega frelsast, fra allra sina Ovina Vallde og ollu Illu. Þegar þeir heyra i Loptenu þaug sterku Þrumu Hliood, og sia Elldana leiptra, þeinkia þeir: Nu biriast Sumar hins eilisa Lifs. Ei helldur skelfast þeir fyrer þeim Ellde sem i Jordune kviknar, af hvers sterka Hita Hofudskepnurnar brædna, þvi sa Elldur brenner einasta Syndarana, en ecke Guds Born. Liika sem Elldur þess brennanda Ofn i Babilon, skadade eckert þa þria truudu Menn Sadrach, Misach, og Abednego, og audsynde eck-

ert Valld a þeirra Liikomum, eñ þeir Ogudlegu sem Ofneñ kindtu, foorust af Ellds Loganum. Dan. 3, v. 22, 27. So mun ei helldur sa ognarlege Elldur sem Christus a effsta Deige ofañ sender a Jordena, snerta þa Utvolldu, þo hañ griipe til hiña Ogudlegu, ad gefa þeim þeirra forþentu Laun; med þvi þeir Utvolldu hafa þa eckert ad ottast, verdur sa Dagur þeim Dagur mikils Gledskapar, a hverium þeir iñganga i sins Herra Fognud; þa munu þeirra Muñar, verda fuller af Glede Hliodum, og þeirra Tunga af Lofsaung, er þeir sia Mañsins Son komanda i Skyunum, med stoorum Krapte og Dyrd, Luc. 21, v. 27. Hvad ern Konglegar Hefdar Reisur virdande hia Christi Tilkomu a Enda Heimsins? Alldeilis eckert; Þeinkium hvad otolulegañ Fiollda H: Eingla Gud hefur skapad, sem þioona honum, og forsvara þa Froomu. David seiger: Vagnar Guds eru þusundsiñum þusünd, Drotteñ er a medal þeirra a þvi H. Sinai, Ps. 68, v. 18. Og Daniel seiger: Þusundsiñum þusund þioonudu hønum, og tiusiñum hundrad þusund stoodu frame fyrer hønum; Doomureñ vard halldeñ, og Bækurnar urdu uppluknar. Dan. 7, v. 10. Þeinkium hvad marger heilager Meñ hafe med Christo uppriised, er hañ uppreis fra Daudum, og med honum til Himens upp fared, hvar um Mattheus seiger: Og marger Liikamer Heilagra risu upp, þeir ed svasu, og geingu epter hans Upprisu ur Grøfunum, og komu i hina heiløgu Borg, og augliistust þar mørgum, Matth. 27, v. 52. 53. Eige einasta munu aller þesser hiner Heilogu, sem med Christo voru uppvakter fylgia honum, til ad vera med honum Doomsitendur a ytsta Deige, þvi so er skrifad: Sia ed! Drotteñ

kemur

kemur med mørg þusund Heilagra Doom ad hallda yfer øllum, Jud. v. 14. 15. helldur mun eirnig oteigiañleg Tala H. Eingla med Christo koma, og eingeñ þeirra mun epter verda; Hafe mikill Fiollde H. Eingla synt sig uñ Grandana vid Bethlehem er Christus fæddest, i hans Nidurlægingar Stande, sem Lucas seiger: Og jafnskioott þa var þar hiaa Einglenum Margfiøllde himneskra Hersveita, sem losudu Gud, og søgdu, Dyrd se Gude i Upphædum, og Fridur a Jørdu, og Møñum goodur Vilie, Luc. 2, v. 13, 14. Mikln framar munu þeir H. Einglar i otal Fiollda fylgia Christo sem Veralldareñar Doomara, i hans Upphafningar Stande a efsta Deige, og fara undan og epter honum, i hiñe fegurstu Filkinga Nidurskipan. Vissulega er viss Nidurskickan a medal þeirra H. Eingla, þo hun se oss ad mestu okend, utañ hvad raada maa af H. Ritningu, þar þeir ecke einasta verda Einglar kallader, helldur er eirnig geted uñ Michael sem eirn af þeim ædstu Hofdingium, edur Hofudeingel; So kallast þeir eirnig Throonar, Hofdingiadoomar, Valldstetter, Vollduger og Kraptar, sem eru aller af Christo skapader. Eingilleñ, þañ Gud sende til Zachariam Keñemans, sagdest vera Gabriel, sa er frañe fyrer Gude stendur, sem Hofud-Eingill, eda eirn miog ypparlegur Pioon. A hinum ytsta Deige munum ver sia ad sia med vorum Augum, þa veglegu Nidursetning, hvar med H. Einglar adgreinast; Munde ecke þikia mikils uñverdt, ad sia eirn voldugañ Veralldar Kong frañreisa, er hefde i Filge med ser hundrad þusund Mans, og hver Filkingeñ være añare betur bueñ, og þar med frañkiæme hans Tignar Pioonar, Hertogar, Greifar edur Jarlar, Friiherrar, Riikesins Hofdingiar, Embættis Meñ,

og allur Landsins Adall? Eñ hvad være þad hia Christi Tilkomu til Doomsins? Hvad er hundrad þusund Mans hia otal Milliona þusunda H. Eingla, er liika sem Guds Her eru hingad og þangad i Loptenu med þeirra Herlide, so allt upplioomast af þeirra Biartleika? Seige Drotteñ Christus so um hina Utvølldu? Þa munu Rettlæter lioома sem Sool i Riike Fødurs þeirra, Matth. 13, v. 43. Seige David so um H. Eingla, ad Gud giøre sina Eingla ad Vinde, og sina Þenara ad Elldsloga, Ps. 104, v. 4. Kallast þeir Morgun-Stiornur fyrer siñar Birtu saker, Job. 38, 7. Hviliikur Lioome mun þa af þvi standa, ad soddañ Hofudfiollde þusunda Eingla og heilagra Maña, glansar i Loptenu sem skiært skiinande Sooler, og sialfur Christus sem er Lioome Guds Dyrdar, i siñe Guddooms Dyrdar Hatign skiin a medal þeirra? Mun ecke Fognudur Utvalldra stoor vera er þeir horfa a allt þetta? Mun ecke þeirra Hiarta hlæja af Fagnadar Kiæte, af þvi, ad horfa a Christum, komande i siñe Velldis Dyrd, med Einglaña Herskorum til ad sækia þa og heim flitia, i þeirra Himneska Fodurland? Þegar Guds Sattmaals Ørk, kom fordum i Israels Maña Herbuder, þa æpte allur Israel miked Fagnadar Op, so ad Jordeñ took under, 1 Sam. 4, v. 5. Hversu miked Fagnadar Op mun gioraſt a siidasta Deige, þa Utvallder sia ad sia þa rettu Sattmaals Ørk Christum til sin komanda, ad frelsa þa fra ollum þeirra Ovinum og Offoknurum, þa munu Einglarner og Hofud-Einglarner, Throonarner, og Hofdingia-Doomarner, giora Hroop mikils Fagnadar i Loptenu, og uthroopa eina Lucku Oſt epter adra. Þeir heilogu uppvöktu munu þa Jordune strax undertaka, seigiande Heimsens Doomara velkomeñ, med

med Glede, Lofgiørd og Fagnadar Hlioodum; Soddañ Glede-Dags hafa aller Sañchristner ad biida i Endalok Veralldar, og so gledelegañ Utgaung fær sañur Christeñdoomur.

§. 8.

Nær Doomareñ i sliikre Heatignar Vegsemd er komeñ til Doomsens, ad dæma allt Jardriiked, og hefur uppvaked alla Truada til eilifs Lifs, þa mun hañ laata sina H. Eingla skilia þa fra þeim Ogudlegu, og setia þa ser til hægre Hlidar, þa uppfara þeir liika sem ungar Arner i Skyum a moots vid Drotteñ i Loptenu, og standa þar i storre Vegsemd. J Heimenum hafa þeir Froomu alltiid vered ovirdter, og þvingader af þeim Ogudlegu, so þeir hafa optast maatt bera lægra Hluta, eñ þa standa þeir sem Guds Born vid hans hægre Hond. Þeir haldast vid i Loptenu hia Christo, eñ þeirra Oviner, og hiner Ogudlegu hlioota þa ad standa a Jordune, og horfa upp epter þeim; þa kemur þad frañ sem David hefur sagt; Hiñ Ogudhrædde mun þad sia og fyrer þikia, sinum Tøñum mun hañ samañbiita og forgaunga, Ps. 112, v. 10. J Heimenum hefur þeirra Gudrækne vered eingu neit halldeñ, og þeirra Tru fyrerliteñ, ad þeirra Anægdar Gede hefur hædt vered, og þeirra Umhiggia fyrer þvi Eilifa, hefur vered Einfeldne reiknud, þvi þeir Ogudlegu virda þad allt fyrer Onitiu, sem til Christeñdoomsens Ydkunar er hast, þar fyrer seigia þeir; Þad er forgefins ad þioona Gude, og hvad hiaalpar þad, þo ver hølldum hans Bod og færum straangañ Lifnad, fyrer þeim Drottne Zebaoth; Þar fyrer priisum ver þa Forsmaanara, þvi þeir Ogudlegu vaxa, þeir freista Guds og hafa Lucku og Framgang,

gaung, Mal. 3, v. 14. 15. Eñ a medañ hugga þeir Froomu sig iñbyrdis a moote þessu Gudleisis Tale, og seigia: Drotteñ merker þad og heyrer þad, og þad er eitt Miñingar Bref fyrer hañ skrifad, fyrer þa sem ottast Drotteñ og þeinkia a hans Nafn, v. 16. Þa komast þeir ad Raun um þad, ad Drotteñ hefur allt gaumgiæft, heyrt og sed, allt þad Gooda sem þer hafa giort, talad, og hugsad, er hañ tekur til ad endurgiallda þeim þad riikuglega. Lika sem Christus mun a siidasta Deige setia þeim Oguðlegu fyrer Siooner allt þad Jlla, sem þeir hafa giort, talad og hugsad, heimuglega og opeñberlega, eñ þeigia um allt hid Gooda, sem þeir hafa þess i millum adhafst, af þvi þad hefur vered af Hræsne giort, og verdur þvi ecke af honum fyrer gott aliited, þvi hvad eige er af Truñe, þad er Synd, Rom. 14, v. 23. So mun hañ þa einnig þeigia um allt þad, sem þeir Utvoldu hafa i moote honum syndgad i þessum Heime, og ecke bregda þer um neina Synd, þvi allar þeirra Synder eru þeim i Heimenum fyrergefnar, fyrer þeirra Truar Saker. So sem þad er sagt um Gud hañ mune nidurtroda vora Misgiorninga, og kasta ollum vorum Syndum i Hafsins Diup. Mich. 7, v. 19. So kemur hañ ecke helldur upp med þær Synder, sem hañ hefur uppgefed, helldur lætur hañ þær nidre liggia, eins og væru þær nidurgrafnar i Hafsins Diup. Hañ hefur sagt; Eg, eg em hañ sem afmae þinar Synder miña vegna, og miñest ecke þiña Synda, Es. 43, v. 25. Þvi miñest hañ ecke a þær Synder fyrer Doomenum, sem þeir Truudu hafa a Jordune framed, af þvi hañ er sañordur Gud, helldur hañ allt þad hañ hefur hveriun einum lofad, er ser hefur til hans snued, so sem hañ seiger: Allar hans Synder sem hañ hefur giort,

skulu

skulu ecke hugleiddar verda, Ezech. 33, v. 16. Hiñ siidaste Dagur er Utvalldra-Heidurs Dagur, a hverium þeir munu af Christo Heidur fa, eñ ecke Vanvirdu fyrer Brixle þeirra Synda, þvi so heiter þad; Hver mig heidrar, þañ vil eg heidra, 1 Sam. 2, v. 30. Og ef nockur þionar mer, þa mun miñ Fadir hañ heidra Joh. 12, v. 26. Þad ma heyra af Doomsins Framsor Matth. 25, v. 35 — 40. Ad Christus bregdur þeim ecke uñ nockra Synd; Þetta er ecke alliitil Huggun fyrer þa Truudu, ad eingeñ Synd, sem þeir hafa giort kemur frañ fyrer Guds Doom; Þar a moote vill Christus hroosa og a Lopt hallda, ollu þvi Gooda sem þeir hafa giort, talad og þeinkt, þo þad hafe allt vered ofullkomed; Hañ vill viidfrægia þad, ad þeir hafa rettelega truad a hañ, ottast hañ, og fordast hid Vonda, ad þeir hafa audsynt allrahanda Good-verk, talad Gott med Muñenum ser og odrum til Nytsemdar, og Uppbyggingar, haft heilaga Þanka i Hiartanu, stundad epter þvi Eilifa, og vered med Himneſku Siñe; Hañ mun hroosa þeirra Poleñ-mæde, i Krosse og Hormungum, þeirra Stodug-leika i Ofsoknum, Þreingingum og Freistingum, ad þeir hafa ecke þar fyrer fra honum falled; Þeirra Kiærleika og Froomleika i Umgengne vid Naungañ, þeirra Hoogværd, ad þeir hafa miked lided, sinum Ovinum tilgefed, og beded þeim Betrunar; Þeirra Hoofseme, ad þeir hafa kostgiæft heilager ad vera i Anda og Liikama, lifad an Ohoofs og Ofdryckiu, og vered vakande yfer sinu Framferde; Þeirra Liite-læte, ad þeir hafa kañast vid sina Eimd, og Van-semd, og þar fyrer liitelæckad sig under volduga Guds Hond; Þeirra Gudrækne, ad þeir hafa an Aflaats i Ydran og Tru Gudi þioonad, akallad hañ

tru-

trulega, og losad hañ fyrer hans Velgiorninga; Þeirra Bliidlinde og Giafmillde, hvar med þeir hafa aumkast yfer þeim Naudstøddu, og biargad þeim af sinum Efnum, og ad viisu ollu þeirra goodu Framferde, so sem hañ mun seigia til þeirra. Hungradur var eg, og þer gæfud mer ad eta, þyrstur var eg, og þer gæfud mer ad drecka, Gestur var eg, og þer hiistud mig, nakeñ var eg, og þer klæddud mig, siukur var eg, og þer vitiudud min, i Myrkvastofu var eg, og þer komud til min, Matth. 25, v. 35. 36. Þad ma rettelega Heidur heita, sem Heimsins Doomare giører Utvolldum a þeim þeirra Glede og Heidurs Deige, þa fullkomnast þad sem Gud Drotteñ hefur sagt: Þer skulud sia, hvada Mismunur er i millum þeirra Rettlatu og þeirra Ogudlegu, og a millum þeirra sem þioona Gude, og hiña sem hønum ecke þioona. Mal. 3, v. 18. Hvernig meiga þeir truudu kviida fyrer soddañ þeirra Heidurs og Endurlausnar Deige? Sa sem er truur Raadsmadur, og hefur siñ Reikningskap til reidu, ottast ecke þo hans Herra kalle hañ til ad giora Reikningskapeñ; Sa sem er klagadur, eñ hefur þo gott Maalefne, og higgeñ Talsmañ og naadugañ Doomara ottast ecke ad mæta fyrer Rettenum. Utlærdur Madur, sem er vel froodur ordeñ, ottast ecke þo hañ heyre hringt uñ Morgunneñ til þeirrar Samkomu hiña Lærdu, i hvørre hañ skal fa Virdingar Nafn, og kallast stoor Læremeistare, eda þviumliikt; Eins liika er vared fyrer þeim Truudu, a effsta Deige, af þvi þeim er bueñ hin hærsta Farsælld; Israels Børn i Egiptalande ottudust ecke þo þau sæe þær tiiu stooru ogna Plaagur yferkoma, þvi þau vissu þad var Fyrerbode þeirra Frelsis, og ad Gud villde snarlega leisa

þau, ut af þvi Prældooms Huuse; So vita hiner Truudu ad Teikn a Soolu, Tungle og Stiornum, boda þeim ecke añad eñ dyrdarsamlegt Frelse Guds Barna, þvi ottast þeir ecke þar fyrer, eñ glediast helldur, og lata þa Ogudlegu a medañ ad ser ama, vitande þad ad somu Teikn boda þeim eilifa Ohamingiu; Mælesne þeirra Truudu er gott, og þeir fa þa Rett yfer ollum sinum Ovinum og Ofsooknar-Moñum; Þeirra Reikningsskapur er gilldur giordur, þvi Christus hefur sialfur borgad fyrer þa, sem hañ seiger: Eg vard ad borga þad sem eg rænte ecke, Ps. 69, v. 5. og þeirra Skullder eru yferdregnar med hans Bloode, þvi seiger Paulus: Hañ hefur fyrergefed oss allar vorar Synder, og afskaffad þa Handskript sem moote oss var, hver i Setningum var huleñ, og oss gagnstædeleg, og hefur hana a burt teked, og a Krosseñ neglt, Col. 2, v. 13. 14. Þaad Saaler Truadra seu i Daudanum lausar fra ollum Syndum, og Rettlættar, samt er ecke alkuñugt, hverier Gude hafa rettelega þioonad og hoolpner orded, og hverier ecke, þvi hefur Gud þeñañ Doomdag tilsett, a hverium þeir Froomu skulu opeñberlega heidrast og upphefiast; eñ þeir Ogudlegu sviivirdast og straffast. So sem þad er kostum Striidskappa meire Æra, ad vera af sinum Konge sleigeñ til Riddara, eda vera upphafeñ til Jarls, eda Riikis Hofdingia, Tignar opeñberlega, þar sem Hereñ stendur uñ kring þusundum samañ, Merkiunum er a lopt hallded, i Herpiipur blased, og Bumbur slegnar, helldureñ ad þad gioorest i Kirdum i Kongsins Sal, þar fæer eru til stadar; So er þad þeim Utvoldu hin stærsta Æra, sem hafa vered andleger Striidsmeñ Jesu Christi, og barest hraustlega, ad þeir verde fyrer ollum Heime opeñ-

opeñberlega, af Konge allra Konga, settur til Himneskrar Kongs Tignar, og kriinder med Dyrdareñar Koroonu, sem er osorgeingeleg, a medañ þeir Himnesku Herskarar standa allt um kring i fegurstu Nidurradan, med dyrdlegum Liooma, og Fagnadar Saung-Hlioome, og Guds Ludurs Hliood heyrest i ollum Attum. A þeim Deige kemur þad fram, sem hiñ viise Madur seiger: Þa mun sa Rettlaate standa med mikille Hugarhreiste i gegn þeim sem ad hønum þreingdu, og burtkøstudu hans Erfide, þa er þeir sia slijkt, munu þeir hrædelega skelfast, vegna sliikrar Sælu, sem þeir ecke hugdu þeim, og munu mæla hver vid añañ, med Angre, og af Hugar-Angist andvarpa; Þesse er sa sem ver firre darrudum, og høfdum ad Athlaatre; Ver Gicker helldum hans Lifnad fyrer Vitleisu, og hans Afgaang smaanarlegañ; Hvernig er hañ nu reiknadur a medal Guds Barna, og hans Arfskipte er a medal Heilagra? Sap. 5, v. 15.

§. 9.

Sia þu miñ elskulege Vin! hver Endalok mune verda þins saña Christeñdooms, þa her verdur opeñberlega soddañ Æra giord af Christo, fyrer allre Verolldu, og i Augsyn allra H. Eingla og Hofud-Eingla, og þu munt sem volldugur Sigurvegare yfer Diøflenum, þeim ogudlega Heime, og þinu illa Hollde og Bloode, verda framhafdur til ad koroonast. Nær nockur valldstoor Veralldar Herra reiser iñ i eirn nafnfrægañ Stad, þa plaga Meñ ad fara ut i moots vid hañ, og taka i moote hønum med Fagnade. So geingur liika til i Christi Tilkomu, þegar Hlioomureñ ut fer af Einglaña Hroope, er seigia:

seigia: Siaed! Brudguminn kemur, gangeð ut i moote hønum, Matth. 25, v. 6. Þa munu þeir uppriisnu Utvolldu, i Krapte þeirra forklarudu Lijkama fara i mots vid þeirra Dyrdar Kounung upp i Lopted, og taka i moote honum, med allre Lotningu, og Fagnadar Hroope; þad seiger Paulus: Hiner Daudu i Christo munu first upp aptur riisa, epter a ver sem lifum og epter bliifum, verdum liika uppnumder med þeim sømu, i Skyenn, til moots vid Drottenn i Lopted, og munum so med Drottne vera alla Tiima, 1 Thess. 4, v. 16. Ei er mogulegt ad utskiira, hverssu Hatignarlegur Liooma-Glanse af þessu mune orsakast i Loptenu; Þegar Listelldar eru a Nattarþele tilreidder, og þeim er i Lopt uppskoted, synast i þvi allrahanda furdanlegar Glampa og Elldinga Minder, hvar af Tilskodendurner hafa miked Ynde og Epterlæte, sem þo ecke er anad, enn hegoomleg Onytia og Peninga Sooan. Hvad meinar þu þa meige sia, þegar Utvallder a þeim Deige i Filgd H. Eingla, fara forklarader af Jordunne upp i Hæderner? þa mun siast liika sem morg hundrad þusund Sooler, og enn fleire þusunder þusunda Morgun-Stiornur uppstiige i Skyenn, hvar af Lopten munu so glansafull verda, ad þeir Fordæmdu munu akaflega skelfast og hristast fyrer soddann Liooma og Biartleik; Þessu næst mun Doomare Veralldarennar taka i moote þeim, med mikille Bliidu, jata þa Guds Born ad vera, og medtaka þa sem sins tilkomande Riik's Samarfa, og siidann med liufleguſtu Ordum til þeirra tala a þennann Hatt. Komed her, þer blessader mins Fodurs, þer Himensins Borgarar, og eignest þad Riike sem ydur var tilbued fra Upphafe Veralldar! Komed her, siaed og smacked hvad

Drott=

Drotteñ er liuſur, a hvern þer hafed truad, þer erud þad H. Foolked, ſem jafnañ hafed genged i Guds Orta, og ei einaſta med Muñenum ſagt Drotteñ! Drotteñ! helldur eirnig giort Vilia mins Föðurs i Himnenum, Matth. 7, v. 21. Þer erud ſu utvallda Kinſlood, ſa Konunglege Keñemansſkapur, Foolk eigeñdoomſins ſem trulega hafed þioonad mer, heidrad mitt Nafn, og fært mer viliuglegt Offur, i helgre Prüde; Þer hafed offrad Gude alla Tiima Lofgiørdar Offre, þad er Avoxt Varaña ſem vidurkeña hans Nafn, Ebr. 13, v. 15. Ydar Bæn heſur ſyrer mer dugad ſem Reikelſis Offur, ydar Handa Upphafning ſem añad Kvolldtiima Offur, Pſ. 141, v. 2. Mitt Ord hafed þer med Packlæte medteked, ſem ſerdeilis ſtooraſi Velgiørning, og ei einaſta heyrt þad med hiartañlegre Gudrækne, helldur eirnig hallded þvi i goodu og ſidſomu Hiarta, og fært Avoxt i Poleñmæde, Luc. 8, v. 15. Þer hafed ei einaſta vered mins Ords koſtgiæfner Heyrarar, helldur eirnig Gioningſins Giorarar, lated þad vera Lioos a ydar Vegum, og Lampa ydar Foota, og hegded ollu ydar Liferne þar epter; Þer hafed medteked þad Himneſka meir eñ þad Tiimañlega, og lated mitt Ord þikia ydur betra, eñ morg þuſund Stycke Gulls og Sylfurs; Þer hafed prooſad ydur ſialfa, adur eñ þer hafed medteked þa H. Kvolldmaltiid, og hafed þvi frambored harmþrungeñ Anda, og ſundurknoſad Hiarta, ihugad eirnig, ad þeir, ſem ſiuker, hafed haſt Læknarans, og andlegrar Lækningar Þorf; Þer hafed optlega giort þad i mina Miñing, ad medtaka hana, og i Truñe minſt a miñ Dauda, og mina Elſku til ydar; Þer hafed ecke ſaſnad ydur Fiarſioodum a Jordu, helldur a Himne, hvared hverke Molur ne Rid maa granda,

og hvar Þioofar fa ei stoled, ne epter grafed, Matth. 6, v. 19. 20. Þer hafed gleimt þvi sem til baka er, eñ halldeð ydur til þess sem i fyrer er, og so halldeð alla Hlute Skada ad vera hia þeirre yfergnæfañlegu Vidurkeñingu Jesu Christi, og skundad ad þvi Takmarke, epter þvi Hnosse, hvert ed frañhelldur Guds Kallan i Christo. Phil. 3, v. 5. 14. Þer hafed bored stærsta Uñhyggiu fyrer ad verda lauser vid ydar Synder, þer erud liika af þeim leister fyrer mitt uthellta Blood, Guds Naadar hafed þer ieitad, og hana odlast; Þer hafed leitast vid ad fa gooda Samvitsku, og fyrer mitt Blood feinged hana hreinsada af daudum Verkum, til ad þioona Gude Lifanda; Þer hafed hallded ydur sem gooder Christi Striidsmeñ, barest goodre Baraattu Truareñar, og keypst epter iñ ad gaanga uñ hid þraungva Hlided til eilifs Lifs, Luc. 13, v. 24. Þer hafed leitad first Guds Rikis og hans Rettlætis, og gefed ydar Liikame til þess Offurs, sem lifande er og heilagt, og Gude þacknæmt, og ecke hegdad ydur epter þessum Heime, helldur giort ydur uñskiptelega med Endurnyungu ydvars Hugskots. Rom. 12, v. 1. 2. Liika sem eg gaf ydur Epterdæme ad þer skylldud epterfylgia minum Footsporum, so hafed þer giort þad, þer hafed epterfylgt minu Liitelæte, miñe Poleñmæde og Hoogværd, minu Liuflinde og Hreinlinde, og ollu minu heilogu Liferne; Þer hafed epterfylgt mer i Medlæte og Mootlæte, i Life og Dauda, og audsynt ydur i ollum Hlutum so sem Guds Þenara, i mikille Poleñmæde, i Harmkvælum, i Haaskasemdum, i Þiingslum, i Hudstrokum, i Fiotrum, fyrer Vegsemd og Vansemd, fyrer Vanrykte og gott Rykte. 2 Cor. 6, v. 4. 5. 8. Þer hafed teked ydar Kross uppaa ydur, og fylgt mer epter; Þer hafed ecke virdt fyrer

ydur Fiotur og Harmkvæle ad bera fyrer minar Saker, og ecke sparad ydar Lif, helldur vered reidubuner þar under ad gannga, og deya saker mins Nafns, so þer feingiud fullkomnad ydar Hlaup med Glede. Marger af ydur hafa saker miñar Dyrdar og mins Lærdooms læted sinu Bloode uthella, og þer hafed ecke elskad ydar Lif allt til Daudans; Þer hafed læted ydar Tru lysa sem skiært Lioos fyrer Moñum, ad þeir sæe ydar Goodverk, og læted hana vera verkande fyrer Kiærleikañ, og þañig audsynt i ydvarre Tru Dygdena, og i Dygdeñe Vitsmunena, og i Vitsmunnum Hoofsemena, og i Hoofsemeñe Poleñmædena, og i Poleñmædeñe Gudrækneua, og i Gudrækneñe broodurlegañ Kiærleika, og i broodurlegum Kiærleika almeñelegañ Kiærleika, 2 Pet. 1, v. 5. 6. 7. Þer hafed geinged fyrer miñe Augsyn med froomu Hiarta, og giört hvad mer hefur vered þocknañlegt, i Audmykt vidurkent og medteked mina Raad, og erud þvi ordner eilifs Lifs makleger, þer blessader mins Fodurs hefed ecke fyrerlited þa Blessan sem eg hefe ydur afrekad, helldur medteked hana med Truñe, þvi skulud þer blessader vera um alla Eilifd. Þer hafed huggad ydur hver vid añañ, og iñbyrdis sagt; Drotteñ merker þad og heyrer þad, og þad er eitt Miñingar Bref fyrer hañ skrifad, fyrer þa sem ottast Drotteñ, og þeinkia a hans Nafn, þer skulud nu reina þad ad eg hefe minst a ydur, þer skulud vera miñ Eigeñdoomur a þessum Deige, sem eg hefe giort, og eg vil spara ydur, so sem Madur sparar siñ Son, Mal. 3, v. 16. 17; Þer hafed stadnæmst hia mer i minum Freistingum, eg vil nu skicka ydur Riked, so sem miñ Fader hefur mer skickad, so ad þer skulud eta og drecka yfer minu Borde i minu Rike Luc. 22, v. 28. 29. 30. Eg vil nu medkeña ydur

fyrer

fyrer minum Fodur, þvi þer hafed medkent mig fyrer Monnum; Þer erud komner ur miklum Harmkvælum, og hafed þvæiged ydar Skruuda, og hvijtsfagad hañ i Bloode Lambsins, nu skulud þer vera framefyrer Stoole Guds og þioona honum Dag og Nott i hans Mustere, og eg vil foodra ydur og leida til lifande Vatnsbruña, og afþurka allañ Græt af ydar Augum, Apoc. 7, v. 14. 15. 17. Þer hafed barest goodre Barattu, Hlauped fullkomnad, Truñe halldeð, og vered truer allt til Daudans, nu er ydur afsiides logd KoroonaRettlætesins, sem eg, hiñ rettlaate Doomare gefur ydur a þessum Deige, 2 Tim. 4, v. 7. 8. So sem eg hefe utvaled ydur til eilifs Lifs, adur eñ Grundvollur Verallðareñar var lagdur, so gef eg ydur nu þad hid sama; Þer skulud sem miner Þioonar ad eilifu hia mier vera, og sia mina Dyrd, sem miñ Fader hefur mer gefed, alldrei hedañ i fra skal ydur nockur Neid snerta, ei nockur Ovin Skada giora, ei nockud Illt mæta, og ei nockur Hrigd i Hiarta koma, Daudeñ skal ei meir vera, ei Harmur ne Kveinan, ne helldur Piina meir vera, Apoc. 1, v. 4. helldur skulud þer vera Sigurhofdingiar og Sigrenum hroosa, og erfa alla Hlute; Eg vil vera ydar Gud, og þer skulud vera miner Syner, og minar Dætur, og ydvart Hiarta skal fagna, og ydar Fognud skal eingeñ fra ydur taka. Liika sem eg hefe yfredmiog elskad ydur, og af Elskuñe dreiged ydur til min, so vil eg eirnig elska ydur um alla Eilifd; þad skal vera min Glede ad giora ydur til gooda, og eg vil snua ydar Hrigd i Fognud, og hugga ydur epter ydar Hrigd. Eg vil giora ydur ad Stoolpum i Mustere Guds mins, og þer skulud ei meir utganga, og uppa ydur vil eg skrifa Nafn Guds mins, og Nafn hiñar nyu

Jerusalem, sem er Borg mins Guds, su af Himnum ofañ kemur fra minum Gude, og mitt hid nya Nafn, og eg vil gefa ydur sem yfer hafed uñed, ad sitia med mer a minum Stoole, liika sem eg hefe yferuñed, og seted med minum Fodur a hans Stoole Apoc. 3, v. 12. 21. Oll Eimd og Sorg skal vera lange fra ydur, eñ þer skulud uñ allar Eilifda Eilifder, niota hia mer Glede og Fagnadar, Heidurs og Dyrdar, yferfliootañlegra Audæfa, Fullsælu, og oforgeingelegrar Veru, þer skulud allt þad fa, hvers ydar Hiarta oskar; Þetta er Dagur ydar Velgeingnis, a hverium þer iñganged i eilifa Dyrd. Þetta er Dagur ydar Fagnadar-Kiætis, a hverium þer verded huggader epter ydar Harma; Þetta er sa Dagur a hverium biriast ydar eilifa Sæla; Ydur tilseigest nu allt þad ydur getur til Glede orded; Þer skulud hafa Fognud og Glede, Heidur og Uppheфd, Dyrd, Frid, og Roosseme, Odaudleika, Heilbrigde, Riikedæme, og gledelegt Lif hia Guds hægre Hende, æ og ad Eilifu, ecke uñ vissañ Tiima, helldur uñ allar Eilifder. Eingeñ Madur fær utsagt þa Vegsemd, og þau eilifu Laun, sem Drotteñ gefur ydur.

§. 10.

Sliikur verdur sa gledelege Urskurdur, sem Heimsins Doomare mun a efsta Deige fram tala til allra Utvalldra, er stadfaster hafa blifed a Veigenum til Himens allt til Æfeloka. Su Glede, þau Fagnadar Hliood og Danslæte, þeir Saungvar med Lofgiord og Þacklæte sem þa verdur a Ferdum, þad verdur outrædañlegt; Fyrer Kiætis saker vita þeir Utvolldu ecke, hvad þeir skulu þa feretaka, til ad audsyna sig þacklata; Þa verdur þeirra

þeirra Muñur fullur af Hlaatre, og þeirra Tunga full af Hroosan, og þa mun sagt verda a medal þeirra; Drottenn hefur mikla Hlute vid oss giört, þar utaf erum ver glader. Ps. 126, v. 2. 3. Þa sia þeir, ad þeir eru utvallder Himensins Borgarar, hafu feinged oforgeingelega Koronu Dyrdreñar, og þeirra Nofn standa skrifud i Lissens Book a Himnum; Ad þeir eru komner til Fiallsens Zion. til Borgar Guds lifanda, og til margfiollda margra þusunda Eingla, til Samkundu þeirra Frumgetnu, hverier a Himnum eru uppskrifader, og til Guds allra Doomara. Ebr. 12, v. 22. 23. Þa sia þeir þar mikeñ Skara, hvern eingeñ getur taled, af øllum Heidingium og Foolke, og Kynkviislum, og Tungumaalum, standa frame fyrer Stoolnum, og fyrer Lambenu, uñskriidda hviitum Skruda, og Paalmavidu i þeirra Høndum, sem kalla med mikille Roddu, og seigia: Heilsa se þeim sem a Stoolnum situr, vorum Gude og Lambenu Apoc. 7, v. 9. 10. Soddañ Vegsemd sem þeir þa sia, hefur þeim aldrei i Heimenum i Hug komed, og hana sia þeir ecke med sinum Skilninge griped. J Heimenum lidu þeir Forsmaan, og maattu standa a bak vid marga, eñ þa eru þeir upphafder yfer margar adrar þusunder. J Heimenum voru þeir volader, þurfande og naudstadder, eñ þa hafa þeir Lifed og fulla Nægd. J Heimenum høfdu Ogudleger þa ad Haade og Athlaatre, eñ þa eru þeir i Tolu Guds Barna. J Heimenum maattu þeir þola Alygar og Raangende, siña Ovina fyrer Sakleise, eñ þa drottna þeir yfer sinum Ovinum, og þeirra Rettur er auglystur fyrer Guds Doome; O þau miklu Uñskipte! O þau sælu Uñskipte! Þeirra Graatur er snueñ i Hlaatur, þeirra

Hrigd i Glede, þeirra Kveinan i Fagnud, þeirra Forsmaan i Heidur, þeirra Læging i Upphefd, þeirra Volæde i Audlegd, þeirra Veikieika i Heilsu, þeirra Daudleike i Odaudleika, þeirra Dande i Lif, þeirra Sorg i Dans, þeirra Harmaklogun i Glede-Saung og þeirra Vesæld i eilifa og ævarande Sælu. Hvad munu þaa þesser Hoolpnu, Feimalsu, Utvolldu adhafast? Þeir jaata sig allrar þeirrar Æru og Hroosunar overduga, sem Christus tilleggur þeim, og seigiast hafa giort þad lííted þeir i Heimenum hafa Gott adhafst, fyrer hans Naad, og leggia þad til, ad ser hafe aldrei hlotnast su Æra, ad sia hañ þar med sinum Augum, og þar fyrer snara þeir sinuñ Koroonum fram fyrer Stooleñ, og seigia: Drotteñ! Þu ert verdugur ad medtaka Dyrd og Heidran, og Krapt, þvi þu hefur alla Hlute skapad, og fyrer þiñ Vilia urdu þeir, og eru skapader. Apoc. 4, v. 11. Þu ert slaatradur, og endurleister oss med þinu Bloode, ut af allshaattudum Kynkviislum, og Tungum og Foolke og Heidingium, og þu hefur giørt oss fyrer vorum Gude til Konga og Keñemaña; Verdugt er Lambed, þad slaatrad er ad medtaka, Krapt og Riikdoom, og Vitsku, og Styrk, og Æru, Priis og Lof. Cap. 5, v. 9. 10. 12. Doomareñ mun þaa samt framhallda sinum Naadar Doome, og þvi Hroose er hañ hefur þeim gefed, og seigia: Sañlega seige eg ydur, hvad þer giøred einum af minum minstu Bræðrum, þad giørdud þer mer. Matth. 25, v. 40. Þeir froomu og trulindu Þioonar sem vorud truer yfer litlu! eg vil setia ydur yfer miked, gaanged iñ i ydar Herra Fognud, v. 23. Komed her, þer blessader mins Fødurs, og eigneſt þad Riike sem ydur var tilbued

bued fra Upphafe Veralldar, v. 34. O þad liflega Ord! O þad Liufliindes Ord! O þad Fagnadar Ord! Ad koma til Christum, þad utelykur allañ Mootgaang, þad gefur Fullvissu um eilifa Saaluhiaalp; O þañ fagnadarsæla Gaang, hvadañ skulu þaa þeir Utvolldu koma? Fraa allre Neid sem fyrer þaa kom i Heimenum, fraa þeim Ogudlegu, sem þaa kvolldu, og lögdu þeim allskins Hadungar til, og fraa eilifre Fordæmingu, sem þeir hafa hiaakomest fyrer Truna aa Jesum Christum; Aldrei hefur so luckuleg Ferd fyrer þaa komed, eñ hvort fara þeir? Christus seiger: Þaa munu þeir Rettlaatu gaanga i eilift Lif, Matth. 25, v. 45. O þañ allra sælasta Gaang! Strax sem þeir Fordæmdu eru ofañsleigder i Helvüte, fara þeir Utvolldu uppi þaa Himneska Jerusalem i mikille Vegsemd. Þad er af Sögunum kuñugt, hversu vegleg Laun þeir feingu fordum hiaa Roomverium, sem med Truskap og Vopnhreiste höfdu barest fyrer Födurlanded aa moote Ovinunum, og sigrad þaa, er þeir letu soddañ Sigurhöfdingia hallda opeñberlegt Sigurhroos, sem giordest med þeim Hætte sem fylger: Þañ Dag Sigurhrogsed skyllde halldast, voru öll Stræteñ i Borgeñe Rooma sett med grænum Triaam, og Göturnar umdreifdar med ilmande Bloomstrum, ut af Gluggunum voru heingd hin fegurstu Vefnadar Tiölld, og viida i Borgeñe voru Æruport uppreist. Þegar Sigurherrañ naalgadest siidañ Borgena, med öllu sinu Herlide, voru nöckrer ypparleger Meñ af Raadenu i moote hönum sender, er i Nafne Raadsens og Alþiidunñar, öskudu hönum Lucku fyrer feingeñ Sigur. Þvi nærst reiste hañ iñ med öllum Merkium aa lopte, sem umvafeñ voru med Laurberiatres Laufa Kronsum. J firstu

foor Riddara Lided undañ a vel bunum Hestum, med agiætum Vopnum, þvi næst fylgde Footgaungu Lided, vel niðurskipad i Fylkingum, allt um̃ kring heyrdest Herpiipna, Ludra, Horna, Bumbu, og Hlioodpiipna Hliood, asamt med Striidsmañaña Glede Hroope, nærst þessum fooru Hofuds-Meñerner, og Kapparner, sem i Orustuñe höfdu Frægdar Verk uñed, hveriun Hershofdingeñ hafde gesed Gyllene Kransa, Armbond, Skiolldu, og adrar Gersemar. Þar epter voru boreñ Landa-Spiolldeñ a hasum Staungum, a hveriar mæalud voru þau underlogdu Lönd og Hierod, med Borgum og Mindum þeirra helstu af þeim yferuñu Ovinum. Epter þad var allt Herfanged af Giinsteinum, Gulle og Sylfre, bored sumt af Moñum, sumt a Vognum flutt; Epter þetta foor fram̃ sialfur Sigurhofdingeñ, sitiande i logagylltum Vagne, þañ ed droogu vel utvriidder Hestar, a hveria heingdar voru Lærberiarres Greiner med Gull saumudum Tiolldum, ellegar vel buner Fiilar voru latner draga hañ; Sigurhofdingeñ var Klæddur Purpura med Krans a Hofde, er med mörgum Gersemum var settur; Epter Sigurhrooss Vagnenum voru þeir til sangateknu Hofdingiar dregner i Vidum og Fiotrum, þar epter fylgde eñ þa Fiollde footgaungu Lids, og siidast Riiddara Lid, sem endade Reisuna. Dyrdlegur var soddañ Dagur halldeñ hia Roomverium, med miklum Glede Latum, og stoor H.idurs Dagur fyrer Sigurvegarañ; Eñ hvad er orded af allre þessare Vegsemd? Er hun ecke öll horfeñ, og ad eingu ordeñ, eins og añar Hegoome? Eñ Sigurhroos Christi med öllum hans Utvölldum og Einglum a esfsta Deige er laangtum odruviis hattad. Alldrei hefur þviliikur Dyrdar

Dagur skined sem sa, a hverium þeir Urvølldu verda sigrehroosande iñførder i þa Himnesku Jerusalem. Þa munu þeir H. Einglar undañfara morgum þusundum samañ, i skriidder Himneskre Fegurd med Guds Lofgiørdar Priis, þañig hroopande: Þacked þer Drottne, þvi hañ er goodur, og hans Miskunseme varer eiliflega, þad seige nu Jsrael, hans Miskunseme varer eiliflega, þad seige nu Hused Arons, hans Miskunseme varer eiliflega, þeir sem ottast Drotteñ, seige nu, hans Miskunseme varer eiliflega. Ps. 118, v. 1. 4 Þvi næst fylgia Urvallder i agiætlega nidurskipudum Hoopum, i skriidder hviitum Skruda, sem Sigurvegarar, med Pcalmavidu i þeirra Hondum; Þessum næst fylgia þeir heilogu Forfedur, siidañ þeir hattupplystu Spameñ og Postular, asamt froomer Lærendur, og Keñefedur, skiinande sem Himengeislar, þvi þeir hafa morgum snued a Rettlætesens Veg. Siidañ koma aller froomer Kongar og Hofdingiar, sem framad hafa Guds Dyrd, og Reitviisena; Þa morg þusund heilagra Piislarvotta sem hafa lated sig til Dauda piina, fyrer saker Guds Dyrdar og hans Vitnisburdar. Þar epter fylgia morg þusundsiñum þusunder Utvalldra, sem i Truñe hafa stoduger staded a Veigenum til Himins, allt til Enda, og hafa kepst epter iñ ad ganga uñ hid þraungva Hlided til eilifs Lifs. Aller þesser med Lofgiorda og Þackargiorda Saungum, liika sem Johañes sa Lamb standa a Fiallenu Zion, og med þvi hundrad fiorutiiu og fiogur þusund, sem hofdu Nafn Fodurs þess hins sama i sinum Eñum, er sungu nyañ Saung fyrer Stoolnum, og þeirra Rodd var sem Horpuslagara, þeir ed sla sinar Horpur. Apoc. 14, v. 1. — 3. A

medal þessara er Sigurhøfdingeñ Jesus Christus, er ei einasta hefur alla sina Ovine under lágt, helldur hafa eirnig hiner Truudu, fyrer hans Krapt, yfer sinum Ovinum Valld feinged, þvi eigna þeir þessum þeirra Striidshøfdingia allañ Sigureñ, og er þa liika sem þeir bere Leon i þeirra Merkium, eg so kalla: Leoned sem er af Ætt Juda, Root Davids hefur yfertuñed. Apoc. 5, v. 5. Þessa Sigurhrooss For, aliktar aptur lokſens mikill Skare H. Eingla, sem eru margþusundsiñum þusunder, og syngia an aflaats priis og Lof, v. 11. 12. Þa heyrest ekkert añad eñ Fagnadar Saungar, Lofsøgn og Þackargiord. Eirn Flockureñ tekur vid af ødrum, og under med ødrum, og imest margar þusunder Flocka til samans i Loptenu, priisande Guds Nafn, fyrer hans Miskun og Trufeste þad hañ hefur giort sitt Nafn dyrdlegt, fram yfer alla Hlute, fyrer sitt Ord. Þeir syngia af Vegum Drottens, þad Dyrdeñ Drottens se mikil. Ps. 238, v. 5. Þa geingur til liikt sem i Christi Iñreisu i Jerusalem, i hans Nidurlægingar Stande, og Foolked sem fyrergeck og epterfylgde, kallade og sagde: Hosiaña Syne Davids, lofadur se sa sem kemur i Nafne Drottens, Hosiaña i hædstum Hædum. Matth. 25, v. 9. Þa taka H. Einglar og Seraphim ad hrópa og segia: Heilagur, heilagur, heilagur, er Drotteñ Zebaoth, øll Lønd eru full hans Dyrdar. Es. 6, v 3. Lofud se Dyrdeñ Drottens i sinum Stad, Ezech. 3, v. 3. Allur Fiollde Utvaldra sem epterfylger mun þa undertakamed Fagnade, hroopande: Amen! Lof og Dyrd og Speke og Þacker, og heidur og Kraptur og Styrkleike, se vorum Gude fra Eilifd til Eilifdar, Amen! Apoc. 7, v. 12. Med soddañ Fagnadar

nadar Saungum iñtaka þeir Riiked, sem þeim var fra Upphafe fyrerbued; So fagnadarfull verda Endalok sañchristeña Maña, sem her i Heime keppast epter iñ ad gaunga hid þraungva Hlided til eilifs Lifs. Ecke lætur Gud ser fyrer eckert þioonad vera, helldur launar hañ sina Dyrkañ, med þusundfalldre Umbun, so þad er sem Paulus rettelega seiger: Eg hello, þad er; Eg alikta, ad Nootlæting þessra Tiima, se ecke verd þeirrar Dyrdar, sem vid oss mun openber verda. Rom. 8, v. 18.

§. 11.

Epter gledelega Upprisu Utvalldra fylger loksins þad eilifa Lif og Dyrd Himnariikis Eingeñ þarf þar um ad efast, ad eilift Lif se þeim Truudu tilbued, þvi so seiger vor Frelsare Jesus Christus sialfur þar um; Miner Sauder heyra mina Rødd, og eg þecke þa, og þeir fylgia mer epter, og eg gef þeim eilift Lif. Joh. 10, v. 27. 28. Og aptur: Hver hañ truer a Soneñ, sa hefur eilift Lif, Cap. 3, v. 36. So seiger Paulus: Hver i Andanum nidursaær, sa mun af Andanum uppskera eilift Lif, Gal. 6, v. 8. Og aptur: Gud hefur ei sett oss til Reide, helldur þad ver skylldum Hialpræded ødlast, fyrer vorn Drotteñ Jesum Christum, 1 Þess. 5, v. 9. So seiger Petrus: Þer munud Endalok ydar Truar þar fra bera, sem er Saluhialp Salareñar 1 Pet. 1, v. 9. Hvar same Stadur Utvaldra mune þa serdeilis verda, þvi getum ver ei fyrer viist fra sagt, þvi þad hefur Gud ei opeñberad, eñ þad hañ mune dyrdlegur, og ununarsamlegur verda, fra þvi skiirer Ritningeñ greinelega. Þar um seiger David: Hia þer er Gnoott Fagnadarens, og gledelegt

Lif

Lif til þiñar hægre Handar eiliflega, Ps. 16, v. 11. J Austurhaalfu Heimsins i Landenu China, liggur ein Borg, sem kollud hefur vered Pekvin, epter þvi sem um hana er skrifad, er hun þriaatiu Miilur Ummaals, ad heñar Forstodum þar med oreiknudum; So er hun Foolkriik, ad Chinisker seigia, ad eirure Noottu meige i heñe samañdraga tvo hundrud þusund vopnfærra Maña, sem beriast kuñe bæde a Heste og Fæte. J Borgeñe er Konunglegt Slot, hvar so er ruumgott, ag millum þess og Murañna kringum þad, geta bued tiiu þusund Strriidsmeñ. sem seu Kongsins Liifvakt; A Slotenu fiñast sextiu og niiu Saler, giorder med veglegre, furdañlegre Smiide, og af saasenum Hlutum, a medal hverra eirn er þaktur allur med Koppar, añar med Sylfur Skyfum, þridie med toomu Gulle, og sa fioorde hinum ollum dyrare, er settur med Fiilabeinum, Karbunkul-Steinum, og odrum Gimsteinum, so veglega, ad a myrkre Noottu er so biart i honum sem logande Lioos være þar iñe; Þetta maa heita vegleg Borg, bæde vegna Stærdar og Priidis, og verd ad skodast, eñ hvad er þad hia þeirre Himnesku Jerusalem, i hverre Utvallder skulu biggia? Aldeilis eckert. Vilium ver sa hana afmaalada, þaa gefum Giætur ad hiñe nyu Jerusalem sem Eingilleñ synde Johanni i Syn eirne, hvad þo allt a audlega og a Himneska viisu ad skiliast. Af haasu Fialle synde Eingilleñ Johañi þaa miklu Borg, þaa heilogu Jerusalem, ofañ fara af Himne fraa Gude, hun hafde Guds Dyrd, og heñar Lioos var liikt hinum diirmætasta Steine, sem skiær Jaspis, heñar Stærd a hvern Veg voru 12000 Akra Leingder, Bygging heñar Muurveggia var af Jaspis, og Borgeñ af skiiru Gulle, eins skiær og

Gler.

Gler. Grunveller Murveggia Borgareñar voru priiddet med allshættada Gimsteina, hvenar Port voru tolf Perlur, serhvert Port af eirne Perlu, og stræteñ Borgareñar voru skiira Gull, so sem gegnum skiinande Gler, Apoc. 21, v. 10. 11. 16. 18. 19. 21. Med þessu vill H. Ande ad nockru Leite afmæla Himnariikis Dyrd er Gud hefur sinum tilreidt, Christus seiger; J mins Fødurs Huse eru margar Verur. Joh. 14, v. 2. Og Paulus seiger: Ver vitum, þo þetta jardneska Huus vorrar Tialldbudar verde nidur broted, ad ver høfum Bigging af Gude uppbigda, Huus eige med Høndum giørt, þad æfeñlegt er á Himnum, 2 Cor. 5, v. 1. O þañ dyrdlega Bustad Guds Barna! O Tialldbud Guds hiá Moñum! O hvad ægiætt mun þad verda ad skoda þá Himnesku Jerusalem? Hversu miked er ad siá fyrer þañ sem leiddur er allavega i Kring i þeirre Høfudborg, sem er volldugra Konga Setur? þar fær hañ ad siá fagrar Biggingar, priidelegar Kyrkiur, od þari halldna Guds Pioonustu, ægiæt Vopna-Huus, ypparlega Sale, med Listum giorda, og imsar fágiætar Gersemar; Jmist ser hañ Konglegar Haller, og føgur Herberge, edur Konunglega Hesta-Stalla, Herbunadar-Huus, Handverka-Huus, og Fiollda mikilsverdra Hluta; Hañ kemur i Listegardana, hvar hañ ser margslags siallsen Tre, Averte, Bloomstur, Grasvarnar Gøtur, med Vidargreinum afmarkadar, med niirre Kuñáttu giordar, uppvellande Vatus Uppspretur, og añad miøg priidelegt; Af þessu þiker honum ecke langt ur verda, þo hañ være þar Ar og Dag, eda leingur, helst af því ad hañ fær jafnañ eitthvad skæed, og nystárlegt ad siá, og eg efast uñ hañ langade þadañ nockurn-

tiima,

tiima, ef hañ hefde þar med allt hvad hans Hiarta gyrnteſt. Um̃ þañ yferburda liſteſamlega Alldengard Stoor-Hertogans i Borgeñe Florens i Vallande, verdur i Fræſogum leſed, ad hvern ſem þangad er eittſiñ iñkom, lange varla nockurntiima aptur ut þadañ, vegna þeirrar Unadſemdar ſem þar iñe er ad fiña. Þár ſiaſt, ſtrax ſem iñ er komed margſlags Tre full Avaxta, morg ad ofañ lukt Gangrum, graſevaxeñ til Um̃gaungu, hvar Forſæluñar verdur noted, marger fagrer Fiſkedamar, ſem Veidevotn, ſem eirnig Vatna Uppſprettur, Fuglabur og Düraſtiiur; Þar, ma ſia allſlags nya Bloomſtra Skufa og Knappa, og ſmaa Aldinhafa, Marmara Likneſkiur, Liſtegangrum hvolſd ad ofañ, fogur bloomvaxeñ Rioodur, ſmaar velſmiidadar Svalabuder, ſem Sæluhuus, og Vatned med furdañlegum Liſtum hingad og þangad veitt, ſo ſtundum fellur þad ad ofañ aptur, ſem Dogg, nu med hatt i Lopt uppſtandande Bunum, ſtundum fer þad i Krojs upp i Lopted, ſem i Soolſkine ſeſt i þvi ſem natturlegur Reguboge med ollum ſinum Litum; Stundum er þar komed ad Skoogum af Cypreſſu Triam, hvar um̃kring Vatned af furdañlegum Smiida Tilbuninge, kemur allavega fram̃; Þar eru ſetter margſlags Steinar, ſamt Kufungar og Skeliar; Þar ma ſia miked af Ormum, Nodrum og Poddum, ſitiande og Vatne ſpyande, hvad allt er giort med ſtærſta Hagleik. J einum Stad i þeſſum Aldengarde, heyreſt margſlags Fugla Saungur, eins og þeir ſeu aller ſamſyngiande, og a Greinum Triaña ſiaſt Fuglarner ſitiande med natturlegum Litum, liika ſem væru þeir lifande, þo ſmidader med Hagleik Maña. Ecke verdur noogſamlega fra ſagt, hvad i þeſſum Aldengarde ma ſiaſt

sier af allshꜳttar þessslags Eikum, þeim Boga-hvolfdu Gangporium, og ødrum undarlegum Hlutum, og so er þar allt eins liflegt og bloomlegt ad sie um Vetur sem Sumar, af þeim umplontudu Trium, so sem, af Zitronu, Pomerans, Lar-beria, Cypressu, og langtum fleira slags Trium, og ødru yndislegu. En hvad veglegur og viidfrægur þesse Aldengardur er, og annad þad i Heimenum er frꜳsed, og furdanlegt, og so þad kynne a nockuru Hꜳtt, ad minda fyrer Monnum, þa jardnesku Paradiis, samt er þad sem ecke par vid þa Himnesku Paradiis, og þad stoora Guds Huus; Kunne Mennerner ad uppþeinkia og tilbua so yndislega Hiuie, hvad mun þa Guds Hond hafa tilbued handa sinum Utvolldum? Hvad mun vera ad sia i þeirre stooru Guds Holl? Þar munum ver aller sem retttruader erum gledia vor Augu um alla Eilifd, og sia ois þo aldrei þreitta. Þeir H. Einglar sem hafa nu fyrer viist yfer 5000 Ar skodad Guds Auglit og hans Dyrd, hafa en ecke sed sig metta þar af, og þvi framar þeir sia þetta, þvi framar gyrnast þeir ad sia þad. O þad Dyrdar Huus! O þann Fagnadar og Vellistinga Stad! Þegar Johannes sa fordum þa heilogu Borg, þa nyu Jerusalem, heyrde hann eirnig Rodd mikla af Himnum seigia: Sia þar Tialldbud Guds hia Monnum, Apoc. 21, v. 3. Þo Madurenn iminde ser allt hvad i Heimenum fagurt og yndislegt þiker, þa er þad samt einkis verdt hia Guds Borg, þeirre Himnesku Jerusalem, hvernig sem hann ihugar, fær hann aldrei med sinum Skilninge griped, hvad Gud hefur geimt sinum Truudum; Vid þad bliifur, ad þad hefur ei Auga sed, og eige Eyra heyrt, og ecke

i nock-

i nockurs Mans Hiarta komed, hvad Gud hefur fyrerbued þeim er hañ elska, 1 Cor. 2. v, 9.

§. 12.

J þessu Guds Huse niota Utvallder idel Glede og Fagnadar, Heidurs og Dyrdar; Liika sem a medal Brudkaups-Gestaña heyrest eckert hriggælegt, so er þad eilifa Lif med Brudkaups Samliikingu afmalad til ad syna, ad þar er ecke af odru eñ Gledskap og Unadsemd ad seigia; So sagde Rodd hins mikla Skara af Himne: Føgnum og verum glader, og gefum hønum Dyrd, þviad Brudkaup Lambsins er komed; Apoc. 19. v. 7. Christus liiker þvi vid Gestabod er hañ seiger: Marger munu koma af Austre og Vestre, og sitia til Bords med Abraham, Jsaac og Jacob i Himnariike, Matth. 8, v. 11. Og aptur seiger hañ til siña Postula: Þer erud þeir, hverier hia mer hafa stadnæmst i minum Freistingum, og eg vil skicka ydur Riiked, so sem miñ Fader hefur mer skickad, so ad þer skulud eta og drecka yfer minu Borde i minu Riike, og sitia a Stoolum dæmande toolf Kynkviisler Jsraels, Luc. 22. v. 28. 29. 30. Ad Utvallder nioote eirnig idel Æru og Dyrdar i eilifu Lise, þad syner Paulus, seigiande: Ver hroosum oss af Von þeirrar tilkomande Dyrdar, er Gud mun gefa, Rom. 5, v. 2. Og aptur: Eg helld þad ad Mootlæting þessra Tiima, se ecke verd þeirrar Dyrdar, sem vid oss mun opeñberud verda, Cap. 8, v. 18. Christus seiger eirnig i siñe Bæn; Fader, hveria þu gafst mer, vil eg, ad hvar sem eg er, so seu þeir med mer, so þeir siae mina Dyrd, þa þu gafst mer Joh. 17, v. 24. Petrus liiker eilifu Life vid Koor-

onu,

oonu, og seiger: Þer munud, nær hiñ ædste Hyrder mun birtast, ovisnanlega Kooroonu Dyrdareñar medtaka, 1 Pet. 5, v. 4. Og aptur seiger hañ: Þer munud glediast med oumrædelegre og dyrdarsamlegre Glede, Cap. 1, v. 8. Heidingiar hafa fordum i sinar Skroksogur fært, um þa Elisisku Velle, hvert þeir meintu Saalernar fære epter Daudañ, ad þar være dægelegur Grashage, og vegsamlegt Lif, þægur Vindblær med sætum Ilm, so frioossom Jord ad i hverium Maanude mætte Viinyrkiu hafa, og liflegur Fugla Saungur, Ungfoolked dansade þar epter hinum fegursta Hlioodfæra Saung, su kostulega Fæda sem þar veittist, hefde so goodañ Krapt i ser, ad Meñ være þar alltiid hrauster og heilbrigder; þar væru halldnar agiætar Veitslur, under Skugga Triaaña, þar allrahanda velluktande Bloomstruui være umdreist, og þar feinge Meñ allt epter Oskum; Eñ sliikt er ecke añad eñ sætur Draumur, og oniit Jñbirling, sem þeir blindu Heidingiar, hafa uppspuñed af sinum eigeñ Heila. Fyrer þad se Gud losadur ad ver hofum af añare Paradiis ad seigia, sem ecke er jardneſk, helldur Himneſk, i hveria ver hofum Von ad komast, a sinum Tiima, þeirre er vor Jesus het þeim ydrande og truada Ræningia, med þeim Ordum: Sañlega seige eg þer, i Dag skalltu vera med mer i Paradiis. Luc. 23, v. 43. I þvi Gestabode foor mioo veglega fram, sem hiñ stoorvolldnge Kongur Asöverus giorde ollum sinum Hofdingium og Þioonum, þeim villdustu af Persia og Media, Landstioornurum og ædstu Moñum i sinum Londum, i hundrad og attatiiu Daga, og ollu Foolkenu i Hofudborgeñe Susan i sio Daga, ad hañ lete sia þañ ypparlega Riikdoom, sins Kon-

unglega Riikis, og sina Hantiguar Vegsemd. Hañ let veita Foolkenu i þvi Hofe sem var i Alldengardenum hiaa Kongsens Huse, þar heingdu, hviit, græn og blaa Tiolld, samañbundeñ med diirmætu Liine og Skarlats Snurum, i Sylfurhringa a Marmara Stoolpum. Beckerner er Bodsfoolked a sat voru af Gulle og Sylfre; Golfed var lagt med gulum, hviitum, grænum og svortum Marmara-Steinum, og Meñ baaru Viined til Foolksins i Gull-Kerum, ætiid i odrum epter oñur, og Viined var yferfliootañlegt, og hver mætte drecka sem honum best liikade, Esth. 1, v. 3..8. Þaa skeinte Foolked Augum sinum ad ollu þvi syrer þau bar, so sem voru Tiolldeñ, Gull-Skaalarnar og Gull-Kereñ, þettsett med diirmætum Gimsteinum, þad margslita Goolf og adrer Diirgriper, Tungañ smackade lisgsamlegar kriddadar Kræser, og dyra Drycke, Eyrun heyrdu yndislegañ Saung, og Hlioodfæra Hlioom, Ilmingeñ merkte þægelega Lykt, sem Lopted bar med ser fraa þeim morgu Balsams Triaam, Roosum, Lilium og Bloomstrum, er stoodu i Alldengardenum, og vid þetta allt hefur vered Unadsemd ad lisa; Þo þetta gledde miog Bodsfoolked i þad siñ, er þvi ecke hid minsta samliikiande vid þad Himneska Sælgiæte sem Truudum er ætlad. Ihugum þad, hver hefur skapad og veitt allt þad syndlausa jardneska Sælgiæte, og fraa hverium er þad komed? Er þad ecke gefed af vorum Gude? Þar af maa raada, ad laangtum dyrdarsamlegre Sælu hafe Gud tilreidt sinum Heilogum. Þeir Ogudlegu faa tiidum jarneskrar Sælu og Vegsemdar ad nioota, sem þo ad eilifu fortapast; Hvilliika Himneska Sælu og Dyrd mun Gud þaa geima sinum Bornum sem honum rettelega þioona og hañ heidra? Ad soñu kyñe

kyñe sa her i Heime luckusæll og heppeñ ad kallast, sem hefde soddañ Astand, ad hañ stæde i fullre Raad, og være Villdarmeñe nockurs voldugs Konungs, so hañ bigge i hans Konglegu Slote, hvar margt være dyrdlegt ad sia og skoda, hefde daglega Samtal vid hañ, og matadest med honum i hans Holl, eda Listegardi, hvar hañ mætte horfa a þau frioofsömustu Tre, sem eru i Heimenum, þær hid haglegasta tilreiddar Vatnsleidslur, þau svolu Listegængrum, þau ilmbestu Bloomstur, þau smeckbestu Eple, er hañ kyñe ad tillæauga, þa grænu bloomlegu Skooga af diirum Vidum, so sem, af Zitronu, Pomerans, Mandel, Cypressu, Lærberia, Granata, Balsams, Palma, Vidsmors, Reikelsis og Myrrhu-Triam; i ollum Hornum Marmara Lykneskiur, og adrar utskornar og uthoggnar Minder, med kostulegu Hagleiks Verke; Hans Bustadur hefde nockra Liiking vid Paradiis, hvar hañ mætte nyta, ser allskins fogur, sæt og heilnæm Eple og Aldine, so sem, Granata, Cyprus, Nardus, Saffran, Calmus, og Canel, med allrahanda Reikelsis Triam, af Myrrhu og Aloe, og ollum bestu Jurtum, so sem epter andlegre Viisu er sagt, Cant. 4, v. 13. 14. og i þessare Unadsemd lifde hañ heill og hraustur, og mætte daglega heyra Kongsens Þenara Hlioodfæra Slaatt; Hañ være ohulltur fyrer ollum Ovinum, og i þvi Konglega Slote umgefeñ hundrad þusund Striidsmoñum, sem Vakt helldu, og so ad ser bueñ, meina eg hañ mætte a nockurn Veg farsæll heita. Eñ hvad leinge munde su Farsælld vid vara, þar til hun feinge Enda? Læarum ver þad yrde 50, 60, eda i minsta lage 70 Ar, þar vid endar optast mañlegt Lif i Heimenum, og asamt med þvi, oll veralldleg Sæla, Glede, og

Vegsemd, eñ su Sæla, Glede og Dyrd sem Gud hefur þeim Froomu tilbued, varer eiliflega. Pad Himneska Brudkaups Gestabod verdur hallded i Alldengarde þeirrar Himnesku Paradiisar, hvar ecke verda Sylketiollden uppheingd, eins og i Asveri Jurtagarde, sem ꝺadur er geted, helldur mun Guds Birta og Dyrd þar allt upplioma. Sa Himneska Maaltiid varer ecke i sio Daga, ecke i hundrad og 80 Daga, helldur um̃ alla Eilifd, þvi þeir endurkeiptu Drottens munu aptur koma, og til Zion koma med Fagnadar Kiœte, eilif Glede mun vera yfer þeirra Hofdum, Glede og Fognud munu þeir hendla, Es. 35, v. 10. Þeir Rettlaatu skulu eiliflega lifa, og Drotteñ er þeirra Verdlaun, Sap. 5, v. 16. Hvar sest nu hid minsta Hoot af þeim Sylke-Tiolldum sem i Asveri Gestabode voru uppheingd? Getur nockur synt mer eirn Þraad ur þeim? Eingeñ Steirn sest meir ur hans Marmara Goolfe, og eingeñ Gullbikar finst, sem hans Bodsmeñ af drucku; Hvar er þad Gullebuna Huus er Salomon Kongur let giora ser til ibudar? Edur þad ypparlega Slot er Cyrus Kongur let byggia? Hvar er þad nafnfræga Hof Gydiuñar Dianu i Borgeñe Epheso, sem taled var medal þeirra sio Heimsins Furduverka, og var bygt ꝺ hundrad tuttugu og sio Stoolpum, med miklu Snilldar Verke uthoggnum, uppa hvers Bygging hundrad tuttugu og sio Kongar hofdu kostad? Er þad ecke forgeinged? So forgeingur allt Heimsins Epterlæte, þo alldrei hafe þad so miked vered. Pad er skrifad um̃ Eyu nockra, sem Thule hefur kollud vered, ad ꝺ Sumartiimanum se þar biartur Dagur heila sex Maanude i gegnum, eñ eingeñ Noott ne Dimña, af þvi Sooleñ gaange þar ecke

under, eñ þo fylge þad a epter, ad um̃ Vetureñ se þar syfelld Noott i adra sex Maanude, og þa siaeſt aldrei Sooleñ; eñ i eilifu Lise er eingeñ sodd- añ Umſkipting, helldur er þar eilifur Dagur, eiliſt Lioos, og eilif Dyrd. Um̃ Cyrum Kong i Gerk- lande ſkrifar Xenophon, ad hañ hafe jafnañ lifad i yndislegum Vortiima, fyrer þvi hañ hafe i ſinu viidlenda Riike, flutt ſig, og reiſt þadañ ſem Vor og Sumar aſlet, og þangad ſem Vor eda Sum- ar, eda græn Tre var ad fiña, eñ þeſſe Vortiime endadeſt þo med hans Lifdogum. Þegar Keyſar- ans Trajani Hußfru Plotina, geck i firſta ſiñ iñ i þad Roomverſka Hofud-Slot, ſem kalladeſt Capi- tolium, og marger Herrameñ, ſem hofdu ha Em- bætte oſkudu heñe Lucku, med heñar Keyſaralega Verdugleika Uppheſd, ſnere hun ſer til Foolkſens og ſagde: So geing eg eñ her iñ, ad eg biiſt vid hedañ aptur ut ad ganga; Þar med gaf hun ad merkia, ad hun þeinkte ſin Vegſemd tæke um̃ ſider Enda, ef ei firr, þa ſamt i Daudanum, þa hun yrde þadañ aptur ut boreñ; Eñ, O! Fognud yfer allañ Fognud! Sa Fognudur ſem ver odlunſt med Chr. ſto i eiliſu Lise, endaſt aldrei, þvi ver munum med Drottne vera alla Tiima, 1 Theſſ. 4, v. 17. Ver verdum alrrei ſetter fra vore Dyrd og Glede, þvi vorn Fognud mun eingeñ af oſs taka. Þa Drottningeñ af Arabia kom til Salomons Kongs, og hafde heyrt hans Viisdoom, og ſed hans Valld og Vegſemd, hans Bygg ingar, hans Holl og Her- berge, hans Bordhalld og Hoffoolk, og þeirra Klædnad, gat hun ecke halldeð ſer leingur, helldur brauſt fram̃ med þeſſum Ordum, og ſagde til Kong- ſins: Þad er ſatt ſem eg hefe heyrt i minu Lande um̃ þin Efne, og um̃ þiñ Viisdoom, eñ eg villde ecke

trua þvi firr eñ eg kom, og sa þad med minum Augum, og sia, þar var mer ecke hoalfpart afsagt, miklu meire er þiñ Viisdoomur, og þin Audæfe, eñ su Fregn er eg heyrda, sælt er þitt Foolk og þiner Þenarar, sem alltiid standa fyrer þer, og heyra þiñ Viisdoom, 1 Reg. 10, v. 4. 8. So munu hiner Utvolldu forundra sig yfer þeirre stooru Dyrdar Vegsemd, sem er i hiñe Himneſku Jerusalem, og þad medkeña, ad i Heimenum hafa þeir ecke truad, ei helldur med sinum Skilninge hondlad getad, ad þad munde so vera, sem þeir þaa sa ad reina, so þar uñ maa nu hver seigia til añars, og syngia med vorre Kyrkiu:

Þer munud epter þeſſa Tiid,
Þiggia med Gude Sælu og Frid, ꝛc.

§. 13.

Heyred hiner Froomu og Truudu; Soddañ vendañlega Sælu hefur Gud fyrerætlad þeim sem hañ ottast, og gaanga a Vegum hans Bodorda, og þañig keppast epter iñ ad gaanga uñ hid þraungva Hlided til eilifs Lifs; Uñ alla Eilifd verda þeir sæler og Mootlætis frii, glediande sig i sinum Gude, i hans Naad og Kiærleika; Su haaveglega, stoora, viida, og med Guds Haatignar Dyrd uppliista Guds Borg, Heimile þeirra Utvolldu, mun miked auka þeirra Unadsemd. Þad er morgum til Yndis i Heimenum, ad eiga stooraū Bustad sem stendur i roosamlegre Landeign, hvar þeir meiga vera omakslauser, og viidsynt er uñ kring ad litast; Munu þaa ecke hiner Utvolldu hafa miklu meira Ynde i þeim Himneſka Bustad, sem þetta allt hefur med yfirburda ypparlegum Hætte til ad bera, hvar þeir hafa eilifa Roosemi? Undrast meiga Meñ þaa synelegu

legu omælande Stærd Himensins edur Festingareñar, hvar a þeir sia Sool, Tungl, og otal Stiornur, hvar i moot Jordeñ er ecke stærre, eñ nsiog liitill Punktur, þvi epter Stiornulistar Spekingaña Reikninge, er su allraminsta Stiarna a Festinguñe halldeñ atiwan siñum stærre eñ Jardar Hnottureñ. Nockrer Heims Spekingar hafa so utreiknad Stærd Himensins, ad hañ munde ad minstakoste vera um kring þriu hundrud og fioortan Millioner, siñ og attatiiu þusund siñum þusunder, sex hundrud Miilur, og nockud þar yfer. Munu þa ecke hiner Utvolldu medal añars mikelega forunndra sig yfer ouppþeinkiañlegre Stærd þeirrar Himnesku Jerusalem, a moote hverre Stærd hins natturlega Himins er ad eingu teliande? Þesse Jerusalem, verdur þeirra stadfastur Bustadur i mestu Unadsemdum og Havegum, hvar þeirra Sool mun ecke under ganga, og þeir eingrar Soolar vid þurfa, þvi Guds Dyrd er þeirra Lioos, og upplioomar þa, vid þetta er ecke ollu lofed, þvi þeir Utvolldu munu liika hafa fulla Kiæte, i flestum þeirra Liikama Limum; Eyrun glediast þa af Eingillegre Saunglist er siifellt hlioomar i þeirre Himnesku Jerusalem, þar eirn Koor tekur under og tekur vid af odrum, og syngur Drottne til Heidurs Lof og Þackargiord, seigiande: Heilagur, Heilagur, Heilagur, er Drotteñ allsheriar, oll Lond eru full hans Dyrdar, Es. 6, v. 3. Þa tekur Fiollde þeirra Utvoldu ad syngia þeirra nya Lofsaung, og sem Horpuslagarar a sinar Horpur ad leika og syngia: Verdugt er Lambed þad slatrad er ad medtaka Krapt og Riikdoom og Vitsku, og Styrk og Æru, Priis og Lof, Apoc. 5, v. 12. Hafe Meñ Ynde af fogrum Saungum

i Guds Huse her a Jordu, einkum þa sunged er af imsum Kørlum, hverſu miklu meir mun það vera yndislegt fyrer þa Utvoldu að heyra Gude Lof sunged af meir eñ þusund Koorum, með Himneſkre Saungſteſnu? Þar um ma seigia:

Þar Pſalmur er ſungeñ fagur,
So Tareñ þverra,
Heilagur, Æ Heilagur,
Heilagur Herra! ꝛc.

Þa keña þeir eirnig þañ liiflegaſta og ſætaſta Ilm, sem daglega andar að þeim, allſtaðar að, og hreſſer þa; þeirra Tunga ſmackar þa liika margſkius Velliſtingar, og þeir ſmacka hvað ſætur og liufur að Drotteñ er. Augu þeirra ſia ſig þo aldrei þreitt ne mett, glediande ſig æfeñlega i þvi að ſkoða Guds Auglit, og hans Hatignar Veldis Dyrð, ſo ſem Chriſtus ſeiger um Einglana er vakta Smaborneñ; Þeirra Einglar a Himnum ſia alltiið mins Føðurs Auglit a Himnum, Matth, 18, v, 10. Job ſeiger þar um: Eg mun ſia Guð i minu Hollde, þañ hiñ ſama mun eg ſia fyrer mer, og min Augu munu liita hañ, eñ ecke eirn añarlegur, Job. 19, v. 26. 27. Chriſtus eirnig: Sæler eru hreinhiartaðer, þviað þeir munu Guð ſia Matth. 5, v. 8. Og Johañes: Ver erum nu Guds Børn, og það er eñ ei opeñberað hvað ver verða munum, eñ ver vitum þa það birtaſt mun, það ver munum hønum liiker verða, þvi ver munum hañ ſia ſo ſem hañ er, 1 Joh. 3, v. 2. Þar fyrer uteñ ſa þeir Utvoldu forklarada Liikame, ſem jafnañ verða ſkiinande. Thuanus ſeiger fra, að Areð 1550 hafe Konguren i Frankariike feinged hia einum Mañe i Borgeñe Bononia, eirn Stein fra Auſtindium,

ſem

sem so undarlegt og dyrdlegt Skin fra ser gaf, ad hañ var allur ad sia sem logande, og af honum utgeingu stoorer og biarter lysande Geislar alla vega. So mun Gud laata Liikame Utvaldra veglega skiinande verda, og ei verda þeir einasta andleger og odaudleger, helldur eirnig Skiinande og dyrdleger; Hafe Gud so lifande skapad, Sool, Tungl og Stiornur, sem þo forgaanaa, mun hañ þa ecke miklu framar priida sin Born med Himneskum Liooma, sem dyrdleg uppriisa? þvi so heiter þad; Añañ Biartleik hafa Stiørnurnar, þvi øñur Stiarnañ yferviñur adra i Biartleika, so er Uppriisa Frañlideña. 1 Cor. 15, 41. 42. Þeir sem keña munu skiina sem Himensins Geislar, og þeir sem mørgum viisa til Rettlætesins liika sem Stiørnur um̃ Allder og ad Eilifu Dan. 12. v. 13. Þeir Rettlaatu munu liooma sem Sool i Riike Fødurs þeirra, Matth. 13, v. 43. Miked Ynde munu eirnig Utvalder af þvi hafa ad vera i Selskap margra heilagra Forfedra, froomra Konga, Spaamaña, Postula, og añara helgra Maña, med hverium þeir munu vera liika sem eitt Hiarta, og ein Saal. Hafe Meñ her i Heime Ynde af þvi ad vera medal goodra Vina, sem þeir meiga sig uppa reida; Hversu miklu meira Epterlæte munu þa Utvalder hafa af þvi, ad vera medal margra þusunda helgra Maña añars Heims, og hafa vid þa Samrædur? Mun þad ecke vera yndislegt ad heyra af vorum firstu Forelldrum, Adam og Evu, hvernig tilgeck i Paradiis i þeirra Falle, og bæde fyrer og epter þad? Eda af Nooa, hvernig honum leid i Ørkeñe i Syndaflooodenu? Af Postulunum, hvad fyrer þa kom i Ferdum þeirra um̃ Heimeñ; Af hinum gamla Jacob, hvernig honum vard vid

þegar hañ spurde ad hans Sonur Joseph lifde, og hvernig h:ner hans Syner affødudu sina vondu Fyrertekt. Hvad vidkemur Sáluñe serilage, mun hun eirnig af Gude veglegar Gáfur odlast; J Skilninge hiña Utvøldu mun birtast fullkomeñ Þecking um Gud og Himneska Hlute, so þeir munu skilia hvernig i þeirre einu Guddoomlegu Veru eru þriár adgreinder Persoonur, hvernig Gud hefur vered til frá Eilifd, hvernig oll Guddoomsens Fylling biir i Christi Liikama, hvernig Gud sameiner sig vid þá Truudu, hvernig hañ med Viisdoome stioornar ollum Hlutum, og hefur þeim vidhallded, þvi nær þad kemur sem algiort er, þá liñer þad sem Hálfverked er. Nu siáum ver i gegnum Speigel i myrkru Orde, eñ þá Auglite til Auglitis, nu þecke eg ad nockrum Parte, eñ þá mun eg þeckia so sem eg em þektur, 1 Cor. 13, v. 10. 12. J Vilia hiña Hoolpnu mun liika Heilagleikeñ og Rettlæted fullkomlega framskiina, er þeir med Glede giora Guds Vilia, og elska hañ iñeliga, asamt hver añañ iñbyrdis, þvi seiger Juda, ad Gud mune skicka þá fyrer sinu Auglite ostraffañlega, med Fognude, Jud. v. 24. Og Petrus huggar þá Truudu med nyum Himne og nyrre Jordu, i hverium Rettlæted bygger, 1 Pet. 3, v. 13. Johañes sá eirnig þá Truudu i Lambsens Brudkaupe iklædda hreinu og fogru Silke, hvert Silke hañ utþiider ad seu Rettlætingar Heilagra, Apoc. 19, v. 8. Af soddañ ypparlegum Gáfum og Giædum, kañ ecke añad ad orsakast eñ eintoomis Fognudur h:ña Truudu, þá verda þeir rett vel druckner af Nædargiædum Guds Huss, og druckader med Vellistingaña Straumum, Ps. 36, v. 9.

§. 14.

§. 14.

Komed hingad þer hiner Truudu! þer goodu Striidsmeñ Jesu Christi, sem keppest epter iñ ad gꜳnga uñ hid þraungva Hlided til eilifs Lifs, og skoded hversu gledelega Endalikt ydar saññe Christeñdoomur fær! Heyred hvilijka Dyrd Gud hefur tilreidt þeim sem kappkosta ad gꜳnga Veigeñ til Himens; Nær sem þer ꜳ Kvollddeñ ad heidriiku Lopte siꜳed Stiornurnar glansa og tindra ꜳ Himnum, þꜳ þeinked med ydur: Nu horfe eg ꜳ þad priidelega Tialld, sem heingt er fyrer þꜳ Himnesku Jerusalem, i hverre eg muñ ꜳ siidañ sꜳ ad bua, nær sem þer so bidied og synged:

O miñ Jesu, mer iñgef þu,
Andiegt Lioos Truareñar! ꝛc.

Þꜳ gledied ydur vid Umþeinking eilifrar Sꜳlu-hiꜳlpar, sem epter ydur biidur, þo þer meiged nockud leinge biida heñar, vited samt fyrer viist ad þar kemur uñ siider ad þer nꜳed hana ad odlast. Mañ nockurn dreimde eittsiñ, ad hañ var leiddur af dꜳfriidum biartskiinande ungum Sveine, uppꜳ hꜳtt Fiall, hvar hañ sꜳ hꜳtt Port standande ꜳ Gullstoolpum, snillelega giort, og sett med Perlum og Gimsteinum, fyrer þessu Porte voru tvær Hurder, oñur bak vid hina, Sveirneñ lauk upp fremre Hurddeñe i hꜳlfar Giætter, og þꜳ heyrde Madureñ þar fyrer iññañ sætañ og fagrañ Saunghlioom, er honum þokte so undrunarsamlegur, ad hañ villde þreingia ser iñ uñ Dyrnar, eñ Sveirneñ varnade honum þad, og sagde; hans Tiime være eñ nu ecke komeñ þar iñ ad gꜳnga, hañ mætte eñ bidlika vid stundarkorn. Sama er þad, þo þer meiged eñ þꜳ biida goodañ Tima, ꜳdur þer sꜳed iñgeinged i eilifa Sælu, samt meiged þer þar uñ visser vera ad

þer slepped ecke af heñe; Þike þer goode Vin! hver sem̃ þu ert, ad þer ersidt veite, og margt beiskt fiñest i þinum Christeñdoome, þá þeink á hvad riikuglega þer mune verda þad i Eilifdeñe um̃bunad, þvi þeir sem med Táarunum̃ nidursá, munu med Fögnudenum uppskera, þeir gáanga ut og gráta og bera áagiætt Sæde, og koma aptur med Fögnude, og bera sin Bindene, Ps. 126, v. 5. 6. Gud band Abraham fordum ut ad gáanga, og sagde: Liittu upp til Himens og tel Stiörnurnar, kantu ad telia þær? Gen. 15, v. 5. Liittu upp til Himens og siá þær oteliañlegu Stiornur, og hugsa under eins med þer til þeirra oteliande Giæda, hverra þu átt von á Himnum, þángad ferdu frá Orooa til Hvilldar, frá Hrigd til Glede, frá Dim̃u til Birtu, frá Fátækt til Audsnægta, frá Vanheilsu til Heilsu, frá Dauda til Lifs, frá Táaradalnum̃ i Fagnadar Saleñ; Skillde þetta ecke upporfa þig til ad keppast epter, iñ ad gáanga um̃ þid þraungva Hlided? Skyllde ecke þesse Vegsemd uppkveikia i þer Elsku til þess Eilifa, og Fyrerlitning þess Tiimañlega? Skyllde ecke þetta áasnisa þig til ad hlaupa i Alvorugefne med Glede epter Hnossenu, sem heyrer til þiñe Kallan her ad ofañ? O lát einga Fyrerhosu auka þer Trega, og lát þer ecke leidast ad stunda epter Sáaluhiálpeñe, lát eingañ Hlut hallda þer aptur i þinu Christeñdooms Hlaupe! Petrus kallar so til allra christeña Mañа; Kiærer Brædur! Legged þess meire Kappsmune á ydar Kallan og Utvalningu ad stadfesta, þvi ef þer giöred þad, munud þer eige hrasa, og mun ydur so riikuglega gefeñ verda Iñgáangur i æfeñlegt Riike vors Drottens og Lausnara Jesu Christi, 2 Pet. 1, v. 10. 11. Haf þad

alltiid

alltiid i Huga, ad ef þu ert stadfastur i Truñe og soñum Christeñdoome, þa færdu komest hia eilifre Fordæmingu, og nad eilifre Saaluhialp. Kom hingad seige eg eñ eittsiñ, þu, hver sem ert Guds Barn, og ei einasta seiger, Drotteñ, Drotteñ, helldur gierer eirnig Vilia Fodursins sem er a Himnum, og lifer christelega, og skoda þad dyrdlega Herberge, i hveriu þu att eiliflega ad bua! Kom hingad og yfervega þitt farsæla Stand, i hvert þu herepter settur verdur! Kom og yfervega þad gledelega Lif i hvert þu munt iñganga! Þañig fa sañchristner Meñ, sem ganga rettañ Veg til Himins, sætañ og sælañ Deid, gledelega Upprisu til eilifs Lifs, og Himneska Vegsemd. O hvad sæll og eiliflega sæll er sa, sem hefur geinged retta Leid til Himins, sem hefur lifad liika sem Sañchristnum biriar, og kepst hefur epter, iñ ad ganga um hid þraungva Hlided. Gud hefur sed allt þad Gooda sem hañ hefur giort, heyrt allt þad Gooda sem hañ hefur talad, og merkt allt þad Gooda sem hañ hefur hugsad, og þad hefur allt vered uppskrifad i Miñingar Book fyrer hans Augsyn, fyrer þa sem hafa ottast hans Nafn, og hañ mun þeim þad allt Goodu launa. O hvad sæll og siisæll er sa christeñ Madur, sem stoduglega keppest epter ad iñganga um hid þraungva Hlided, hañ er þrii sæll; sæll er hañ i Daudanum, sæll er hañ i Upprisuñe, sæll er hañ i Himnariikis Dyrd. Yfer þessare tilkomande Dyrd, gledia sig sañchristner Meñ, syngia og seigia:

O hvad farsæl ad er su Tiid,
Þa erum komner þar,
Og epter lidna Heimsins Hriid,
Heitum Guds Borgarar! rc.

Hver

Hv:r eirn keppest þvi epter, sem vill hafa Hlutdeild i Gude i Himnarike, og i Saaluhiaalpeñe, iñ ad gaanga uñ hid þraungva Hlided til eilifs Lifs.



# XIX. Capitule.

## Hvernig sañchristeñ Madur a stifelldlega ad proofa sialfañ sig, hvert hañ er a rettum Veige til Himins, og hvernig hañ skal haga soddañ Proofan, so hañ sviikest ecke nidur i siñe Tru, helldur gete alltiid vered viss uñ sina epterkomande Saaluhiaalp.

§. 1.

Þegar Ferdamadureñ hefur laanga Leid fyrer Hende, þarf hañ vandlega epter ad spyria, hvert hañ helldur rettañ Veg, helst ef a þeim Veige eru marger Afkrokar sem kuña ad villa hañ. Sañchristeñ Madur veit þad, ad Vegureñ til Himens er fyrer hañ miog hættufullur, og vandfareñ, vegna þeirra mørgu Afvega, er hañ kañ fyrer ad hitta, og a þaa ad villast, hvar fyrer hañ kañ ad komast i eilifa Glotun. Er honum þaa ecke best ad rañsaka med Kostgiæfne, hvert hañ mune vera a rettum Veige til Himins? Hafe Ferdamadureñ villst af rettum Veige til þess Stadar er hañ ætlade ser ad

ad ferdast, og formerker ad hañ er villtur ordeñ, þa getur hañ snued aptur og byriad nya Reisu, og so komist til hins sama Stadar, Eñ sa sem eittsiñ hefur utendad Reisu siña Lifdaga her i Heime, getur ecke aptur snued, og biriad þa Reisu aa ny. Se Madureñ eittsiñ daaeñ, kemur hañ ecke aptur i Heimeñ, hafe hañ þa fared ut af rettre Braut til Himins, tapast hañ eiliflega: þvi seiger David um sitt andada Barn; Nu þad er daudt, hvad skal eg fasta? Eda mun eg geta sookt þad aptur? Eg fer til þess, eñ þad kemur ecke til min aptur 2 Sam. 12, v. 23. Og Job seiger: So er Madureñ, nær hañ leggur sig, mun hañ ei standa upp, og ei vakna upp aptur, so leinge þad Himeniñ bliifur, og hañ uppvaknar ecke af sinum Svefne, Job. 14, v. 12. Margt umbreitest i Heimenum, sem Meñ ætla ecke, margt kuña þeir aptur ad fa, sem þeir mist hafa, eñ tapest Saaluhiaalpeñ, fæst hun aldrei aptur; Po nockur misse allar sinar Eigner, kañ hañ ad fa þær aptur, hvad Job reinde. Misse nockur Kongur Riike sitt, kañ hañ ad fa þad aptur, sem Manassés; Misse nockur Heilsuna, kañ Gud ad gefa hønum hana aptur, sem Kongenum Ezechiæ. Eñ hvar er um þad sagt, ad þeim sem Saaluhiaalpena mist hefur, se epterlaated ad bera fyrer heñe Umsorgun, so hañ naae heñe aptur? Þad er sem vor Frelsare Christus seiger: Hvad stodar þad Mañeñ, þo hañ viñe allañ Heimeñ, eñ feinge Tioon aa Saalu siñe? Eda hvad mun Madureñ fa gefed, þar hañ sina Saal med endurleise? Matt. 16, v. 26. Og David: Þar kañ eingeñ Brooder nockurn ad leisa, ne nockurn vid Gud ad forliika, þvi þad kostar alltfor miked þeirra Saaler ad endurleisa,

leisa, so hañ hliitur þad kirrt ad lata vera eilislega, Ps. 49, v, 8. 9. Firſt epter Daudañ er eingrar Endurlausnar ad vænta, þa er þar af audſed, hvad uaudsinlegt er, Madureñ vel epter grenſleſt, hvort hañ er a rettum Veige til Himens, og leiteſt grant epter, hañ næe hoolpeñ ad verda; so hafa þeir Truudu alla Tiima giort, sem Petrus ſeiger: Epter hverre Saaluhialp hafa leitad og grenſlaſt Spameñerner, sem uppa ydur, af þeirre tilkomande Nææd hafa fyrerſpaad, og rañſøkudu a hverium, eda hviliikum Tiima, Anden Chriſti, sem med þeim var, þad tilteiknade, 1 Pet. 1, v. 10. 11. Hvorſu margar fleire þuſunder Maña yrde hoolpner, eñ ſkedur ef þeir jafnañ proofudu ſig, hvort þeir blyſe i Truñe, i Guds Nææd, og a Veige Saaluhialpareñar? Eñ af þvi þeir giora þad ecke, helldur lifa i Andvaraleyſe, ſara þeir a mis vid allt þetta: Þeir ſtoola jafnañ uppa ſina Muñtru, og meina þeir ſeu truader, þo þeir gete þad a eingu byggt, þeir ſeigiaſt aller vona ſig hoolpna verda, ſe um þeirra Tru ſpurt, an þeſs ad hafa nockud fyrer ſer um þad. Mun ſa Ferdamadur ſem lainga Reiſu vill giora, og veit ecke Veigeñ, ſpyr ecke helldur uñ hañ, eñ ſeigeſt vona hañ mune þañ Veg afrañ komaſt, ecke vera Fyſl halldeñ, eda mun hunum ecke bregdaſt Von ſin? Ef Siooferda-Madureñ villde laata ſitt Skip under Seglum rekiaſt fyrer Vindenum, eins og þad yrde af honum driſed, og ſegde ſamt: Eg vona eg komeſt i þa Hofn ſem eg tilætla, være þad ecke daarlega giort, eda munde hañ ecke prettaſt i ſiñe Hegooma Von? Ef nockur, ſem eckert vill viña, ſegde; Eg vona eg mune verda riikur, mun ſu hans Von ecke verda til onytis, af þvi hun er

a

a eingu bygd? Ef einhver segde: Eg vona eg mune lærdur verda, sem þo aldrei liitur i Book; Mun su toom Voon giora hañ lærdañ Mañ? So giorer toom Voneñ eingañ hoolpeñ, þo hañ seigest þa Von hafa, hoolpeñ ad verda, ef hañ bygger hana a eingu. Þær scaviisu Meyar vonudu ad komast iñ uñ Himnariikis Dir, eñ þad brast þeim, þvi þa þær sögdu; Herra! Herra! liuk þu upp syrer ofs! feingu þær þad Svar sem þeim ecke liikade. Sañlega seige eg ydur ad eg þecke ydur eige, Matth. 25, v. 11. 12. Med þessu hefur vor Frelsare kendt ofs, ad marger draga sialfa sig a Talar, med siñe forgefins Von uñ Saluhialpena, sem a eingu er grundud, þvi þeir ættu helldur ad rañsaka Ritningarnar, og þar med spyria sialfa sig; Hefur Gud nockrum losad Saluhialpeñe, sem lifer eins og eg? Eg hef Hiartad fast vid þad Tiimañlega, ellegar eg hegda mer epter þessum Heime, ellegar eg hef einga retta Elsku til Guds og mins Naunga, og þvium̃liikt; þa mundu þeir verda varer vid, ad eingum sem so lifer andvaralaust, og skipter ser liited uñ þad Eilifa, hefur Gud Saluhialpeñe heited, þar med yrde þeim Svikræded opeñbert, og þeirra onyta Von vike i burtu. Eg se ecke ad nockur sem kauper Jord, Huus, Gard, Akur, edur añad þesshattar Goods, late ser nægia med toomt Loforded fyrer þvi, helldur vill hañ þar uppa hafa oñur Skilriike, so sem, ad þad se skrasært og þinglijst, og so frañveigis, so eingeñ brigde þad aptur undañ hans Eign. Og þo sa marger christner Meñ þad af ser, ad vera ugglauser uñ sina Saluhialp, hroosande ser af siñe Heimvon a Himnriike, þo þeir hafe einga Vissu uñ epter Daudañ þangad iñ ad komast. Ad viisu ser morg-

um Christnum liet sem hinum heidna Socrate, er sagde, þꝏ hañ deya skyllde; Nu dey eg, eñ Gud veit hvert eg verd hoolpeñ eda ecke. Vesælañ Dauda fꝏ þeir, sem aldrei hafa rañsakad siñar Sꝏlar Astand, eda proofad sig epter Guds Orde, þvi marger, sem ꝏ siidasta Deige meina þeir nꝏe Iñgaungu ꝏ Himnum, eñ verdur þo af Christo frꝏ-viisad, hlioota þad af þvi, ad þeir ꝏn Astædu hafa iñbirlad ser þad her i Heiñe, so sem Christus uñ þꝏ seiger: Marger munu til min seigia ꝏ þeim Deige, Herra! Herra! høfum ver ei spꝏd i þinu Nafne, høfum ver ei i þinu Nafne Djøfla utreked, høfum ver ecke i þinu Nafne mørg Kraptaverk giørt? Og eg mun þꝏ jꝏta þeim, ad alldrei þekta eg ydur, fared frꝏ mer aller Illgiørda-Meñ, Matth. 7, v. 22. 23. Hver er nu sꝏ Christeñ sem ætlar hañ mune fortapast, þo skedur þad margar þusunder, af þvi þꝏ vantar Fullvissu þar uñ, og su Von, sem þeir þar uñ hafa, er ogrunduð.

§. 2.

Med þvi nu er fullsañad, ad ogrundud Von giorer eingañ hoolpeñ, þꝏ er þad hin mesta Naud-syn ad sañchristeñ Madur proofe siꝏlfañ sig, hvert hañ er ꝏ Veigenum til Himens eda ecke, og su Proofan hliitur rettelega fyrer ad takast, so eingeñ drageft ꝏ Tꝏlar i þvi Verke, sem so miked ꝏriid-ur, þvi añad er ad vona hoolpeñ ad verda, eñ añ-ad er ad vera hoolpeñ i Voneñe, liika sem þad er añad ad vona sig vera i Kongsins Nꝏd, eñ añad ad hafa viss Keñemerke þar uñ. Þad er Christ-num Moñum vel kuñugt, ad þeir verda ecke sꝏlu-hoolpner, utañ fyrer saña lifande Tru ꝏ Christum,

edur

edur ad þeir med Truñe umfadme Jesu Christi fullkomnu Fullnægiugiord, med hvorre hañ hefur i Mañaña stad fridstillt Guds Rettlæte, og þeim Rettlæted Himnariike og Saluhialpena afrekad, sem þeir hofdu fyrer Syndena tapad, hvad optlega og noogu liooslega er adur utskiirt her ad framañ. Ver hofum her um Christi eigeñ liooſu Ord: So elskade Gud Heimeñ, ad hañ gaf ut siñ eingeteñ Son til þess ad aller þeir sem a hañ trua fyrerfareſt eige, helldur ad þeir hafe eilift Lif. Joh. 3, v. 16. Og aptur: Hver hañ truer og verdur skiirdur, sa skal hoolpeñ verda, Marc. 16, v. 16. So seiger eirnig Petrus: Eige er i nockrum ødrum Saluhialp, þvi þar er eckert añad Nafn gefed Mønnunum, i hveriu oss biriar saluhoolpnum ad verda, þad er, utañ Nafned Jesu Christi, Act. 4, v. 11. 12. Sømuleidis seiger Paulus: Endalok Løgmalsens er Christus, hver sem a hañ truer, sa er rettlatur, Rom. 10, v. 4. Þegar Myrkvastofu Vordureñ fell fordum Paulo og Sila til Foota, og sagde; Herrar miner! Hvad biriar mer ad giøra so eg verde saluhoolpeñ? þa søgdu þeir: Tru þu a Drotteñ Jesum Christum, so verdur þu hoolpeñ og þitt Huus, Act. 16, v. 30. 31, Eñ med þvi su saña Tru er ecke i þvi foolgeñ, ad seigiast einasta trua a Christum med Muñenum, helldur er hun Kraptur Guds, sem hañ fyrer Yfervegan sins saluhialplega Ords verkar i Mañaña Hiortum, so þeir sae rettelega ad ser teked Christi Forþenustu, og hoolpner orded; þar fyrer eiga þa sañchristner Meñ ad proofa sig, hvert þeir hafa þad giort, og hvert þeir standa i Truñe, og i Guds Nad. Paulus var viss um þad fyrer sialfañ sig,

þvi sagde hañ: Eg veit a hvern eg true, og em fullvifs ad hañ kañ þad ad vardveita, hvad mer er tiltruad allt til þess Dags, 2 Tim. 1, v. 12. Hañ hefur aan Efa bygt a nockru sina Saaluhiaalp, ellegar hefde hañ ecke þetta skrifad; Hañ hefur aan Efa proofad sina Tru, og af vissum Audkeñingar Merkium vered viss uñ, ad hun var rett og soñ. Sa sem viss er uñ þad hañ hafe saña Tru, hañ er liika viss-uñ Guds Naad og Saaluhiaalpena, sem þar verdur ecke fraaskileñ, þvi Trueñ er þad sem Gud aaliitur, sem Jeremias seiger: Drotteñ, þin Augu aaliita Truna, Jer. 5, v. 3. Þar fyrer elskulege Vin! Vilier þu vera viss uñ Guds Naad, þa rañsaka vel, hvert þu ert i Truñe, þvi aan Truareñar er omögulegt Gude ad þocknast, Ebr. 11, v. 6. Ecke þocknast christeñ Madur Gude fyrer sitt eiged Rettlæte, sem eckert er, þad fyrer Gude gyllde, helldur fyrer þad hañ hefur i siñe Saal Jesu Christi utvegada Rettlæte, hvert hañ fyrer Truareñar Krapt tileignar ser, og helldur þvi fast i Saaluñe. Hver sem viss er uñ þad, hañ hafe hia ser Jesu Rettlæte, Fullnadarboot, og Lausnargiallð, hañ er liika viss uñ sina Saaluhiaalp. Eñ so ad þu sert fullkomlega viss þar uñ, aattu kostgiæfelega ad proofa sialfañ þig, hvar til Paulus aamiñer alla, seigiande: Reined ydur sialfer, hvert þer erud i Truñe, reined ydur sialfer, eda-þecke þer ecke sialfa ydur, þad Jesus Christur er i ydur, nema þad se, ad þer seud odugañleger, 2 Cor. 13, v. 5. So seiger eirnig Petrus: Legged þvi meire Kappsemme a ydra Kallan, og Utvalning ad stadfesta, 2 Pet. 1, v. 10. So er þad liooft, ad Madureñ fyrer sliikañ Proofan, verdur viss uñ sina Utvalning til

til eilifs Lifs. Eg seige eñ eittsiñ: ad mikill Mismunur er a mille ogrundadrar Vonar, og Fullvissu uñ Saaluhiaalpena, og a millum þeirrar Truar, sem Meñ hroosa ser af med Muñenum, og þeirrar sem biir i Hiartanu. Er ecke so? Margur ætlar og vonar ad hañ se heilbrigdur, sem þo ecke er. Verkmeñerner i Viingardenum meintu og vonudu, ad þeir mundu faa meira, eñ hiner sem seirna komu i hañ, þo brast þeim þad, þvi hver þeirra feck ecke nema siñ Pening Matth. 20, v. 10 Hvad kemur til þess añad eñ þad, ad þeir hofdu ecke Loford fyrer meiru? Brudkaups-Gestureñ, sem ei hafde Brudkaups Klæded, meinte og vonade hañ mætte i Brudkaupenu vera, i hvert honum var boded, þo brast honum þad, þvi honum var bundnum varpad ut i hin ytstu Myrkur, Matth. 22, v. 13. Amalechitar meintu og vonudu þeim være aldeilis ohætt, þar þeir dreifdu ser uñ Jordena, atu og druncku yfer feingnu Herfaange i Ziklag, þo brast þeim þad, þvi David kom þeim a ovart, og sloo þaa med Sverdseggium, 1 Sam. 30, v. 16. 17. Sa unge Madur sem flutte David Konge þau Tiidende, ad hañ hefde Saul Kong ihel sleiged, meinte og vonade hañ munde faa good Laun þar fyrer, þo brast honum þad miøg, þvi David let slaa hañ ihel. 2 Sam. 1, v. 15. Pharao meinte og vonade hañ munde luckulega komast yfer hid rauda Haf, þo brast honum þad, þvi hañ hlaut i þvi ad druckna, med øllum sinum Her, Ex. 14, v. 28. Hver var Orsøk þar til oñur eñ su, hañ hafde eckert Fyrerheit af Gude þar yfer ad komast? Eñ Israels Born komust med Luchu þar yfer, þvi þeirra Von var bygd a Guds utþrickelegu Fyrerheite. Her af maa sia Mismun a þeirre

Von sem a eingu var bygd, og þeirre sem vel er grundud, eins og a þvi ad seigiast vera heilbrigdur, eda Riikur, og a þvi ad vera þad raunar, þvi seiger Jacob: Hvad stodar þad, kiærer Brædur, þott einhver seige hañ hafe Truna, og hefur ei Verkeñ? Getur su Tru giørt hañ hiálplegañ? Jac. 2, v. 14. Þar med keñer hañ, ad þad se til onytis ad hroosa ser af Truñe, eñ hafa þo einga sañrar Truar Avexte til ad bera, þvi su Tru se daud, eñ ecke saluhiálpleg.

## §. 3.

Lát þar fyrer vinsamlege Lesare, þina Tru ecke vera foolgna i toomum Ordum, og ecke þina Saluhiálp bygda a einberre Von, sem vid eckert hefur sig ad stidia; Leitastu miklu helldur vid ad ná Fullvissu uñ þina Tru og Saluhiálp, so þu ecke nidursviikest, i so miked uñvardande Efue, ad a þvi stendur þin Vistarvera, uñ þá endalausu Eilifd; Giæt ad Dæme hiña Fáviisu Meya, sem meintu þær hefdu Vidsmier i sina Lampa, þá Brudgumeñ kom, hvar med hin sama Tru verdur skileñ, eñ sáu nær þær adgiættu, hvad ofseint var, ad þær vantade þad Matth. 25; v. 8. Halldt þvi frañ ad proofa siálfañ þig, þángadtil þu sær sañreint ad þu ert i sañre Tru bliifande. Hviilst eck firr eñ þu ert viss ordeñ uñ þina Saluhiálp, epter þeim goodu Rádum Postulans Pauli: Epter Guds Orde einasta áttu ad proofa þig, skule þer duga. Gullsmidureñ reiner Gulled a [illegible]oofsteinenum, þvi añars kañ hañ ad taka sviked Gull fyrer gott. So áttu ad proofa þina Tru, a Guds Orda Proofsteine, gior þad liika rettelega, so þer þurfe ecke ad bregdast. Dæm ecke af þvi, þo Heimureñ eda adrer Meñ dæme og hallde

þig

þig sañchristeñ, ad þu þar fyrer sert þad. Margur er hallldeñ fyrer Mañaña Augum sem Gull og Perlur eda Sañtruadur, eñ verdur þo fyrer Gude sem forridgadur Mælmur æliteñ, eda vantruadur. Af odrum kañ sa hallldeñ ad vera fyrer Guds Barn, sem þo er fyrer Guds Auglite Helviitis Ellds Matur. Postular Christi helldu Judas Ischariot sañtruadañ, þo var hañ Svikare. Madureñ ser þad sem fyrer Augunum er, eñ Drotteñ æliitur Hiartad 1 Sam. 16, v. 7. Þad Eple sem ad utañ er fagurt, kañ ad vera madkad iñañ; Sa Fiskedamur sem hefur skiært Vatn ofaña, kañ ad vera a Botnenum fullur af For og Bleitu; So er eirn Madureñ fyrer odrum hid ytra vel utliitande, sem þo kañ ad vera Hræsnare hid iñra i Hiartanu; Dæm ecke helldur ad þu sert sañtruadur af þvi ad þu ræker Guds Þioonustu utvortis, eins og adrer, þvi þad kañ liika ad pretta þig, og þad hefur margañ sviked. Margur ser til Kyrkiu, og er vid Guds Þioonustu, sem ecke er alltiid fyrer þad retttruadur, añars hefde Cain verid truadur, sem þo ecke var, þvi þo hañ foornfærde, leit Drotteñ ecke nædarsamlega til hans Foornar. Gen. 4, v. 5. Ecke er helldur Bæneñ i siælfre ser Merke til sañrar Truar, þvi margur kañ med Alud ad bidia, eñ vera þo vantruadur. Pharisearner helldu længar Bænagiorder, samt voru þeir vantruader, so ad Christus hroopade Vei yfer þeim. Ad heyra margar Predikaner er ecke helldur Merke sañrar Truar, añars hefde Herodes vered truadur, med þvi hañ hliidde Johanni Skiirara i morgum Greinum, og heyrde honum giarnañ, Marc. 6, v. 20. samt var hañ þo fullur af Vantrú. Være þad viist Merke Truareñar a nockrum, ad hañ gefur Olmusur, þa hefde Phariseareñ truadur vered, er gaf

miklar Tiiunder, um hvern Christus þo ecke seiger, ad hañ hafe rettlaatur heim fared i sitt Huus, Luc. 18, v. 12. 14. Ef utvortis Ydran og Angursemе være viist Merke ibuande Truar, þaa hefde Achab vered truadur, er hañ sundur reif sin Klæde, took Seck a siñ Liikama, fastade og svaf i Seck, og geck hrigdarlega fram, eñ þo var hañ vantruadur og Hræsnare, 1 Reg. 21, v. 27. Ef þad være viist Merke til, ad sa være sañtruadur sem helldur ser fraa utvortis Stoorglæpum, þaa hefde Phariseariñ, er strax var aminst, vered truadur, sem hañ var þo ecke, þvi hañ var secke Ræninge, orettviis, Hoordooms-Madur, eda sem Tollheimtareñ, Luc. 18, v. 11. Ef Skriptamaaleñ være Merke Truareñar, þaa nockur Madur medkeñer sinar Synder med Muñenum, þaa hefde liika Pharao vered truadur, þvi hañ sagde: Eg hefe eñnu ad þessu siñe syndgast, Drotteñ er rettlaatur, eñ eg og mitt Foolk erum ogudleger, eñ hañ var þo vantruadur, Ex. 9, v. 27. Ef Brukun þeirra H. Sacramenta være obrigdañlegt Merke Truareñar, þaa hefde Phariseear og Saducear eirnig vered truader sem komu til Johañis Skyrnar, þad var þo ei so, þvi hañ kallade þaa Nodrukyn fyrer þeirra Hræsnis Saker, sem ecke kyñu ad umflya Guds tilkomande Reide, Matth. 3, v. 7. Aller i Borgeñe Corinthus, sem medtooku þaa H. Christi Kvölldmaaltid hefde þaa liika vered sañtruader christner Meñ, þo seiger Paulus um þaa, ad nockrer af þeim hafe medteked hana overduglega, og orded seker vid Holld og Blood Drottins, fyrer þad være marger siuker a medal þeirra og marger sofnader, 1 Cor. 11, v. 27. 30. Af þessu serdu liooslega, ad utvortis Guds Þioonusta kañ ecke alltiid ad vera Truareñar Verkan,

an, helldur stundum af Hræsne, og hafa añan Uppruna, þvi soddañ utvortis Guds Dyrkan kañ eirnig ad verkast af Uppfoostre Mañа, sem til heñar eru vander i fra Barndoome, sem eirnig til þess ad fordast utvortis Glæpe, hun kañ eirnig ad vera Hræsneñar Verkan, þegar Meñ vilia vera af Heimenum sem velchristner alitner. Liika sem þad er ecke viist Merke, a Trenu til þess þad se aavaxtarsamt, ad þad hefur græn Lauf, og ecke a Mañenum, ad hañ se lifande, ad hans Augu eru nockud opeñ, eda hañ er nockud raudleitur i Andliite, þvi þar til kuña ad vera adrar Orsaker, so er um utvortis Guds Dyrkan; Athuga þvi helldur hvernig þinu Hiarta er vared, þad er ecke noog ad þu bidier og syngur, giæt helldur ad hvert þu i Bæneñe upplijfter heilogum Hondum, an Reide og Efasemdar, þvi Gud bænheyrer ecke Syndarana, sem lifa i vitañlegum Asetnings Syndum, helldur þa sem ottast Gud og giora hans Vilia, og hañ burtkastar allre utvortis Guds Þioonustu, sem ecke framkemur af ydrande og truudu Hiarta, þvi þesshaattar Bæner og Saungvar eru fyrer honum sem skinlausra Diira Bulldur, og misþocknast honum; Þad er ecke noog ad þu gefer Olmusur, giæt helldur ad hvort þu giorer þad af froomu Hiarta og soñum Kiærleika, þvi þo þu gefer so ut allar þinar Eigur, og hefur ecke Kiærleikañ, er þer þad eingeñ Nytsemd; Þad er ecke noog ad þu heyrer Guds Ord, giæt helldur ad þinu Hiartalæge, hvort þu vardveiter þad i goodu og sidsomu Hiarta, og færer Avoxt i Poleñmæde, þvi añars ertu Ordsins Heyrare einasta, eñ ecke Giorare, og þar fyrer vantruadur, eñ ecke truadur; Þad er ecke noog ad þu gaanger til Skripta og Altaris, giæt helldur ad hvernig þitt Hiarta er adur underbued, þvi Mad-

ureñ a mdur ad proofa sialfañ þig, og hafe hañ ecke ydrande Hiarta, og skeite liited uñ sinar drygdu Synder, eda hafe hañ ecke alvarlegañ og stodugañ Asetning ad fordast allar Synder, þa etur hañ og dreckur sialfum ser Doom, og verdur sekur vid Liikama og Blood Jesu Christi; Laat þar fyrer ecke soddañ utvortis Þioonustu vera þer neitt viist Merke þar uñ, ad þu sert sañtruadur og i Guds Naad, þvi Vantruader kuña liika hana ad bruka; Reid þig ecke uppa þinar Bæner, eda þina Saungva og Lestra, ecke þina Guds Orda heyrn, ne þinar Olmusugiørder, og ecke þinar Skripter, ne þina Altarisgaungu, þvi af ollu þessu kantu ad taldragast, helldur haf alltiid gaat a þinu Hiarta, og med hvada Siñes Tildrætte þu fremur þvilijk Guds Verk. Haf fyrer þer oñur Keñemerke, af hvorium þu getur uñ þad viss vered, ad þin Tru se soñ sem þer skal snart synt verda.

§. 4.

Adur eñ eg fer ad tala uñ þau soñu Truariñar Keñemerke, vil eg first miñast a þad, ad Trueñ og Voneñ a alltiid ad vera grundud a Fyrerheite, hvar uppa truadur Madur meige sig reida, sem adur er uñtalad, añars er hun ecke añad eñ onyt Iñbirling. Þar fyrer vilier þu vona hoolpeñ ad verda, verdur þu ad byggia þad a nockru, ad þer se fyrer þig serdeilislega Saaluhialpeñe lofad; Ad soñu hefur Christus ollum Moñum Saaluhialpena afrekad, þvi hañ hefur Daudañ Valldenu svipt, og Lifed og Odaudleikañ i Lioos leidt, seiger Paulus 2 Tim. 1, v. 10. Eñ þar fyrer er ecke ollum lofad Saaluhialpeñe beint frañ, þo þeir life hvernig sem þeir vilia, helldur med þeim Skilmaala, ad þeir rettelega true

a

a Jesum Christum, og i Truarennar Krapte mootstriide Dioflenum, þeim ogudlega Heime, og þeirra illu Hollde og Bloode, enn leitest vid ad giora hvad Gude er gedfelldt, og hans Vilia er samhlioода, epter þvi sem i H. Ritningu er kunngiort; So er su sanna Tru ecke medfallen i Munnmælum og Ordum, helldur i Krapte og Verkum, sem Gud fyrer sitt Ord verkar i christens Mans Hiarta, so hann verdur hæfur til ad medtaka Christi Fullnustugiørd, ad hun verde hans Eign, og med henne eilif Saaluhiaalp; fyrer hana fær hann Styrk af Jesu Styrkleika, til ad yfervinna Sathan, Heimenn, og sialfs sins Vondsku, og lifa sem Christi Frelsinge Ef nockur seiger umm eirn Mann ad hann se truadur, þa seiger hann mikilsverdann Hlut, þvi þad er sem hann segde: Þesse Madur er uppliistur af Guds Orde, Gud hefur gefed honum i sitt Hiarta Truarennar Krapt, so hann hefur rettelega tileignad ser Christi Forþenustu, Rettlæted, Himnariiked og Saaluhiaalpena, þar fyrer biir Christus i hans Hiarta, og er sameinadur hans Saalu, so hann fær allt hid Vonda farsællega yferunned, og i goodum Verkum jafnanns tødugur staded og Gude þocknast. Sia þu! So er hattad þeirre saaluhiaalplegu Tru: Ætlast þvi ecke til aa þess ad þu sert sanntruadur! Liit til Paulum, og muntu þad hia honum finna, so sem hann umm sig seiger: Eg life, þo nu ecke eg, helldur lifer Christus i mer, þvi þad eg life nu i Hollдenu, þad life eg i Trunne Guds Sonar, sa ed mig hefur elskad, og sialfann sig utgefed fyrer mig, Gal. 2, v. 20. Og aptur: Eg forma alla Hlute fyrer þann sem mig mattugann giører, sem er Christus, Phil. 4, v. 13. Ad Christus þannig sameine sig þeim Sanntruudu, so þeir læte af Illu og giøre Gott, þad vitnar

Christ-

Christus, er hañ seiger: Eg em Viintred, eñ þer erud Kvisterner, hver hañ bliifur i mer og eg i hønum, sa færer mikeñ Avøxt; þviad an min fcaed þer eckert giørt, Joh. 15, v. 5. Þar til vil eg nockrar Greiner leida; ad sañtruadur Madur se þañig a sig komeñ, sem sagt er, sa endurfæddur er og af Gude upplystur, so seiger Johannes þar um. Allt hvad af Gude er fædt, þad yferviñur Heimeñ, og vor Trua er Yferviñingeñ, hver Veröllдena hefur yferuñed, eñ hver er hañ sem Veröldena yferviñur, utañ alleinasta sa er truer, þad Jesus se Guds Sonur? 1 Joh. 5, v. 4. 5. So seiger Paulus: Þeir sem Christo tilheyra, þeir krossfesta sitt Holld med Gyrndum og Tilhneigingum. Gal. 5, v. 24. Og aptur: Þeir sem Guds Ande leider, þeir eru Guds Børn; So geta eige þeir sem holldleger eru Gude þocknast, eñ þer erud ecke holldleger, helldur andleger, so framarlega Guds Ande bygger i ydur, eñ hver hañ hefur eige Christi Anda, sa er eige hans. Rom. 8, v. 14. 8. 9. Aptur seiger Johannes: Hver þviliika Von hefur til hans, þad er til Guds, sa hreinsar sig, liika sem þad hañ er hreirn, hver af Gude er fæddur, sa giører eige Synd, þviad hans Saad bliifur hia hønum 1 Joh. 3, v. 3. 9. Hver sem hefur so asigkomna Tru, sem nu er sagt, hañ er sañtruadur og yferviñur allt hid Jlla, og hañ ma alleina byggia uppa Fyrerheit hins eilifa Liffsens, þvi so seiger sialfur Sonur Guds: Hver yferviñur sa skal med hviitum Klædum klæddur verda, og eige mun eg hans Nafn utsletta af Lifsbookeñe, og eg mun játa hans Nafn fyrer minum Fødur, og fyrer hans Einglum; Hver yferviñur, hønum mun

eg

eg gefa ad sitia med mer a minum Stoole, liika sem eg hefe yferuñed, og seted med minum Fødur a hans Stoole, Apoc. 3, v. 5. 21. Hver ed yfervinur, sa mun erfa allt þetta, og eg vil hans Gud vera, og hañ mun miñ Sonur vera, Cap. 21, v. 7. Og Paulus seiger: Ef þer deided fyrer Andañ Holldsins Gyrnder, munud þer lifa. Proofa þig þar fyrer hvert þinu Hiarta og þiñe Tru er so hattad, siñer þu þad ecke hia þer, þa vantar þig þa soñu Tru, og under eins Fyrerheited uñ eilift Lif, a hveriu hun skal byggiast; Eñ meinar þu þig truadañ vera, þo þetta vante, þad er forgefins Iñbirling. Ad trua, þad er ad vona, og reida sig uppa Guds Orda Fyrerheit; Nein þvi til hvert þu getur þad giort med goodre Samvitsku! Sertu, kañske, hneigdur til hins Tiimañlega i Hiarta þinu, so þu leiter framar epter Goodse og Peningum, eñ Guds Naad og þiñe Saalar Velferd, elsker Agyrne, og þad Iardneska, og voner samt hoolpeñ ad verda, þad prettar þig, þvi þu hefur eckert Fyrerheit fyrer þvi i H. Ritningu, og Gud hefur þvi þeim aldrei fyrerheited, sem elska Heim þeñañ, og hegda ser epter hønum; Haferdu fyrer þvi nockurt Fyrerheit, þa kom fram med þad; Þvert i mot seiger Ritningeñ, ad þeir sem jardlega eru siñader, komast ecke i Himnariike. Sertu Osstækis og Ohæfu Madur, eda lostafullur, og ætler þig samt hoolpeñ ad verda, bregdst þer þad, þvi hvar hefur þu þar uñ Fyrerheit? Þvert i moot hootar Gud þeim Fordæminguñe sem so lifa, 1 Tim. 6, v. 9. 10. og añarsstadar: Sertu metnadargiarn og hofmoodugur i Hiarta, og biist samt vid ad verda hoolpeñ, þa syn mer eina Grein, i hverre Gud hefur lofad þeim Dramblatu Himnariike, geterdu ecke þad, þa ertu Narre

Narre i þiñe Tru og Von, ad ætlast til þess af Gude, sem hañ hefur þer aldrei lofad; Gud hefur hootad þeim Drambsömu siñe Reide, þad er, sinu Straffe i Helviite, þvi mættu trua, og þad bregst þer ecke, Amos. 6, v. 8. Sertu underforull og drager añara Fe under þig med Rangslæte, giorer þinum Naunga Afdrætt i Fiærskiptum vid hañ, og velar hañ a ymsañ Hatt, og hefur af þvi einga Samvitsku, og ætlast samt til hoolpeñ ad verda, þa bregdst þer þad, þvi þu getur ecke þvi af Guds Orde framviisad, ad þu hafer þar uppa Fyrerheit. Eñ þad get eg funded, ad soddañ Maña Hlutskipte eru i Diikenu, sem af Ellde og Breñesteine logar, þvi þeir sa ecke ad erfa Guds Riike, 1 Cor. 6, v. 10. Þar fyrer ma ecke su saña Tru og vissa Von um Saaluhiaalpena, hallda ser vid nefndar Synder, eda nockrar adrar viisvitande Synder, hveriu Nafne sem þær heita. Ef aller proofudu sig so, liika sem Gud vill ad þeir giore, þa mundu þeir fiña ad þeir standa ecke i Truñe, og hafa ecke helldur hlutdeilld i eilifu Life, og þar vid mundu þeir helldur vakna, til ad hafa meire Umsorgun fyrer siñe Saaluhiaalp, eñ af þeim giorest. Ad aller christner Meñ sem her i moot hegda ser, og nu er um talad, hafe ecke saña Tru i sinu Hiarta, þad sest af þvi, ad þeir bera ecke vid ad yfervinña Heimeñ, og þad Illa sem i honum er, helldur elska hañ eñ nu; Være Christus þeim sameinadur fyrer Truna, fære þeir ecke hia þvi ad þeir yferiñe Heimeñ, og forduðust hid Vonda; þvi vor Tru er Sigurviñingeñ sem Verolldena hefur yferuñed, seiger Johañes; og hun er an Verkaña dand i sialfre ser, sem Jacob seiger, Jac. 2, v. 17. Þad er, se þad ecke til i Mañenum, sem þad verke, ad hañ fordest þad Illa, eñ giore þad Gooda med Glede,

Þa er Trueñ daud, og ſo miked er þar med ſagt, i þeim Mañe er eingeñ Neiſte, ſañrar Truar, helldur toom onyt Jñbirling i hans Heila um̃ hana, eins og Chriſti Forþenan og Saaluhiaalpeñ være hans, ſem þo ecke er.

§. 5.

Med þvi ſo ſtoor Taaldrægne verdur i Truñe, af Maña Jñbirlingum, ad þa þeir i Daudanum vona ſer Jñgaungu i Guds Riike, bregdſt þeim þad, af þvi þeir hafa ei rettelega ad ſer teked Chriſti Fullnadarboot, og kuña þvi ei ad fram̃bera hana fyrer Guds Doom, og þeim geingur þar fyrer ſem þeim faaviiſu Meyum, Matth. 25, v. 12. Þa liggur þer a, kiære Leſare! ad rañſaka hvert þu ſert i Truñe, og hvert Chriſtus bue i þer; Ad Fullviſſa um̃ Saaluhiaalpena haange af Truñe a Chriſtum, þad er af Ritninguñe kuñugt, og optlega ſañad, þvi ſo hlioodar ſu Guddoomlega oapturkallañlega Raads Aliktan þar um̃: Hver hañ truer og verdur ſkiirdur, ſa ſkal hoolpeñ verda, Marc. 16, v. 16. Hver ſem fiñur hia ſer þa ſaaluhiaalplegu Tru, hañ þarf i eingañ Maata ad efaſt um̃ ſina Saaluhiaalp, eñ þad riidur a meſtu, ad Madureñ ſe viſs um̃ þad hañ hafe hana. So Madureñ ſe viſs um̃ þad, vilium ver af morgum ſyna nockur obrigdañleg Keñemerke, þeirrar ſoñu Truar a Chriſtum, fyrer hver chriſteñ Madur meige þar uppa byggia ad Trueñ ſe i hønum buande, hañ ſe Guds Barn, er ſtande i hans Naad, og hafe viſſa Von Himnariikis og Saaluhiaalpareñar; Proofa þvi þina Tru, og dæm af þeſſum Chriſti Ordum: Hver hañ truer og verdur ſkiirdur, ſa ſkal hoolpeñ verda, Marc. 16, v. 16. Ad fyrer þvi ſa hiñ ſame tekur ad ſer med Truñe Chriſti

Full-

Fullnægiugiord, þa verdur hañ hoolpeñ, þvi þar med er Sœluhiœlpeñ honum afrekud, og þeir Truudu munu ur Biitum bera Endalok Truareñar, sem er Sœaluhiœlp Sœlareñar, 1 Pet. 1, v. 9. Nu er eg skiirdur uppa Christum, og stend i Truñe a hañ allt til þessa Dags, þvi verd eg liika hoolpeñ epter Guds Fyrerheite; Ad eg se skiirdur uppa Cristum, þar um er eg efalaus, eñ þad eg stande eñ nu i sañre Tru a hañ, þar um verd eg viss af þeim Keñemerkium, sem her epter skal verda umtalad.

§. 6.

First fiñ eg i H. Rituingu, ad þess Mans Hiarta er Gude þocknañlegt og i þvi biir hañ med siñe Nœad fyrer Truna, stioornar þar iñe, leidseiger þeim Mañe, lætur hañ fiña gudlega Huggun i hans Hrigdum og Angursemdum, vidhelldur honum og vidreiser hañ, sem hefur sundurknosadañ og liitelœtañ Anda, þecker sitt andleat Volæde i hvert hañ er komeñ fyrer siña Synda Saker, ad hañ getur ecke af eigeñ Mætte hiœlpad siœlfum ser, ottast fyrer Guds Hootunum, andvarpar epter Guds Nœad, laangar af Hiarta epter og æsker ser ad vera viss um hana So er þa sañarlegt Hugaraangur vegna drygdra Synda, þad firsta Keñemerke sañrar ibuande Truar, Grundvollur þess er bygdur a epterfylgiande Greinum; Pad Offred sem Gude þocknast er harmþrungeñ Ande, eitt harmþrunged og sundurkramed Hiarta muntu Gud ecke fyrerliita, Ps. 51, v. 19. So seiger sa hiñ Hœase, hañ ed upphafeñ er, sa ed eiliflega biir, hvers Nafn heilagt er: Eg sa sem i Hædunum og Helgedoomenum bygge, og i hia þeim sem hafa sundurknosadañ og liitelœtañ Anda, so ad eg liisge Andañ

Andañ hiña Liitelætu, og Hiørtun þeirra i sundurmørdu; Eg vil ei þrætta med jafnade, og ecke reidast æfeñlega, helldur skal eirn Ande af minu Auglite sveima, og eg vil Andardrætte giøra; Es. 57, v. 13. 14. Eg æliit þañ hiñ Smætæka, og þañ sem hefur sundurknosadañ Anda, og þañ ed hrædest min Ord. Es. 66, v. 2. Drottenñ er nælægur þeim sundurknosader eru i Hiarta, og hiælpar þeim sem sundursleiged Siñe hafa. Ps. 34, v. 19. Sæler eru þeir sem hungra og þyrsta epter Rettlætenu, þviad þeir skulu sadder verda, Matth, 5, v. 6. Nu fiñ eg hiæ mer soddañ Hiarta, (eñ þæ mæ eingeñ Madur i þessu hræsna fyrer siælfum ser), med þvi eg þecke nuked vel fyrer Guds Nææd, ad eg er af Nætturuñe ysred diupt i Syndena nidur sockeñ, og get þar einga Boot æ rææded, ne mer i nockru biargad, helldur bliit eg æn serdeilislegrar Guds Nædar eiliflega ad fyrerfarast og forgæanga i minum Syndum, af þessu verd eg optlega hugsiukur, og efasamur, og hrædest fyrer Guds Orde og hans Hotaner, igegn Syndeñe, kviide og skelfest fyrer hans Reide, og þeinke jafnañ, nær hañ sender mer Mootgæang til handa, þæ vilie hañ, Mæske, vitia miña Ungdooms Synda, og straffa mig fyrer minar Yfertrodslur, þar fyrer stin eg og andvarpa þrælega, og hroopa ur Diupenu til Guds mins, liika sem Hiortureñ kallar epter ferskt Vatne, hafande stoort Angur i miñe Sæl, vegna miña Synda, og gyrnest ad sæ Hugsvolun af Gudlegre Huggun. Af þessu obrigdula Keñemerke, er eg viss um ad Trueñ biir i mer, so eg hefe rettelega ad mer teked Christi H. Forþenustu, æsamt Guds Nææd og eilifu Life, þvi æn Guds verkande Nædar, kañ eg ecke ad hafa þvilikt sundur-

knosad andvarpande Hiarta. Sa er soddañ angrad og audmiukt Hiarta finst ecke hia, hañ vidurkeñer ecke þar i mote sina andlega Vesæld, so hañ skelfest þar af og ihuge hvernig honum mune lokſens afreida, helldur er hañ drambſamur, og andvaralaus, skeitande eckert um sinar Synder, og hefur jafnvel Ynde af þeim, hia honum er eckert saňarlegt Liitelæte ad hañ gefe sig under Guds Hyrtingu, andvarpa epter hans Naad, og hafa Ahyggiu fyrer hana ad odlast, helldur gledur hañ sig vid sina utvortis Guds Pioonustu, eins og hañ hefur þar til frá Barnæsku vanest, og meinar hañ þurfe ecke meira med, helldur se allareidu hoolpeñ. Sa Madur sem þañig er a sig komeñ, seige eg ecke se hañ truadur, helldur vantruadur, og hialpest ecke nema hañ af Hiarta uñvendest til Guds. Grundvollur þessa Vantruareñar Keñemerkis, er bygdur a þessum Greinum sem epterfylgia: Þeirra Yferbragd vitnar uñ þa, og þeir hroosa af sinum Syndum, liika so sem þeir til Sodoma, og þeir skiila þeim ecke; Vei Saalum þeirra, þvi ad þar med koma þeir sialfum ser i alla Olucku, Es. 3, v. 9. David seiger: Hvad Illt sem þeir giøra, þa er þeim þad fyrergefed; Miskunarlaust steipe Gud soddañ Møñum nidur. Ps. 56, v. 8. Þad er, af þvi þeir iñbirla ser stoduglega ad Gud hafe þeim þad allt fyrergefed, hvad illt sem þeir giora, og þar þurfe ecke meire Umsorgun fyrer ad hafa, þa steipe Gud þeim nidur i siñe Reide. Þar er eingeñ sem misliike sin Illska, og seige, Hvad er þad eg giore? Þar fyrer hlioota þeir ad falla i eina Hrugu, og nær eg fer þeirra ad vitia, þa skulu þeir falla, seiger Drotteñ, Jer. 8, v. 3. 9. Þeir verda gamler i Sællifenu, og skelfast valla eitt Augabragd fyrer Helviite. Job.

21, v. 13. So sem Lutherus utleggur þad ut a Bladenu; Þeir hafa gooda Daga allt i Daudañ, og þiker þad ecke vera ad giora nema um̃ eitt Augabragd, sem þeir liida hardt, og þa se afloked med þa, og þeir hafe vel af komest, eñ þeir verda sam añ ad Grasstraa fyrer Vinde, og sem Jardar Dupt, þvi Stoorvidred i burtu feiker, v. 18. Heilbrigder hafa ei Læknarans Þørf, helldur þeir sem krankker eru; Eg er komeñ ad kalla Synduga til Jdrunar, eñ ecke þa Rettlatu, Matth. 9, v. 12, 13. Þad er þa sem hallda sig rettlata vera, og meina þeir þurfe ecke Guds Naadar vid; Hañ sa Almattuge sinndurdreiser Dramblatum i Þaunkum þeirra Hiarta Luc. 1, v. 51.

§. 7.

Iaññ Maata fiñ eg i H. Ritningu, ad Gud med siñe Naad, biir i þeim Mañe fyrer Truna, og sa er Guds Barn, og Guds þockrañlegur, tilheyrer sinum Frelsara Christo, og odlast aan esa eilifa Saaluhiaalp, sem ottast ad giora nockud þad Illt er i Guds Augsyn, þvi hañ veit ad þar med feller hañ yfer sig Guds Onaad, þar fyrer mootstendur hañ ollum illum Gyrndum, til hverra hañ fiñur sig hneigdañ, fordast allt Tækefære til ad syndga, og yfervinñur so þañ illa Heim med hans Tilteigingum; Hañ þeinker med ser sem Joseph: Hvernig maa eg giøra so miked Ohæfuverk, og syndgast a mote Gude? Gen. 39, v. 9. Eg vil helldur fara a mis vid allt Maña Vinfeinge, eñ stiggia Gud vilande og visvitande, þvi Meñerner meiga ecke meir ad hiaalpa. Hañ lætur jafnvel, helldur tiinast bæde Fe og Fior, meige þad so miked kosta, eñ ad syndga af Mootvilia a moote Guds Bodordum, liika

sem þeir sio Maccabeisku Brædur giordu. 2 Macc. 7. Bere þad til hañ huxe, giore eda tale nockud þad Jllt er oviliande, sem truada Meñ kañ optlega henda, þa slær Hiartad hañ snarlega þar fyrer, liika sem David, so hañ andvarpar þañig med honum: Hunglega hef eg syndgast, ad eg hefe þviilikt giørt; Og nu Drotteñ! tak burt Ranglæte þins Þenara, þvi eg giørde miøg oviturlega, 2 Sam. 24, v. 10. So er þa sañarleg Endurboot añad Keñemerke sañrar ydrande Truar, þa Madureñ ottast og fordast ad styggia Gud med nockre Synd. Grundvollur þessa Truareñar Keñemerkis, er sem sicast maa, bygdur a fylgiande Greinum. Allt hvad af Gude er fædt, þad yferviñur Heimeñ, og vor Trua er Yferviñingeñ, hver Verolldena hefur yferuñed, eñ hver er hañ sem Verolldena yferviñur, utañ alleinasta sa er truer þad Jesus se Guds Sonur, 1 Joh. 5, v. 4. 5. Þeir sem Christo tilheyra, þeir krossfesta sitt Holld med Gyrndum og Tiihneigingum, Gal. 5, v. 24. Ef þer deided fyrer Andañ Holldssins Giørder, munud þer lifa. Rom. 8, v. 13. Sæler eru Hreinhiartader, þviad þeir munu Gud sia, Matth. 5, v. 8. Þad er, þeir sem stunda epter iñvortis Hreinleika, og mootstanda ollum Gyrndum; Soddañ Gedslag fiñ eg i mer, þvi eg er hræddur ad taka þad nockud mer fyrer Hendur, fyrer Auglite mins Guds, sem mootstriider hans H. Bodordum, og vil helldur missa allra Mañа Vinskap, og jafnvel Lifed, eñ ad giora mer Gud ad Ovin med minum Mootþrooa Syndum, og tapa so hans Naad, þar fyrer mootstend eg Heimenum, so eg hegde mer ecke epter honum, og minum vondu Fysnum, sem hreifa ser i mer, so eg giøre

giøre ecke epter þeirra Tillockan; þo eg hafe Hentug-leika til ad hefnast a Ovinum minum, eda naa under mig Goodse mins Naunga, under Rettar-Skine, so eingeñ merke þad, eda hafest eitthvad añad rangt ad, samt sleppe eg þvi, af þvi eg veit ad þar med reite eg Gud til Reide; Mer er eirnig ogedfeldt ad heyra adrer hafest þvilikt ad, edur añarsvegar giøre sinum Naunga ranglega til, og verde mer þad a, ad eg i Brædræde þess i millum hure nockud Illt, eda tale einhveria Onytiu, eda giøre nockud rangt, þa hriggest eg strax, af þvi i Hiartanu, og sturlast i miñe Samvitsku, og tek til ad andvarpa so til Guds: Æ Drotteñ! Tak burt þins Þenara Misgiorning, þvi eg giorde daar-lega og syndgade a moote þer, eg vil vara mig fyrer þvi i añad siñ; Af þessu Keñeteikne verd eg aptur viss um, ad eg se i Truñe, og hafe med heñe um-fadmad Christum, fyrer hvers Naad eg einasta get þvi illa Mootstodu veitt, og fyrer Truna fæ eg Diøfuleñ, Heimeñ og Hollded sigrad, þvi an þiñ-ar Naadar get eg þad ecke; Hver sa Madur, þar a moote, sem hliider sinum illu Gyrndum, lætur þær fyrer sig rada, og mootstendur þeim ecke, helld-ur med asettu Rade samþickest þvi Illa, nyter ser giarnañ þad Føre hañ kañ sa, til ad hefnast a Ovinum sinum, eda ad draga sunder sig rangfeing-ed Fe, eda hafast añad Illt ad, og feilar sin ecke fyrer Gude, ad giøra þad hañ veit hañ bañad hef-ur, og þad stundum fyrer Vinskap Mañ, edr hans Samvitska biitur hañ eckert fyrer þad, þo hañ hafe Orett giort, so hañ kastast ecke vid þad, ne leitast vid ad sa þad lagsært, helldur liitst þad vel hæfelegt, og Jofnudur, og þiker eirnig þægelegt ad heyra adrer giøre þvi um likt, hañ same er ei

 sañ-

saññtruadur, helldur vantruadur, og an Guds Naadar, þvi aññars hellde Trueñ, er i honum være buande sem Guds Kraptur, honum fra þaññig ad breita. Og uppa þad ad eingeñ sem so liser efest uñ þad haññ lifer i Vantru, og Guds Ovinattu, biriar honum ad yfervega fylgiande Greiner: Holldlega ad vera siññadur er Daude; Þeir sem hollde leger eru geta ei Gude þocknast. Ef þer lifed epter Holldenu munud þer deya; Rom. 8, v. 6. 8. 13. Hver i Holldenu sæer nidur, sa mun af Holldenu Skadseme uppskera, Gal. 6, v. 8. Ef nockur elskár Heimeñ, i hønum er ecke Kiærleike Fødursins. 1 Joh. 2, v. 15. Hver Syndena giører, sa er af Diøflenum, þad er; Hver Syndena giører viliande, og af Asetninge, þviad Diøfulleñ syndgar af Upphafe, þar af eru auglioos Guds Børn og Diøfulsins Børn. Hver haññ ei giører Rettviisena, sa er ecke af Gude, og hver ei elskar siññ Broodur, Cap. 3, v. 8. 10. Þeir munu ei aller sem til min seigia; Herra, Herra, iññganga i Guds Riike, Matth. 7, v. 21. Þad er, sem ecke mootstanda þvi Illa, helldur einasta med Muññenum hroosa ser af Truññe. Hver eirn freistast, nær haññ tilteigest af siññe eigeñ Gyrnd og lockadur verdur, og siidañ þa Gyrndeñ hefur geted, fæder hun Syndena, eñ nær Syndeñ er fullkomnud, fæder hun Daudañ, Jac. 1, v. 14. 15. Vited þer ecke ad Veralldareññar Vinfeinge er Guds Ovinskapur; Hver Veralldar Vinur vill vera, sa mun Guds Ovinur verda. Cap. 4, v. 4.

§. 8.

J þridia Maata, fiñ eg i H. Ritningu, ad sa Madur er utþrickeleg a fyrer Guds Barn aliteñ og sañur Limur a Jesu Christi andlega Liikama, halldeñ, hafande Hlutdeild i Gude og hans Naad, sem viliugur astundar ad giora þad Gott er, sinum Gude til Dyrdar og Þocknunar, og af hliidugu Hiarta leitast vid ad giora Guds Vilia epter sinu Megne. Hafe hañ nockru Goodu afkomed, gledst hañ þar af i Hiartanu, af þvi hañ merker ad Guds Naad hefur þad i honum verkad; Hañ laungar til eñ meira Gott ad giora, gledur sig i Himneskum Hlutum, og er tiidum ecke vid sialfañ sig asatt- ur, fyrer þad hañ bidur ecke Gud med stærre Andans Alvorugefne, eda yfervegar Guds Ord med betre Eptertekt, eda tekur uppa sig þañ Kross sem Gud a hañ leggur, med meire Þoleñmæde, eda giører sinum Naunga, af iñelegum Kiærleika til gooda: Hañ geingur vareigdarsamlega fram, so hañ misse ecke Guds Kiærleika, og keppest epter iñ ad ganga um hid þruangva Hlided til eilifs Lifs; Fiñe hañ sig ad vera vissañ um Guds Naad, fagnar hañ þar af i sinu Hiarta, framar eñ af ollu þvi Tiimañlega, ofkar eirnig ad adrer Meñ mættu liika fiña til hins sama i siñe Saal, sem hañ, og kañast vid þad sama. So eru þa sañarleg Goodverk, sem hid iñra verkast og framkoma af Truñe og Kiærleikanum. Þad þridia Keñemerke sañrar i buande Truar; Þetta Truareñar Keñemerke er grundad a þeim Greinum, sem her epter fylgia: So er nu eingeñ Fordæming i þeim sem i Christo Jesu eru, sem eige ganga epter Holldenu, helldur epter Andanum; Ad vera andlega siñadur er Lif og Fridur. Þer erud andleger so fram-

arlega Guds Ande bygger i ydur, þvi þeir sem Guds Ande leider, þeir eru Guds Børn, Rom. 8, v. 1. 6. 9. 14. Ver vitum þad ver ur Daudanum erum komner til Lifsins, þviad ver elskum Brædurnar; Hver hañ vardveiter hans Bodord sa bliifur i hønum, og hañ i hønum, og þar af þeckium ver þad hañ bliifur i oss, af þeim Anda, hvern hañ hefur gefed oss, 1 Joh. 3, v. 14 24. Ef ver elskum oss iñbyrdis þa bliifur Gud i oss, og hans Kiærleike er fullkomlegur i oss; þar af þeckium ver þad ad ver bliifum i hønum, og hañ i oss, ad hañ hefur gefed oss af sinum Anda; Gud er Kiærleikuren, og hver i Kiærleikanum bliifur, sa bliifur i Gude, og Gud i hønum, Cap. 4, v. 12. 13. 16. Hver i Andanum nidursaer, sa mun af Andanum uppskera eilift Lif, Gal. 6, v. 8. Miner Sauder heyra mina Rødd, og eg þecke þa, og þeir fylgia mer epter, og eg gef þeim eilift Lif, og aldrei skulu þeir fyrerfarast, og eingeñ skal þa sliita ur miñe Hende, Joh. 10, v. 27. 28. Eg em Viintred, eñ þer erud Kvisterner, hver hañ bliifur i mer, og eg i hønum, sa færer mikeñ Avøxt, þviad an min faed þer eckert giørt. Cap. 15, v. 5. Þessslags Siñe siñ eg eirnig hia mer, þvi eg astunda ad giora Guds Vilia med hliidnu Hiarta, og hvad hønum er þocknañlegt ad eg tape ecke hans Naad; Eg ber helst Umsorgun fyrer ad na Saaluhiaalpeñe, og stadfesta mina Kallan og Utvalningu til eilifs Lifs; Verde eg var vid ad Guds Naad verke i mer, þa fagna eg iñvortis, og framar yfer þvi, eñ ollum Jardneskum Hlutum, optlega oskande med sialfum mer, ad Gud vilie eirnig so upplysa adra christ-

na

na Meñ. Opt liikar mer þad illa vid sialfañ mig, ad eg get ecke vered alvarlegre i minum Gudrækn-is Verkum, eñ eg tiidum er, og med heitare Anda dyrkad miñ Gud. Þetta aliit eg sem viist Merke miñar Truar, fyrer hverrar Krapt eg kañ Gott ad giora, þvi þad giore eg ecke sialfur, helldur Guds Naad sem i mer er. Eg life ecke, helldur lifer Christ-us i mer, og kniir mig til hins Gooda, so eg laate mitt Lioos lysa fyrer Moñum, ad þeir siae min Goodverk, þvi añars er eg til þess odugañlegur; Hver sem fiñur sig ad vera, þvert i moote þessu siñ-adañ; hañ astundar ecke ad laga siñ Lifnad epter Guds Vilja, ne med Goodfyse ad giora þad Gude vel liikar; Hañ stundar ecke helst epter Saluhialp-eñe, og þvi Eilifa, helldur framar þvi Tiimañlega, og i þvi hefur hañ sina Unadsemd, meinande Salu-hialpeñ se sier samt iñañ Handar; hañ fiñur ecke til þeirrar Himneskru eilifu Unadsemdar, sæker ecke helldur epter ad bera Avoxt Gude til Dyrdar, sa Madur er vantruadur eñ ecke truadur, þvi hefde hañ teked Christum ad ser med Truñe, og være honum sameinadur, þa feinge hañ af honum, sem Lifsins Tre, Krapt og Vokvan, til ad bera gooda Avexte, eñ ad þa Verkan vantar, þad er Merke til hans Vantruar. Ad þetta se þañig, syna epter-fylgiande Greiner: Trueñ, nær hun hefur eingeñ Verk, þa er hun daud i sialfre ser, Jac. 2, v. 17. Þad er, verke hun ecke i Mañenum, Aud-mykt, Þoleñmæde, Gudrækne, hreinañ Kiærleika, Hoogværd, Miskunseme, Fridseme, Hreinlife, og adrar sliikar goodar Dygder, þa er hun ecke lif-ande a Christum, helldur ecke añad eñ Hræsnis Tru, af hverre Meñ hroosa med Muñenum, an þess ad laata siast heñar Avexte; Liika sem Liikam-

eñ er an Anda daudur, so er eirnig Trueñ an Verkaña daud, v. 26. Pad er, liika sem Pad Peckest fyrer viist ad Madureñ se daudur, af Pvi hañ er hættur ad draga Andañ; So Peckest Pad fyrer viist, ad Madureñ hafe ecke saña Tru, af Pvi hañ vantar heñar Averte, Pvi añars verkade Christus Pa i hans Saalu; Hver hañ hefur eige Christi Anda, sa er eige hans, Rom. 8, v. 9. Pad er, hver sem eige er eins siñadur og Christus, ad hañ se liitelaatur, hoogvær, Poleñmoodur, sañordur, og so framveigis; Hvert Pad Tre, Pad er, hver su Mañeskia, sem ei færer goodañ Avoxt, mun afhoggvast, og i Elld kastast. Matth. 7, v. 19. Hver hañ seiger: Eg Pecke hañ, nefnelega Gud, og helldur ecke hans Bodord, sa er Liugare, og i Pviiliikum er ecke Sañleikur. 1 Joh. 2. v. 4.

§. 9.

J fioorda Maata, fiñ eg i H. Ritningu, ad sa Madur er viss um sina Utvalning og Saaluhiaalp, og ad Christus se honum fyrer Truna sameinadur, bue i honum, og giore hañ styrkvañ i Peim iñra Mañe, sem fer fram i Pvi Gooda Dag fra Deige, eñ aptur i Pvi Jlla, endurnyast æ meir og meir i sinum Skilninge, so hañ Pecker hvad Rett og Gott er i sinum Vilia, so hañ laangar til Pess sem Gott og Nytsamlegt er, hañ sem verdur so jafnañ liitelaatare, Poleñmoodare, hoogværare, miskunsamare, forliikunarsamare, og ver Pañig i ollum Dygdum, hvad hañ hefur aadur kiært haft, af Pvi Jardneska, Pad forsmaaer hañ, og hvad hañ hefur aadur liitils virdt, metur hañ mikils, og verdur so allur añar Madur, i Hiarta Hug og Siñe, eñ hañ var aadur; So er Pa Frañfor og Vidgaangur i

Pvi

þvi Gooda, þad fioorda Keñemerke sañrar ibuande Truar. Þad er grundad i H. Ritningu, sem fylgiande Greiner syna. Eg em sañur Viinvidur, og miñ Fader er Viingards Madureñ, hvern þañ Kvist a mer er eige færer Avøxt, mun hañ aftaka, og hvern þañ sem Avøxt færer mun hañ hreinsa, so ad hañ fære meire Avøxt, Joh. 15, v. 1. 2. Legged þvi meire Kappsmune a ydra Kallan, og Utvalning ad stadfesta, þvi ef þer giøred þad, munud þer eige hrasa, og mun ydur so riikuglega gefeñ Jñgangur verda, i æfeñlegt Riike vors Drottens og Lausnara Jesu Christi. 2 Pet. 1, v. 10. 11. So oskar Paulus og bidur þeim i Epheso, og seiger: Ad hañ gefe ydur Krapt, epter Riikdoome siñar Dyrdar, ad stirkiast fyrer hans Anda i hinum iñra Mañe, og læta Christum fyrer Truna byggia i ydrum Hiørtum, og fyrer Kiærleikañ iñrætast og grundvallast, so ad þer uppfilløust med allshæattadre Guds Uppfillingu, Eph. 3, v. 16. 17. 19. Ver erum nu Guds Børn, og þad er nu ei opeñberad, hvad ver verda munum, eñ ver vitum þa þad birtast mun, þad ver munum hønum liiker verda, þvi ver munum sia hañ so sem hañ er, og hvern eirn er þviliika Von hefur til hans, sa hreinsar sig liika sem hañ er hreirn, 1 Joh. 3, v. 2. 3. Her heyrum ver, ad Guds Born, i hverium Christus biir fyrer Truna, hreinsa sig og fara vaxande i þvi Gooda; Lof se Gude fyrer þad, eg fiñ liika þetta Merke hia mer, þvi eg fæ betur eñ adur tamed minar Tilhneigingar, og hagad mer epter Guds Vilia, eg er þoleñmoodare i Krosse og Mootgange, og hef helldur lært ad fyrer-

gefa minum Ovinum, og bidia Gud ad upplysa þa, sem eg gat ecke so adur; Eg virde ecke þad Tiimañlega, eins og firre. Eg se jafnañ betur hvad rett edur rangt er, og stunda epter miñar Saalar Gagne, þad eg adur mætte mikils, helld eg nu fyrer Hegooma, og hef Ynde af ad skoda Gud i Huga minum, og yfervega hans Ord, og andlega Himneska Hlute. Af þessare miñe Framfor i þvi Gooda, alikta eg ad eg bliife i Truñe og Guds Naad, og hafe rettelega umfadmad og ad mer teked Christi Forþenustu, og þesse Guds Kraptur verkar hid iñra i mer, og uppfiller mig med Þeckingu hans Vilia, i allshattudum andlegum Viisdoome, og Skilning, gioraude mig avaxtarsamañ i øllum goodum Verkum, þvi an Guds Naadar fæ eg þad ecke orkad; Hia hverium þar i moot, eingeñ Framfor er, i þvi Gooda, hañ er eins og hañ hefur laungum adur vered, drambsamur, hefndargiarn, heiptrækur, omiskunsamur, hyrdulaus, oþoleñmoodur, og hardlega siñadur, og fer helldur vaxande i Løstum eñ i Dygdum, hañ er eins blindur, og med formyrkvudum Skilninge, sem adur var hañ, og veit ecke hvad hans Saalu er gagnlegt. Hans Vilie er ecke helgadur, so hañ lange epter ad vaxa i þvi Gooda; hañ formerker sig ecke hafa feinged anægdare Gedsmune eñ hañ hafde, helldur er hañ so iñtekeñ af Elsku tiimañlegra Hluta, ad honum finst hañ hafe adur vered anægdare, þoleñmoodare og liitillatare, og hañ hafe miña meted Heimsins Hegooma adur eñ nu. Se hañ so a sig komeñ, hvernig maa hañ þa ætla hañ se truadur og hafe Guds Anda i ser buanda? Þvi være so, þa hefde H. Ande iñgefed i hañ anad Siñislag. Være hañ groodursettur a Lifsens

Tred Christum, þa tæke hañ fyrer hans Krapt ad vara i þvi Gooda, liika sem nylega utsprungeñ Jurta Knappur; eñ first þad er ecke, þa er hañ vantruadur, eñ ecke truadur, og maa i soddañ Astande ad eilisu glatast. Þetta verdur sañad med þeim Greinum, sem fylgia: Hvern þañ Kvist a mer, sem ecke færer Avøxt, seiger Christus, mun hañ, þad er, miñ Fader aftaka; Liika sem Viinkvistureñ fær ei fært Avøxt af siaalfum ser, nema hañ se a Viintrenu, so eige helldur þer nema þer bliifed i mer. Sa ei bliisur i mer, hañ mun utkastadur verda, sem añar Kvistur, og uppþorna, og þeir samañ lesa þa, og kasta a Elld ad breña, Joh. 15, v. 2. 4. 6. Þeir eru ofriooffsom Tre, þrisvar daud og upprætt, griñar Siaafar Bylgiur, utlodrande sinar eigeñlegar Skañer, villar Stiornur, hverium vardveitt er Þoka Myrkrañа, ad eilisu, Jud. v, 12. 13. Su Jord sem Þistla og Þyrna ber, þad er, su Mañeskia duger ecke, og er Bolvaneñe nær, hver ad sidustu uppbrend verdur, Ebr. 6, v. 8. Þeir seigiast þeckia Gud, eñ med Verkunum afneita þeir þvi, med þvi Gud hefur Anstigd a þeim, og þeir eru til allra goodra Verka oskickañleger,, Tit. 1, v. 16.

§. 10.

Þad bregdst ecke ad christeñ Madur getur af þessum fioorum Keñemerkium vitad, hvort hañ stendur i Truñe, eda ecke, hvert hañ hefur ad ser teked Christi Forþenustu, eda ecke, fiñe hañ ecke hia ser þesse Keñemerke, þa lifer hañ eñ i Vantru, aan Guds Nаadar, hafande ecke Hlutdeild i Saaluhiaalpeñe, og fær vissulega, hormulega, og vesæla Endalikt, sem aadur er utmaalad i 14. Capitula. Bygge hañ

hañ yfer sañre Tru, þá finde hañ fyrer viist heñar Verkaner i ser, eñ med þvi hañ vantar þær, fyrerferst hañ ad eilifu, þo hañ meine sig fyrer viist hoolpeñ ad verda; Þvi hver hañ eige truer, hañ er nu þegar dæmdur, þvi hañ trude ei á Nafn eingetens Guds Sonar, hañ mun ei siá Lifed, helldur bliifur Guds Reide yfer honum, Joh. 3, v. 18. 36. Ad hañ hafe ecke retta Tru, er af þvi audsært, ad heñar Kraptur er ecke verkande i hans Sáálu, þegar ecke verdur vart vid Sáálareñar Verkaner i Mañenum, so hañ er hættur ad siá, heyra, tala, gáánga og draga Andañ; Hver vill trua hañ se þá lifande og Sááleñ i honum? So verdur ei truad, ad sá life andlega i Christo, sem ecke syner sina Tru af Verkunum; Ecke er þad ad undra hvar fyrer hañ hafe ecke ydrande Hiarta, eda mootstande þvi Vonda, og giore þad Gott er, og fare i þvi varande, hvad hañ getur eckert giort af eigeñ Mætte, þvi eingeñ fær Drotteñ Jesum kallad, þad er i sañre Tru, utañ fyrer H. Anda, 1 Cor. 12, v. 3. Og Christus seiger: An min, þad er, án miñar Náádar Verkunar fááed þer eckert giørt, Joh. 15, v. 5. Þad er, hvad Gott er i andlegum Hlutum; Vantruad Hiarta vantar Guds Anda og Ráád, hvernig má þá sá þad hefur, Gott giora? Kvistureñ sem af Tréenu er broteñ bloomgast ecke meir, helldur uppvisnar, af þvi hañ hefur ecke siidañ af Truñe Vokvan; So er vantruadur Madur sem afbroteñ Kvistur af Lifsens Tre Christo, fyrer Vantruna, eñ honum ei sameinadur, þvi hefur hañ ei Krapta til ad giora andlega gooda Hlute; Hver sem þar fyrer ecke fiñur hiá ser upptaleñ Truareñar

reñar Keñemerke, hañ leite Nadar hia Gude, til ad geta umvendast rettelega, so hañ fyrer sana Ydran, sem þad eina duglega Medal, komest hia Fordæminguñe, og a rettañ Veg til Himins; hvar med hañ ødlast sana Tru, med hverra hañ hondlar og umfadmar Christi Forþenustu, sem liooslega er utskiirt i 16. Capitula, þvi Truna vill Gud giarnañ gefa honum, bruke hañ þar til sett Medol rettelega, þviad fyrer Christum, hefur hañ aliktad Tru ad veita ollum, Act. 17, v. 31. Hver sem þar i moot fiñur hia ser þesse Truareñar Keñemerke, hañ hefur sana Tru i sinu Hiarta, stendur i Guds Nad, og hefur fullañ Rett til Himnariikis, og stande hañ so stodugur allt til Daudans, fær hañ gledelega og farsæla Endalikt, so sem um er talad i 18. Capitula. Af Natturuñe er Madureñ til alls Ills hneigdur, þvi Þankar mañlegs Hiarta eru iller i fra Ungdoome, Gen. 8, v. 21. Þar fyrer getur hañ ecke þvi Vonda Mootstodu veitt, og giore hañ þad, þa kemur þad af yfernatturlegum Krapte, so sem Paulus seiger: Eige þad ver seum af sialfsum oss nyter nockud ad hugleida, helldur, þad ver erum neiter, þa er þad af Gude 2 Cor. 3, v. 5. Þar fyrer er Madureñ af þvi viss uñ Guds Nad og Truna i ser buande, ad hañ stioornast af Guds Anda, og giorer fyrer hans Krapt þau goodu Verk, sem hañ fær ecke giort af sialfs sins Kroptum, og so er hañ eins liika þar af viss uñ sina Saaluhialp, epter þeim gudlega Urskurde: Hver sem truer og verdur skiirdur sa skal hoolpeñ verda, Marc. 16, v. 16. So ver giorum þad lioosara, hvilikur se Mismunur Truadra og Vantruadra, vil eg leida til nockur

Dæme

Dæme þar uppa. Joseph og Thamar feingu bæde Tækefære til ad driigia Hoor, Joseph sloo þvi af og sagde: Hvernig ma eg giora so miked Ohæfu Verk og syndgast a moote Gude, Gen. 39, v. 9. Eñ Thamar took giarnsamlega moote þvi, og let Juda liggia hia ser, sem var heñar Maagur og Mans Fader, Cap. 38, v. 19. Hvad kom til þessa añad eñ þad, ad Joseph var truadur, og fyrer Christi ibuande Krapt, gat i moote staded Syndeñe, eñ ecke Thamar sem var vantruud? David villde ecke sla siñ Ovin og Ofsoknar Mañ Saul Kong ihel, hvad honum var þo audveldt, er hañ var sem gefeñ i hans Hendur, 1 Sam. 26, v. 11. Eñ Absalon drap siñ Broodur Ammon, strax sem hañ feck Fære a, 2 Sam. 13, v. 28. Hvar fyrer var þa Absalon hefndargiarn eñ ecke David? Af þvi Davids Hiarta bioo Christus fyrer Truna, sem vardveitte hañ fra Illu, eñ i Absalon sa Helvitske Mordande. Paulus virdte einkis allt þad Tiimañlega, og hellt þad Skada vera i moote Peckingu Jesu Christi, og þvi Eilifa, Phil. 3, v. 7. 8. Eñ sa auduge Kornbure, um̃ hvern Christus talar i Epterliikingu, Luc. 12, v. 17, var so iñtekeñ af þvi Tiimañlega, ad hañ hafde ecke a odru huxan, eñ þvi ad safna Audæfum, og geima mikeñ Forda til margra Ara: Hvar af kom þesse Mismunur? Af þvi Paulus var truadur, eñ hiñ vantruadur. Jacob hegdade ser trulega og froomlega hia Laban, i Þioonustuñe, og droo eckert til sin af hans Fe med raungu, eñ Laban þar i moot giorde ser einga Samvitsku af ad sviikia hañ, og skipta um̃ hans Verkkaup tiiu siñum, Gen. 29. v. 31. Serdu ecke af þessu ad Jacob var tru-

adur,

adur, eñ Laban vantruadur? Esther Drottning hafde einga Glede af Þeirre Vegsemd hun feck, og Konunglegu Skarte, Þvi hun var med priidd i Kongsins Huse, Esth. Bæn. v. 15. Eñ hiñ riike Madur lifde hvern Dag kostulega og i Glede, klæddur Pelle og Purpura, hvar af hañ drambade, Luc. 16, v. 19. Hvad kom til Þess ad Esther var liitelaat, eñ sa riike Madur stoorlaatur? Þad ad hun hafde Truna, eñ hañ var vantruadur. Af Þessu er augliooft, ad sa sem ecke fordast hid Jlla, er vantruadur, eñ sa er alvarlega vaktar sig fra Þvi, hañ blifur i Truñe. Gled Þig Þvi vid Þad, goode Vin! ad fiña hia Þer Keñemerke hiñar soñu Truar, eñ ei mattu Þar med hræsna fyrer sialfum Þer, eda fyrergefa Þer sialfum nockud, og ætla ad Þu sert betre, eñ Þu i raun ert, sem adur er sagt, og haf so eingañ Efa uñ Þina Saalar Velferd, Þvi Þu ert Þa allareidu hoolpeñ, eñ samt i Voneñe Þeirre, sem a goodum Grundvelle er byad, og lætur ecke til Skañar verda; So getur Þu sagt med Paulo: Eg veit a hvern eg true, og em fullviss, ad hañ kañ Þad ad vardveita, hvad mer er tiltruad, allt til Þess Dags, 2 Tim. 1, v. 12. Sia einasta vel til, ad Þu fremier goodañ Riddaraskap, hafande Truna og gooda Samvitsku, allt Þangad til Þin Utfør skedur af Þessum Heime, 1 Tim. 1, v. 18. 19. Vert lokfsins Þad epter er, med goodu Gede, og hrind fra Þer øllu Sorgar Vile, og Hualeyse, glediande Þig i Þinuñ Gude, hvad framar skal verda avilsad, og halt so frañ epter Christi Amiñing, og keppst epter iñ ad ganga uñ hid Þraungva Hlided til eilifs Lifs.



# XX. Capitule.

## Hvernig sañchristeñ Madur, sem viss er uñ sina Tru og Saluhialp, og þad hañ se a rettum Veige til Himins, a ad sla ser fra allre mædufullre Hiarta-Sorg, og vera jafnañ gladur i Gude, med hressum Huga.

§. 1.

So sem Syrgendur, þo jafnañ glader, 2 Cor. 6, v. 10. Þañig utmalar Paulus sitt og hiña añara Postulaña Astand, i þessum Heime: Þeir voru i Heimenum alitner, sem þeir være sorgfuller, aumer og vesæler Meñ, vegna þess þeir mættu alla vega liida Harmkvæle, og Offokner, samt voru þeir hresser i Huga, og glader i Drottne þeirra Gude, fagnande i hans Miskunseme, og gladværer af goodre Samvitsku; Heimureñ helldur þa Meñ heppna og farsæla vera sem hafa allt hid Tiimañlega yferfliootañlegt, og allskonar Nægter sem geta vered uppe yfer odrum, og bored jafnañ hærre Hluta, so þeir kuñe þar af ad dreissa og stæra sig, hverra Syner eru sem nyplantader Kvister, og Dætur, sem priiddar Haller, hverra Matarhus eru full, og Kvikfe friioofsamt, sem frañgefa hveria Nægt epter adra, og so ekkert Tioon ne Klogumal er a þeirra Strætum; Hepped er þad Foolk, hveriu so geingur, Ps. 144, v. 15. Þetta er Heimsins Doomur: Eñ seig

seig mer! Er Er saa Madur heppeñ og luckusæll, sem hefur broted af ser Lifed, og aa ad takast af, fyrer þad, þo hañ ete og drecke, og giore sig gladañ? Er Þioofnreñ, sem heingiast aa, heppeñ fyrer þad, þo hañ se færdur ut til Gaalgans, yfer uñ fagrañ bloomstur vaxeñ Voll? Hvad stodar hañ su listelega Gaanga, er hañ skal missa Lifed þaa hued er? Hvad stodar þad ad lifa i allrahanda jardnesku Sælgiæte, Gledskap og Nægtunr her i Heime, nær Endalok Lifsins verda siidañ vesæl og hormuleg? Uñ þetta seiger David so: Þetta er þeirra Hiarta, ad þeirra Huus mune vara eiliflega, þeirra Bustadur bliife uñ Alldur og Æfe, og hafe mikla Virding aa Jordu, þo kuña þeir i sliikum Virdingum ei ad bliifa, helldur hlioota þeir vid ad skilia sem añar Fenadur; Þesse þeirra Giorningur er ei utañ Heimska, þo lofa þeirra Epterkomendur þad med sinum Muñe; Laat ecke þad villa þig, þo eirn verde riikur, edur þo Soome hans Huss verde mikill, þviad i sinu Andlaate mun hañ eingañ Hlut med ser taka, og hans Dyrd mun ei epter honum fara, Ps. 49, v. 12. 13. 14. 17. 18. Saa er ecke alltjafnt hiartagladur sem synest hid ytra sæll, ei helldur hefur saa alltiid gooda Samvitsku, sem er hid ytra gladur. Eirn Madur villde syna illa Samvitsku, med soddañ Hugarmind, ad hañ uppmaalade Hiort, sem med Or var skoteñ aa Hol, i ymsar Atter hlaupande, med þessare Yferskript: Þo eingeñ ellte hañ. So ser þeim sem illa Samvitsku hefur, og ecke er i Gude gladur, ad hañ fiñur hverge stoduga Rooseme; þad er þad sem Esajas seiger: Hiner Ogudlegu eru sem uppþiootande Sioor, saa ed ei kañ kirr ad vera, og

hans Bilgiur utkasta Saur og Ohreinendum; Hiner Ogudlegu hafa eingañ Frid, seiger miñ Drotteñ. Es. 57, v. 18. 19. Yrde sed iñ i Hiarta þeirra margrahverra, sem af ollu Tiimañlegu noog, og meira eñ noog hafa, þa munde þar iñe ecke fiñast Glede i Gude, helldur Samvitskuñar Droo. Opt er Madkur i fallegu Eple, sem etur þad ad iñañ, þo ecke siaest hañ ad utañ; Eg er nu þar fyrer til Uppfrædingar truudum Guds Bornum, ecke ad tala um Vellistinga Glede Heims þessa, um hveria Jacob seiger: Ydar Hlaatur skal umsnuast i Graat, og ydar Glede i Hrigd, Jac. 4, v. 9. helldur um þa Glede sem grundud er i Gude, og a hans Naad, og finst i goodre og roosamlegre Samvitsku. Hollendsker hafa laated slaa medal añars, eina serdeilislega Mynt, a hveria mindadur er Jsfugleñ, sem biir ser Hreidur a beru Hafe, þañ nockrer af framande Þioodum kalla Halcyon; med þessare Yferskript: Hañ er kirr a brusande Baarum. So sem Naatturu Spekingar seigia um Jsfugleñ, ad a midiu Hafe se honum ohætt fyrer Storme og stoor Sioo, sem honum saee ei grandad; So hefur froomur truadur Madur i ollum utvortis Ossoknum Glede og roosama Samvitsku, og er so laangtum sælle eñ sa sem velltest i þessa Heims Glede og Vellistingum, med oroosamre og illre Samvitsku. Vel seiger Salomon þar um: Gott Ged er daglegt Sælgiæte. Pro. 15, v. 15.

§. 2.

§. 2.

Hver sem er viss um̃ Guds Naad, og sin̄ar Saalar Velferd, sem han̄ getur vered af þeim Ken̄emerkium, sem i næst fyrerfarande Capitula er um̃ sagt, han̄ a ad burtdriifa alla Onytiu Hrigd ur Hiarta sinu, og gledid sig i sinum Gude. Han̄ maa ecke, og þarf ecke ad fram̃draga sitt Lif i Sorgar-Þaunkum, og Þungsin̄e, helldur kan̄ og a han̄ ad lifa med hressum Hug, so þad eige heima hia hønum: So sem syrgendur, þo jafnan̄ glader. 2 Cor. 6, v. 10. Eingen̄ þarf sa ad bera sig sorglega, sem um̃ Guds Naad er viss, soddan̄ Sturlunar-Ged er Gude ecke helldur gedfelldt, en̄ þo þad sorgande Sin̄islag þockniest Gude vel, sem fyrer þad hriggest, ad Maduren̄ hefur Guds Naad af ser broted, so han̄ bliife alltiid var um̃ sig i Liitelæte, ad han̄ ecke stigge Gud a ny, med sinum viisvitande Syndum. Þegar Maduren̄ veit ad Gud er hans Vinur, sem lætur sitt Naadar Auga alltiid standa oped yfer hønum, og þad han̄ fær goodan̄ Afgaang, og er viss um̃ þad, han̄ mune um̃ siider naa in̄ ad gaanga i eilift Lif; Hveria Orsok hefur han̄ þaa til ad vera sturladur og þungsin̄adur? Mun ecke utvortis Kross og Mootlæte vera noog Orsok til ad giora han̄ ogladan̄? Alldeilis ecke: Þvi skal þad giora gooda Samvitsku efasama eda sturlada? helldur maa þad heita: So sem syrgendur, þo jafnan̄ glader. Utvortis kan̄ Maduren̄, sa sem truadur er, ad graata og harma, en̄ þar fyrer þarf han̄ ecke ad vantreista Guds Naad, Elsku og Hille. Paulus og hiner Postularner, lidu stoorar Ofsooknér, Kvalningar og Hormungar, samt voru þeir glader; þad er ad skilia i

þeirra Gude a hvern þeir treista. Margur kemur harmande fram fyrer Gud, og bidur hañ med Tarum, eñ þa hañ hefur loked siñe Bæn, kemur hañ gladur aptur; Hvar af mun þad kóma? af þvi su Fullvissa sem hañ hefur um Guds Naad, giorer hañ hughraustañ: Margur sem er voladur og þurfande eda siukur, og vanfær, eda ofsooktur og areittur, andvarpar þar ut af, eñ fær strax þar epter Glede i Hiartad, adur eñ honum kemur þad til hugar, og er ordeñ med goodu Gede, eins og hañ vante ekert: Hvar af kemur þad? af þvi Gud giorer hañ, fyrer H. Anda vissañ um sina Naad, Elsku og Adstod, hvar fyrer hañ gleimer allre siñe utvortis Barattu. Sia ma þa frooma Meñ, sem jafnañ eru gladlinder, og ahiggiulitler um þad tiimañlega, og laata Gud bera Umsorgun fyrer þvi? Hvad mun koma þeim til þessa glada og frialslega Siñeslags? Heimsins Aud hafa þeir ecke til ad fagna af, toturlega eru þeir klædder; Hused sem þeir i bua, eiga þeir ecke, i eingum Birdingum sitia þeir, og eru þo samt glader, eithvad verdur þa ad kiæta þa, fyrst þad getur ecke vered þad jardneska, er þeir hafa ecke til, þa er þad an Efa Guds Naad sem i þeim byr, og efalaus Tru um þeirra Saaluhiaalp, og ad viisu er þad sama ad hafa feinged Forsmeck eiifs Lifs; Margur tekur til ad syngia Sorgar Saungva, og Harma Klaganer, eñ fær þa soddañ Glede i Ged sitt, ad hañ ad vormu Spore fer ad syngia Glede-Saungva Gude til Lofgiordar og Þackætis; Hvar fyrer verda þesse Umskipe so flioot? Guds Naad giorer þad sem giorer vart vid sig i hans Hiarta, so hañ kemst aptur til sialfs sin, og

og af þvi gledst hañ. Higgium ad Dæme Davids, þa hans Barn var daudsiukt, og hañ bad fyrer þess Life, fastade, la uñ Noottena a Jordu, og villde hverke eta ne drecka, eñ sem hañ heyrde þad var andad, stood upp, þvode ser, smurde sig og geck til Bords, 2 Sam. 12, v. 16. 20. Hvar fyrer giorde David so? Hañ var syrgiande, af þvi hañ sa, nalægañ Dauda til Sorgar i sinu Huse, eñ hafde samt gladt Hiarta i Gude, og syrgde þvi ei framar, er hañ vard þess var, ad Barned var andad, hvad añars matte lyklegra synast, af þvi hañ sa þad þocknadest Gude ad taka þad i burtu, og gaf sig so viliugur under Guds Vilia. Postularner voru opeñberlega hudstriikter, samt geingu þeir glader ut fra Raadsens Augsyn, Act. 5, v. 40. 41. Hvernig foor þad so? þvi þeir voru visser uñ Guds Naad, og fuller af Glede, af þvi þeir voru fyrer Gude verduger hallduer, ad liida Forsmaan fyrer Christi Nafns Saker. Þa kom þad frañ; So sem syrgendur, þo jafnañ glader. Til Jobs kom a einum Deige, hver Sendebode epter añañ, sem aller færdu honum þungar og hriggelegar Fretter. Hiñ firste sagde ad Oviner af Riike Arabia hefde giort Utfall, og rænt hans fiñ hundrud Uxum og fiñ hundrud Osnum; Añar sagde, Elldureñ hefde af Himne falled, og uppbrendt hans 7000 Saude. Þridie sagde Foolked af Caldea hefde burttekid hans 3000 Ulfalda; Fioorde sagde ad mikill Stormvindur hefde fleigt þvi Huse nidur, i hveriu hans Born, sio Syner og þrar Dætur, voru iñe, so þau hefde oll daed; Hvernig mun Job hafa orded vid þesse Tiidende? Viist matte hañ hafa imog ogladur orded, og lated ser hug-

 sallast

fallast, Guds Ande seiger hañ hafe so sagt; Nakeñ kom eg ut af miñar Moodur Kvide, nakeñ mun eg þaangad i burt aptur fara, Drotteñ gaf, Drotteñ i burt took, lofad se Nafned Drottens, Job. 1, v. 21. Hvernig gat Job vered so gedhreſs vid soddañ Fretta Sogu? Af þvi hañ var viſs uñ Guds Raad, og visse Drotteñ kuñe aptur ad gefa ser tiimañlega Formegan, ſæ hañ ſer þad nytsamlegt, þad er þa, So ſem ſyrgendur, þo jafnañ glader. Curtius Gonzaga, let, til þeſs ad ſyna med Huaarmind nockre, oſkelfañlegañ Hugſtyrk chriſteña Maña, uppmaala Orn, ſem i Skruggu og Elldinga Vedre ſtarde beint a Soolena, og a Fluge naalgadeſt mieg oſurhaatt Fiall, og ſetia þar hia þeſſa Yſerſkript: Hverke getur þetta deidt ne hrædt mig. Uñ þeſſa Rettrunadra Hugpriide maa ſeigia: So ſem Syrgendur, þo jafnañ glader. Ecki a her heima Glede Heimſens Barna, ſem jardlega eru ſiñud, og kalla hvert til añars, ſo ſeigiande; Komed hingad, og hoſum gooda Daga a medañ þad er, og neitum vors Liſs i Ungdoomenum; Ver viium ſilla oſs af þvi beſta Viine, og Smirſlum; Laatum oſs ecke forſmaa Bloomſtur Maii Maanadar, laatum oſs bera Kranſa af ungum Rooſum, aadur eñ þær viſna; eingeñ af oſs laate nockud vanta a neina Oſneitſlu, ſo Meñ meige alla vega fretta, hvorſu þad ver hoſum vered glader, þvi ver hoſum þat ecke meira af eñ þetta, Sap. 2, v. 6. 7. 8. 9. Þvi ſoddañ ſyndſamleg Glede fær Enda med eiliſre Symd, og niðurſteiper Moñum i Glotunena; Uñ andlega Hiartans Glede erum ver her ad tala, ſem ecke lætur Hugeñ bila i Kroſſe og Hormungum, helldur ſtidur ſig vid Guds ibuande Naad,

og Von þess eilifa Liffens; Til þessarar Glede afsiser Paulus, seigiande; Gledied ydur i Drottne alla Tiima, og eñ aptur seige eg, gledied ydur Phil. 4, v. 4. Hvad kañ so sañchristeñ Mañ ad hriggia, ad hañ gete ecke vered gladur i Gude?

§. 3.

Margur meinar ad Kross og Mootgangur se full Orsok til utvortis Hrigdar, og þess vegna kuñe Meñ ecke ad hafa gladvært Ged. Eñ aadur eñ her til er svarad, vilium ver athuga nockud uñ Krosseñ; hvadañ hañ adkemur, hvad hañ er, og til hvers sa Kross er ætladur, sem truader Meñ sa med ad dragast; Allur tiimañlegur Kross og Mootgangur kemur fra Gude, og ekkert mootdrægt mæter truudum Mañe i Heimenum, añad eñ þad Gud sender honum til handa, edur ad minsta Koste leifer eda liidur, eda epterlætur ad adrer giore honum; Spaamadureñ Ames seiger: **Er þar nockur Olucka i Stadnum sem Drotteñ giører ecke**, Amos. 3, v. 6. Og Aña seiger: **Drotteñ deider og lifgar, færer nidur til Helviitis og burt aptur þadañ; Drotteñ giører Fatækan og Riikañ, hañ liitellækkar og hañ upphefur**, 1 Sam. 2, v. 6. 7. Giore Gud þetta ecke aan Medala, þa lætur hañ seint epter ad adrer giore þad, fyrer vissra Orsaka Skullda, þvi fyrer utañ Guds Leife eda Tillaatsteme, getur hverke Sathan ne Heimureñ giort haps Truudum hid minsta Mein: So eignar Job Drottne sina Olucku, eñ þo Sathan tilbygge haña, og seiger: **Drotteñ gaf, Drotteñ burttook**, Job. 1, v. 21. Hañ eignar Gude þad sem Oguddleger giordu honum rangt, fyrer Diofulsens A-

eggian, og seiger: Gud hañ gaf mig under hiñ Ranglaata, og let mig koma i Ogudlegra Hendur, eg var riikur, eñ hañ hefur giørt mig ad eingu. Job. 16, v. 11. 12. Þañig kemur allur Kross fra Gude, hveriu Nafne sem hañ heiter, er Þa Froomu uppa fellur, hvert sem hañ leggur hañ a sialfur, eda hindrar ecke þa sem hañ uppa færa, hvad hønum þo er miog hægt; Hvad Krossen aahrærer, i þvi sem hañ er i sialfum ser, er hañ allskins Neid sem kemur fyrer frooma Meñ i þessum Heime, añadhvert sem Saalena snerter, so sem eru andlegar Freistingar, Sorger og sturlaner, eda ad Liikamanum þreinger, so sem eru Siukdoomar, Veikleike, eda adrar Liikamans Særingar, edur Æruskeiding, Alygar, og Fyrerlitning, eda Fiaartioon, fyrer Oheppne, Pioosnad, eda Prette, og þviumliikt; J einu Orde ad seigia: Kross og Piaaning er serhvad þad sem froomer og truader Meñ fa i Heimenum þungbært ad liida, þo þar se Mismunur a, so añar maa liida meira, añar miña, eirn þetta, añar hitt, epter þvi sem Gud ser þad best gegna; Eingeñ sañchristeñ Madur er fra Krossenum friitekeñ; þvi aller þeir sem gudlega vilia lifa i Christo, hlioota Ossookn ad liida. 2 Tim. 3, v. 12. Oss biriar fyrer miklar Hrellingar iñ ad gaanga i Guds Riike, Act. 14, v. 22. Sa hiñ Rettlaate hliitur margt ad þola. Ps. 34, v. 20. Til hvers Krossen se ætladur, sem Gud leggur a sin Born, þar uñ eigum ver ad vita, ad hans Tilgangur i þvi er margslags. Jafnvel þo truader Meñ kappkoste med hiñe mestu Astundan ad fordast Syndena, og þioona Gude med folsalausu Hiarta, komast þeir samt ecke so laangt i þvi i þessum Heime,

ad þeir algiorder verda, fyrer Saker Uppruna Syndareñar, sem vid þa loder, helldur siña þeir jafnañ til heñar vondu Hræringa i ser, þo þeir samþickest þeim ecke viliande, ne lꜳte þær i Verk komast, og meiga so klaga med Paulo:. Ꝭ minu Hollde bijr eckert Gott, Viliañ hef eg, eñ ad fullkomna þad Gooda, fiñ eg ei, þviad þad Gooda sem eg vil giora, þad giøre eg eige, helldur þad Vonda, hvad eg vil eige, þad giore eg, Rom. 7, v. 18. 19. 20. Þess vegna ꜳ Krossen ad vera Merke, til þeirra ibuande Syndar, ad þeir ætle sig ecke aldeilis heilaga, þvi fyrer Gude er eingeñ saklaus, þar fyrer er Krosseñ Medal i moote Syndeñe, ad hun fullgiorest ecke, eda, se hun giord ad vid heñe verde aptur spornad, þvi seiger Petrus: Hver ꜳ Holldenu liidur, sꜳ lætur af ad syndga 1 Pet. 4, v. 1. Þar næst ꜳ Krosseñ ad vera þeim Froomu Uppvakning til sañrar Umvendunar; Þeir Sañtruader eru, kuña fyrer Diofulsens Tillockan og Heimsins Tælingar ad falla ofyrersiniu i Stoorsynder, og missa Guds Naad, so sem þad geck Noa med Dryckiuskap, David med Hoordoome, Postulunum med Hneixlan ꜳ Christo, og so fleirum: Þegar Gud ser þetta, sender hañ þeim margskonar Kross og Mootlæte i Heimenum, ad hañ þyrme þeim fyrer eilifu Straffe, og fyrer Krosseñ hrære þꜳ til sañrar Yðrunar; Um þad seiger Paulus! Nær ver dæmunst, þꜳ verdum ver af Drottne tiptader, uppꜳ þad ver fyrerdæmunst eige med Heimenum, 1 Cor. 11, v. 32. Margur stendur i Naad hiꜳ Gude og er honum þocknañlegur fyrer Truna ꜳ Christum, eñ þo kañ margt ad vera i hans Fare, sem Gud vill fara lꜳta. Margur

ur hefur sleipañ Muñ, talar giarnañ uñ adra, og seiger fra einu og odru lïootu sem hañ hefur heyrt, þo ecke af Illgyrne, helldur af Fæwitsku, og rasande Raade, ellegar hañ tekur ad hafa Mætur a þvi Tiimañlega, og sa Lïsting til eins eda añars Hegooma, sem Gude misliikar, ellegar hañ fer ad verda vanrækeñ i sinum Christeñdoome, heyrer Guds Ord epterteklalaust, bidur ecke so iñelega sem adur, helldur sig til Glede Selskapa, og adhesst añad þviiliikt, sem er a moote Gude, hvad hañ giorer af Braadræde, ñ ecke viliande, eda af asettu Raade; Gud sem liikar þetta ecke, og vill Madureñ varest þad, legaur þvi Krosseñ a hañ, so hañ falle ecke i stærre Synder, og tape Guds Naad, eda þeinke med ser: þesse Breiskleike stande ecke a miklu, þar fyrer seiger Drotteñ; **Eg vil aga þig med Maata, so ad þu hallder þig ecke saklausañ.** Jer. 30, v. 11. Margur hefur þunglega syndgad a moote Gude, adur eñ hañ snerest, hvad hañ hefur ecke alltiid vel ihugad, þvi lætur Gud hañ tiidum Mootlæte reina, so hañ betur umþeinkie, hvad hañ hefur adur framed, og fordest þess helldur sliikar Synder. Margur hefur adur kañske loged a siñ Naunga, bakmælt honum, sviked hañ, dreiged Femune fra honum, og so framveigis; fyrer þetta hefur hañ ad soñu saña Ydran giort, samt lætur Gud þañ sliikt aptur af odrum reina, so a hañ verdur loged, eda fra honum Fe dreiged, og añad soddañ til Moodgunar giort, ad Gud syne a honum siñ Jafnadar-Rett, og Madureñ þeinke til siña fyrre Synda, og vakte sig þvi helldur fyrer þeim. Og þo hañ se osekur i þeim Hlutum sem honum gioraft til Stigdar, samt er hañ fyrer Gude sekur; Giæt þess ad her er vered ad tala uñ sañtruada

Meñ,

Meñ, sem rettelega hafa snued ser til Guds; þvi hvad vid Ydrunarlausa fram̃kemur, þad skedur allt þeim til Straffs, og heiter so: Þvi velldur þiñ Illgyrne, ad þu verdur so hudstryktur; og þin Ohliidne ad þu þañig straffast; So hliitur þu ad sꝏ ad vita og formerkia, hveria Eimd, og Hiartans Angur þad giører ad yfergefa Drotteñ Gud þiñ, og ottast hañ ecke, seiger Drotteñ, sꝏ Drotteñ Zebaoth, Jer. 2, v. 16. Eñ ydrande Moñum verdur Mootiæted sendt, þeim til hins besta; David var truadur Madur, og stood i Guds Nꝏd, þo var hañ ecke eiuasta offooktur af sinum ogudlega Syne Absalon, helldur var honum liika skamarlega formælt af hans Undersꝏta Simei, sem kallade hañ Bloodhund og orꝏdvandañ Mañ; Ecke hafde David uñed til þessa af Simei, og ecke giort honum neitt i moote, þvi var honum af Simei rꝏnglega tilgiort, þo tilsette Gud og leid ad þad skyllde vid David fram̃ koma. Ad viisu var þad illa Verk, sem Simei her med giørde, Gude ꝍþocknañleat, þvi hañ er ecke eirn Gud, þeim ed ogudlegt Athæfe liikar Ps. 5, v. 5. og hañ hefur i sinu Logmꝏle sliikt bañad, og sagt: Þu skallt ecke Gudunum Bols bidia, þad er Yfervalds Moñunum, og ecke lasta Hofdingiañ ꝏ medal þins Foolks, Ex. 22, v. 28. Þvi upphvatte Dioffulleñ Simei til ad syndga so i moote Gude, þo leid Gud þad, uppꝏ þad David skyllde miñast þess, ad hañ hafde ihel sleiged Urias Hethiter med Sverde Ammons Barna 2 Sam. 12, v. 9. þvi fyrer Gude var David ecke osekur, helldur bloodgiarn, þꝏ hañ hafde ꝏdur saklausu Bloode uthellt, þo su Synd være honum af Nꝏd fyrergefeñ, so sem Nathan Spꝏmadur saade til hans; **Drotteñ hefur burttekeð þina Synd,**

þu munt ecke deya, v. 13. David medkende liika, hañ hefde þetta forþenad, og þad være Refsing af Drottne, med þvi hañ sagde: Læted hañ bølva, þviad Drotteñ baud hønum, bølva þu David; 2 Sam. 16, v. 10. Þad er, Drotteñ hefur þad epterlæted, og ætlad mer ad liida þessa Hyrting; So var Simei Bølvan Gude ohægt Verk, eñ ad David skyllde sliikt þola, var rett fyrer Guds Doome. Framar og lokſens tilſender Gud ſinum Bornum Kroſs og Þiaaningar til ad proofa þeirra Tru og Þoleñmæde hvert hun er hrein og yferdrepſkaparlaus, ſo þau falle ecke fraa, eda hun bileſt a Freiſtingar Tiimanum. Og þetta giører hañ til þeſs ad upporfa þau þeſs meir til Bænareñar, Guds Otta, og hans Orda gaumgiæfelegre Yfervegunar, og ad hañ giøre þeim Verolldena beiſka, aaſamt þvi Tiimañlega, og þar a moot uppvekia i þeim Epterlaungun eiliſs Liſs, ſo ſeiger Salomon: Hvern ſem Drotteñ elſkar, þañ hyrter hañ, og hefur a hønum Þocknan, ſo ſem Fader a Syne. Pro. 3, v. 12. Villtu Guds Þioonuſtu-Madur vera, þaa bu þig vid Freiſtne, liika ſem Gulled fyrer Elldeñ reineſt, ſo verda þeir ſem Gude eru þecker fyrer Elld Hrigdareñar reinder. Syr. 2, v. 15. Drotteñ, nær Hørmungeñ er fyrer Høndum, þaa vitia Meñ þin, nær ed þu agar þaa, kalla þeir ſaargrætelega, Eſ. 26, v. 16. Þad er mer liuft, ad þu hefur liitelætt mig, ſoad eg lære þin Rettinde, Pſ. 119, v. 71. Oſs forleinger med oſs ſiaalfum epter Oſkabarna Rettenum, og væntum epter Lauſn vors Liikama, Rom. 8, v. 23. Af hverre Orſok ſem Gud lætur ſinum Truudum, Kroſs og Þiaaningar ad Høndum bera,

þaa

þa giorer hañ þad alltiid af Kiærleika, og þeim til mesta Gagns og Velferdar, þvi hvern Drotteñ elskar, þañ agar hañ, og hvern þañ Son hañ ad ser tekur, þañ striiker hañ, Ebr. 12, v. 6. Eñ þo hañ legge þyngra a suma eñ suma, giorer hañ þad epter þvi sem hañ ser þeim þad naudsinlegt, og þeir fa bored. Þegar Striidsfoolk er nidur sett til Forsorgunar, þa eru sumum setter fleire, eñ sumum, epter þvi sem þeir hafa Efne og Husrum til; A vidliikañ Hatt leggur Gud Krosseñ a, ad sumer fa hañ tvofalldañ og þrefalldañ, þo alltiid þeim til gooda; þar fyrer giorde nockur froomur Krossberare Klædapressu ser ad Hugarmind, med þessare Hiaskript: Hun lagar, eñ skemer ecke. Þar med aviisande, ad liika sem Pressañ spiller ecke Klædenu, helldur bæter þad, so være Krosseñ ecke skadlegur, helldur gaanlegur, og su þunga Krosspressa verkade miked Gott.

§. 4.

Med þvi allskonar Kross sem þeim Truudu uppa færest, kemur fra Gude, og verdur þeim til Velferdar, þa þarf eingeñ sa sem viss er uñ sina Tru og Saaluhiaalp ad ogledjast vid hañ, helldur ætte hañ framar ad gledia sig i Gude, og burtreka alla Hugarviils Sorg ur sinu Hiarta; Se þer þar fyrer hætt vid ad Kross og Mootlæte giore þig hugdeigañ, hvad sem kallast eda heita kañ, þa gef ecke þeirre Hrigd Rum i Hiarta þer, helldur leitast strax i Upphafe vid ad fa heñe burt hrunded, kuñe Diofsulleñ ad tæla þig i Freistingar utaf Krossenum, og seigia: Sertu froomur og i Guds Naad, hvernig geingur þer þa so illa i Heimenum? þu ert forsmadur, offooktur, bakrægdur, voladur, neidstaddur,

staddur, krankur, siukur, og ein Eymdeñ epter adra sæker þig heim og hledst a þig; Meinar þu so a þig komeñ, ad þu muner vera Gude þeckur og viss um̃ hans Naad? Ney: Þitt Veſælldar Aſtand teiknar helldur til þess ad Gud se þiñ Ovinur, og hafe yfergefed þig. Froomum Moñum, sem ern i Guds Vingan, hefur hañ heited ollu Goodu, þvi þeir sem hañ ottast hafa eingañ Brest, Pſ. 34, v. 10. Sæll er sa sem ottast Drotteñ, hans Sæde mun verda voldugt a Jørdu, Ætt þeirra Goodu mun blessud verda, Riikdoomur og Nægter munu vera i þeirra Huse, og þeirra Rettviise bliisur eiliflega; Rettferdugum uppreñur Liooſed i Myrkrunum, af þeim hinum Naadarsamlega, Miskunsama, og Rettlata, Pſ. 112, v. 1. 4. Gudrækneñ er til allra Sluta nytsamleg, hafande þessa Lifs Fyrerheit, og so hins epterkomanda, 1 Tim. 4, v. 8. Her af serdu, ad þessar Greiner koma þer ecke vid, first þær koma ecke fram̃ vid þig: Vid þetta læt þer strax i Hug koma, ad þañig er Dioſulleñ vanur ad freista Guds Barna, og þad er ecke nytt, þvi so freistade hañ sialfs Guds Sonar i Eydemorkeñe, er hañ hafde eckert til Matar, og sagde: Ef þu ert Guds Sonur, þa seig ad Steinar þesser verde ad Braudum, Matth. 4, v. 3. viliande þar med koma Christo til Vantrausts og Vonarleysis um̃ þad hañ kyñe ecke ad vera Guds Sonur, first hañ yrde ad þola Hungur og Skort a Eydemorku, þvi, være Gud hans Fader, lete hañ hañ vissulega fa Braud til Fædis, og þetta ad hañ lete hañ hungra, være Merke til þess ad hañ være ecke hans Sonur; Her af er audsed. ad sa Madur kañ ad vera i Naad hia Gude, sem hid ytra þia Kross og Hormungar,

ar, þvi hver kañ ad hafa Efa uñ þad ad Christus være Guds Sonur, þo hañ i þad Siñ hefde Brauds Skort, med þvi Raustteñ af Himne sagde vid hans Skyrn: Þesse er Sonur miñ elskulegur ad hverium mer vel þocknast, Matth. 3, v. 17. Lat þad þvi ecke giora þig hriggañ og sturande, þo Kross og Hormungar mæte þer i Heimenum, helldur giæt þess ad Gud hefur ad soñu lofad þeim Froomu ad forsorga þa, taka þa ad ser i Neideñe, vardveita þa og vidhallda þeim, samt hefur hañ þad hia ser geimt, ad senda sinum Börnum Kross og Hormungar til handa, ecke þeim til Fordiorfunar, helldur til hins Besta, sem nylega er sagt; og þar fyrer þa Skickun sett, ad aller þeir sem gudlega vilia lifa i Christo, skule Offsookn liida, 2 Tim. 3, v. 12. Og oss byrie fyrer margar Hrellingar iñ ad ganga i Guds Riike, Act. 14, v. 22. Vegna þess er vel adgiætande, ad þær Greiner H. Ritningar, hvar i rettlatum Moñum verdur ollu Goodu heited, seu ecke alitnar med holldlegum Augum, eins og Gud hafe lofad, ad hans Börn skylldu i þessum Heime lifa i allskonar Nægtum, og jardneskum Vellistingum, og hafa allt þad þeirra fordiarfada Hollds og Bloods Nattura villde gyrnast, þvi þad er ecke þeirra Greina rettur Skilningur, helldur ad þau skule eiga nadugañ Gud ad, sem take þau ad ser, blesse og vardveite þau, vidhallde þeim og giore þeim allt til gooda, og þo hañ late þau i margar Þreingingar rata i Tiimañlegum Efnum, vilie hañ þau ecke forlata, helldur gefa þeim Hugpriide og Styrk til ad sa allt hraustlega utstaded, og leisa þau lokssens fra allre Mædu og ollu Andstreime, añadhvort her i Heime, se þeim þad nytsamlegt, og til Saluhialpar gagnlegt, ell-

egar vissulega og obrigdañlega i Daudanum. Um̃ soddañ Lausn og Frelse talar Paulus, er hañ seiger: Drotteñ mun frelsa mig af ollu Illu, og hiaalpa mer til sins Himneska Riikis, 2 Tim. 4, v. 18. Þetta er rettur Skilningur allra Guds Fyrerheita, hvar med hañ lofar sinum trulindum Þioonum, Lise, Naad, Blessan, og allskins Giædum, og þad helldur hañ og fullender vissulega vid hvern einn þeirra. Þvi liidur þeim laangtum betur i Heimenum sem eru i Guds Naad, og visser um̃ sina Saaluhiaalp, þo þeir komest i miklar Mañrauner, eñ þeim sem lifa i einberre jardneskre Hegooma Glede, og hafa þar med illa Samvitsku, so þeir kuña ecke fyrer sins Vellistinga Lifnadar Saker ad vænta ser nockurs Goods af Gude, og ei helldur ad hafa vissa Von eilifrar Saaluhiaalpar. Se Dæme hins riika Mans, og hins saatæka Lazari skodad, med holldlegum Augum, þaa synest sa riike Madur sem lifde hvern Dag kostulega og i Glede, miog sæll vered hafa, eñ Lazarus sem var siukur og fullur Kauna, yferburda vesæll; Eñ se þad med andlegum og uppliistum Augum aalited, þaa maa seigia, ad sa riike Madur hafe vered yfred vesæll, af þvi hañ i sinum Vellistingum aatte ecke naadugañ Gud ad, helldur foor burt ur Heimenum med vondre Samvitsku, og lendte i Helviite og Kvolunum, eñ Lazarus miog sæll, þo hañ lifde i mesta Eimdarskap, af þvi hañ var i Guds Naad viss um̃ sina Saaluhiaalp, og var lokseins boreñ af Einglunum i Abrahams Skaut, hvar hañ eiliflega huggast. Luc. 16. Skodum ver eirnig Dæme Kongsins Agrippa, hans Drottningar Bernices, og Landstioornarans Festi med holldlegum Augum, og aasamt Postulans Pauli, þaa synast þau farsæl vered hafa, eñ hañ ofar-

ofarsæll. Þau komu iñ i Raadhused i miklu Skraute med Hofuds-Moñum, og þeim Yppurstu Stadarens, og settust a Stoola sem Doomarar, eñ Paulus Fange i Fiotrum fyrer þau færdur, maatte frame fyrer þeim standa og yferheyrast. Eñ skodum ver þad med andlegre Sioon, meigum ver seigia þau hafe ofarsæl vered, med þvi þau vantade Guds Naad, og maattu ad eilifu tapast, eñ Paulus farsæll, þo hañ stæde bundeñ fyrer þeim, þvi hañ var fiotradur fyrer Jesu Nafns Saker, hafde vissa Von til Guds, ad Uppriſa Framlideña munde a epter koma, bæde Rettlaatra og Ranglaatra, og i þessu sama ydkade hañ sig sialfañ, ad hafa jafnañ osterta Samvitsku, bæde vid Gud og Meñ, Act. 24, v. 25. Og nu stendur hañ i Dyrdeñe fyrer Guds Stoole; Mun Johañes Skiirare hafa vered Olucku Madur, eda ecke Guds Barn, fyrer þad hañ var af Herode i Fangelse settur, og hans Hofud i Myrkvastofuñe afhogged, og a Diske, liika sem Skodunar-Rettur frambored, Matth. 14. Laangt er fra þvi, Johañes var viss um Guds Naad, og sina Saaluhialp, og er þvi eiliflega sæll.

§. 5.

Laat þar fyrer ecke þiñ Gedstyrk veiklast i Krosse og Hormungum, og hura ecke so; Fyrst mer liidur illa i Heimenum, og Gud þiaer mig so miog under Krossenum, þa er hañ mer reidur eñ ecke naadugur, helldur nær þu fiñur þau soñu Truareñar Keñemerke, sem i næsta Capitula eru utskiird, hia þer i Hiarta þinu, þa seigdu so; Eg er viss um um Guds Naad, mina Tru og Saaluhialp, og þad se eg liika af þvi, ad sa goode Gud

miñest a mig, ad hañ hefur sendt mer af Kiærleika þeiñañ Kross, þvi hvern ed Drotteñ elskar, þañ agar hañ, og hvern þañ Son sem hañ ad ser tekur þañ strÿker hañ. Ebr. 12, v. 6. Hañ hÿrter mig af Elsku, so eg skule ecke med þeim ogudlega Heime fordæmast, 1 Cor. 11, v. 32. Kome eñþa uppa niir Kross, þa seigdu: Lofadur se Gud, miñ Himneske Fader er eñ ecke bueñ ad gleima mer, hañ man eñ þa til min, og þetta lætur hañ mig sia af siñe Elsku, so eg skule eñ þa vera viss uñ, ad hañ ber Umhÿggiu fyrer miñe Saaluhiaalp; Yfervega so þad vor Christne syngur:

Saala min kiær,
Kross hvern sem fær,
Krapt þiñ laat ecke buga, ꝛc.

Feingirdu eingañ Kross, veitstu þa hvert þu getur vered þoleñmoodur? Ef eingeñ giorde þer rannglega til, veitstu þa hvert þu ert forliikunarsamur? Ef þu hefur aldrei a neinu Skort, hvar af veitstu þat hvert þu hefder Trausst a Gude, ad hañ munde sia fyrer þer, þegar þig vantar eitthvad? Ef Gud lete þig einga Oheppne rata, so þu mister eckert af Eignum þinum; Hvar af visser þu þa ad þu virdter liitils þad Tiimañlega? Ef Heimsins Born lockudu þig aldrei til Ofdryckiu, Stærelætis, og añra Lasta, hvernig giæterdu þa vitad ad þu værer hoofsamur og liitillaatur? Feingerdu aldrei Hentugleika til ad svæla under þig añara Eigu med Rangsleitne, hvar af vissirdu þa ad þu værer rettviis i Hiarta, og villder eckert hafa ad sÿsla med rangfeinged Fe, ne siidur hatader þad under Hende ad hafa? Ef þu værer aldri af nockrum Gaarunga Hoop teigdur til ad forsooma Guds Orda Heyrn i Kyrkiuñe a helgum Dogum, og ad hlaupa med honum til Giaalifis

og Lifsefemda; Af hverin vissferdu þa, ad þu ottadest Gud yfer allt fram̃, og metter hans Ord fram̃ yfer alla veralldlega Skemtan? Af þessu ferdu, ad þeim sem Gud elska, þena aller Hluter til hins besta Rom. 8, v. 28. og liika optlega þad illa sem Meñ sia og heyra; Jördeñ ber ecke mikla Avexte, nema hun slæe þess i millum a sig, Regn, Storm og Skruggu Vedur, so er ecke helldur truadur christeñ Madur avaxtarsamur i goodum Verkum, nema hañ mæte Krosse og Mootgange, þvi giorde eirn froomur krossþiadur Madur ser ad Hugarmynd, viidañ Voll, yfer hvern akast rignde, stormade og þrumade, med þessare Yfferskript: Af þessu verdur Uppskeraň frioorre! Og villde med þvi syna, ad so sem Regn, Stormvindur og Þrumu Vedur er ecke til skada Vellenum, helldur til bata, so være ser liika Krosseñ nytsamlegur, til siñar eilifrar Velferdar. Þad ber stundum vid, ad eirn Fader setur siñ Son sem ohliideñ er i Typtunar-Huus, eñ lætur hañ þo samt fa siñ Erfda Hluta. So tiptar Gud tiidum sin Born hardlega i þessu Life, eñ gefur þeim þo epter Daudañ eilifañ Arf. Laat þad ei helldur koma þer til ad mistreista Gude, þo þer siñest þiñ Kross verda æ þyngre og þyngre, þvi so hagar Gud þvi tiidum til vid sina! Þa Voled er sem hærst, er Booteñ sem nærst. Þegar Gud let Mosen kuñgiora Israels Foolke þeirra Friiun af Egyptalands Þrældoome, voru þeir sem allra hardast þiader, þvi saagde Moses so til Guds: Siidañ eg geck first iñ fyrer Pharaonem ad tala vid hañ i þinu Nafne, þa kvelur hañ Liideñ meir eñ adur, Ex. 5, v. 23. Þad var viist Merke til þeirra Friiunar sem strax þar epter skede; Þegar Stoorregn og Þrumu Vedur geingur sem hardast,

er skamt ad biida Leptsens Heydriikiu, so er þegar Neiden sem hardast ad þreinger, þa fylger þar sliootlega epter Glede og Rooseme, sem osorvarandis ad kemur; Þad heiter so: Um Kvolldtiima varer Grateuren, en ad Morgne Dags Fognudurenn. Ps. 30, v. 6. Þeir ed med Taarunum nidursa, munu med Fognudenum uppskera, Ps. 126, v. 5. Margur meinar i Freistingunum ad Drotten se langt i burtu fra ser, og hafe med ollu yfergefed sig, og tekur so ad klaga med hinne andlegu Zion, Drotten hefur yfergefed mig, Drotten hann hefur forgleimt mer Es. 49, v. 14. giorande vidliikt sem Gedeon þa Drottens Eingill byrtest honum, og sagde til hans: Drotten se med þer, þu Striids-Kappe, og hann svarade so: Minn Herra! Se Drotten med oss, hvar fyrer hender oss þa allt þetta? Hvar eru þær allar Dasemder, sem vorer Fedur framtelldu oss, og sogdu: Drotten hefur fært oss af Egiptalande, enn nu hefur Drotten yfergefed oss under Hendur Madianita, Jud. 6, v. 12. 13. viliande ecke trua Drotten være med ser, first hann lete sitt Foolk liida nauvortis ad Þreinging, en þa var þo Hiælpen sem næst. Þannig seiger frooomur Madur nær hann freistast. Være Gud med mer, hvar fyrer liidur mer so illa i Heimenum? ad eg er so underþriktur, vesæll og veikur, og hver Barattann þreinger ad mer ofann a adra? Hvernig ma eg trua ad Drotten se med mer i þessare Eymd? Soddann Madur ser tiidum ecke, fyrer Þungsinne og Hrigd, ad Gud er samt hans nadugur Fader, liika sem þa Maria stood vid Christi Grof, og sa ecke hans Liikama, og þeckte hann ecke fyrer Harme, þa hann þo stood hia henne, og talade vid hana, seigiannde; Kona! Hvad grætur þu, ad hverium leitar

leitar þu? Eñ hun ætlade Jurtagards Mañeñ vera, og sagde til hans, Herra! Ef þu barst hañ burt, so seigdu mer hvar þu lagder hañ, so vil eg sækia hañ Joh. 20, v. 15. So er Drotteñ sinum Bornum i Krossenum nalægur, þo þeir ætle þad ecke. Var ecke Abraham vel truadur, og Truadra Fader? Munde hañ þo ecke geta framkomed med lánga Kross og Mañrauna Sögu, sem fyrer hañ kom? Var Paulus ecke i stoorre Nad hia Gude, þo let Gud hañ reina marghattadar Adþreingingar og Ofsokner, sem hañ upptelur 2 Cor. 11, v. 25. 30. Þo þu verder krossþiadur, hender þig þvi ecke nockud nytt, þad ei meige adrer Truader reina. Petrus seiger: Vited ad ydar Brædur sem i Heimenum eru hafa þa sömu Anaud lided, 2 Pet. 5, v. 9. Og aptur: Miner kiærustu! Ei skulud þer lata þañ Bruna undra ydur, hvern ydur hender, so ad þer reinder verded, so sem ad hendte ydur nockud faheyrt. Cap. 4, v 12. Christeña Maña Rüm-Kver spaer optlega Regne og Augnadropum; David seiger: Þu fæder þa med Harmabraude, og byrlar þeim Dryck med stoorum Mæler fullum Tara, Ps. 80, v. 6. Þegar einhver Kross uppa þig fellur, þa huxa med þer ad Christus hefur siñ Krossbikar i Hende ser, og dreckur þer til, villtu þa ecke þiggia hans Adryckiu? Seig helldur med honum; Skal eg ei drecka þañ Kaleik sem mer gaf miñ Fader? Joh. 18, v. 11. Eitthvad kañ eñ hia þer ad siñast sem Gude misliikar, og hañ vill þu slepper, ag til þess sender hañ þer Mootlæted; þvi villtu þa af þvi hryggiast? Gledst helldur vid þad þu merker af þessu, ad Gud vill giora þig hoolpeñ so þu fordæmest ecke med Heimenum; Hver getur nu sed þad a

Lazaro, ad hañ var voladur Purfamadur, og Lea fyrer Dyrum hins Riika? Eda a Job, ad hañ var hladeñ med Illsku Kaunum, fraa Hvirfle til Ilia? Eda a Paulo, ad hañ var Fiotrum bundeñ og hoalshoggveñ? Sia þu! Þad allt Mootlæte Truadra endast med eilijfre Sælu; Þeir ed med Tarum nidur saa, munu med Fagnadenum uppskera, þeir ganga ut og graata, og bera agiætt Sæde, og koma aptur med Fagnade og bera sin Bindine, Ps. 126, v. 6. Tala þvi til þiñar Saalar og syng:

Eg vil þeigia af þessa Stund,
I Krosse þreigia,
Og kaatur deya,
A Christs Fund.

§. 6.

Hvernig sem þer liidur, þaa haf jafnañ þad i Siñe þer; So sem syrgendur, þo jafnañ glader. Slepp ollum Sorgar Þaunkum, og gled þig i Gude þinum, og reid þig uppa hañ, sem vill þer allt hid Besta! Þaa Alexander hiñ Mikle vard eittsiñ siukur, og hans Liflækner tilbioo honum Dryck er hañ skyllde iñtaka, feck hañ Bref i Hendur, hvar iñe var sagt, hañ skyllde ecke trua sinum Lækner fyrer Lije sinu, ad medtaka Lækninga Medol af hans Hende, þvi hañ være af odrum tilkeiptur ad birla honum Eitur-Dryck. Eñ þaa Kongureñ hafde Brefed lesed, rette hañ þad ad Læknernum med añare Heñdeñe, og baud honum ad lesa þad, eñ med hiñe, took hañ under eins vid Bikarnum med þeim birlada Dryck, og sagde brosande til hans: Eg true þer betur, eñ þvi her er uñ þig skrifad, og þar a voga eg, og drack so þad i Bikarnum

arnum var, og feck Heilsuboot. First Alexander trude so vel sinum Lækner, ad Dryckureñ af hønum birladur munde ecke skada, helldur bata sig, þa ætu langtum framar Gude til þess ad trua, ad sa beiske Dryckur hañ a skeinker i Krossens Bikar fyrer þig, verde þer ecke ad Olistan til Dauda, helldur ad Heilsuboot til Lifsens; Skioot þer þvi ecke undañ ad medtaka hañ af hans kiærleiksfullu Hende, og af ad drecka, helldur syng med David; Hañ heilsusamlega Kaleik vil eg medtaka, Ps. 116, v. 13. Se þin Lifsbiargar Næring naum, so þer syneſt hun mune ecke til hrockva, þa vert ecke þar fyrer hugsiukur, þvi Drottēñ mun þad duga lata til þiñar Naudþurftar; Þeink med þer þad Gud hefur fra Eilifd tilsett, hvad mørg Ar hañ vill lata þig lifa i Heimenum; Liika eirnig hverniq þu a hveriu Are skuler fa Fæde og Klæde. Um̃ þetta seiger David; Þin Augu sau mig þa eg eñ ecke fullskapadur var, og aller Dagar voru i þina Book skrifader, þeir ed eñ vera skylldu, og þeirra hiña sømu var þar þa eingeñ. Ps. 139, v. 16. Þeink so: Allt hingadtil hefur Gud forsorgad mig i Heimenum, þo eg hafe einga Hugsiike um̃ þad haft, þvi skal eg þa taka til ad hafa hana? Eg hefe hingad til margañ Braudbita eted, fyrer hverium eg hef eckert haft, þo hefur Gud lated mer þa til Nota vara; Þvi lætur hañ mig eñ þa framveigis fa þad eg vid þarf. Ef þer eñ þa er hætt vid ad hryggiast og hugsiikiast, þa liit ut um̃ Glugga Huss þins, þvi þa kantu ad sia einhvern Fugleñ a Flugje, og minst Christi Orda: Siaed Fuglana under Himnenum, þeir ed hverke sa ne uppskera, og eige safna þeir i Kornhlodur, og ydar Himneskur Fader hañ fæder þa þo; Erud

þer ei miklu framar eñ þeir? Liit i kringum þig, þa kantu ad sia eitthvort Bloomstur, eda grœnt Tre a Jordunñe, og minst Christi Orda; Higged ad Akursins Liliugrosum, hvernig þau vara, þau viña hverke ne spiña; Ef Gud priider so Grased a Akre, þad i Dag stendur, eñ a Morgun verdur i Ofn kastad, skyllde hañ ei miklu framar þad vid ydur giora? O þer Liitiltruader! Matth. 6, v. 26. 28. 30. Og syng so med Christne vorre:

Hañ, (þad er Gud) gefur oss daglegt Hiälpar Braud,
Þvi Sorgeñ fare!
Og hiälpar oss ur allre Naud.
Gloria tibi Domine!

Heyr þad David seiger: Fleig þu uppa Drotteñ þiñe Ahiggiu, og mun hañ þer Atviñu veita, og ei mun hañ hiñ Rettlata æfeñlega lata Oro hafa. Ps. 55, v. 23. Horf alltid a þa sem miña hafa eñ þu, og i morgu eiga bagara eñ þu, þvi þeir villdu fegner hafa þitt Astand, og þacka Gude fyrer, ætte þeir eins gott og þu; Huxa jafnañ, ad so leinge sem fioorda Bæn i Drotteñlegre Bæn er i Gyllde, muner þu fa þina Naudsinia Næring, og þiñ Klædnad; Nu er þad eñ i Dag, þvi eg bid; Gef oss i Dag vort gaglegt Braud, og so verdur þad framveigis; Eige eg ecke sialfur Huus, fiñ eg þo so miked Ruum i Heimenum, ad eg i þvi fæ mer uppe hallded, þvi Gud hefur eirnig skapad Heimeñ mer til Nota. Sialfur Christus hafde ecke so miked i Heimenum, sem hañ sitt Hofud ad hneigde, þo fañ hañ Stad, sem hañ med þurfte ser til Brukunar; Lat þad ecke angra þig, þo adrer hafe meira af þvi Tiimañlega eñ þu, og horf ecke a þa þer eru sælle, helldur þa þer eru vesælle,

þeink þad giore eingañ sælañ, ad hañ hefur mikil Audæfe, helldur þad hañ neiter þess litla hañ hefur, med goodu Gede, gladre Samvitsku, og ꝏnægdu Hiarta; Þad er sem David seiger; þad litla sem-hiñ Rettlaate hefur, er betra helldur eñ þau miklu Audæfe margra Ogudhræddra; Ps. 37, v. 16. Og Paulus: þad er mikill Aviñingur, hver hañ er gudhræddur, og lætur ser ꝏnægia, þvi ver høfum eckert iñflutt i þeñañ Heim, þvi er þad opeñbert, ad ver munum eckert i burt hafa, eñ nær ver høfum Fæde og Klædnad, þa laatum oss nægia, 1 Tim. 6, v. 6. 7. 8. Laat þer eirnig i Hug koma, þad margur Rikur sem i Heimenum hefur sitt Rikedæme misbrukad, mun a efsta Deige, æskia ser ad hañ hefde vered i Heimenum hiñ fataækaste, og þar i moot mun margur Fataækur þacka Gude hiartañlega fyrer þad, hañ gaf honum ecke miked af tiimañlegum Aud; Giæt þess, ad margur sem Gud hefur gefed tiimañlega Formegan, hefur tiidum sinkañ og vanheilañ Liikama, eñ Gud hefur þar i moot gefed þer gooda Heilsu, og hrausta Liikamans Burde; muntu þa vilja hafa Umskipte vid hañ? Maaske hañ villde giarnañ hafa Skipte vid þig, være þad mogulegt, og fa þer sitt Riikedæme fyrer þina Heilsu. Þo Gud gefe ecke froomum Mañe miked af tiimañlegu Goodse, gefur hañ honum tiidum þess meira af Siñesins og Saalareñar Giædum, so sem mikeñ Forsiaaleik og Higgende, glada Von, sterka Tru, roolega Samvitsku, ꝏnægt Hiarta, og fleira þessu liikt; Þær Gaafur eru laangtum a-giætare eñ jardnesfur Audur. Þegar þu hriggest af Skorte þess Tiimañlega, þa hugsa med þer; Þesse Mynt, þad er tiimañlegur Audur, er i eingu Gyll-

Gyllde a' Himnum, eñ min Mynt, þad er, þau andlegu Giæde, er þar i Gyllde: þau hefur Gud gefed mer, og þau get eg haft med mer i burt ur Heimenum. Vilier þu hafa gladt Hiarta, þo þer syneft þig nockud vante af þvi Tiimañiega, maattu ecke reikna laangt fram, eda giora laangt Raad fyrer þer, og þeinkia so: J Dag hef eg noog ad lifa vid, eda so sem mer duger nockra litla Tiid, eñ hvernig maa siidañ fara, eda hvar kañ eg ad faa nockud þar epter, mer til Lifsbiargar, þaa þad er uppgeinged: Þetta er Bukforg, sem sañchristnum Moñum hæfer ecke ad hafa; Þvi seiger Christus: Þer skulud ei Öñ ala añars Morguns, af þvi Morgundagureñ mun Kviida fyrer sialfum ser bera hverium Deige næger sin Piaaning. Matth. 6, v. 34. Gior ad eins hvern Dag þad þer biriar i þinu Stande, þaa mun Gud framveigis vel sia fyrer þvi sem þu vid þarft: Og hvad villtu bera Ahyggiu fyrer okomeñe Tiid, og þeinkia fram i Veigeñ, jafnvel fyrer 10 Ar, eda leingra? Þu veist þo ecke hvert þu her epter lifer tiiu Vikur, tiiu Daga, eda tiiu Stunder? Hver Not eru af þvi ad kvelia sig med Ahyggiuñe, og deya strax þar epter, þegar minst varer? Soddañ Onytia er þetta: Hefde ecke sa aldrade Barsillai giort daarlega, hefde hañ sett sig nidur, til ad sorga fyrer sinu Lifs Uppellde, þegar David Kongur lofade honum ad forsorga hañ i Jerusalem, a medañ hañ lifde? Eins er þin Bukforg faanyt og faaviisleg, first Gud hefur lofad ad forsorga þig, hvad Petrus keñer, seigiande: Allre ydar Ahyggiu varped uppa hañ, þviad hañ ber Umhyggiu fyrer ydur, 1 Pet. 5, v. 7. Gud hefur breidt Baked til ad hafa Umsorgun fyrer þer, hañ getur þad, og giorer betur eñ þu, og hañ

hefur

hefur eckert Erfide fyrer þvi, lat hañ þvi Umſorg-
un fyrer þer bera, epter þvi-honum þocknaſt ad
giora þad! Gior ſem Fuglarner, epter Chriſti
Aminning, ſem nylega er a minſt, þeir ſorga ecke
fyrer, hvar þeir fiñe Fæde a Morgun, helldur
tiina upp, og eta þad þeir fiña i Dag, ſetia ſig
ſiidañ a einhveria Eyk, eda añarsſtadar, hoppa
og ſyngia; Dageñ epter fiña þeir þo ſo miked ſem
þeir vid þurfa, þvi Gud lætur þa þangad fliuga,
ſem nockud er ad fiña, og þad liika uñ Vetureñ,
þa Jordeñ er underlogd Js og Snioo. A liikañ
Hatt vill Gud liika hans Born hage ſer; Giorer
þu ſo, þa getur þu eirnig i Naudþurfteñe vered
med glodu Gede, ſo þad heiter; So ſem ſyrgendur,
þo jafnañ glader. Gud er riikur Herra, eingeñ
Kongur eda Stoorvolldugur Herra i Verolldeñe,
hvad riikur og volldugur ſem hañ vera kañ, megn-
ar ad borga eina Middags Maltiid, ſem ſo morg-
um hundradſiñum, og þuſundſiñum þuſunder Maña
a heilu Jardriike eru, þurfa og bruka, hans heila
Kongs Riike, og þo hañ hefde fleire yfer ad rada,
hrickt hverge þar til, eñ Gud ſem þig forſorgar,
getur þad, og giorer þad eirnig, og þad uñ allañ
Heimſins Alldur, ſo margar Maltiider, ſem hver
eirn med þarf. Hañ mun og vill forſorga, næra,
bleſſa og vardveita þig, vidhallda þer og gefa þiñ
deilldañ Verd; Gled þig þvi alltiid i Gude þinum,
og vid þad þu ſtendur i hans Naad, og vert viſs
uñ þina Saluhialp, og tru þvi ad þu muner ecke
hafa Skort a nockru þvi, þer er gott her i Heime;
So ſagde Drotteñ; Meñ munu eta og mun af-
ganga, 2 Reg. 4, v. 43. Lat þetta þer ſagt
vera, og ſkoda i kringum þig, þegar Ared er ute,
ef þu lifer ſo leinge, þa muntu ſia, ad ecke er
allt

allt upp geinged sem þu hefur, helldur er uockud afgangs, epter Orde Drottens. Syng so, sem Christeñ:

> Drotteñ sem fæder Fugla smaa,
> Og fogrum Blooma priider Jord,
> Skorta lætur ei Skepnu þaa
> J Skopun er veglegre giord;
> Ahiggiu miñe uppaa hañ,
> Allre skal varpa firr og siid,
> Orded hans raskast alldrei kañ,
> Añad flest hefur sina Tiid.

§. 7.

J añarsslags Mootgange, hvad sem hañ kallast kañ, maa jafnañ so heita; So sem syrgendur þo jafnañ glader. Sañchristeñ Madur sem er aa rettum Veige til Himins, maa alldrei piina sig med Hugarsiike, helldur aa hañ alltiid ad vera med glødu Siñe; Eirn Madur let vera ser Hugarmind, Stein-Stoolpa standande i midiu Hafe, priiddañ ad ofañ med Laurbertres Laufakranse, hvern Stormvidre og brusande Bilgiur hordu ollu meigeñ; Med þessare Yferskript: Hañ stendur samt stødugur. So aa þitt Hiarta stødugt ad standa, sem jardfastur Klettur, hvenær sem Mootgangs Bilgiur ad þer dynia; Eñ hvernig fær Madureñ hugstyrkur vered, þegar Gud gefur honum siukañ og veikañ Liikama, so hañ hliitur optlega ad vera sængliggiande? Ecke aa þad þo helldur ad svipta Gledeñe i Gude; Ad viisu er þad þungur Kross fyrer froomañ Mañ, ad hafa heilsulausañ Liikama, og færra Verkia Tilfiñingu, þo hindrar þad ecke hans Glede i Gude, þvi hañ er viss um Guds Naad, og getur þvi med glødu Gede vered. Hætter Gud ad elska

þaa

þa Truudu þa þeir eru siuker? O ney. Þegar Lazarus la siukur, sendu Systur hans til Christum, og letu seigia honum, Herra! Sia, sa þu elskar hañ liggur siukur, Joh. 11, v. 3. Her heyrum ver, ad sa hvern Christus elskade miøg, var þo siukur; Ezechias Kongur var Gude kiær og þocknañlegur, þo vard hañ daudsiukur, so hañ tyste sem Svala, og stunde sem Dufa, og hans Augu villdu utspriinga, og hañ kallade og sagde: Drotteñ! Eg liid Anaud, lina þu mer, Es. 38, v. 14. Adgiæt þad ad þitt Krankdæme er þer til handa fra Gude komed þer til gooda; Hversu optlega bidur sa gudlegur Madur er siukur liggur, og andvarpar til Guds, hvad hañ munde jafnvel ecke so kostgiæfelega giøra, være hañ heilbrigdur? Hversu miklu helldur þeinker hañ þa uñ Guds Stioornan og Himneska Hlute? Hversu helldur kañast hañ þa vid, ad þad Tiimañlega stodar hañ eckert, so hañ fyrerliitur þad? Hversu vel yfervegar hañ þa, ad Guds Naad er mest verd? Þa rañsakar hañ framar sitt Frañferde, og uppleitar hvad hañ kuñe hia ser ad fiña, sem Gude misliikar; Þa ser hañ ad þeckia, hversu agiæt Guds Saafa Heilsañ er; Þa verdur Verollden honum toñ og beisk, og þvi helldur uppkveikest i hans Saal Laungun til þess Himneska; Þañig er Krankleikeñ ecke neitt Illt i sialfum ser, og gudhræddum Mañe ecke skadlegur, helldur nytsamlegur til Saaluhialpar. Hyxa þar til ad Madureñ tekur laangtum meire Vara a sinu siuku Barne, og hiukrar framar ad þvi, eñ hinu sem osiukt er. Eins giører Gud vid þig i þinum Siukdoome; Þeink med þer þegar þu siukur liggur: Hver veit hvada Glæpe margur Heilbrigdur dryger, nu, og fellur þar fyrer ur Guds Naad,

Naad, hvad eg fæ nu fordast? Hvad margur mun nu stiggia Gud med Bloote og Haadyrdum a medañ eg kalla og kvaka til mins Guds? Hvad margur, sem nu er heill a Hoofe, mun hafa sitt Hiarta fast vid þad Tiimañlega, eñ eg dreg mitt Hiarta fraa þvi til Guds? Hvad margur, sem Heilsuna hefur, mun nu gaanga illa og forbodna Vegu, og a Guds Nafne sig forgriipa, hia hveriu eg kemst fyrer mins Kraankleika Saker, so Sathan fær mer ei til þess komed? Þeinktu eñ framar til þess, su bloodfallssiuka Kviña bar sitt Kraankdæme i heil 12 Ar, Matth. 9, v. 20. Oñur Kviña hafde Kraankleiks Anda i 18 Ar, og var biug, so hun gat ecke upplited, Luc. 13, v. 11. Madureñ vid Diiked Bethesda, hafde i 38 Ar siukur leiged, Joh. 5, v. 5. Eñ eg hef ecke vered siukur nema nockrar Vikur, eda nockra Maanude, eda eg get þess i millum hreist mig upp, og roolad nockud, og þarf ecke siifelldlega kirr ad liggia, hvad þarf eg þa so miked yfer ad klaga, og so mioq sorgsullur ad vera. Eg get eirnig i minum Siukleika vered viss um Guds Naad, og þess vegna sagt og sunged:

Eg life i Jesu Nafne,
J Jesu Nafne eg dey, rc.

Þegar Jesus heyrde ad Lazarus, hvern hañ elskade, laa siukur, sagde hañ: Þesse Soott er eige til Dauda; helldur til Guds Dyrdar, so ad Guds Sonur verde þar af priisadur, Joh. 11, v. 14. Þeink liika so: Min Sott er ecke til Dauda, og þo eg deye ur heñe, er þad mer ecke til Fordiorfunar, helldur til Lifs, þvi i gegnum Daudañ geing eg til Lifsens. Þeink framar: Þad skedur Gude minum til Dyrdar, þegar eg audsyne mig i Siukdoomenum ad vera hans hliided Barn, og get vered med goodu Gede,

Gede, og sialfum mer til Sæmdar, og ad eg læt þar med i Liose mina Tru, og Von til Guds, og so verdur minn Krankleike mer til gooda. Einn Madur let Hverfestein vera sina Hugarmind, med sooddann Yferskript: Hann sliofgar og hvetur. Og villde þar med merkia lata, ad lika sem Hverfesteinenn kann ad giora Knyfenn sliofann og egglausann, og strax epter hvassbeittann, so kunne Siukleikenn ad veikia Liikamans Krapta, enn gefa samt Saalunne Hentugleika til Framfarar i Goodu. J þessu a þad sannlega eirnig vel vid, sem Paulus seiger: **Ver vitum ad þeim sem Gud elska, þena aller Hlut-er til hins besta**, Rom. 8, v. 28.

§. 8.

Þesse Grein: So sem syrgendur, þo jafnann glader; hefur eirnig stad i Offooknum, Forsmaan og Bakmælum, fra hveriu eingenn Truadur i Heimenum er undantekenn, þvi þad heiter so: **Aller þeir sem gudlega vilia lifa i Jesu Christo, hlioota Offookn ad liida.** 2 Tim. 3, v. 12. Spaamenn-erner, Postularner og adrer truader, aasamt Christus sialfur, feingu hid sama ad reina, þa kann margur ad seigia; Hvernig ma eg gladur vera med þvi eg hliit þetta saklaus ad liida? Mer er bakmællt og lastmællt, Jllt er uppa mig og umm mig hermt, þad mer hefur alldrei i Hug komed, þetta kemur ad Eyrum mer, enn eg get ecke forsvarad mig, þvi miner Ovilldarmenn tala þad ecke opennberlega; Vid þetta a froomur Madur ecke helldur ad stiggiast, ne verda deigur i Gede. Hvad þarf truadur Madur umm þad ad skeita þo hann verde af Heimenum forsmaadur, sem viss er umm þad, ad hann er i Guds Naad, og af Gude vel metenn? Af þessu

geturdu ad nockru leite rᴂded, ad þu muner ecke vera Heimsins Barn, þvi skyllder þu lᴂta þer vel liika; Ef þu hegdader þer eins og Heimsins Born, ᴂter, drycker, hellder Veitslur, og leter miked yfer þer, eins og þau, eda værer bakmᴂll, og ofsækter þᴂ Froomu og ad þeim þreingder, þᴂ værer þu hiᴂ þeim i meira Alite, eñ af þvi þu gierer þad ecki, ertu helldur fyrerliteñ; Vert þvi af þessu helldur gladur eñ sorgande; minstu þessara Orda Christi: Ef þer værud af Heimenum, þᴂ elskade Heimureñ þad hans være, eñ med þvi þer erud ei af þessum Heime, helldur utvallde eg ydur af Heimenum, þar fyrer hatar ydur Heimureñ, Joh. 15, v. 19. Þad er tiiusiñum betra ad uñ þig se Illt talad þad osatt er, helldur eñ ef þad være satt; Se uñ nockurn Illt talad þad hañ raunar adhefst, þad er honum til eingrar Hroosunar, og se nockud Illt ᴂ hañ saklausañ loged, þad er honum til eingrar Skamar, þvi seiger Petrus; Eingeñ ydar liide, so sem Mañdrᴂpare, Þioofur eda Illvirke, edur so sem sᴂ i añarlegt Embætte sellur, eñ ef hañ liidur so sem añar Christeñ, þᴂ skameſt hañ sin ei, eñ diirke Gud i sliiku Tilfelle, 1 Pet. 4, v. 15. 16. Varast Illt ad giora, Liigeñ sellur af siᴂlfre ser, vert ecke ᴂngursamur, Haferdu gooda Samvitsku, Sakleysed kemur lokſens i Lioos, seig med siᴂlfum þer; Kome nockrer frañ og bregde mer þvi under Augun, þᴂ vil eg so svara honum; First Gud miñ veit ad eg er ecke i þvi sekur sem ᴂ mig er sagt, hvad hyrde eg þᴂ uñ Heimeñ? hañ getur ecke giort mer miked Mein. Eirn Madur sem Baktale seck ad mᴂta, let uppmᴂla ser til Hugarmindar, margar Orvar sem i blᴂ Lopt var skoted, og hiᴂ

skrifad:

skrifad: Þær munu detta nidur forgefins. Par med aviisande, ad liika sem Orvarnar uppi Lopted skotnar, fielle nidur au allrar Verkunar, so kyñe Bakmælgis Piilur eckert ad skada digdugt Siñislag. Seig med Paulo: Mier er þad fyrer litlum Koste, ad eg skule af ydur dæmast, edur af mañlegum Deige 1 Cor. 4, v. 3. Pañig brettu eirnig ogudleger Meñ vid Christum, þeir kolludu hañ Ofaats-Mañ og Viinsvelgiara, Vin Tollheimtumaña og Bersyndugra, og sogdu, hañ være samverskur, og hefde Diofuleñ. Þu þarft ecke ad vænta þer betra Hlutskiptes i Heimenum; þvi sagde Christus til siña Lærefveina: Þenareñ er ei meire sinum Herra, ef þeir hafa offookt mig, þa munu þeir eirnig offækia ydur, Joh. 15, v. 20. Ef þeir hafa Husfodureñ Belzebub kallad, hvad miklu meir munu þeir þa hans Herrameñ so kalla, Matth. 10, v. 25. Hvad skadar þad nu Christum, ad hañ var hæddur og forsmaadar, situr hañ ecke samt til Guds hægre Handar? Hvad skadar þad Paulum ad hañ var Ordsnapur kalladur. Act. 17, v. 18. og virdtur sem Hreinsunar Offur, 1 Cor. 4, v. 13. Er hañ nu ecke i Dyrdeñe? So skadar þig þad ei helldur, þo um þig se sagt, ad þu sert agiarn, orettviis, svallare, niidskur, falskur, svikull, eda þvilikt, se þad osatt, þessvegna þarftu ecke af þvi ad oglediast, eda missa Hugeñ; Ecke helldur eiga adrer þiner Ovíner sem þig offækia þvi til vegar ad koma, þvi i Offookn-unum getur þu liika gladt þig i Gude; Giæt þess, first ad Gud þecker alla þina Ovine, og veit allt þeirra Raadabrugg i moote þer, eins og hañ visse hvad Herodes hafde i Siñe, þa hañ villde deida Barned Jesum; Giæt þess þvi nærst, ad þiner

Oviner komast ecke eitt Footmaal leingra, eñ Gud liidur þeim, og aan hans Vilia fa þeir ecke snert eitt Haar aa Hofde þer; Seige Gud so uñ hid olgufulla Haf; Allt hingad ad skalltu koma og ecke leingra, her skulu þinar stolltu Bilgiur leggia sig, 38, v. 12. So setur hañ liika þinum Ovinum Maal og Takmark, hvad laangt þeir skulu komast, og þar vid hloota þeir ad laata bliifa. Laate þeir traudlega af þaa tekur Gud til Hendeñe i med, og kollsteiper þeim. Þaa Pharao let ecke af ad sækia epter Israel, utrette Gud sina Hond vg fyrerfoor honum i Hafenu rauda, Ex. 14, v. 25. Þegar Senacherib Kongur i Assyria let ecke af ad aasækia Ezechiam Kong, og Borgernar i Juda Lande, kom Gud i Veigeñ og sagde: Eg vil setia Hring i þinar Naser, og Beitsl i þiñ Muñ, og leida þig pañ sama Veg heim aptur sem þu komst hingad, Es. 37, v. 29. Þar fyrer þarftu ecke huglaus ad verda saker Ovina þiña, sem aan Guds Vilia geta þer ecke hid minsta Mein giort, helldur kantu til Guds ad kalla og syngia:

Ovine alla þu hefur i Hond,
Med Hug og Maatt þeirra ollum. 2c.

Seigdu med David: Eg ottunst ecke mørg hundrud þusund þeirra, sem leggia sig allt i kring aa moote mer. Ps. 3, v. 7. Þegar Laban foor epter Jacob hafande illt i Siñe vid hañ, kom Gud til hans uñ Noott i Svefne, og sagde: Varastu ad tala añars vid Jacob eñ vinsamlega. Gen. 31, v. 24. Þañig kañ Gud ad uñhverfa Hugmood Ovina þiña, ad þeir faae þer ei Grand giort, þo þad bue þeim i Skape. Ein Kongboreñ Fru let stort Farmaskip vera ser Hugarmind vel med Akkerum fest, fyrer uppaakomande Storme, med

þess=

þessare Hiaskript: Þad vel er fest, fær vel stad-
est. Þar med viisande, ad liika sem þad Skip vel
er med Akkerum fest, stendst vel fyrer Storme, so
giæte ei helldur þeim neirn Ovinur grandad, hverra
Akkere og Verndarhliif Gud sialfur er. Vert þvi
æred hraustur, þo þu eiger Ovine, og gef þitt Maal-
efne i Guds Hendur, hañ er sterkur og mattugur
til ad vardveita þig. Utrett med Glede þad þitt
Kall þer tilhelldur, og nær þu so merker ad þiner
Offækendur sitia uñ þig, þa seig med sialfum þer;
Alikted eina Raadagiord, og þar verde þo eckert af,
hafed Samtok, eñ þad hafe þo eingañ Stad, þvi
her er Immanuel, Es. 8, v. 2. Þar sem marger
Oviner eru, þar eru morg Fader Vor, og þar sem
morg Fader Vor eru, þar er morg Blessan, þar
fyrer er morg Blessan þar sem marger Oviner eru;
Hrædstu ecke og þitt Hiarta se ottalaust fyrer þess-
um riukande Kolbrondum, Es. 7, v. 4. Hverstu
bradlega fær þad sked, ad Gud legge þiñ Ovin
nidur i hans Soottarsæng, eda kippe honum burt
ur Heimenum? Þa er allt hans Grimdaræde a
Enda kliad, og þa troda Meñ hans Grof med
Footum sinum. Lat þvi ecke Ovin þiñ fa giort
þer Angur sem ert sañchristeñ, og i Guds Raad
viss uñ þina Saluhialp, eda getad aflagad þina
Glede i Gude; Vert helldur med anægdu Siñe,
og gack fram gladur Veigeñ til Himens, og minst
þess er vor Kyrkia syngur:

Hver a Gud tuer og vonar viist,
Verdur stodugur standa, ꝛc.

§. 9.

Ef truadur christeñ Madur tekur ad missa Hugeñ, þa skedur þad helst a Freistingar Tijmanum, þegar hañ bidur þratt og opt, og þiker sem Gud ecke vilie heyra sina Bæn, þa hriggest Madureñ, og þa tekur ad þverra Gledeñ i Gude, þa tekur hañ til so ad andvarpa: Drotteñ! Hversu leinge villtu so ølldunges gleima mer? Hversu þa hilur þu þitt Andlit fyrer mer? Hversu leinge skal eg vera sorgande i miñe Saalu, og angra mig so i minu Hiarta daglega? Ps. 13, v. 2. 3. Og aptur: Eg hefe hroopad mig moodañ, miñ Hals er haas, Syneñ forgeingur, þad eg so leinge hliit ad biida epter minum Gude, Ps. 69, v. 4. So klagar einnig Israels Kyrkia: Þu hullder þig med einu Skye, so ad þar kuñe eingen Bæn i gegnum ad koma, Thren. 3, v. 44. Þa seiger hañ freistade: Hvernig skal eg gladur vered med þvi eg se ad Gud tilbyrger sitt Eyra fyrer miñe Bæn, og lætur mig kalla forgefins? Hvernig maa eg vera viss uñ hans Naad, nær miñ Graatur og Stunur gillder ekert fyrer honum? Af þessu get eg helldur giort mer i Lund, ad Gud se miñ Ovinur, helldur eñ Vinur, være eg gudrækeñ fyrer hønum, þa munde hañ heyra mina Bæn epter sinu Loforde, þvi hañ hefur sagt: Fyrr eñ þeir kalla, þa vil eg svara, og a medañ þeir eru eñ nu ad tala, þa vil eg heyra, Es. 65, v. 24. Christus seiger utþrickelega: Sañlega, sañlega seige eg ydur, ef þer bidied Fødureñ nockurs i minu Nafne, þa mun hañ gefa ydur þad Joh. 16, v. 24. Og David seiger: Drotteñ er ellum þeim nalægur hañ akalla, øllum þeim sem hañ med Alvøru akalla, hañ

giører

giører þad, hvad hiner Gudhræddu gyrnast, og heyrer þeirra Akall og hiálpar þeim, Ps. 145, v. 18. 19. First Gud hefur ecke heyrt mina Bæn, þo eg hafe beded i Jesu Nafne, þa get eg ecke viss vered um Guds Naad, ne gladur i Gude, og med goodu Gede; Enn seig mer; Hvar er þer synt i næst undanfarande Capitula, sem höndlar um þau sonu Kennemerke Guds Naadar og ibuande Truar, ad þu skyllder dæma þu værer ecke i Naad hia Gude, af þvi ad Gud lætur þig ecke faa allt þad þu um bidur af Tiimanlegum Munum epter þinum Vilia? Eda hvar lestu þad i Ritningunne? Finner þu hia þer þau fiogur Kennemerke, sem adur er um talad, þa hefurdu þa sonu Tru, hvert sem Gud giorer þad þu hann um bidur epter Villd þinne, eda ecke. Eg spyr þig, hvert Moises Guds Madur var i Naad hia Gude eda ecke? Þu munt seigia vissulega, og þad i serdeilislegre Naad. Gud sagde sialfur um hann: **Minn Þenare Moises er trulindur i øllu minu Huse, eg tala munnleg vid hann, og hann ser Drottenn i sinne Mind**, Num. 12, v. 7. 8. þo giorde Gud ecke allt þad hann um bad; Hann bad Gud ad leifa ser ad fara yfer Jordan med Israel, og skoda þad fyrerheitna Landed, hveriu Gud hafde heited þeirra Fedrum, enn þad villde Gud ecke giora, helldur neitade honum þvi med ollu; Hvar um Moses sialfur so skrifar: Eg bad Drottenn þann sama Tiima og sagde; Laat þu mig fara og sia þad gooda Landed hinumeigenn Jordanar, þad gooda Fialled, og Libanon; Enn Drottenn vard reidur vid mig fyrer ydar Skulld, og bænheyrde mig ecke, helldur sagde hann til min; Laat þad so nægia, seig þu mer þar ecke meira af. Devt, 3, v, 23. 25, 26, So feck Moses þo ecke Leife af

Gude til ad koma i þad fyrerheitna Land. Gud tilsette þad yser Postulañ Paulum, ad Sathans Eingill skyllde hañ med Knefum sla, og Paulus bad Drotteñ þrisvar iñelega þar uñ, ad hañ, þad er sa Eingilleñ vike fra ser, þo giorde Gud þad ecke strax, þvi sagde Paulus: Og hañ sagde til min; Laat þer nægia mina Naad, þviad miñ Kraptur er i Breiskum mættugur, 2 Cor. 12, v. 9. So feck Paulus ecke þad hañ uñ bad, var hañ þo ecke samt i Naad hia Gude? Hvad villtu seigia, sem mest er þo Adgiætslu verdt uñ Drotteñ Jesum Christum; Hvort var hañ ecke Sonur Guds? Hroopade ecke sa Hiñneske Fadereñ uñ hañ af Himnum ofañ, og sagde: Þesse er Sonur miñ eiskulegur ad hverium mer vel þocknast, Matth. 3, v. 7. þo vard hañ ecke uñ þad bænheyrdur ad Krossens Kaleikur være fra honum tekeñ, sem hañ bad uñ med þessum Ordum: Miñ Fader! Ef møgulegt er, þa takest fra mer Kaleikur þesse, þo ei so sem eg vil, helldur sem þu villt, Matth. 26, v. 39, samt hlaut hañ þañ Kaleik af ad drecka, sem hans Fader hafde fyrer hañ a skeinkt, og liida sina saaru Piinu. Sia þu af þessu, ad þu att ecke af þvi ad hryggiast þo Gud gefe þer ecke allt hvad þu hañ uñ bidur, helldur attu i þessare Sok sem ollum ad giæta þess er Paulus seiger: So sem syrgendur, þo jafnañ glader: Yfervegum ver framar adur taldar Greiner af Guds Orde, þa er þad ad ollu leite satt, ad Gud gefur sinum gudhræddum Bornum allt þad þau hañ uñ bidia i Jesu Nafne, og epter hans Vilia; Bidier þu Gud a þeñañ Hatt, færdu obrigdañlega þad þu uñ bidur. Eñ her med attu ad vita

ad

ad bidia i Jesu Nafne, og epter Guds Vilia, er ecke einasta ad bidia i sañre ydrande Tru a Jesum Christum, i Fullvissu uñ Bænheyrsluna, helldur ad bidia eirnig so uñ alla Hlute epter Guds Vilia, ad hañ gefe oss serhvad af þeim, sime hañ oss þad vera nytsamlegt, og sæluhialplegt; So bad sa liikþraæ Madur, er sagde; Herra, ef þu villt þa kantu vel ad hreinsa mig, Matth. 8, v. 2. So bad sialfur Guds Sonur, er hañ sagde: Fader! Ef þu villt, þa tak þeñañ Kaleik fra mer, eñ þo verde eige miñ, helldur þiñ Vilie, Luc. 22, v. 42. Bidier þu so i Truñe epter Guds Vilia, þa verdur þu an efa bænheyrdur, þvi seiger Johañes! Þad er su Diørfung sem ver høfum til hans, ad ef ver bidium nockurs epter hans Vilia, þa heyrer hañ oss, 1 Joh. 5, v. 14. Bidier þu epter hans Vilia uñ Liikamans Heillsu, þa verdur þu añadhvert heilbrigdur eda siukur, hefur Gud þa ecke bænheyrt þig? Verder þu heilbrigdur, þa hefur Gud ad viisu bænheyrt þig, og gefed þer Heilsuna, med þvi hañ sa ad þad var þiñe Salu ecke skadlegt, eñ faaer þu ecke Heilsuna, þa hefur Gud liika bænheyrt þig, þvi þu hefur so beded, ef þad være hans Vilie, og hañ sæ þad være ecke þiñe Salu til Skada, þa villde hañ gefa þer Heilsuna. Þañig hefur hañ veitt þer þad þu uñbadst, eñ bidier þu ecke epter Guds Vilia, þa þarftu ecke ad lata þig þad undra, þo hañ bænheyre þig ecke. Sia þu! Giæfe sa alviise Gud þer Heilsuna, og sæe fyrer ad þu munder misbruka hana til ad giora Illt, og þer til Fortopunar, være þer nockurt Gagn ad þvi, eda hefderdu af þvi nockur sañarleg Giæde? Mun ecke margur æskia ser a efsta Deige, ad hañ

hefde i Heimenum heilsuveikur vered, so hañ hefde ecke vanbrukad sina Heilsu ser til Fordæmingar? Marger Forelldrar hafa beded Gud, ad lata þeirra siuku Born lifa og fa Heilsu aptur, eñ hafa siidañ hloted ad sia þeirra Skamar Flecke, og af þvi þeir hafa ecke beded epter Guds Vilia. Margur hefur beded Gud ad hiaalpa ser til Metorda, eda Riikdooms, eñ ecke lagt þad til, ef þad være Guds Vilie, eda ser gagnlegt, sem hefur feinged þad, og honum hefur epteraa til Falls orded; þar fyrer verdur sa allriid bænheyrdur sem bidur epter Guds Vilia. Ef Barned beidde siñ Fodur ad gefa ser nockud ur þeirre Flosku, i hverre være Sikurblandad Eytur, so ecke findest Eytursins Smeckur fyrer Sikursins Sætleika, og Barned grete epter þvi; Ætte Faдereñ þaa ad laata þad epter Barnenu, og gefa þvi þad? Barned hefur ecke vit aa ad þad gyllder þess Lif, ef þad iñtekur þar af, helldur ætlar þad gott vera, sirst þad er sætt i Muñe, eñ Fadereñ veit betur, þvi lætur hañ ecke Barned faa þad, þo þad græte aldrei so miked. Ver bidium optlega uñ þad sem oss er til Skada, eins og smaaviis Born, eñ Gud gefur oss þad ecke, af þvi hañ ser betur eñ ver, ad þad er oss til Skada, þo ver grætbænum hañ uñ þad; So sem þad er ecke Reide helldur Elsku Merke Fodursins, ad hañ gefur ecke Barnenu Eytred; So er þad ecke Reide, helldur Naadar Merke hins gooda Guds, ad hañ gefur oss ecke þad, oss kañ ad verda til Saalar Skada; Dæm þvi ecke af þvi, þo Gud gefe þer ecke þad þu hefur hañ uñ beded, ad þu sert ecke i hans Naad, helldur dæm so: Gud gaf mer þad ecke, af þvi hañ hefur aan Efa sed, þad munde verda til Skada miñe Saalu, fyrer hverre eg se hañ ber

Uñsorg-

Umſorgun, og vill ecke hun ſkule tortiinaſt fyrer Saker tiimañlegra Muna; Heite þad þvi; So ſem ſyrgendur, þó jafnañ glader; Eg medkeñe, ad med þeſſare Aliktan verdur ecke freiſtadur Madur ſtrax fridſtilltur, fyrer Truareñar Veikleika Saker, og þad a her heima ſem Chriſtus ſagde fordum til ſiña Læreſveina; Andeñ er fus, eñ Hollded er breiſkt Matth. 26, v. 41. eñ þo fær lokſens ſoddañ Freiſting goodañ Enda.

§. 10.

Þar fyrer getur þu audvelldlega ſed, hvert Svar ligge til þeirrar Upptekiu, þegar einhver ſeiger ſa eda ſa liſer illa, i Ofneitſlu og Dryckiuſkap, Dreiſſe og Oferlæte, fyrerliitur Gud og hans Ord, underþricker ſiñ ſañchriſteñ Naunga, og hefur adra ſlika Breitne, og hønum liidur i ølln vel, hañ rakar ſamañ Audæfum, heſſt upp jafnañ til ſtærre Virdinga, og hvad ſem hañ fyrer ſig tekur, þad luckaſt hønum; So aagradeſt Aſſaph yfer Lucku hiña Ogudlegu, ſem hañ ſeiger: Þeir eru i eingre Daudans Hættu, helldur ſtanda þeir faſter ſem añur Høll, þeir eru ecke i Ogiæfu ſem añad Foolk, og verda ecke þvingader ſem adrer Meñ, þar fyrer hliitur þeirra Dramb koſtulegt ad vera, og þad rangt þeir giøra, hliitur ad kallaſt vel giørt; Þeir þrutna ſem añar Yſtru-Mage, þeir giøra hvad helſt þeir hyxa, þeir ovirda alla Hlute, og leggia þar illt til, tala og laſta af Hædeñe, hvad þeir tala þa hliitur þad af Himnum talad ad vera, hvad þeir ſeigia, þad hliitur a Jørdu Valld ad hafa, Pſ. 73, v. 4. 9. Jeremias hneixladeſt liika yfer ſliiku, ſem hañ ſeiger: Hvar fyrer vegnar þeim Ogudlegu ſo vel,

vel, og þeir Forsmaanarar hafa allskonar Mægt? Þu groodursetur þaa so sad þeir faae Rætur, og vaxa upp, þu lætur þaa hræsa miked utaf þer, og agar þaa ecke, eñ mig Drotteñ þecker þu, og ser til min, og proofar mitt Hiarta fyrer þer, Jer. 12, v. 1. 2. 3. Mun þetta ecke vera þeirra Saalum skadlegt? Þad er hiñ meste Saalar Haaske fyrer Heimsins Born, þegar þau af Dioflenum forblindud ana fram i Heimenum epter Muñe og Maga, og Gud sender þeim liited eda eckert Mootlæte, og lætur þeim gaanga allt ad Oskum, og þau druckna so i Heimsins Munadar Lise, þaangadtil þau um siider tortiinast eilislega. Hver vill seigia, þeim Obootamañe liide vel, sem gefeñ er kræst Fæda og gooder Drycker nockra Daga, adur eñ hañ er aftekeñ; Margur munde vilia ofeigeñ eiga hans Stodu. Veitstu ecke ad þvi Sviine er mest gefed sem til Slaatrunar er aled? So hafa Heimsins andvaralaus Alesviin, sem skamarlega lifa, mestu Lucku aa Jordu, þvi þau eiga þess ei laangt ad biida, ad Daudeñ stiingur og drepur þaa aa þeim effta Deige; Mun þad verda Heimsins Bornum stoorkostleg Kvol, ad þeinkia til siña firre Vellistinga, eñ sia þaa ecke añad oped fyrer ser eñ Skom, Eymd og Plaagur, og heyra til sin kallad liika sem hins riika Mans i Helviite: Hugleid þu Sonur, ad þu medtookst hid Gooda i Lifstiid þiñe, og Lazarus þar i moot medtook hid Vonda, eñ nu verdur hañ huggadur eñ þu piindur. Luc. 16, v. 25. Þo Assaph og Jeremias hneixludust yfer Farsæld hiña Ogudlegu, sem sagt er, lagfærdu þeir sig aptur, og komu til sin sialfra, þvi Assaph seiger strax þar epter; Þar til eg geck iñ i Helgedoomeñ Guds og hugde ad þeirra Æfelokum, eñ þu setur

þaa

þa uppa hid haala, og steiper þeim nidur i Gruñ; Hvernig verda þeir so skindelega ad eingu? Þeir forganga, og taka eirn Enda med Skelfingu, Ps. 73, v. 17. 18. 19. Og Jeremias; Þu lætur þa sialfrada ganga sem Saude, so ad þeir skule slatrast, og sparar þa ad þeir skule deidast, Jer. 12, v. 3. Þad hlioomar fagurt fyrer Heimsins Bornum þegar sagt verdur; Nockur Madur riikur var þar, sa ed klæddest med Purpura og kostulegum Liinklædum, og lifde hvern Dag kostulega og i Glede. Luc. 16, v. 19. Eñ mun þad liika hlioma vel fyrer þeirra Eyrum er Christus framar seiger; Og sem hañ var i Helviite og Kvølunum, þa hoof hañ upp sin Augu og leit Abraham langt burt, og Lazarum i hans Skaute, þa broopade hañ og sagde: Fader Abraham! miskuna þu mer, og send Lazarum ad hañ drepe hinu fremsta sins Fingurs i Vatn, og kiæle mina Tungu, þviad eg kvelst i þessum Loga, v. 23. 24. So sem þad er ecke Merke til Guds Nadar, ad Heimsens Born. fa þad þau sækia epter, so er þad ei helldur Merke til Guds Onadar, ad þu fær ecke þad þu hefur umbeded, af þvi hañ ser þad skada þig. Margur bidur Gud einhvers sem Gud gefur honum ecke, helldur añad betra i þess stad, hañ bidur um Heilsu Liikamans, eñ Gud gefur honum þar i moot Heilsu Saalareñar, hvar med hañ lætur ser nægia, og getur Vanheilsuna med Þoleñmæde utstaded. Hañ bidur um Riikdoom, eñ Gud gefur honum stundum þar i moot gooda Heilsu, og Liikamans Færleik sem ollu Fe er betra. Hañ bidur um langa Lifdaga, eñ Gud lætur hañ deya, og gefur honum þar i moot eiliist Lif; Þañig breiter Gud vid Sina; Giør all-

tiid Greinarmun ꝏ mille Guds Bænheirslu og hans Giafa! Gud heyrer alltiid Andvarpan hiña Froomu og lætur sér þecknast þeirra Bæn i siñe Naad; Gyrnd þeirra Fꝏtæku heyrer þu Drotteñ, þeirra Hiarta veit vissulega ad þitt Eyra hyggur þar ad, Ps. 10, v. 17. Þo hañ gefe ecke alltiid strax þad þeir Truudu uñ bidia, samt heyrer hañ þeirra Bæn; Marger bidia Gud ad hañ hiꝏlpe þeim ut af Neideñe, eñ þo þeir fꝏe þad ecke alltiid epter þeirra Villd, samt er þeirra Bæn ecke forgefins, þvi hañ vidhelldur þeim þꝏ i Neideñe, so þeir fꝏ stadest i Þoleñmæde. Þegar Christus bad Gud siñ Fodur ad taka frꝏ ser Krossens Kaleik, hvad hañ þo ecke giorde. Hver vill seigia su hans Bæn hafe ecke heyrd vered, helldur forgefins? Gud let hañ ad soñu Kaleikeñ drecka og komast i stærstu Neid og Freisting, og vidheldt honum þo midt i þessu; Christus seigest sialfur samt af Gude heyrdur hafa vered, og seiger; Hañ hefur hverke forsmꝏd ne fyrerlited Eimd hins Fꝏtæka, og ecke sitt Andlit birgt fyrer honum, og þꝏ ed hañ kallade til hans, heyrde hañ þad, Ps. 22, v. 25. Vilier þu seigia: Eñ þegar eg bid uñ nockud andlegt, og fæ þad ecke, hvad er þꝏ til Rꝏda? Eg bid uñ sterka Tru, þo er min Tru veik; Eg bid uñ Hiartans Alvorugefne i Bæneñe, þo hef eg hana ecke. Miñ kiære Vin! Veitstu ecke ad þu getur orded hoolpeñ, med þiñe soñu Tru, þo hun se veik, sem Gud vidhelldur og styrker? Veitstu ecke ad þin Bæn i Jesu Nafne þocknast Gude, þo þu geter ecke beded so iñelega sem þu villder? Þu mꝏtt eirnig giora Mismun þess Andlega sem þu mꝏtt ecke ꝏn vera, so ad þu hiꝏlpist, og hins sem ecke er til Sꝏluhiꝏlpareñar naudsinlegt, og þu mꝏtt ꝏn vera, og getur samt rettlꝏtur og hoolp=

hoolpeñ orded þo Gud synie þer þess. Pad firra færdu obrigdañlega nær sem þu bidur Gud af Alvoru þar uñ, so sem til Dæmis; Saña Tru a Jesum Christum, Syndaña Fyrergefning, heilagt Frañferde og þviliikt, sem eru soddañ andleg Giæde, er þu mætt ecke an vera skuler þu hiaalpast, og þeirra siniar Gud þer aldrei. Eñ hitt añad veitest Moñum ecke alltiid, þo þeir bidie Gud uñ þad, so sem til Dæmis: Sterk Tru, breñande Bæurækne, stoor og ofkelsd Hugpriide i ollum Mootblæstre, og þviliikt; þad kemur þar af, ad an þessra andlegu Giæda, getur Maduren hoolpeñ orded, bliife hañ einasta i Guds Nad, þvi mattu ecke lata þiñ Hug uppgefast, þo ecke veitest þer þetta. Paulus bad ecke uñ neitt Illt, þa hañ bad ad Sathans Eingill mætte fra ser viikia, þo feck hañ þad ecke, helldur þetta Svar af Gude; Lat þer nægia mina Nad, þviad miñ Kraptur er i Breiskum mattugur. 2 Cor. 12, v. 9. Hañ matte hafa Fleineñ i Holldenu, eñ feck Fullvissu uñ Guds Nad i hans Freistingum, og let ser þad nægia; Hvar fyrer bænheyrde Gud ecke Paulum i þessu? Af þvi hañ sa honum þad ecke gagnlegt til Saluhiaalpar, helldur til Hindrunar hans Hiartans Audmykt; Þvi seiger Paulus: So ad eg stære Mig ei af þessum haafu Opeñberingum, er mer gefeñ Fleiñ i Hollded. v. 7. Ma vera Gud siæe þad ef hañ giæfe þer mikeñ Truar Stirk, og Hugarens Oruggleik, ad þu munder þa verda andlega drambsamur, og þikiast uppe yfer odrum, því fyrer gefur hañ þer þad ecke, eñ þad færdu samt fyrer viist, ad hañ vidhelldur þer i Truñe, og styrker hana, so hun þrotne ecke. Margur fær ecke af Gude Friiun fra sinum Krosse, þo hañ bidie þar uñ iñelega, samt fær hañ i honum

i hønum Huggun og Poleñmæde til ad umbera hañ med goodu Gede; Vilier þu vita hvert Gud mune hafa bænheyrt þig, þo ecke hafer þu feinged þad þu uñ badst, þa tak epter hvernig tilgeingur uñ þina Bæn, þu fer til ad bidia Gud med sorgfullu andvarpande Hiarta, eñ kemur aptur fra þiñe Bæn med letriu og glodu Siñe, þad er Merke til þess ad Gud hefur þa bænheyrt þig. Siaer þu eirn Þegn fara iñ i Kongs Sal med hriggelegu Bragde, til ad framleggia sina Audmyktar Bæn fyrer Kongeñ, eñ med glodu Bragde aptur þadañ utkoma, þa er þad Merke til þess, ad hans Boon hafe vered i Naad medtekeñ; So er þad liika uñ þina Bænheyrslu. Af þeirre Glede sem þu fær epter þina giorda Bæn, matttu liika þad merkia, ad H. Ande giore þig vissañ uñ Guds Naad, og þad þu sert bænheyrdur. Dæme her uppa høfum ver a Auñu Moodur Samuels, hun kom til Guds Musteris med sorgande Siñe, og graatbænde hañ, eñ siidañ foor hun heim aptur og took Fædu, og var ecke so hrigg sem adur, 1 Sam. 1, v. 18. So seiger eirnig Paulus; epter sina Bæn sem nylega er aaminst, þo ecke feinge hañ þad hañ umbad; Fyrer þvi em eg med goodu Trauste, i Breiskleikanum, i Vanvirdingum, i Naudum, i Offooknum, i Þreingingum, Christi vegna, 2 Cor. 12, v. 10. Þetta var Merke til þess ad hans Bæn var samt heyrd; Þo Gud bænheyre þig þvi ecke alltiid epter Vilia þinum, samt epter þvi sem þer best gagnar til þiñar Velferdar; Laat þad þvi, þo þer þañig vegne, eñþa so heita; So sem syrgendur, þo jafnañ glader; Og syng þañig:

Til

Til Guds mitt Traust alleina er,
Angre kañ af mer venda, rc.

§. 11.

Lokfens i ollum odrum Freistingum, hver-
iar sem vera kuña, maa þetta hafa stad: So
sem syrgendur, þo jafnañ glader. Sañchristeñ
Madur maa ecke fyrer þad læta sina Hugpriide,
og Glede i Gude nidurfalla, þo hans gomlu
Synder sem honum eru fyrer Christum allareidu
adur fullkomlega - fyrergefnar, hreife ser i hon-
um; Jafnvel þo allar Synder med ollu þeirra
forþentu Straffe bæde tiimañlegu og eilifu, seu
i einu truudum Mañe fyrergefnar fyrer Truna a
Jesum Christum, og hañ se viss ordeñ um Guds
Naad og siña Synda Fyrergefning, og hafe feing-
ed roosamlega Samvitsku, samt maa hañ buast
vid þvi ad andlegar Freistingar koma fyrer hañ,
og Samvitskañ kuñe ad verda oroosom a ny,
fyrer Truareñar Veikleika Saker, so þaa verdur
margur þess var, ad hañ verdur af Hrædslu iñ-
tekeñ, einkum i utvortis Krosse og Mootgange.
Sathan lætur þaa ecke helldur sitt Verk tilvanta
ad skioota til hans sinum glooande Piilum, til
ad setia hañ i Efasemd um sina Saaluhiaalp. Eñ
hrind þu burt fraa þer soddañ Hrigd, ad hun
faae ecke Rum i Hiarta þer; Ad viisu verkar
su Hrigd sem af Gude er Ydrañ til Hiaalpræd-
is, hverrar eingañ ydrar, 2 Cor. 7, v. 10.
Eñ oñur Hrigd er til sem af Heimenum Kemur,
og Sathan kemur til vegar, hver ed verkar Dauda,
ei einasta þegar hañ lætur Mañ efast um Guds

Naad fyrer Parsnan eda Misser tiimanlegra Hluta, helldur einkum, þegar hañ so freistar þeirra, ad hañ sæker epter ad færa þeirra Hiarta i stoora Hugar Angist, og yfertala þa til ad trua, ad Gud hafe þa aldeilis yfergefed, fyrer þeirra Synda Saker, eñ þo þær seu allar laungu aadur fyrergefnar, so ad þeir skule aldeilis falla i Orvænting uñ Guds Naad; Laat soddañ Hrigd ecke siña stad i þinu Hiarta, helldur gled þig i þiñum Gude. Hafer þu i sañre Audmykt vidurkendt þinar Synder, og af þeirra Þeckingu, og þiñar af þeim riisande Eimdir, hiartañlega aangrast, og þu helldur þer fastlega med sañre Tru vid Jesu Christi Forþenan, Blood og Dauda, og þig laangar so iñelega epter Guds Naad, til ad geta lifad i Heilagleika og Rettlæte sem honum þocknast, þa eru þer allar þinar Synder fyrergefnar, hvert sem þu hefur Nooseme Samvitskuñar, ellegar þu fiñur hiaa þer nockra Hrædslu i þessu Astande; Eingeñ giorer stærre Synd aa Jordu, eñ saa sem orvænter ser Guds Naadar, sem ollum Moñum er i hans Orde frambodeñ; Judas Ischarioth giorde ecke so stoora Synd i þvi ad forraada Christum, sem i þvi ad vantreista Guds Naad, og orvænta ser heñar. Þar sem Mordeingilleñ i Egiptalande saa Paaskalambsins Blood aa Dyratrenu og Dyrastoolpunum, frañ hiaa þeim Husum geck hañ, og sloo i þeim eingañ ihel, Ex. 12, v. 23. Hversu miklu framar mun Mordeingilleñ, saa Fordiarfare Diofulleñ skelfast, þegar hañ ser ad þu ert aadreifdur med Bloode Jesu Christi, þess saklausa Guds Lambs, sem þu med Truñe hefur

hondlad, og fara fram hia þer. Firſt Gud hefur kaſtad þinum Syndum i Haffins Diup, þa lat þær liggia þar, og leita þær ecke upp aptur; Hafe Gud ſagt: Þinar Synder eru þer fyrergefnar, þa lat þer þad hans Ord anægia. Ef þu meinar þiñ Chriſteñdooms Framgangur ſe aldeilis ofullkomeñ, ſem eirnig i Sañleika er, þa vit þad liika, ad fyrer þiñ eigeñ Heilagleik verdur þu aldrei rettlatur fyrer Gude, helldur fyrer Jeſu Chriſti fullkomna Rettlætis Saker, hvert hañ hefur þer utvegad og tileinkad fyrer Truna a hañ; Þvi Endalok Lögmalſens er Chriſtus, hver ſem a hañ truer ſa er rettlatur, Rom. 10, v. 4. Gud munde þa hrinda ſinum eigeñ Syne af Himnum ofañ, hvad þo aldrei kañ ad ſke, ef hañ hrinde þer i burtu fra ſer, ſem faſtlega helldur þer til hans Sonar, og vid hañ i ſañre Tru. Ungur Madur nockur, uñ hvad ſagt er ſo i Fedraña Fraſögum, fell i þunga Freiſting utaf þvi, hañ þootteſt ſia nockra Vigt, i hverrar adra Skal, hans Synder voru lagdar, eñ i adra hans Goodverk; Su Skaleñ, i hverre hans Synder lau, ſa hañ ad var miog þung, og drooſt nidur, eñ hin, i hverre hans Goodverk lau, miog lett og drooſt þvi upp; Af þeſſu ſkelfdeſt hañ miog, og andvarpade til Chriſtum, þa ſa hañ eirn Eingil framkoma, ſem geck ad lettu Skaleñe, og let i hana koma eirn Dropa af Chriſti Bloode hvar vid hun þyngdeſt miog, ſo hun vard hiñe miklu þyngre i Vigt, er hans Synder voru i lagdar. Vid þetta eiddeſt i einu oll þeſſe hans Freiſting. Horf liika i þinum Freiſtingum med þinum Tru-

 ar

ar Augum, a Jesu Christi uthellta Blood, þa letter a þinu Hiarta, og syng med Christneñe;
Blooded Jesu er Booteñ min,
Blooded Jesu mig svipter Piin, ꝛc.
Og seig til þins Himneska Fodurs;
Sia nu þa Særing megna,
Sonur þiñ liida hlaut. ꝛc.

Seg til Hugarmindar og Miñisteikns uñ þetta, let eirn freistadur Madur uppmala ser Balsams Tre med morgum Risum, utaf hverium driupande voru Balsams Dropar i Fiolldatale, med þessare Yferskript: Miin Saar græda adra. Þar med villde hañ miña sig a þad, ad þeir Blooddropar sem ut hefdu ruñed ad Balsams og Lifstrenu Christo, væru Lækning hans Synda Saara; Gior lika so, þegar ofmikel Angurseme uppkveikest i þiñe Saalu vegna Synda þiña, þa mun hun snarlega sefast, og þitt Hiarta i Roo komast og fiña Glede i Gude. Yfervega þu ad oll su Umsorgun, sem Gud ber fyrer þer, er þar til giord, ad þu verder hoolpeñ, þar fyrer þarftu sem truadur ert, eckert uñ þina Velferd ad efa; Sa sem gefur þer Mat og Dryck, er ecke so, ad hañ vill ecke þu deyer, helldur lifer? Gud gefur þer Medól Saaluhialpareñar, sitt H. Ord og þau H. Sacramenta, hvad kemur þer þa til ad hafa Efa uñ þina Saaluhialp? Hver vill ecke hallda þañ ad vera Borgara i einum Stad, hvers Nafn i Stadarens Book er iñskrifad? Med þvi þitt Nafn er fyrer Truna iñskrifad i Lifsens Book, þa ertu Himensins Borgare, og þarft ecke ad efast uñ þina Saaluhialp. Gud sem vill þu verder hoolpeñ, hefur noog Rum fyrer

fyrer þig aa Himnum; Gior sem hañ vill, og vert sem hañ vill, og laat hañ siaa fyrer þer og leida þig! Ecke er torsookt ad verda hoolpeñ fyrer Guds Raad, þegar Madureñ lætur hana i ser verka, og gefur sig aldeilis Gude i Walld. Ecke þarftu þess vegna ad falla i Wiilseme um þina Saaluhiaalp, þo þu verder jafnañ i Striide ad standa aa moote þvi Vonda, þvi ecke hrinder þad þer ur Guds Raad. Borgareñar Hofudsmadur misser ecke þar fyrer Hille sins Kongs, þo hañ siifelldlega beriest vid Ovinena, sem aasækia heñar Mura og Varner, helldur er hañ i Raad so leinge sem hañ syner Mootvorn; So misser þu ecke helldur Guds Raad vid þad ad beriast i gegn þvi Illa sem i þer bygger, helldur verdur þu fyrer þad vissare um þad, ad þu sert i Raad hiaa Gude, þvi þeir sem Christo tilheyra krossfesta sitt Holld med Gyrndum og Tilhneigingum Gal. 5, v. 24. Þegar eirn Striids-Hofudsmadur veit af Foolke i Launsaatre, sem honum mune til Hiaalpar koma þaa vidliggur, rædst hañ þess helldur aa Ovine sina, og med þvi stærre Drugglеik og Hugpriide; So kantu þess helldur ad gefa þig i Bardaga vid þina andlegu Ovine, sem þu betur veitst, ad Gud stendur med þer, hiaalpar þer og striider med þer og fyrer þig. Smaabarned sem hlaupa vill, dettur ef eingeñ stidur þad, eñ leide þad einhver, kemst þad vel af? So getur þu ecke vel geinged fram i þinum Christeñdoome, ætler þu aa þina eigeñ Krapta, eñ med þvi Gud leider og stidur þig, færdu vel fram geinged. Getur þu ecke so miklu afloked sem adrer, þeir ed i sinum Christ-

eñdoome eru vel æfder ordner, þa gior samt epter Mætte þinum, þad er Gude liika þocknañlegt. Ef nockur Fader skipade Bornum sinum ad bera fram Breñevid til Ellds-Reitis, og þau Stærre og Burdameire tæku a sig þungar Byrder, eñ þau Litlu og Burdamiñe tæke liika liitil Trestïcke og bære til Fodursins, munde hañ ecke laata ser þad eins vel liika, sem stærre Adburde hiña voxnu Barnaña? Eins liika er Gude þiñ Christeñdoomur þægur, þegar þu i honum giorer eins, og hañ hefur gefed þer Krapta til; Laat þvi einga Freisting giora þig huglausañ eda sturladañ, helldur gled þig i Gude i ollum þinum Freistingum, so þad heite: So sem syrgendur, þo jafnañ glader; Þvi eingeñ Fordæming er a þeim sem i Christo Jesu eru, þeim sem eige gaanga epter Holldenu, helldur epter Andanum. Rom. 8, v. 1.

## §. 12.

Þañig serdu, liufe Lesare, ad þu getur alltiid vered gladur i Gude, þo ad þu sem sañtruadur Madur rater i margskonar Kross og Freistingar. Af þessare Book getur þu obrigdañlega þekt ad þu ert Sañchristeñ og a rettum Veige til Himens, og vered viss uñ þina Tru og Saaluhiaalp. Sertu þar uñ viss, hvar fyrer villtu þa framdraga þitt Lif med Þungsiñe og i Geds-Sturlan? Kross og Hormungar orka þvi ecke, med þvi þu veitst ad Gud sender slikt þer til handa, sem truudum Mañe, alltsamañ þer til Saalargagns og eilifrar Velferdar, hvad sem þad

vera

vera kañ, og hvernig sem þad ad kemur, þvi vet vitum, ad þeim sem Gud elska, þena allt er Hluter til hins besta, Róm. 8, v. 28. Krossen er liika sem Vindureñ er blæs a bak þer a Veigenum til Himins, og rekur epter þer ad komast farsællega afram ad Porte þess eilifa Lifsens. Lat þina Hugarmind þessu adlutande vera, Siooferda-Skip sem sigler um Villuhafed af sterkum Stormvindum framdrifed, med þessare Yferskript: Þeir ogna, eñ flitia þo. Og þeink med þer ad allt þitt Bol bætest um siider, og allt þitt Andstreime fær goodañ Enda; Liit ecke epter þvi nalæga sem bæglega geingur, helldur þvi okomna er betur geingur. Hugsa med þer, hvar fyrer skal eg ogladur vera? Hver veit nema Tiime miñar Utlausnar kome i þessare Viku? Þegar nockur Madur hefur siñe Reisu nærre þvi afloked, og a ecke langt heim til sins Fodurlands, ber hañ sig helldur vel, þo hañ þa eige ad mæta Stoorregne og Snioofiuke. Gior liika so, nær þu merker ad þin Lifsreisa er hardtnær endud, þa vert þvi hugprudur, i þeirre Von, ad þu komest iñañskams i þitt Himneska Fodurland; Seig med sialfum þer: Mer þiker sem eg siae til hins fyrerheitna Landsens Takmarka, lat þvi eckert Mootlæte bila Hug þiñ, helldur leitast vid ad fæir hallded glodu Hiarta i Gude, þo þu misser allt þad Tiimañlega sem þu i Heimenum hast hefur, eda meinar þig vidþurfa! Fatækt og Armoodur raske ecke helldur þiñe Glede i Gude, þvi ad þu veitst ad Gud forsorgar þig og vidhelldur þer. Yfervega þad ad eingeñ Husfader biidur fleirum til Gesta, eñ hañ getur veitt Mat

og Dryck; Munde Gud þa hafa skapad fleire Skepnur, eñ hañ kañ ad fæda? Hafe Gud bored Umsorgun fyrer þer, adur eñ þu varst fæddur, og vilie liika giora þad i Eilifdeñe, mun hañ þa ecke gefa þer so miked sem þu vidþarft her i Tiimanum? Gior þer ecke ofmikla Buksorgar Mædu, þvi allt geingur so til um þin Efne sem Gud vill vera lata! An þiñar Ahyggiu lætur Gud Akrana arlega vaxa, af hverium þu fær þo tiidum þitt Braud; Her vidkome þa eirnig: So sem syrgendur, þo jafnañ glader. Heyr hvad Salomon seiger: Far burt og et þitt Braud med Glede, og dreck þitt Viin med goodu Gede, þvi þin Verk þocknast Gude, Eccl. 9, v. 7. Gud vill ecke ad ver skulum lifa i Sturlan og Sorgum vegna tiimañlegra Hluta, helldur vera med hañ og hans Veitingar anægder, og glediast i honum. Eirn froomur efnaliitill Madur, sem ecke villde lata siñ Hug bila, eda sina Glede i Gude rena, þo hañ være þurfande, let uppmala ser Hreidur, fullt af Hrafnaungum, hveria hiner eldre hofdu yfergefed, eñ þeim var samt Fæda færd af odrum, þar framhia fliugande Hrofnum, og þar hia skrifa þesse Ord: Ei helldur vantar þa Forlatnu Fædu. Hvar med hañ villde merkiast lata, ad liika sem Gud sæe Ungum Hrafnaña fyrer Fædu, so munde hañ ecke helldur forlata sig fædulausañ. Lat þetta þer eirnig sagt, og varpa ur Huga þer allre Onytiu Buksorg sem þer giorer einga Stod. Þiner Oviner og Ofsækendur svipte þig ecke helldur glodu og goodu Gede, helldur vit, ad þad a þar liika vid; So sem

sem fyrgendur, þo jafnañ glader: Giæt þess ad Gud hefur sett þeim viist Takmark yfer hvert þeir sa ei komest; Þeir sa ei giort hvad þeir siálfer vilia, helldur ecke nema þad eitt sem Gud líidur þeim. Sertu forsmaadur og lastadur, hvad er þad til Skada Rooseme þiñar Saalar? Geturdu ecke fyrer þvi vered so giadur i Gude, eins og þo aller helldu miked af þer? Paulus seiger: Eg em med goodu Trauste i Breiskleikum, i Vanvirdingum, i Naudum, i Ofsooknum, i Þreingingum Christi vegna, 2 Cor. 12, v. 10. Vert sem hañ, og lat ei þina Ovine sa spillt þiñe Glede i Gude, þu ert þeim ofvaxeñ og maattstærre, a medañ þu ert under Guds Naadar Varatekt, so þeir megna eingu þer i moote: Bruka, so sem eirn Madur giørde, þer fyrer Hugarmind, Raadyr standande a hæfsum brottum Klette, ad hveriu Hundarner gelltu nedañ under allt um kring, eñ geta þo ecke uppkomest; Med þessare Yferskript: Þvi er i Hættuñe ohætt. Eingeñ Freisting se þer lokseins so hørd og stoor, ad hun gete nidurkiæft þina Glede i Gude. Ad soñu verdur Hiarta Mañsins aangursamt i stoorum Freistingum, eñ giørst þar fyrer ecke huasiukur um þina Saaluhialp, þvi ei getur Diofulleñ midt i Freistingunum rænt þig heñe, af þvi Gud fylger heñe fram; Sa sem hefur uppbiriad hid gooda Verked, hañ mun þad eirnig fullkomna, allt til þess Dags Jesu Christi, Phil. 1, v. 6. Laat þad ei hriggia þig ad þer veitest ei alltiid þad þu bidur Gud um, þvi Moses og Paulus reindu þad lika, sem aadur er sagt, og voru þo i fullre Naad hia Gude,

þin

þin Bæn verdur samt heyrd liika sem Christi, þa hañ mætte Krossens Kaleik af drecka; Bænheyre Gud þig ecke alltiid epter þvi sem þu villt, þo þa samt epter þvi sem þer er best til Saaluhiaalpar. Ber jafnañ, liika sem i þinu Merke Gullikil, med þessare Yferskript: Hañ aptur lykur og uppliikur. Og vert viss um, þu sær med Truarenar Bæn apturlokad og upploked Guds Miskunar Hiarta! Gled þig vid þad ad Gud medtekur jafnañ i Naad, þina Audmyktar Bæn, hvert sem þer gefst þad þu um bidur eda ecke; Med þvi þu so sem Truadur, hefur einga Orsok til ad lifa i Hugar Angist, helldur miklu framar til ad gledia þig i Gude, þa gef þig under Guds Vilia allañ og ad ollu leite, og syng jafnañ med friaalsu Gede:

Gude gef eg a Hendur,
Giorvallt Naad yfer mer, ꝛc.
Edur:
Eirn Gud læt eg ollu raada,
Allt i hans Vallde er, ꝛc.

Og haf jafnañ i Hug, Miñe, og Muñe þeñañ Psalm:

Allt mitt Naad til Guds eg set,
A mer siñ Viliañ verda let, ꝛc.

Gled þig vid þad, ad þu sem utvaled Guds Barn, ert a rettum Veige til Himins, og geingur hañ beint fram, a medañ margar þusunder, og aptur morgumsiñum margar þusunder añara Maña, raasa a þeim breida Veige til Helviitis! Gled þig vid þad, ad þu bliifur og stendur stodugur i Guds Naad, i hvers Stad margar þusunder añara Maña bliifa under Guds Reide! Gled þig vid þad, ad Gud vitiar þin og heimsæker

sæker þig med Krosse og Mootlæte, dragande þig þañig, liika sem med Kiærleikans Bande til Himens, þar hañ virder sliiks ecke marga adra, helldur lætur þa frañifara i þeirra Munadarlife og Andvaraleyse! Gled þig vid þad ad Gud heyrer alltiid þina Bæn, so hañ gefur þer þad þer er best, eñ ecke hina adra, hverra Hendur eru fullar af Bloode Rangslætesins! Gled þig vid þad, ad þu ert fullviss, um þina eilifa Sælu-hialp, og þitt Nafn er skrifad a Himnum Luc. 10, v. 20. Gled þig vid þad, ad epter þetta Lif biriast þin Dyrdar Vegsemd, og halldt þad vissulega satt vera, ad allt hvad þu fær ad liida her i Tiimanum, se ecke verdt þeirrar Dyrdar sem vid þig mun opeñberud verda, Rom. 8, v. 18. Gled þig vid þad, ad þu fyrer sañа Tru a Jesum Christum ert Kongs Erfinge, og att i Geimslu stooran Erfda Hluta; So seiger sialfur Guds Sonur: Hver ed yfervinnur, sa mun erfa allt þetta, og eg vil hans Gud vera, Apoc. 21, v. 7. Slepp þar fyrer, sem ytvalen Himensins Borgare allre Hugarsorg, og gled þig vid Fullvissu þinar Sæluhialpar! Lat allt hid Tiimanlega fara sem verda vill, eñ haf Hug og Hiarta jafnañ a Himnum! Lat Segulsteins Naal fitfeldt vera þer Hugarmind, sem alltiid sniir ser ad Nordur-Hioolgadde Himensins; Med þessare Yferskript: Hun hoorfer til þess eina. Þvi liika sem Siooferda-Foolked, þad um Villu Hafed sigler, hagar ser epter þeim Leidarviiser, so lat þin Truar Augu alltiid horfa til Guds og Himensens, a medañ þu hrekst i Olgu Hafe Heims þessa, og þeink med þer, ad þitt Sælar Skip mune fyrer Guds Leidsogn og Stioornan

uñ

um̄ ſider obrigdañlega lenda vid Himenſins Hlid og med fullum Farme oſeigiañlegrar Glede, nær iñ a Hoſn þeſs eilifa Lïſſens! Laat þa þvi ſorgande vera, ſem ecke eiga nædugañ Gud ad, og ecke hallda retta Leid til Himins, eñ þu ert gladvær og med goodu Gede, ſo ſyngiande:

Burt þer So:gar Sveimer,
Sæ mer Fognud geimer,
Jeſus hañ er her:
Heim, Gud elſka giæter,
Gioraſt Harmar ſæter,
Sem þa Sikur er:
Þole eg Smæan og þunga Raun,
Ertu þott eg Anaud finde
O Jeſu! mitt Ynde!

Med þeſſum Hætte keppeſt þu retttelega epter, ſo ſem Chriſti Amiſing hliodar, iñ ad gaanga um̄ hid þraungva Hlided, og þa mä rettelega um̄ þig heita: So ſem ſyrgendur, þo jafnañ glader; Amen! Laat ſiifeldlega, ſo leinge ſem Gude þocknaſt ad laata þig lifa her i Heime, þeſſi Chriſti Ord, er vill þu hoolpeñ verder, hlioma þer fyrer Eyrum, og i Hiarta.

Keppiſt epter iñ ad ganga um̄ hid þraungva Hlided, þviad marger, þad ſeige eg ydur, munu ſækia til þar iñ ad ganga, og fa ei getad.

# Einum Gude ſe Æra!



